ingarorðunum), 1) ganga frá e-u starfi (þar sem menn skiptast á): Den (fra Vagten) aftrædende Officeer sem gengur af verðinum. — 2) = træde af, stige af, tage ind: Han var aftraadt (traadt af) i et Vertshuus hann var farinn inn í veitingahús. — 3) ganga úr e-u (í óeiginl. merk.): Da Kongen var aftraadt fra dette Forbund. — II) ás., ganga e-ð af e-u: Jeg har aftraadt min Skohæl jeg hef gengið hælinn undan skónum mínum. — 2) troða lægð (göng) í kringum e-ð: A. et Urtebed. — 3) = afstaae (sb. fratræde): A. en Eiendom. A. et Embede til een.

Aftrædested, [sb. aftræde I, 2], viðkomustaður.

Aftræk 1) (af aftrække 1), það sem dregið er ofan af spilum. — 2) = Afløb: Vandet maa have A. — 3) = Afgang í 3. merk. — 4) (sb. aftrække 5), afdráttur: Han maatte lide A. i sin Regning.

aftrække, ás., (sjá trække af), draga e-ð (úr eða enn heldur) ofan af öðru: A. et Kort draga spil. — 2) sljetta (skafa) (t. a. m. trje): Lade Snedkeren a. et Bord. — 3) draga hnif á: Den Rageekniv maa aftrækkes (trækkes af). — 4) (hjá prenturum): A. et Ark (et Correctur-Ark) prenta eitt exemplar af einni örk. — 5) draga e-ð af (sb. afkorte í 2. merk.): A. een noget paa en Regning láta e-ð komu upp í reikning.

aftrælle, ás., vinna e-ð af sjer með því að þrælka, þrælka e-ð af sjer.

aftrænge, ás., (nærri úrelt), vinna e-ð af eða undan e-m, kúga e-ð út úr e-m.

aftrætte, ás., (þræta e-ð út úr e-m, þ. e.) koma e-m ofan af e-u, hafa e-n ofan af e-u: Den Mening (den Overbeviisning) vil Ingen kunne a. mig.

aftvinge kúga e-ð út úr e-m: A. een en Tilstaaelse. A. een et Løfte.

Aftvætning, sk., það að aftvætte.

aftvætte þvætta e-ð af eða úr e-u. — Óeiginl. = udslette: Den Skam kan han aldrig a.

aftylde hella e-u úr einu iláti í annað: Øllet aftyldes paa Tønder.

Aftægt árlegur afgjaldseyrir sem maður áskilur sjer til viðurværis af ábýlisjörðu sinni ef hann sleppir henni við annan: Sidde paa A. er sagt um þann, sem jörðunni hefur sleppt.

Aftægtsfolk = Folk, som sidde paa Aftægt (sjá Aftægt).

aftække taka þak af e-u, skera hús ofan: A. et Huus.

Aftækning, sk., það að aftække.

aftælle telja e-ð í sundur: Aftalte Penge. A. noget i Snesevíis.

Aftælling, sk., það að aftælle.

aftære sjá udtære.

aftærske þriskja e-ð (út) úr e-u: A. Kjærnen af Straaet. — ljúka við að þriskja (beysta) korn: Mit Korn er aftærsket það er búið að þriskja hjá mjer. Denne Mand har alene aftærsket alt Kornet þessi maður hefur þriskt aleinn hjer á bæ.

Aftærskning, sk., það að aftærske.

aftøire beita e-ð upp með tjóðurpeningi: A. en Græsmark.

aftømme tæma e-ð algjörlega, gjörtæma, losa (t. a. m. ilát).

Aftømmelse, sk., það að aftømme.

aftørre, ás., þerra e-ð af e-u: A. sine Taarer þerra af sjer tárin, þerra tárin úr augnunum á sjer. (A. Støvet strjúka rykið burt.) — 2) þerra (þurka) af e-u: A. Bordet.

Aftørring, sk., það að aftørre.

afvandre (lítt tíðkað), fara burt, halda burt: Han er afvandret.

Afvane óvani: Komme i A. med noget venjast af e-u. Han har faaet A. til Arbeide hann er orðinn afvanur allri vinnu. Han har faaet A. til at være hjemme hann er orðinn því afvanur, að vera heima.

afvaske sjá aftoe, aftvætte.

Afvaskning, sk., það að afvaske.

Afvei afvegur, afstigur, villistigur: Forvilde sig paa en A. eða komme paa A. fara (villast) afleiðis (bæði eiginl. og óeiginl.).

afveie vega e-ð sundur: A. noget pundeviis. A. Meel til en Bagning vega sundur mjöl til brauðgjörðar. — Óeiginl. setja e-ð niður: A. sine Ord.

Afveining, sk., það að afveie.

afveis, ao., afskekkt, fjærri mannabyggðum: Huset ligger meget a. Boe a.

afvende, ás., snúa e-u frá e-u, 1) eiginl.: A. sine Dine fra noget líta undan. — 2) óeiginl. a) koma e-m ofan af e-u: A. een fra Vrede. A. een fra et Forsæt. A. Sindet fra onde Tanker snúa huganum frá illum hugrenningum. — b) (í illri merk.), snúa e-m frá e-u, leiða e-n frá e-u, teygja (spenja) e-n frá e-u: A. Folket fra Troskab. — c) afstýra e-u (sb. afværge): A. Tab og Skade.

Afvendelse, sk., það að afvende.

afvexle (har), h. s., gjöra tvennt eða fleira til skiptis (á víxl): A. med at læse og skrive. A. med Arbeide og Hvile. — 2) skiptast á, taka við hvað af öðru: Bjerge og Dale a. med hinanden þar eru einlæg fjöll og dalir. — 3) í hn. afvexlende misjafn: En afvexlende Skjebne. Med afvexlende Lykke.

Afvexling, sk., það að afvexle, tilbreyting: For den Vidbelystne er A. Hvile.

afvige, h. s., hverfa frá e-u: En afvigende Vei. Magnetnaalen afviger fra Polerne segulnálin bendir ekki á sjálfa hjarana. — Óeiginl. 1) hverfa (hvarfla, skeika) frá e-u í orði eða verki, bregða út af e-u: A. fra Materien fara frá efninu, vera laus við efnið: A. fra Dyden. A. fra Skik og Brug. — 2) vera ósamkvæmt e-u: Denne Beretning afviger meget fra den forrige þessari frásögn ber hvergi nærri saman við hina fyrri. — 3) sem hn. afvigt umliðinn (sb. sidstafvigt): I afvigte Aar árið, sem leið. I afvigte Maaned mánuðinn, sem leið. (Í hinum merkk. er ho. reglulegt: afvegen, afveget; sjá vige.)

Afvigelse, ft. -r, sk., það að afvige, afhvarf: Magnetnaalens A. (Misviisning). — Óeiginl.: A. fra (afhvarf af) en almindelig Regel.

Afviisning, sk., það að afvise.

afvikle vinda e-ð utan af (e-u).

afvinde vinda e-ð ofan (utan) af e-u: A. et Stykke Garn.

afvinkle, ás. 1, [af og Vinkel], máta horn á e-u, setja rjett horn á: A. et Bræt.

afvise vísa e-m eða e-u frá eða burt, gjöra e-n apturreka, rækja, reka e-n aptur: A. paatrængende Folk. — Einkanl. í málaferlum: Han blev afviist med sin Klage. Hans Klage blev afviist var ónýtt fyrir honum. A. en Stævning ónýta stefnu. A. et Segsmaal ónýta mál.

Afviser, sk., bægir, bægisteinn, (þ. e. steinn eða staur sem er reistur upp til að hlífa e-u — optastnær hliði eða húsvegg — við vagnahjólum).

afviske en Kanon (sb. Visker) hreinsa fallbissu.

Afviskning, sk., það að afviske.

afvisne visna af e-u: Bladet er ikke afrevet; det er afvisnet.

afvoxet, [sb. voxe]: Have a. vera hættur að vaxa.

afvride vinda e-ð af (e-u); vinda e-ð úr (e-u): A. en Green (brjóta hana af trjenu með því að vinda eða snúa hana). A. Vandet i Klæderne vinda vatnið úr fötunum, vinda fötin.

Afvridning, sk., það að afvride.

afvæbne svipta mann vopni (vopnum): Han afvæbnede sin Fjende (Modstander). De Fangne bleve afvæbnede. — Orðið er líka haft í óeiginl. merk.

afvælte, ás., velta e-u af öðru: De afvæltede Stenen fra Graven. — Óeiginl. = fralægge sig: A. en Beskyldning.

Afvæltning, sk., það að afvælte.

afvænne venja e-n af e-u: A. et Barn (fra Brystet) venja barn af brjósti, láta barn af brjósti. Man maa faae ham afvant med (fra) den Skik það verður (þarf) að koma honum af þeirri venju. Han har reent afvant sig fra at drikke. Han har reent afvant sig fra Selskab. (Sjá vænne af.)

afværge = afbøde: A. et Hug. A. et Stik. — 2) afstýra e-u: A. en Skade. A. en Ulykke.

Afværgelse, sk., það að afværge.

afværne, ás., (sjaldan haft), verja e-n: „Straaler, som knap Dryadens grønne Haar afværner" (*defendit*).

Afvæxt = Afgrøde.

afæde jeta (kroppa, bíta) e-ð af (e-u): Qvæget har afædt Græsset arið upp hvert strá, rótnagað allt. Qvæget har afædt Bladene paa Træet nagað allt lauf af trjenu.

afændre breyta e-u í smámunum.

Afændring, sk., það að afændre.

afæske = afforbre.

aføse, ás., ausa e-ð úr (e-u): Vandet i Brønden maa aføses það verður að ausa brunninn. — 2) þurausa: Brønden er aføst.

*Agat, ft. -er, sk., (steinlegund) *achates*.

age, a. 1, (þó er líka haft og eða aag — eins og ók — í þát. tíma), [aka], aka, 1) ás., (flytja e-ð á vagni eða sleða): A. Hø (Korn) ind aka heyi (korni) í garð (í hlöðu). A. Gjødning paa Ageren aka áburði á akurland. A. Tørv fra Mosen aka mó úr mýri. (Nú þykir Dönum kurteislegra, að segja kjøre.) — 2) h. s., (fara á vagni eða sleða): A. i en Slæde. A. paa en Vogn. A. med een. Den agende Post (= Agepost).

Agedør hlöðudyr sem ekið verður um, akdyr.

Agegab stórt skarð (gímald) í girðingu.

Agehynde vagnsessa, vagnseta.

Agelæs hlass (eins mikið og ekið verður í einu): Et A. Hø.

*Agent, ft. -er, kk., erindsreki. — 2) verzlunarstjóri (í raun og veru eða einungis að nafnbót).

Agepost ökupóstur (= den agende Post, Pakkepost).

Ager, ft. Agre, sk., [akr], allt akurland: A. og Eng akur og engi. Agerens Grøde. — 2) einstakur akur, einstakt sáðland: Denne A. er mindre god, end den anden þessi ekra er lakari, enn hin. Pløie en A. plægja akurland, erja plógland. Tilsaae (sá) en A. Sb. Byggager, Rugager. (Ager er sjer í lagi haft um akurspildu milli tveggja akurskurða.)

Agerbrug = Agerdyrkning: Leve af A. Nære sig af A. — b) það sem maður hefur undir til akuryrkju: Hans A. er kun lidet hann hefir litla akuryrkju (lítið undir). Et stort A. Et vidtløftigt A.

Agerbruger = Agerdyrker.

agerdyrkende, [sb. dyrke], sem stundar akuryrkju: Et a. Folk. A. Kjøbstæder.

Agerdyrker akuryrkjumaður (sb. akurkarl): Han er en god A.

Agerdyrkning, sk., akuryrkja.

*agere, ás. 1, leika, látast vera e-r eða e-ð.

Agerende endi á akri, akurhali.

Agerfred akurhelgi.

Agerfure djúpt plógfar millum akurspildna, merkifar, og stundum hvert plógfar sem er.

Agergrund jarðvegur undir akri: Hvor Agergrunden er leret og kalkfri.

Agergræsning beit í akur það árið sem hann er ekki sáinn, akurbeit.

Agerhyrde sá sem situr yfir akri, ekruvörður.

Agerhøne, ft. -høns, akurhæna.

Agerjord akurland, akurlendi, sáðland.

Agerkaal akurkál *brassica campestris*.

Agerland = Agerjord: Denne Gaard har meget A., men kun lidet Engjord.

Agerlod akurhluti, partur af akri.

Agermand akurkarl: Skjenk Agermanden selv sin Høst.

Agermark akurland sem skipt er í akra, akrar.

Agermon sjá Agerjord.

Agermuus = Markmuus.

Agern, ft. eins og líka -er, kl., [akarn], akarn.

Agerran akurrán (þegar e-i sáðtegund er rænt af akri annars manns).

Agerredskaber, ft., akuryrkjuverkfæri.

Agerreen óplægð rún eða skurður millum tveggja akurspildna.

Agerrende skurður í akri til vatnsafveitingar, akurræsi.

Agerrydning það að brjóta jörð til akurs, akurgjörð.

Agerryg akurrindi.

Agerskifte hluti (teigur, petti) í óskiptu akurlandi: Denne Mark var inddeelt i 12 Agerskifter. — 2) teigur sem arinn er í eina átt.

Agerskjel akramerki (eins og landamerki).

Agersump tjörn í akri.

Agertægt nýgræðingur (þegar talað er um akur): Hvergang en A. indtages til Dyrkning.

Ageruld fífa *eriophorum*.

Agervanding veiting vatns á akur (akra).

Agestol vagnset (líkt og stóll, nema fótlaust og fast við hliðarnar á vagninum).

Agetøi = Kjøretøi.

*Aggregat, ft. -er, kl., hrúga, samtíningur.

*Agio, kl., það sem gefið er fyrir skipti á peningum (sb. uppbót, milligjöf).

*Agitation, ft. -er, sk., það að agitere.

*Agitator, ft. -er, kk., órónmaður sem rær undir lýðinn.

*agitere, h. a. 1, róa undir alþýðu, æsa lýðinu.

*Agnat, ft. -er, sk., frændi manns í föðurætt, (í ft.) föðurfrændur.

Agt, án ft., sk., ásetningur, áform, fyrirætlun: Det var ikke min A. jeg ætlaði mjer það ekki. — 2) gát, gætur, gaumur, eptirtekt, athugi: Give A. efter noget taka eptir e-u. — Venjulegra er: Give A. paa noget. — Tage sin Helbred i A. ala önn fyrir heilsu sinni, gæta heilsu sinnar. Tage sig i A. for noget gjalda varhuga við e-u. Tag dig i A. for Hesten! varaðu þig á hestinum! Have noget i A. (ekki algengt). — 3) sæmd, sómi, virðing, vegur: Være (holdes) i A. og Ære vera í miklum metum.

agtbar, ft. -e, e., = agtværdig.

agte, áa. og h. a. 1, [sb. akta], taka eptir e-u, gefa gaum (gætur) að e-u: Agt mine Ord! Han agtede ikke efter hvad der taltes tók ekki eptir, hvað talað var. Han vilde ikke a. paa mine Ord gefa gaum að orðum mínum. A. paa Veirliget. A. paa en Spaadom. (a. efter noget er fremur: að snúa huganum að e-u, en a. paa noget að hafa hugann á e-u). — Í tali, einkum hjá almúga, er a. haft eitt saman (án þol. eða fs.), t. a. m.: Drengen agter ikke, naar man taler til ham tekur ekki eptir (gegnir ekki), þó yrt sje á hann. Hunden vil ikke a. vill ekki gegna. — 2) íhuga: Du maa a. (þú verður að gá að) at han er den stærkere. Han er ingen ung Mand, skal du a. þú verður að gá að því. — 3) (í verki), sjá um, hafa gætur á e-u: Han skal a. at der intet spildes. — Almúginn segir t. a. m.: Agt dig for Hunden! varaðu þig á hundinum! — 4) hirða um, skeyta e-n, gefa sig um: Han agter ikke mine Advarsler (Formaninger). Han agter hverken Gud eller Mennesker. Jeg agter intet derom jeg met það einskis. — Líkt með paa: Uden at a. paa Løfter og Tilsagn. — 5) (nú sjaldan haft í þeirri merk., að) ætla eða hyggja e-m e-ð: Jeg havde agtet (ætlað, hugað) ham noget bedre. Det er een agtet, en anden beskæret sb. enginn dregur, þó ætli sjer, annars fisk úr sjónum. Málsh.: Den fanger ofte Fald, som anden agter Fald sjer grefur gröf, þú grafi. — 6) hafa e-ð í hyggju, ætla: Gjør, som du agter at forsvare. Jeg agter at reise i Morgen jeg ætla að heiman á morgun. — Með mig, dig, sig, os, eder eða jer: Hvor agter du dig hen? hvert ætlarðu (að fara)? hvert er ferðinni heitið? Jeg agter mig hjem jeg ætla heim. Jeg agter mig bort. Han agter sig til Paris hann ætlar til Parísarborgar. — 7) (nú sjaldan haft): A. sig noget vænta sjer e-s. Skinken hænger aldrig saa høit, Hunden agter sig jo Benet (málsh.). — 8) meta: Jeg agter det fornødent mjer lízt það nauðsynlegt. A. noget høit eða ringe láta sjer þykja mikið eða lítið í e-ð varið, láta sjer finnast mikið eða lítið um e-ð, hafa e-ð í miklum eða litlum metum. A. sig værdig (beføiet, berettiget) til noget hyggja eða meta sig verðan (rjettan til) e-s. At I skal agtes værdige til Guds Rige. Agtes lige ved (med) Adel hafa jöfn rjettindi við lendborna menn. Agtes for den ypperste þykja æðstur eða ágætastur. Agtes (metast) som en Falskner. — 9) meta (virða) e-n eða e-ð mikils, láta sjer þykja mikið til e-s koma eða mikið í e-n eða e-ð varið: Jeg agter hendes Dyd. Jeg agter Mandens Retskaffenhed. Jeg agter høit en saadan Uegennyttighed. Man maa a. ham, skjøndt man ei kan elske ham mikið er í hann varið, þó ekki sje hann ástsæll. Vi beundre ogsaa Ting, agte kun Personer. — Málsh.: Som man agter sig, saa bliver man agtet.

Agtelse, án ft., sk., [sb. agte 9], met, virðing: Have (bære) A. for een virða (meta) e-n mikils. Nyde almindelig A. vera mikils metinn af öllum. Være i høi (stor) A. vera í miklum metum. Staae i A. hos een vera mikils metinn af e-m, vera í miklum metum hjá (af) e-m. Erhverve sig (ávinna sjer) A. Han har tabt sin A. (þ. e. þeirri virðingu, sem menn höfðu lagt á hann). Han har tabt min A. (þ. e. þeirri virðingu, sem jeg hafði á honum). Have tabt al A. for sig selv fyrirlíta sjálfan sig. Vise een A. sæma e-n (í orði eða verki). A. mod Kongens Person lotning við konunginn. Udvortes A.

agter, ao. og e., efsta stig agterst, [aptar — aptast eða aptarst, aptari — aptast-r eða aptarst-r; sb. Stigt fyrrum á d. = Stift], (er sjaldan haft, nema þegar talað er um skip), 1) ao., aptur, aptanvert: A. (agterst) i Skibet aptur (aptast) í skipinu. A. ind aptan á skipið. A. paa aptur á skipinu. A. ud aptur af eða aptur undan skipinu. — 2) e., aptari, eptri: Den agterste Deel af Skibet. (Sb. agters.)

Agterdeel aptari partur á skipi.

Agterende skutur, skutstafn.

Agterslag skutveifa. (Sjá Flag.)

agters, [sjá [agter], ætíð til agters aptur á bak (í óeiginl. merk.): Komme til a. vera í hnignun. Í tali: Det gaaer til a. for ham það gengur af honum (hagur hans gengur saman).

Agterseil aptursegl.

Agterside aptari hlutur skips.

Agterskib aptari helmingur hafskips (aptur frá miðsiglu).

Agterspeil skutflötur á hafskipi. Sjá Speil.

Agterstavn = Bagstavn.

Agtersting fastastöng: Sye med tætte A.

Agtervind beggja skauta byr.

agtløs gálaus.

agtpaagivende, [sb. give], aðgætinn, gaumgæfinn, eptirtektasamur.

Agtpaagivenhed, sk., athygli, aðgætni, gaumgæfni, eptirtektasemi.

agtsom, ft. -me, e., 1) varkár, varfærinn, gætinn: Være a. over noget fara varlega (gætilega) með e-ð: En a. og paapassende Tjener. — 2) = agtpaagivende.

Agtsomhed, sk., varkárni, varfærni, varúð, gætni, varhygð, varhugi; athygli, aðgætni, gaumgæfni, eptirtektasemi, gaumur, gætur: A. paa Belanstændigheden. A. gjør, at alting kan blive bemærket; Nøiagtighed, at intet bliver ubemærket.

agtværdig sem á virðingu skilið, sæmilegur: En a. Familie.

Agurk, ft. -er, sk., (eins konar jurt sem ræktuð er í görðum) *cucumis sativus*.

Agurkesalat eins konar matur sem búinn er til úr Agurker.

Ah! (framb. ā), mo., nú er jeg hissa! hvað ertu að segja! segðu ekki lengur! o. s. frv.

ahah! (framb. ahā), mo., var það sona! það er og! o. s. frv.

ahne sjá ane.

ak! mo, líkust æ að merk., en höfð víða, þar sem Íslendingar hafa öngva mo.

*Akevit (sumir segja og rita Aquavit, þar eð það er dregið af *aqua vitae*), sk., lífsvatn (nokkurs konar brennivín).

*Akrostichon, kl., griplur.

al, ft. -le, e., [all-r], 1) (í et.) A) allur, gjörvallur: Al Verden. Alt Folket öll þjóðin. Al Melken er drukken. Al Sæden er høstet. Alt Kjødet var fordærvet. — Al hans Eiendom. I al sin Tid alla æfi sína. Alt dette har jeg længe vidst. Al den Tid (al den Umage) kunde jeg have sparet. Tag det alt sammen allt saman, hvað með öðru. Al den Regn, vi have faaet. Alt det Hø, han har bjerget. — 2) fullur, fullkominn, fullgildur, nægur: Han har al Aarsag til at være fornøiet. Han sagde det i al Ufkyldighed. Jeg modtog det med al Taknemmelighed. Til al Lykke til allrar hamingju. — 3) með uden: Han blev jordet uden al Pragt utan alla viðhöfn. Uden al Aarsag öldungis að orsakalausu, öldungis að raunarlausu. Uden al Tvivl (sb. *sine omni dubio* á lat., sem þó er sjaldnar haft, enn *sine ullo dubio*). — 4) í öðrum eins orðatiltækjum, og: I al min Lykke þó mjer gangi allt að óskum. I al hans Glæde hvað glaður sem hann er. Med al Agtelse for ham að honum ólöstuðum. Med al hans Særhed (þó hann sje aldrei nema undarlegur), er han dog en retskaffen

Mand. — 5) sjerhver, hvers konnr, alls konar: Al (enhver) Begyndelse er vanskelig fár er smiðnr í fyrsta sinn. Han er en Haber af al (alslags) Forfængelighed Alt Vand kan drikkes; men ikke alt kaldes drikkeligt. Alt (ethvert) Arbeide, som skal lykkes, maa skee med Lyst viljinn dregur hálft hlass. — B) um hvorugk. (i et.) er þess að geta 1) að það er ritað með upphafsstaf (Alt), þegar ekkert nafn verður því samfara, a) Alt er tabt, uden Æren. Jeg vil gjøre Alt (hvad jeg formaaer) for ham jeg skal hjálpa honum, eins og jeg get. Han er skikket til Alt hann er laginn á allt, (hann er fær í flestan sjó). Dette er endnu ikke Alt það er nú ekki búið enn. Alt kommer an derpaa allt er undir því komið. Alt, som man tager det (svo er hvert mál, sem það er virt). Alt, hvad jeg eier allar eignr mínar. Alt hvad jeg kan gjøre. Dette er Alt hvad jeg har at sige. Jeg skal stræbe Alt hvad jeg kan herða mig allt sem jeg get. — b) stundum er það öldungis gjört að nafni α) det hele Alt (det skabte Alt) alheimur. Det store Verdens Alt. Hun er hans Alt hann elskar hana fremur enn allt annað. — β) i Alt eða Alt i Alt alls, samtals, að öllu samtöldu. — 2) að það er haft sem ao. í ýmsum merkingum a) = allerede: Han er alt reist. Det er alt en Maaned siden. — b) allt (*usque*): Han blev ved alt til Enden hann var að allt til enda. — c) í fornum eða fornlegum kveðskap er alt þráfaldlega of sett, og haft sem nokkurs konar horfiltur, t. a. m.: Hvor Dronning Oluf jaged', alt som hun kunde bedst. — d) allt af, alla jafna, einlægt, sí og æ: Alt mere og mere. Alt større og større. Alt kommer han igjen med de gamle Fortællinger allt af er hann með sömu sögurnar upp aptur og aptur. Alt blev han ved at see sig tilbage hann var allt af að líta aptur. — e) (sjaldan haft), allt = alstaðar: Alt hvor han gaaer og staaer hvar sem hann er staddur. — f) alt for mikils til of: Alt for tidt. — Jeg veed alt for vel mjer er full-kunnugt, mjer er kunnugra enn svo. — g) alt som: Alt som han gik, faldt han jeg vissi ekki fyrri enn hann rauk út af (þar sem hann gekk). Alt som jeg troede, han var kommen paa Veien, stod han igjen for mig jeg hjelt hann væri kominn á stað og vissi ekki fyrri til, enn jeg sá hann standa fyrir framan mig. Sb. þegar minnst (vonum) varir; í miðju kafi; upp úr þurru; o. s. frv. — II) í ft. breytist merkingin nokkuð, eins og í öðrum málum, allir, hver og einn, hver með öðrum: Alle Mennesker allir menn, hver maður. Alle Planter. (Eða þá ethvert Menneske, hver Plante; en ekki al Menneske, al Plante). — Stundum er nafninu sleppt, eins og á ísl.: Alle sige det allir segja það, það er altalað. Han er elsket af Alle allir unna honum hugástum, hann er hvers manns hugljúfi. Alle gave ham det Vidnesbyrd allir báru honum það (vitni, orð). Hans Huus staaer aabent for Alle þar er hver boðinn og vel tekinn. — Iblandt Pigerne er hun den smukkeste af Alle. Hvor ere Børnene? — de ere alle ude.

Al eða Ahl, án ft., sk., nokkurs konar jarðartegund sem finnst t. a. m. á Jótlandi.

*Alabast, sk., mjólkursteinn *alabastrites.*

*Alabastfabrik iðnaðarhús þar sem smíðað er úr mjólkursteini.

*Alabastlampe lampi úr mjólkursteini.

*Aland og Alant, sk., (jurt) *inula helenium.*

*Alarm, án ft., sk., herblástur, herslátter: Blæse A. blása herblástur. Slaae A. slá herslátt. — 2) hávaði, háreysti, skarkali, ófriður: Blind A.

*alarmeret, ft. alarmede, h.-e., uppvægur.

*Alarmplads samkomustaður herliðs.

*Alarmtromme herbumba.

Albue, ft. -r, sk., [e. o. albogi f. alnbogi = ölnbogi], olbogi.

Albuemaal olbogamál.

Albuestød olbogahögg (þ. e. högg á olbogann). — 2) olbogaskot.

*Album, sk., minnisbók; nafnabók. — 2) 96. partur af en Tønde Hartkorn.

*Alchemie = Alchymie.

*Alchymie, sk., gullgjörðarlist. Sb. Alchymist.

*Alchymist, kk., gullgjörðarmaður (sá sem er að hera sig að búa til gull úr öðrum hlutum).

aldeles, ao., öldungis, með öllu, algjörlega, alls kostar: A. nøgen alls-nakina, alls-ber, strípaður, berstrípaður. Jeg er a. tilfreds jeg er harð-ánægður. A. ikke fjærri fer því! það er öðru nær.

Alder, sk., [aldr], A) án ft., a) aldur, æfi, líf: Et Menneskes A. gaaer sjelden over 70 Aar þeir eru fæstir, sem komast yfir sjötugt. Hestens A. hvað gamlir að hestar verða. Egens A. hvað gömul að eikitrje verða. — b) aldur (= sú tíð sem e-r er búinn að lifa): Hvad er hans A. hvað gamall er hann. Barnets A. er fem Aar barnið er fimm vetra (gamalt). Kjende Hestens A. af Tænderne. En høi A. — c) aldur, rek, skeið: I en ung A. á unga aldri. I en spæd A. á barnsaldri. Komme til Skjels Aar og A. til vits og ára. Paa hans gamle A. á gamals aldri. Han er i din A. hann er á þínn reki. Alle Foretagender skikke sig ikke for enhver A. — d) efri aldur, elli (sb. aldri orpinn, aldraður): Alderens Svagelighed ellihrumleiki. En Mand af A. aldraður maður. — Til Alders á efra aldur, á efra aldri: Naar man er kommen til Alders þegar maður er kominn á efra aldur. En Mand til Alders maður á efra aldri. — B) með ft. Aldere og Aldre, aldur, öld, tímabil: I vor A. á vorri öld. I denne A. á þessari öld. I Verdens første A. á fyrsta aldri heims, á fyrsta heimsaldri. (Sb. Middelalder, Guldalder, Sølvalder, Kobberalder, Jernalder.)

Alderdom, án ft., sk., 1) elli, elliár: En rolig A. hæg (góð) elli. I hans Alderdoms Dage í elli (á elliárum) hans. — b) fyrir gamlir menn: Alderdommen er skrøbelig (vanskelig). — 2) fornöld: I Alderdommen var det Skik það var siður í fornöld. Levninger fra Alderdommen (Alderdomslevninger) fornleifar, fornmenjar, forngripir.

alderstegen, [sb. stige], aldinn, aldrænn, aldri orpinn, aldraður, hniginn á efra aldur.

aldersvag ellihrumur.

Aldersvaghed ellihrumleiki.

aldrende, eiginl. sagnarlaust ho., aldraður.

aldrig, ao., [aldrig-i], aldrei. — 2) (í tali), með engu móti, alls ekki: Jeg kan a. begribe. Han talte a. et Ord hann þagði eins og steinn. Der er a. det mindste tilbage það er engin agnar-ögn eptir. — 3) aldrig saa = nok saa: Om han eiede a. saa mange Penge hvað vellauðugur sem hann væri. A. saasnart saae hun ham, før hun brast i Graad hún fór að gráta óðar enn hún sá hann.

*Ale, kk., nokkurs konar enskt öl (alt-áfengt).

Alen, ft. eins og stöku sinnum Alne, sk., [alin], dönsk alin (24 þumlungar). — 2) stika, kvarði: En A. af Jern. — Óeiginl.: Maale een med sin egen A. gjalda e-m líku líkt. Maale een med den rette A. — 3) alin (= það sem er álnar langt): En A. Klæde ein alin af klæði. To A. Baand.

alenbred álnarbreiður, sem er alin á breidd.

alendyb álnardjúpur, sem er alin á dýpt.

alene, (stundum ritað allene), ao., einungis, eingöngu: Gud a. veed det það veit einginn nema guð einn. Du skal tjene din Gud a. þú skalt guði einum þjóna. Jeg beder a. derom jeg bið einskis nema þess. — Stundum er ene og sett fyrir framan alene, til að herða merkinguna: Det skulde tilhøre ham ene og a. — 2) út af fyrir sig, aleinn, einn saman, einsamall, einmana: Han lever meget a. Han vil gjerne være a. Lad ham (os, dem) være a. lofaðu honum (okkur, þeim) að vera einum. Være a. med (= i Eenrum med) een. Leve a. Boe a. vera sjer um klefa. Spise a. Sove a. sofa einn. — 3) hjálparlaust, aðstoðarlaust: Jeg har gjort det a. jeg hef gjört það einsamall. Være a. om et Arbeide. Barnet kan nu gaae a. (sb. ene). — 4) ikke alene ekki að eins: Han er ikke a. klog, men en god Mand hann er ekki einungis skynsamur, heldur líka vænn maður.

aleneste (í tali) = alene 1.

alenhøi álnarhár, sem er alin á hæð.

Alenkram stikuvarningur (varningur sem er seldur eptir álnatali).

alenlang álnarlangur, sem er alin á lengd.

Alenmaal kvarði, stika. — 2) álnarmál: Efter A.

Alental álnartal: Kjøbe (sælge) i A.

Alentræ kvarði úr trje.

alentyk álnar-þykkur, álnar-digur, sem er alin á þykkt eða digurð.

alenviis, ao., = i Alental.

*Alexandriner, ft. -e, sk., nokkurs konar bragarháttur (6 stuðlar í línu og 2 samstöfur í hverjum stuðli, hin fyrri skömm og hin síðari sein).

Alf, ft. -er, sk., a) um nokkurs konar álfafólk eða huldufólk, sem Danir (eins og þjóðverjar) ímynda sjer þó öðruvísi, enn vjer; sb. Ellefolk, Ellekone, Ellepige, o. s. frv. — b) (eink. á síðari tímum) um þess konar álfa, sem talað er um í eddu-bókum; sb. Lysalf, Svartalf.

Alfader, [alfaðir], er eiginl. Óðins-heiti, en dönsk skáld hafa á seinni tímum snúið því upp á guð alls herjar.

Alfarvei þjóðvegur, þjóðbraut. — Óeiginl.: En banet A. til Ære. Ligesom saa mange andre Forslag, der gaae noget udenfor Alfarveien.

alfuld fullur með öllu.

*Algebra bókstafareikningur. Sb. Bogstavregning.

*algebraisk, ft. -e, e., sem snertir bókstafareikning.

algod algóður.

Algodhed algæzka.

algyldig sem á alstaðar við, algildur.

Alhed, sk., það að vera allt.

Alherre (verður naumlega haft öðruvísi, enn með greininum: Alherren) drottinn alls herjar.

Alhøre allra gagn (um pútu).

*Alimentation, sk., viðurværi, er sjaldan haft nema í

*Alimentationsbidrag meðgjöf föður með lausaleiksbarni.

-aling, sk., [af Alen], er haft sem aptari partur af samskeyttu orði, t. a. m.: Tolvaling, Sextenaling, o. s. frv., um trjávið, sem er tólf (sextán) álnir á lengd.

Alke, ft. -r, sk., álka, klumba, *alca* (*Linn.*).

alke, h. a. 1, vaða elginn: A. i Dynd (Snavs). (Á Jútlandi er það haft um að stinga ála.)

alkjærlig ástarfullur (um guð).

Alkove, ft. -r, sk., rúmkompa, sængurkompa.

*Allee, ft. -r, sk., forsæluvegur (vegur sem einkum er ætlaður til skemmtunargöngu og sín eikaröð gróðursett á hvora hlið).

*allegro, ao., (um söng og hljóðfæraslátt), fljótt.

allehaande, e., allra handa, alls konar, alls kyns, allsháttaður: A. Varer. A. kostbare Sager allsháttuð dýrindi. Han kom med a. Udflugter hann hafði alls kyns undanbrögð í frammi. Han seer ud til A. hann litur út fyrir að vera tveggja (beggja) handa járn. — 2) sem kl. nafn, herjavísir af *myrtus pimenta* (sjá Kryddermyrte) hafður sem krydd: Stødt Allehaande.

Allehelgen, sk., = Allehelgensdag.

Allehelgensdag allra heilagra messa.

Allehelgenstid: Ved A. um allra heilagra messu leyti.

Allemand (í tali) f. alle Mand (et. f. ft.; sb. tre Mand, fire Mand, o. s. frv.), allir menn: Allemands Ven allra vinur. Det er i Allemands Munde það er almannarómur.

allene sjá alene.

aller- haft sem nokkurs konar ao. framan við efsta stig af einkunnum og atviksorðum, allra: Allerstørst allrastærstur, stærstur allra, langstærstur. Den allerstørste. Min allerkjæreste Ven.

allerede, ao., þegar: Det er a. skeet for otte Dage siden það eru (nú liðnir) átta dagar síðan. Man sagde mig, at han var endnu ikke kommen; og jeg hører nu, han har a. været her i to Dage og nú heyri jeg sagt, hann sje búinn að vera hjer tvo daga.

allesteds, ao., alstaðar, hvarvetna: Han har a. hjemme hann slettir sjer fram í allt.

Allestedsnærværelse vera (návist) guðs á öllum stöðum.

allestedsnærværende verandi senn í öllum stöðum.

allevegne, ao., alstaðar, hvarvetna, hvar sem er; hvernig sem á stendur.

*Alliance, ft. -r, sk., samband.

*alliere, ás. 1: A. sig med een gjöra samband við e-n. Allierede bandamenn.

alligevel, ao., þó, samt, samt sem áður, engu að síður, allt að einu, eins fyrir því.

Allike, ft. -r, sk., (kráku-kyn) *corvus monedula.*

*Alliteration, sk., hljóðstafasetning, (hljóðstafir).

*allodial, ft. -e, e., sem snertir óðal, (er einkanl. haft í samskeyttum orðum, eins og Allodialarving sá sem erfir óðal, Allodialgods óðal).

*Allongeparyk lokka-parruk.

*alludere, h. a. 1, benda til e-s með orðum.

*Allusion, ft. -er, sk., tilbending í orðum.

*Alloopathie, sk., sú lækningar-aðferð (sem líðkanlegust er) að beita þeim læknisdómum sem í afleiðingum sínum eru gagnstæðir sjúkdómunum. (Alloopathie er gagnstætt Homoopathie.)

Alm, sk., [álm-r f. alm-r], álmur *ulmus campestris.* Sjá Ælm, sem mun vera fullt eins líðkanlegt.

Almetræ = Ælmetræ.

Almagt almætti, alveldi: Guds A. Tonernes A. hinn mikli kraptur, sem fylgir söng og hljóðfæraslætti.

*Almanak, ft. -ker, sk., almanak.

*Almanaksmaaned mánuður að búkmáli, búkmánuður, latínskur mánuður.

almeen, ft. almene, e., [sb. almenn-r á ísl. og gemein á þjóðv.], almanna-, alls herjar-, alþýðu-: Til a. Nytte. Til a. Sikkerhed. En a. Lov. — (almeen er fornt orð, sem hefur verið tekið upp aptur, og er einkanlegu haft framan í samskeyttum orðum.)

Almeenaand þjóðar-samheldi.

Almeenfølelse þjóðleg tilfinning.

almeengyldig algildur.

Almeengyldighed algildi.

Almeenhed, án ft., sk., almenningur, alþýða manna.

Almeenlæsning alþýðulestur.

Almeennytte almennings not, alþjóðleg not.

almeennyttig þjóðnýtur.

Almeensikkerhed alþjóðlegt óhylti.

Almeensted, (einkanl. haft í ft.), sk., alþekkt sannmæli, kunnmæli.

Almeenstemning það hvernig liggur í alþýðu manna.

Almeensætning = Almeensted. — 2) grein sem nær yfir allt.

Almeenvel almenningsheill, velgengni (velferð) e-r þjóðar.

Almeenvæsen, án ft., kl., þjóðfjelag, þjóðfjelagsmálefni.

almindelig, [sb. alminnilegur, alminnilega f. almennil.], I) e., ft. -e, sem nær yfir allt: En a. Regel (Forskrift, Sætning) algild regla. Den a-e Verdenshistorie saga alls mannkynsins. A. Menneskekjærlighed ást við alla menn. — 2) sem er öllum sameiginlegur: Naturens almindelige Orden. Det a-e Bedste almennings not. Her er det a. Skik hjer er það alvenja. En a. Erfaring. Den almindelige Menneskeforstand meðal-vit. En a. Landevei þjóðvegur, þjóðbraut, þjóðgata. — 3) alkunnur, alkunnugur, alþekktur, alsagður, almæltur, altalaður, algengur: Et almindeligt Sagn. Et almindeligt Rygte almæli, alræmi, (alskrafað, altalað). Det er en a. Hændelse það ber opt við, það er algengt. Dette Tøi er af meer end a. Godhed svona góður dúkur finnst ekki á hverju strái. — 4) den almindelige Mand almúginn, almúgamenn. — 5) det Almindelige þjóðfjelag: Kjærlighed til det Almindelige þjóðrækni. Det Almindeliges Tarv almennings þarfir. — II) ao.: Det er a. bekjendt það er alkunnugt. — 2) jafnaðarlega, að öllum jafnaði, optast nær.

Almindelighed, án ft., sk., það að vera almindelig; en er sjaldan haft, nema í orðatiltækinu: i A. a) = almindelig II, 2. — b) t. a. m. Alle i A. og Enhver i Særdeleshed allir saman og hver í sínu lagi, hver með öðrum.

almindeligviis, ao., optast nær, jafnaðarlega.

Alminding, ft. -er, sk., [almenning-r], almenningur (um land), óskipta.

Almisse, ft. -r, sk., [almusa], ölmusa, (ölmusugjöf, ölmusugjörð, ölmusugæði): Give A. Gjøre A. gjöra ölmusu.

Almisseblok ölmusukistill, gjafastokkur.

Almissebolig ölmusubýli, bústaður handa sveitar-ómögum eða þurfamönnum.

Almissebrød matur sem manni er gefinn í gustukaskyni: Æde A.

Almissegjerning gustukaverk (f. guðsþakkaverk).

Almisselem sveitar-ómagi, hreppsómagi.

Almue, án ft., sk., [almúgi], almúgi, alþýða: Bønder og menige A. bændur og öll alþýðan. Almuens Sprog (Skikke, Sæder). Almuen paa Landet og i Stæderne.

Almuesagn munnmæli hjá alþýðu.

Almuesang almúgakvæði.

Almuesdigter skáld sem kveður handa almúga.

Almuesfolk, einungis í ft., almúgafólk, almúgamenn.

Almueskole almúgaskóli.

Almueskolevæsen allt sem snertir almúgaskóla.

Almueskrift rit sem ætlað er almúga.

Almuesmand almúgamaður.

Almuesord almúgaorð (sem er tíðkað af almúga).

Almuesprog almúgamál, almúgamállýzka.

Almuesqvinde almúgakvenmaður.

Almuesven sá sem er hliðhollur (vinveittur) almúganum.

almægtig almáttugur, allsvaldandi.

Almægtighed, án ft., sk., almætti, alveldi.

alnærværende = allestedsnærværende.

*Alphabet, ft. -er, kl., stafrof: Det græske A. griska stafrofið. Efter Alphabetet í stafrofsröð. — 2) af því prentarar hafa verið vanir að sýna arkatal í prentuðum bókum, með því að setja a neðanmáls á 1. örkina, b á 2. örkina, o. s. frv. (eptir latínustafrofi, er hefur 23 bókstafi), aa á 24. örkina, bb á 25. örkina, o. s. frv., þá merkir Alphabet þær 23 arkir í prentaðri bók, sem hafa eitt (einfalt, tvöfalt eða fleirfalt) stafrof fyrir neðan málið: Denne Bog er 3 Alphabeter stor bókin er 69 arkir á stærð.

*alphabetisk, ft. -e, e., sem er í stafrofsröð: A. Fortegnelse over noget.

alraadende, [sb. raade], sem öllu ræður: Det a. Forsyn.

Alrune, ft. -r, kvk., (fornt), völva.

alsammen, altsammen, ft. allesammen, e., allur saman, gjörvallur: Han tog dem allesammen. Jeg gav ham det altsammen jeg fjekk honum það allt saman, hvað með öðru. Altsammen er godt, undtagen dette.

alseende, [sb. see], sem allt sjer: Den Alseendes Øie.

alsidig, ft. -e, e., sem hefur hliðsjón af öllu (þegar hann er að hugsa um e-ð).

Alsidighed, ft. -er, sk., það að vera alsidig.

Alskabning, án ft., og ætíð með greininn (Alskabningen), öll skepnan, allt sem skapað er.

alskens, sem e., [f. als Kjøns; sb. alls kyns], alls kyns, alls konar, hvers konar, alls háttar, allsháttaður.

alslags, ft. alleslags, sem e., = alskens: Der var nok af a. Mad. Han har forsynet mig med alleslags Fornødenheder. — (Sb. Slags.)

alstille, ao., (almúgaorð), alltjend, æfinlega.

Alstyrer, án ft., og með greininn (Alstyreren), alstýrandi, sá sem öllu stýrir (ræður).

*Alt, sk., annar söngrómurinn að ofan. (Fyrst er Discant, þá Alt, þá Tenor, og neðst Bas)

*Altan, ft. -er, sk., gluggsvalir.

Alter, ft. -e, kl., blótstallur. — 2) altari: Gaae til Alters ganga (vera) til altaris. — Þó Alter sje kl., þá segja menn

engu að síður Alterens (en ekki Alterets) Sacrament; sb. altari sem kk. orð á forna ísl.

Alterbog altarisbók.

Alterbord brikarlaust altari: Denne Kirke har kun et A. Sætte Kalken paa Alterbordet setja kaleikinn á altarið.

Alterdug altarisdúkur.

Alterfod grátur (kvk. í ft.).

Altergang altarisganga: I Dag er der A. Han er ivrig i sin Kirkegang og A. hann er bæði kirkjurækinn og gengur opt til altaris.

Altergods altaris-eignir (í katólskum löndum).

Altergulv = Alterfod.

Alterild eldur á blótstalla.

Alterklæde 1) í et., altarisklæði. — 2) í ft., a) altarisskrúði (allt sem haft er til að skrýða altarið með). — b) messuföt.

Alterkors altaris-kross (sem farinn er að tíðkast hjer og hvar í staðinn fyrir altarisbrík).

Alterlys altariskerti (úr vaxi).

*Alternativ, ft. -er, kl., annaðhvort af tvennu sem fyrir höndum er, kostur.

Altersteen altarishella (sem er lögð ofan á altarið), altarissteinn.

Altertavle altarisbrík, altarisspjald.

Altertjeneste sá hluti guðsþjónustugjörðarinnar sem fer fram fyrir altarinu.

Alterviin messuvín.

altid, ao., ætíð, ávallt, allt af, alla jafna, o. s. frv.: Evindelig og a. um aldur og æfi, sí og æ. Han er a. tilfreds. Man finder ham a. sysselsat.

1. Alting alþingi (Íslendinga).

2. Alting, án gr. og úbr., (er mjög tíðkað í tali og merkir = al I, B, 1, a, þ. e.) allir hlutir: Han vil vove A. Han har sat A. til. Lykken er ham med i A. auðaan leikur við haan í öllu. (Alting verður ekki haft í öllum þeim dæmum, sem heyra undir al I, B, 1, a, og það væri t. a. m. bögumæli að segja: Jeg skal stræbe A. hvad jeg kan, eða þviuml. — Stundum er rjett að segja alle Ting fyrir Alting.) — b) for A. fyrir alla muni, um fram allt, um allt fram, í öllum bænum, hvað sem tautar, hvað sem annað hefur: Lad os for A. ikke fortvivle. — c) hvorom A. er hvað sem öðru líður.

*Altist, ft. -er, kk., sá sem hefur annan söngróm að ofan (sb. Alt).

altsaa, st., þess vegna: Han trænger til Hjelp, og jeg kan hjelpe ham; a. bør jeg det þar af leiðir, að jeg á að gjöra það. altsaa udtrykker, at Tingen flyder af det forrige; derfor, at den er grundet deri.

*Alun, án ft., kl., álún (salttegund) *alumen*.

*alune, ás. 1, álúna: Alunet Toi. Alunet Læder.

*Alunjord a) álúnasjörð (jörð sem álún er í). — b) álúnsleir.

*Alunlæder álúnað leður.

*Alunshandske hanzki úr álúnuðu skinni.

*Alunskifer flögusteinn sem álún er í.

*Alunskind álúnað skinn.

*Alunsyre álúnssýra.

*Alunvand álúnsvatn.

*Alunværk staður þar sem álún er búið til.

Alvei = Alfarvei.

Alverden, án ft., alheimur.

alvidende, [sb. vide], sem veit og sjer alla hluti.

Alvidenhed, án ft., sk., það að vera alvidende: Guds A.

alviis alvitur.

Alviisdom alvizka.

Alvor, án ft., er haft bæði sk. og kl., [alvar-a], alvara, alhugi, það sem manni er alhugað: Det er min (mit) ramme (fulde) A. mjer er full alvara. Gjøre (tage sig af) noget med A. leggja hug eða kapp á að framkvæma e-ð. Han lod som han vilde gaae; men det var ikke hans A. hann ljezt ætla að fara, en það var ekki nema látalæti. — 2) að það verður úr (af) e-u: Nu er der engang blevet A. af. Bliver det A. med Krigen? Gjøre A. af noget láta verða úr e-u. — 3) for Alvor merkir a) alhugað, með kappi: Nu vil han til at studere for A. Han blev for A. vred hann varð stór-reiður. — b) (um dauða hluti), að (nokkru) ráði, svo nokkru nemur, svo um munar, (alhugað): Det begynder nu for A. at fryse.

alvorblandet, [sb. blande], alvörublandinn: A. Skjemt gaman og alvara.

alvorfuld alvörufullur: En a. Charakteer. En a. Betragtning.

alvorlig, ft. -e, e., a) alvörugefinn, þur á manninn, þurlegur: Han er ligesaa streng og a., som hans Kone er mild og munter. — b) einlægur: Det er min alvorlige Villie það er einlægur vilji minn. Det er mit alvorlige Forsæt það er einlægur ásetningur minn. — c) sem nokkuð mark er að, sem nokkuð kveður að: Fra Ordstrid kom det til alvorligt Skjenderi. Han fik en a. Irettesættelse.

Alvorlighed, án ft., sk., a) alvörusvipur. — b) siðsemi: Opføre sig med anstændig A. — c) vandvirkt, umvöndunarsemi: A. i Forretninger. Holde sine Undergivne med A. til Arbeide.

Alvorslære alvarleg kenning.

Alvorsord alvarleg orð.

Alvorsrøst alvarleg raust.

Alvorssind alvörugefni.

Alvorstale alvarleg ræða.

Alvorstanke alvarleg hugsun.

Alvælde alveldi, almætti.

alvældig allsvaldandi, almáttugur.

alværende, [sb. være], finnst haft f. allestedsnærværende.

*Amalgamation, sk., óeiginl., samsteyping tveggja hluta í einn, samlögun tveggja hluta.

*amalgamere, ás. 1, óeiginl., steypa tveim hlutum saman í einn, samlaga tvo hluti.

*Amanuensis, kk., skrifari e-s.

*Amazone, ft. -r, kvk., skjaldmey.

*Ambassade, sk., sendiherra-embætti.

*Ambassadeur, ft. -er, kk., sendiherra.

*Ambassadrice, ft. -r, kvk., sendiherra-frú.

*Ambe, ft. -r, sk., tvær tölur í talnabúð, tvistur í talnabúð (sb. Lotterie).

*Ambition, sk., veggirni, metorðagirnd.

Ambolt, ft. -e, sk., steðji: Smede paa A. Smede en A.

Amboltsmedning, sk., a) smíði sem fer fram á steðja. — b) steðjasmíði (það að smíða eða búa til steðja).

*Ambra, sk., ilmkvoða úr viði. — 2) (eins konar ilmjurt) *artemisia abrotanum*. — 3) (í skáldskap), ilmur.

*ambrafyldt, [sb. fylde], ilmfullur, ilmandi: Den ambrafyldte Luft (í skáldskap).

Ame, ft. -r, sk., stór tunna sem tekur 16 fjórðungsfötur: En A. Rhinskviin.

*amen, ao., amen.

*Amethyst, ft. -er, sk., (indverskur gimsteinn) *amethystus*.

*Ameublement = Meublement.

*ameublere = meublere.

Amindelse, án ft., sk., [a = á], minning fjærstaddra eða liðinna, menjar: Han vil blive i evig A. Give een noget til en A. gefa e-m e-ð til menja.

Amindelsestale líkræða.

Amindelsestegn minningarmark; menjagripur, menjar.

Amme, ft. -r, kvk., barnfóstra (einkanl. sú sem hefur fósturbarn sitt á brjósti): Barnets A. Tjene for A. Hun har A. til sit Barn.

amme, ás. 1, hafa barn á brjósti: Hun ammer selv sit Barn. A. et Barn op med Melk (ved en Flaske); sb. opamme.

Ammehold, án ft., kl., barnfóstruhald.

Ammeløn barnfóstrukaup.

Ammeplads vist handa barnfóstru.

Ammesnak = Ammestuesnak.

Ammestue barnfóstruklefi, barnaklefi.

Ammestuefortælling kerlingasögur.

Ammestuesnak baðstofuhjal, kerlingabækur, kerlingavilla (í Sæm.-eddu).

Ammetjeneste vist handa barnfóstru: Hun søger en A. hún vill koma sjer e-rstaðar fyrir sem barnfóstra.

*Ammunition = Munition, sem optar er haft, að minnsta kosti í tali.

*Amnestie, án ft., sk., fyrirgefning (einkum við uppreistarmenn).

Amning, ft. -er, sk., sjóar-dýpt undir skipi.

*Amphibium, ft. Amphibier, kl., láðs-dýr og lagar.

*Amphitheater hring-leikhús.

*Amputation, ft. -er, sk., aftekning limar.

*amputere, ás. 1, taka lim af manni.

Amt, ft. -er, kl., 1) eiginl. embætti; en er þó úrelt í þessari merk., nema þegar talað er um rakara-embætti (Amt = Barbeeramt). — 2) amt, (umdæmi). — 3) nokkurs konar stjórnarráð; sb. Bjergamt, Postamt.

Amtmand amtmaður.

Amtmandskab amtmannsdæmi.

Amtsbetjent konunglegur embættismaður sem tekur þátt í amtsstjórn.

Amtsbonde bóndi í amtinu.

Amtsforvalter amts-gjaldkyri.

Amtshuus amtmannshús.

Amtsmester skeggrakari sem hefur skeggrakararjettindi (í Kaupmannahöfn).

Amtsprovst yfirprófastur í amti: Man afskaffede snart igjen Amtsprovsterne.

Amtsprovsti yfirprófastsdæmi í amti.

Amtsraad amtsráð (þ. e. amtmaðurinn og þeir sem til eru kjörnir með honum að ráða um málefni amtsins).

Amtsrettighed hver einstakur rjettur sem skeggrakara-fjelagið í Kaupmannahöfn hefur.

Amtsskriver (fyrrum) = Amtsforvalter.

Amtstue skrifstofa amts-gjaldkyrans.

*Amulet, ft. -ter, sk., verndargripur sem maður ber á sjer.

an, fs., [tekin úr þjóðv., einkanlega á 17. og 18. öld], stýrir aldrei nöfnom, og er ekki höfð laus öðruvísi, enn við sagnir: Binde an med een ráðast í móti e-m, reyna sig við e-n. Det gaaer an það er nær sanni, það má takast. Gribe sig an herða sig. Komme ilde an að það fer illa fyrir manni. Rette (Maden) an bera á borð. O. s. frv. — II) an er haft í upphafi samsettra orða, og má finna þau, sem eru skást af þeim og tíðkanlegust, hvert á sínum stað hjer fyrir aptan.

*Anabaptist, ft. -er, kk., = Gjendøber.

*Anachronisme, ft. -r, sk., = Anachronismus.

*Anachronismus, ft. Anachronismer, sk., tímatalsvilla.

*Anakoluth, ft. -er, sk., endaslepp grein.

*Anakoluthie, ft. -r, sk., endaslepp orðasetning.

kveðið), ft. -r, sk., vöðvi: Balden i Haanden aflvöðvina á hendinni (við þumalfingurinn). Balden under Foden tá(a)bergið. Sb. Arsbalde. — 2) bulla i prentbúsum.

**Balder**, ft. -e, kl., [sb. Bulder], (í tali), skellur, dynkur.

**baldet**, ft. baldede, e., vöðvamikill, vöðvastæltur.

***Baldragt** dansveizlu-búningur.

**baldyre**, [fyrrum bordyre, sb. brodere], ás. 1, sauma rósir úr gulli eða silfri eða silki í, gullsauma, a. s. frv.

**Balg**, ft. -e, sk., [sb. bal í riddarasögum], slíður, sverðs-umgjörð: Stik dit Sværd i Balgen slíðraðu sverð þitt.

***Balklædning** = Baldragt.

***Ballade**, ft. -r, sk., (eiginl. danskvæði, en merkir nú) stutt kvæði hriggilegs eða jafnvel skuggalegs efnis.

**Ballast** sjá Baglast.

**ballaste** sjá baglaste.

**Balle**, ft. -r, sk., [reyndar komið úr frakkn., en er þó sjálfsagt sama orð og ball-r = böll-r á norrænu (Bold á d., sb. Ballen á þ.), og komið þaðan í frakkn.], leik-kúla á kúlnaborði. Sb. Billiard: Gjøre en B. koma kúlu í borðholuna. — 2) stór strangi ljerepts eða samanbrotið klæði eða samanlagður pappír (til sendingar á vögnum eða skipum). — b) en B. Papir (einkanl. um prentpappír) = 10 Riis (sjá Riis) = 200 Bøger (sjá Bog).

**Balle** eða **Ballie**, ft. -r, sk., stampur: Spande og Baller. Sb. Baskeballe, Dreballe, Hankeballe.

**balle**, ás. 1, ausa með byttu eða stampi (á sjó): B. Vandet ud af en Baad.

***Ballet**, ft. -ter, sk., bendingaleikur, bendingadans.

***Balletdandser** sá sem dansar í bendingaleik, leikhússdansari.

***Balletmester** leikhússkennari í dansi; sá sem býr til bendingaleika.

***Ballon**, ft. -er, sk., holhnöttur fylltur með lopt.

***Ballotation**, ft. -er, sk., það að ballotere.

***Balloteerkugle** atkvæðiskúla.

***ballotere**, h. s. 1, gjöra atkvæði með kúlum.

***Balsal** danssalur.

**Balsam** (líka nefnt og ritað Balsom), ft. -er, sk., (ilmandi feiti sem fæst úr einni viðartegund á Arabíulandi), ilmfeiti. — 2) ýmiss konar viðarfeiti sem höfð er til lækninga: Peruviansk B. — Óeiginl. harmabót, líkn. — 3) (eins konar blómjurt sem ræktuð er í aldingörðum) *tanacetum balsamita*. Sb. Balsamine.

**balsamere**, ás. 1, smyrja e-ð til ilms eða svo það rotni ekki: Egypterne balsamerede ogsaa Dyr.

**Balsamering**, ft. -er, sk., það að balsamere (smurning).

**Balsamine**, sk., = Balsom 3.

**balsamisk**, ft. -e, e., ilmandi.

**Balsamkorn** frækorn af þeim viði sem Balsam fæst úr.

**Balsampoppel** (viðartegund) *populus balsamifera*.

**Balsamtræ** ilmviður (eik sú er ilmfeitin fæst úr).

**Balsamved** ilmviður (sb. Ved).

**Balsom** sjá Balsam.

**balstyrig**, ft. -e, e., [bal- ef til vill af ball-r, sb. bold; þó segja Svíar *bångstyrig*], (í tali), óstýrilátur, ódæll, óþekkur, þrjózkur, þrár, uppivöðslusamur: En b. Dreng. En b. Hest ólmur, sem ekki verður við ráðið. Sb. uregjerlig, ustyrlig, vild.

**Balstyrighed**, án ft., sk., óstýrilæti, óþekkt, þrái.

**baltre** (í tali) = boltre.

***baltisk**, ft. -e, e., = østersøisk: Det baltiske Hav Eystrasalt.

***Balustrade**, ft. -r, sk., handrið, brjóstrið. Sb. Rækværk 1.

***Bambus** = Bambusrør.

***Bambusrør** (stór reyrtegund er sprettur í hitabeltinu) *bambus arundinacea*.

**Bamse**, ft. -r, sk., [bangsi], bangsi (björn).

**Ban**, sk., sjá Band.

***Banco**, sk., = Bank (sk.), og er tíðkanlegast í samsettum orðum, sb. Bancoseddel. Mark Banco í peningareikningi Hamborgarmanna (sem þó er ekki tíðkaður þegar bönd selur hendi) er hjer um bil sama og fjögur mörk dönsk.

***Bancoseddel** bankóseðill (gjaldbleðill).

**Band** eða **Ban**, sk., án ft., og að mestu leyti án greinis, [baan], baan: Kirkens B. Sættes i B. Være i B. Løses af (vera leystur úr) B.

***Bandage**, ft. -r, sk., umbúðir.

***Bandagist**, ft. -er, kk., sá sem býr til haulbönd.

**Bandbrev** (líka Bandsbrev) bannsetningarbrjef.

**bande**, A) ás. 1, blóta (bölva, ragna, formæla) e-m, biðja e-m ills (óbæna, forbæna): Du skal ikke b. dit Folks Øverste. — B) h. s., blóta, bölva, ragna: Han bandede en stor Ed. Han har den Ustik at b. ved Alt hvad han siger. B. paa noget sverja og sárt við leggja, að e-ð sje satt. — 2) det bander ille er hjer um bil sama og það er ekki margt að því, og er haft um það sem er gott og maður vill ekki slá hendinni á móti, einkanl. matvæli: Denne Skinke bander ikke.

**Bande**, ft. -r, sk., (í almúgatali), formælingar: Eder og Bander.

***Bande**, ft. -r, sk., óaldarflokkur. Sb. Røverbande, Tyvebande, Zigeunerbande. — b) flokkur af loddurum (trúðum eða leikurum.

***Bandeleer**, kl., axlaról hermanna.

**Banden**, án ft., sk., það að bande (blót, formælingar).

***Bandit**, ft. -ter, kk., [sb. *Bande], (stigamaður), útilegumaður.

**bandlyse** = bandsætte.

**Bandlysning** það að bandlyse.

**Bandsbrev** sjá Bandbrev.

**Bandstraale** (að sínu leyti eins og Lynstraale), er haft um banns-eldingar af páfa.

**bandsætte**, ás., bannsetja, setja e-n í bann, bannfæra. — 2) bh. l. t. bandsat í óvönduðu tali a) sem e.: Han er reent b. hann er (mein-)bölvaður við að eiga. — b) sem aa., þar sem Íslend. segja skolli, skrambi, djeskoti, og þvíuml.: B. koldt. B. hed.

**Bandsættelse**, ft. -r, sk., bannsetning, bannfæring

**Bane**, án ft., sk., [bani], bani: Dette Hug blev hans B. og varð þetta banahögg. I dette Slag fik han sin B. í þessari orustu fèll hann. — 2) kk., í skáldskap og í gömlum ritum, bani = banamaður.

**Bane**, ft. -r, sk., svið, skeið, braut: En B. paa Snee eller Iis. Sb. Glidebane, Keglebane, Legebane, Løbebane, Reberbane, Ridebane. — b) um ferð í lopti, braut, rás ferill: Planeters (Kometers) B. Jordens B. om Solen. Bombens (Kuglens) B. — 2) óeiginl. skeið: Fuldende (renna á enda) sin B. Dydens B. vegur dyggðar og mannkosta (dyggðauðugt líferni). Ærens B. Bringe noget paa B. færa (leiða) e-ð (koma e-u) í tal, vekja máls á e-u. — B) skalli á hamri eða öxi.

**bane**, ás. 1, ryðja (gjöra) veg (eða braut): B. Vei over et Bjerg (gjennem en Skov). — Óeiginl. greiða götu fyrir e-u: Disse Egenskaber banede ham Veien til Kongens Yndest af þessu komst hann í kærleika við konunginn. Ministerens Fald banede Veien til den paafølgende Fred.

**Banehug** banahögg.

**Baneløb**, [Bane, skeið, 2], skeið, rás.

**Banemand** banamaður (vegandi): Den Dræbtes B. En B. kan dræbe af Vaade; en Morder dræber altid med Forsæt.

**Baneraad** banaráð, fjörráð.

**Banesaar** banasár, helund.

**Banesag** vígsmál, vígsök.

**Baneskrab**, [Bane, skeið, 2], hampbroði sem niður linist þar sem er verið að búa til snæri (sb. Reberbane); þessi broði er tíndur upp aptur, og hafður í lakari snæri.

**Banesot** banasótt, banalega; sb. Helsot.

**Banested** staður þar sem e-r lézt (sb. vetvangur).

**Banestød** lag sem manni verður að bana.

**Banetue** (í skáldskap) f. Banested.

**bange**, ft. eins, e., hræddur, smeikur: Være b. for (við) noget. B. af sig huglítill. Være b. i Mørke myrkfælinn. — 2) í eldri bókum: B. Kaar bágar kringumstæður.

**Banghed**, án ft., sk., kvíði, æðra.

**Banje**, ft. -r, sk., þilfar niðri í skipi.

**Bank**, ft. -er, sk., banki, sjóður sem maður getur geymt peninga í, ávaxtað peninga eða fengið að láni: Give en Anviisning paa Banken. Sb. Filialbank, Girobank, Laanebank, Nationalbank, Rigsbank, Vexelbank. — 2) peningahrúga sem hættumeistarinn (sjá Bankholder) hefur til að borga af þeim sem vinna: Lægge B. op. Holde B.

**Bank**, ft. eins, kl., högg, barsmíði: Faae B. Give een B.

***Bankdirecteur**, [Bank, sk. 1], sjóðstjóri.

**banke**, h. s. og ás. 1, [sb. banga], 1) h. s., lemja, berja: B. paa Døren berja á dyr, berja að dyrum; líka liml b. paa berja, t. a. m.: Jeg stod længe og bankede paa, men Ingen lukkede op. Jeg hører nogen b. jeg heyri, að barið er; einnig persónul.: Det banker það er barið. Hjertet banker berst. — 2) ás., lemja (berja) a) (þegar maður er barinn): Han bankede ham med en Kjep. Faae en banket Troie vera laminn. B. een af lúberja e-n. — b) (þegar barið er að dyrum): B. een op vekja e-n (reka e-n á fætur) með því að berja, (en b. een op med en Kjep reka e-n á fætur með priki, lemja e-n upp úr bólinu). — c) (þegar föt eru barin til hreinleiks), klappa, bingja: B. Klæder med en Tærskel. B. en Kjole (lemja úr honum rykið). B. Støvet af Klæder. B. Støvet ud. — d) (þegar e-r hlutur er barinn svo að hann fær aðra lögun): B. noget tyndt (fladt). Guldet kan bankes meget tyndt ud. B. Buglerne (Bulerne) ud (rjetta bungurnar) i en Kobberplade. Sb. udbanke. — e) b. Kjød merja kjöt (þegar verið er að matreiða). — f) reka: B. et Søm i Væggen.

**Banke**, ft. -r, sk., alda eða hryggur á landi, rif í sjó, (sb. Bakke b): En B. begroet med Skov skóghryggur einn. Sb. Gruusbanke, Sandbanke. — 2) haugur: Kjøre Gjødningen sammen i en B.

**Bankebyg** baakabygg.

**Bankehammer** = Porthammer.

**Bankekjød** marið kjöt (eins konar kjötmatur).

**Bankekølle** trjesleggja.

**Banken**, án ft., sk., það að banke: Jeg har en bestandig B. (dynki) i Hovedet. (Sb. Hjertebanken.)

***Bankerot**, ft. -er, sk., gjaldþrot kaup-

maana (það oð verða gjaldþrota, það að fara á höfuðið). Sb. Fallit.

Bankeskammel þvottabekkur (þar sem þvegin línklæði eru barin með vifi).

Bankestok (forut), [sb. Banke; en kk i bakkastokkar er fyrir nk eins og i makki, ekkja, o. s. frv.], bakkastokkar (Fms. X, 53). Líka Beding.

*Banket, ft. -ter, sk., hóf, stór-veizla.

Banketræ klapp (þvottaklapp); barefli.

Bankholder, ft. -e, kk., hættumeistari i spilum.

Bankhæftelse veð sem þjóðsjóður Daaa hefur í fasteignum.

Banklaan lán er sjóður (Bank) þiggur eða veitir.

Bankning, sk., það að banke (barsmíði).

*Banknote = Bancoseddel.

*Bankobligation sjóð-skuldabrjef.

*Banner, ft. -e, kl., merki, hermnnnamerki.

*Bannerfører merkismnður.

*Banquier, ft. -s, kk., peningakaupmaður.

[-bar, einkunna-ending, sem virðist vera tekin úr þjóðv. Sb. aabenbar, agtbar, brugbar, brændbar, dyrebar, frugtbar, gangbar, kostbar, mandbar, middelbar, seilbar, solbar, stridbar, valgbar, ærbar].

bar, ft. -e, e., [bar- t. a. m. í baraxlaður], ber, nakinn: Det bare Legeme nakinn líkaminn. Gaae med bare Fødder ganga berfættur. Smeden tager det gloende Jern med bare Hænder. — b) auður, eyðilegur: En b. Fælled. Et bart Land (skóglaust og óyrkt). — c) snauður af e-u: Være b. for Penge peningalaus. Et Land, som er bart for alle Hjelpekilder. — d) en Kjødsuppe uden Urter smager saa b. er svo bragðdauf (það er svo mikið deyfubragð að henni). — e) tómur (sem ekki er með öðru), bláber, o. s. frv.: Drikke b. Viin. Spise bart (þurrt) Brød. Han ligger paa den bare (líka tómt paa bare) Halm hann hefur ekkert undir sjer nema hálm; sjá blot A, a, ♂. Gaae i bare Skjorte. — f) einber (sem ekki verður með rjettu kallaður neinu öðru nafni; sb. lutter): Det er bare Skarn, Alt hvad man her faaer. Af bart Had. Af bare Misundelse. — Sb. ao. bare.

Bar, ft. eins, kl., [barr], lauf á sumum trjátegundum.

*Barakke (líka Brakke), ft. -r, sk., hermannakofi (búðir, kofar, sem hermenn búa til handa sjer í snatri).

bararmet, ft. -armede, e., með bera handleggi.

*Barbar, ft. -er, kk., sá sem er af ómenntaðri (ósiðaðri) þjóð. (Sb. skrælingjar). — b) grimmdarseggur, illmenni, þrælmenni.

*Barbari, kl., það að vera ómenntaður (ósiðaður), einkum þegar talað er um þjóðir. — b) grimmd, illmennska, þrælmennska.

*barbarisk, ft. -e, e., ómenntaður, ósiðaður: Barbariske Nationer. — b) sem lýsir (ber með sjer) menntunarleysi: Barbariske Sæder. — c) grimmur, illmannlegur, þrælslegur: En b. Handlemaade (grimmd). — 2) sem ao. grimmlega, illmannlega, þrælslega: Handle b. med sine Undergivne.

*Barbeer, ft. Barberer, kk., skeggrakari (og rakari tómt).

*Barbeeramt skeggrakara-embætti; sb. Amt 1.

*Barbeerbækken (og Barbeerfad) nokkurs konar bolli (úr tini eða látúni) sem skeggrakarar hafa til að láta sápuna freyða í áður enn þeir bera hana í skeggið.

*Barbeerfad = Barbeerbækken.

*Barbeerkniv = Ragekniv.

*Barbeerkost skeggbusti.

*Barbeerrem ól til að draga skegghnífa á (slípól).

*Barbeerskilt (látúns-)skálar sem hanga úti fyrir hjá rökurum til að sýna að þeir eigi þar heima; sb. Skilt.

*Barbeerstue skeggrakarahús.

*Barbeersæbe skeggsápa.

*Barbeertøi rakfæri (áhöld til skeggraksturs).

*Barbeervand rakvatn.

barbenet berfættur.

*barbere, ás. 1, raka: B. sig selv. Lade sig b. Sb. rage. — b) (ný merk.), hafa af e-m.

*Barbering, sk., það að barbere (skeggrakstur).

barbrystet, ft. -brystede, e., með bera bringu, með bert brjóst.

barbuget, ft. -bugede, e., kviðuggalaus: Barbugede Fiske (*apodes*).

*Barcarole, ft. -r, sk., nokkurs konar ítalskur róðrarsöngur.

*Barcasse, ft. -r, sk., stærsti bátur á herskipi.

Barde, ft. -r, sk., (hval-)skíði. Sb. Hvalbarde.

*Barde, ft. -r, kk., skáld hinna keltnesku þjóða í fornöld.

Bardehval skíðishvalur.

Bardun, ft. -er, sk., nokkurs konar kaðall á skipi til að festa með siglutrjen, annað enn Vant.

bare, ao., (í tali), einungis, ekki nema: Giv mig b. lidt! svo litla ögn! svo lítið korn! — Einkum þegar menn biðja eða óska e-s: Gjør det b. (þó ekki sje nema) denne Gang. B. han dog vilde komme! það (mikið) vildi jeg hann kæmi!

bare, ás. 1, æfinlega með sig, gjöra að sjer, sitja á sjer, stilla sig: Jeg kunde ikke b. mig for (gat ekki stillt mig um) at lee.

barfodet, ft. -fodede, e., berfættur.

Barfred (úrelt), varðturn við borgarmúr. — 2) griðastaður.

Barfrost, [bar, e.], þurrafrost.

barhaget, ft. -hagede, e., = glathaget.

barhalset, ft. -halsede, e., berhálsaður.

barhovedet berhöfðaður.

barhændet, ft. -hændede, e., berhentur.

Bark, án ft., sk., [bark-], börkur: Flaae Barken af et Træ. — b) haft fyrir Barklud eða Barkelud: Lægge Huder i B.

barkagtig, ft. -e, e., sem líkist berki.

Barkbed gróðrarstía sem er þakin berki til skjóls.

barke, ás. 1, súta: Barkede Huder. — barket merkir líka sólbrunninn, veðurbitinn: Et barket Ansigt. En barket Hud.

Barkebrød, [Bark], brauð með viðarberki saman við mjölið.

Barkekar, [af barke], ílát til að barka í.

Barkelud, (af barke; líka Barklud af Bark), vatn sem barkað er í.

Barkfarve barkarlitur.

Barkgarvning sútun.

barkhaard snarpur (harður) eins og börkur: Barkhaarde Hænder.

Barkholt, ft. -er, sk., [finnst líka ritað Bergholt, og getur ef til vill átt skylt við bjarga, en ekki við Bark], þykkvasta hlífðarfjölin utan á skipi.

Barkhud skinn (hörund) sem er eins og börkur.

barkhudet, ft. -hudede, e., sem hefur barkhúð.

Barklud sjá Barkelud.

Barkmølle mylna sem börkur er malaður í.

Barkning, ft. -er, sk., það að barke.

Barkorm ormur í berki.

Barkpodning gróðursetning í berki trjes (þegar gróðrarkvistinum er potað inn í rifu á berki, eða milli barkar og trjes).

Barkskib skip með þremur siglum nokkuð svipað Fregat.

Barkstag fjórar bark-rákir á ferhöggnum timburstokkum.

Barksvamp svöppur einkanl. á eikarberki.

Barktørv flögur af sútunarberki hafðar til eldiviðar.

Barlind (eins konar lind) *taxus baccata*.

Barm, ft. -e, sk., [barm-], (eiginl. bringspalir; en er haft eins og vjer höfum) brjóst, a) um brjóstið utanvert: Gaae med blot B. — b) um brjóstholið: Hjertet slaaer i Barmen. Hálf-óeiginl.: Denne Følelse vil jeg gjemme i min tause B. í brjósti (hjarta) mínu. — 2) barmur: Stikke Haanden i Barmen í barm sinn. Skjule noget i Barmen. — Óeiginl.: Gribe i sin egen B. rannsaka sjálfan sig.

barmhjertig, ft. -e, e., brjóstgóður. — b) líknsamur, miskunsamur.

Barmhjertighed, án ft., sk., brjóstgæði, góðsemi. — b) líkn, miskun.

barmundet, ft. -mundede, e., = barhaget, sem er viðkunnanlegra.

Barn, ft. Børn, kl., [barn], barn: Antage een i Barns Sted. Han har Glæde af sine Børn hann hefur (mikið) barnalán. Avle (eiga) Børn. Faae (eiga) Børn. Være med B. með barni. Være i Barns Nød vera í barnsnauð. Sb. Hittebarn, Horebarn, Pleiebarn, Tvillingbarn, Ægtebarn. — b) (óeiginl. líkt og á hebresku): Israels Børn. Landets Børn þeir sem eru bornir og barnfæddir í landinu sjálfu. Han er et Lykkens B. (óskabarn hamingjunnar) mesti gæfumaður. — 2) (um aldurinn, eins og á ísl.): Han er ikke B. længer. Jeg var dengang B. (et B.). — Líka sá sem er barnalegur, sá sem er eins og barn: Du er ret et B. mikið barn ertu. — Í samsettum orðum er ekki að eins haft Barns (í Barnsbeen), Barn og Barne, heldur einnig Børne, þegar orðin eru leidd af ft.

barnagtig, ft. -e, e., barnalegur, bernskulegur, barnæðislegur, unggæðislegur. (barnagtig er aðfyndni, en barnlig ekki.)

Barnagtighed, sk., bernska, bernskubrögð, barnæði, unggæði, unggæðisháttur.

Barndom, án ft., sk., [barndóm-], barndómur, barnsaldur, barnæska, bernska: I min B. þegar jeg var lítill. Erindringer fra Barndommen. — b) gaae i B. (um gamlan mann, sem er orðinn eins og barn) vera æðisgenginn, gamalær. — 2) (um annað enn menn) það að vera nýr og og hafa ekki tekið þroska og framförum: I Verdens B. I Videnskabernes B. I Konsternes B.

Barnealder, einungis í ft., = Børneaar, sem er viðkunnalegra.

Barneaar barnsaldur, barnæska.

Barnebarn, ft. Børnebørn, α) í et., sonarsonur, sonardóttir, dóttursonur, dótturdóttir. — β) í ft., barnabörn.

Barnedaab barnskírn (forut), barnsskírn.

Barnefader faðir að óskilgetnu barni: Han blev udlagt som B. honum var kennt barn.

Barnefødsel barnburður, barneign: B. i Dølgsmaal.

Barnegjerning, ft. Børnegjerninger, barnalegt athæfi.

Barnehue barnshúa.

Barnekammer barnaklefi.

barnekjær barngóður.

barneklog sem ekki er hygguari enn barn.

Barnelader barnalæti.

Barnemad ungbarna-matur.

Barnemoder móðir að óskilgetnu barni. — b) foruleg merk., sængurkona.

Barnemord barnsmorð.

Barnemorder sá sem myrðir (drepur) barn (einkum sjálfs sins).

Barnemorderſke sú sem myrðir (drepur) barn (einkum sjálfrar sinnar).

Barnepige barnfóstra.

Barneroſt = Barneſtemme.

Barneſang barnssöngur.

Barneſind barnslegt (einfalt og óbrotið) hugarfar.

barneſindet, ft. -ſindede, e., sem er gerður (lyntur) eins og barn; hvikull eins og barn.

Barneſkee ofurlítil skeið til að mata börn með.

Barneſkik barnasiður, barnasnið.

Barneſkjorte barnsskyrta.

Barneſko, ft. Børneſko, barnsskór: Have traadt ſine Børneſkoe vera kominn til vits og ára.

Barneſnak bernskuhjal.

Barneſtemme, ft. Børneſtemmer, barnsrödd: Vi hørte en B. Vi hørte nogle Børneſtemmer. — b) rödd sem er eins og barnsrödd.

Barneſtol stóll handa barni.

Barneſtreg, ft. (Barneſtreger, sjaldnar haft enn) Børneſtreger, bernskubragð: Begaae Børneſtreger.

Barneſtue líkt og Barnekammer.

Barneſvøb barnsreifar.

Barnetanker, einungis i ft., barnslegar (einfaldar og óbrotnar) hugsanir.

Barneviis = Barneſkik. — Paa B. (haft eins og ao.) eins og börnum er títt.

Barnevogn ofurlítill handvagn sem ungbörnum er ekið í úti við.

barnfødt, [sb. føde], fæðingi (kk.), borinn og barnfæddur: Han er b. i Odenſe.

barnlig, ft. -e, e., sem börnum tilheyrir, einfaldur og óbrotinn: Den barnlige Alder. Barnlige Syſler (Lege). Manden kan bevare et barnligt Sind (má vera líkur barni í hugarfari sínu); men bør aldrig viſe ſig barnagtig.

Barnlighed, án ft., sk., það að vera barnlig.

barnløs barnlaus.

Barnløshed, án ft., sk., barnleysi.

Barnsbeen, haft í þessu orðstiltæki: Fra B. af frá blautu barnsbeini.

*Barocco, sk., bobbi: Være i B.

*barok, ft. -ke, e., frábrugðinn því sem vant er að vera, skringilegur: Barokke Anſkuelſer.

*Barometer, ft. Barometre, kl., = Veirglas.

*barometriſk, ft. -e, e., sem snertir Barometer, t. a. m. barometriſke Høidemaalinger hæðarmæling sem gerð er með loptþyngslamæli.

*Baron, ft. -er, kk., barón. Sjá Friherre.

*Baroneſſe, ft. -r, kvk., barónsfrú; barónsdóttir.

*Baronet, ft. -ter, kk., undirbarón á Englandi.

*Baronie, ft. -r, kl., barónsdæmi.

*baroniſere, ás. 1, gjöra e-n að barón.

*Barre, ft. -r, sk., stöng af gulli eða silfri: Guld (Sølv) i Barrer.

*Barricade, ft. -r, sk., það sem maður hleður upp fyrir framan sig til varnar í þröngum strætum og þh.

*Barriere, ft. -r, sk., varnarvirki (varnir).

Barſel, ft. -er, kl., [f. Barnsøl, sem fyrrum hefur tiðkazt], veizla sem haldin er þegar barn fæðist, fæðingarveizla: Bonden har B. i Dag. Holde B. Bede een til B. Være til B.; sjá Barſelgilde. — 2) barnburður, þegar sagt er: Lave (rede) til B. vera óljett, vera komin nð falli. Gjøre B. liggja á gólfi.

Barſelfeber sængurkalda (hættulegur sjúkdómur sem kvennfólk fær stundum þegar það liggur á sæng).

Barſelfærd allt það umstang sem leiðir af barnsfæðingu.

Barſelgilde fæðingarveizla, skirnarveizla.

Barſelgrød grautur sem konum er sendur á sæng (hjá almúgafólki). Sb. Barſelkoſt.

Barſelkone sængurkona.

Barſelkoſt kostur handa sængurkonu, einkaol. kostur sem konum er færður á sæng (sb. Dropl.).

Barſelqvinde = Barſelkone.

Barſelſeng barnsæng: Ligge i B. liggja á sæng. Hun har denne Sygdom fra hendes ſidſte B. hún fjekk þessi veikindi, þegar hún átti seinnsta barnið sitt.

Barſelſtue hús (klefi) er kona liggur á sæng i.

barſk, ft. -e, o., (um veðráttufar), harður, kaldur: En b. Vinter hörkuvetur. En b. Kulde harka. — b) harður, hastur, illilegur, illúðlegur, harðleitur (fornt), harðlundlegur (fornt): En b. Mand. Et b. Anſigt.

Barſkhed, án ft., sk., það að vera barſk, (harka, o. s. frv.): At Alvorligheden aldrig udartede til B.

Barſkov skógur með þess konar laufi sem kallað er Bar.

barſlidt, [sb. ſlide], = luſlidt.

Bartræ trje sem hefur þess háttar lauf sem kallað er Bar.

*Bas, ft. Baſſer, sk., neðsta (dimmasta) hljóðið (þegar talað er um söng eða hljóðfæraslátt): Han ſynger Baſſen. Sætte B. til en Melodie. — 2) dimmasti strengurinn á sumum hljóðfærum. — 3) eins konar hljóðfæri, öðru nafni Basfiol.

*Baſalt, sk., stuðlaberg, flysjaberg (*saxum basaltes*).

*Baſar (líka ritað Bazar), sk., kaupmannatorg (torg þar sem kaupmenn hafa búðir sínar) í austurálfu.

*Baſe sjá Baſis.

*baſere, ás. 1, grundvalla.

*Basfiol sjá Bas 3.

*Basfløite stór og dimm hljóðpípa.

*Baſis (líka Baſe), ft. Baſer, sk., grundvöllur, undirstaða; ökla (í Alex. sögu) á súlu; o. s. frv.

Baſk, ft. eins, kl., smellur, skellur: Det gav et B. það varð smellur af því; sb. Bads. — b) högg.

baſke, ás. og h. s., A) ás., skella, slá e-ð með lófanum: B. eens Øren. — B) h. s., gjöra smell, gjöra þyt: Hanen baſker med Vingerne (sb. baða vængjunum).

*Baspibe ein af hljóðdimmu pípunum í organi.

*Basrelief sjá þetta orð í greininni um Relief.

*Basſanger sá sem syngur dimmustu röddina.

Baſſe, ft. -r, sk., eiginl. göltur; (en merkir í tali sama og) raumur, rumur: Det er en dygtig B. — þar að auki segir almúgafólk: En rig (ſtoragtig, fornem) B. ríkisbubbi, stórbokki, o. s. frv.

*Baſſet, án ft., sk., eins konar spil.

*Baſſin, ft. -er, kl., = Bækken 2.

*Baſſiſt, ft. -er, kk., = Basſanger.

*Basſtemme dimmasta rödd í söng eða hljóðfæraslætti.

Baſt, án ft., sk., bast (innri börkurinn á trjám). — Lægge een i Baand og B. kasta manni í fjötra (sb. leggi á hvárki basl nè bond).

*Baſta, sk., nafn á lauf-ás í sumum spilum. — II) sem ao.: baſta! svona, þá er nóg. Og dermed b.! og ekki ein ögn meir, og þá er búið!

*Baſtard, ft. -er, kk. og sk., kynblendingur.

baſtbinde binda e-n eða e-ð með basti.

baſte, ás. 1, = baſtbinde: B. og binde een.

*Baſtion, ft. -er, sk., víghyrning á borgar vegg eða kastala. Sb. Bulværk.

Baſtmaatte bastmotta.

*Bastone líkt og Bas 1. Sb. Tone.

*Baſtonnade, ft. -r, sk., iljabarning (tyrknesk hegning).

Baſtreb taug úr basti.

*Baſun, ft. -er, sk., lúður (sb. móthorn): Blæſe i B. þeyta lúður.

*Baſunblæſer lúðurþeytir; lúðursveinn.

*baſune, ás. 1, sjaldan haft nema óeiginl. og í orðatiltækinu: B. noget ud = udbaſune (noget); sjá udbaſune.

*Baſunlyd lúðurhljóð, lúðraþytur.

*Bataille, ft. -r, sk., orusta, bardagi, (pataldur). Sb. Slag.

*Bataillon (líka ritað Batallion eptir atkvæði sínu), ft. -er, sk., hersveit minni enn Regiment og stærri enn Compagni.

Batallion sjá Bataillon.

batte, h. s. 1, (í tali), hrökkva (vera nóg): Det vil ikke b. meget.

*Batterie, ft. -r, kl., fallbissu-garður. — b) fallbissu-röð á herskipi. — 2) fallbissu-deild í landher.

Baun, ft. -er, sk., [bákn], viti: „Baunen lyſte og Budſtikken løb."

Baunhøi vitahóll (sem viti er kyntur á), vitahæð.

Baunvagt vitavörður.

Bautaſteen, [bautastein-], bautasteinn.

*Bavian, ft. -er, sk., apategund.

baxe, ás. 1, (sjómannaorð), færa e-ð þungt úr stað með stöngum: B. en Kanon. — II) baxes, [sb. *box* á ensku], herjast með hnefum (enskur leikur).

Baxekonſt enskur hnefaleikur (sem íþrótt).

Baxen, án ft., sk., það að baxe eða baxes.

Baxer, ft. -e, kk., sá sem kann (eða hefur í frammi) enskan hnefaleik.

Baxning, sk., = Baxen.

Bazar sjá Baſar.

[be, fast fyrirs., sem er skeytt saman við sagnir og breytir merkingu þeirra, svo að hvorkinlegar sagnir verða að áhrifs-sögnum (sb. t. a. m. beboe og boe, begræde og græde, beherſke og herſke, betænke og tænke), eða sagnir fá óeiginlegri merkingu fyrir aðra eiginlegri (sb. t. a. m. before og føre, begribe og gribe, beholde og holde), ellegar breyta öldungis merkingu sinni (sb. t. a. m. bedrage og drage, belobe og lobe, betage og tage, betragte og tragte). þessi fyrirs. er tekin úr þjóðv.; nærri því öll orð, sem hún er i, halda menn sjeu komin í dönsku eptir lok 14. aldar, og mörg ekki fyr enn á hinum þremur seinustu öldum.]

beaande, ás., anda á. — b) óeiginl. = beſjæle (sb. áblásning heilags anda í fornum bókum).

bearbeide, ás., vinna, vinna að e-u, gera við: B. Lœret (Jorden). — Óeiginl.: Han vil b. dette Æmne i en Fortælling hann ætlar að búa til sögu úr þessu efni.

Bearbeidelse, ft. -r, sk., það að bearbeide.

bebinde binda e-ð vandlega, sivefja; remma e-ð með böndum: Et vel bebundet Sparreværk.

beblande (haft mjög sjaldan í merk.) slengja e-u saman við annað, (og litlu optar um holdlegt samræði): B. sig med noget blandast við e-ð (Stjórn).

beboe, ás., byggja (= búa í eða á e-u): B. et Huus. Denne D er ikke beboet er óbyggð.

beboelig, ft. -e, e., (sem búið verður á eða í), byggilegur, byggjandi, sætilegur, sem verandi er í: Sætte et Huus i b. Stand.

Beboelighed, án ft., sk., það að vera beboelig.

Beboelse, án ft., sk., ábúð, íbúð; ívera: Dette Huus er ikke indrettet til B. En Egn uden Tegn til B.

Beboelsessted bústaður, bólstaður.

Beboer, ft. -e, kk., sá sem býr (á heima, er heimilisfastur) þar sem til er tekið: Husets Beboere. Her gjør Loven Forskjel paa Borgere og Beboere i et Land. (Þó er Indbygger tíðkanlegra, þar sem talað er um heil lönd eða borgir.)

bebreide, ós. 1, [forðum breide, líklega af bregða], finna að e-u við e-n, telja á, ávíta, ásaka, lá e-m e-ð: B. een noget. Hun bebreidede ham hans Utroskab. Jeg har i denne Sag intet at b. mig jeg get ekki ásakað mig um neitt í þessu efni. En bebreidende Mine.

Bebreidelse, ft. -r, sk., ásökun, átölur, ávítur: Gjøre een bittre Bebreidelser telja harðlega á e-n.

bebreve, ós. 1, brjefa, gera e-ð statt og stöðugt með því að færa það í skjal.

Bebrevelse, ft. -r, sk., það að bebreve, (brjefleg skuldbinding, skjal, o. s. frv.).

bebræmme = bræmme.

bebude, ás. 1, [boða], boða: B. eens Ankomst.

Bebudelse, ft. -r, sk., boðun.

bebygge, ás. 1, byggja (reisa bústað eða bústaði á e-m stað): B. en Plads. Man veed ikke naar Landet først blev bebygget hefur byggzt. Denne Egn er stærkt bebygget fjölbyggt.

Bebyggelse, sk., það að bebygge, (bygging, byggð, landnám).

bebyrde, ás. 1, (í óeiginl. merk.), leggja e-m byrði á (herðar), þyngja e-ð niður: Jeg vil ikke b. Dem dermed setja það upp á yður, mæða yður með því. B. sin Hukommelse. B. sin Samvittighed med Synd.

Bebyrdelse, sk., það að bebyrde.

Bed, ft. -e, kl., sáðreitur (í garði). Sb. Blomsterbed, Kaalbed, Salatbed, Urtebed.

Bed, ft. eins, sk., [bið], eiginl. dvöl, viðstaða, en er haft um það sem hestum er gefið meðan áð er: Give Hestene en B. (tuggu, eða þvíuml.) underveis. — b) (það sem er á milli biða), sú stund er maður ekur eða plægir hvíldarlaust: Vi kjørte fire Miil i een B. Vi har pleiet tre B. i Dag.

bedaare tæla, draga e-n á tálar, blekkja: Den Falskhed, hvormed Menneskene b. sig selv. Hun lod sig b. af hans Løfter.

bedaget, ft. bedagede, e., fjörgamall, kominn aðfótum fram: En b. Olding.

bede, ás. 1, [heita], (sjaldan haft), gelda: B. en Væder. — B) (lítt tíðkað, en vel hafandi í skáldskap), veiða (sb. svá beitu vér björnunna): B. en Hjort.

bede (har), h. s. 1, [ekki af biða, á d. bie, heldur eins og af biða, doka við, of bið], á, einnig hvíla hesta þegar verið er að plægja: B. i en Kro. Lade Hestene b. á hestunum.

bede, bad, bedet, ás. og h. s., [af biðja, ekki of beiða], 1) ás., a) með þolanda þess, er beðinn er, biðja: B. een om noget biðja e-n e-s. B. Gud om noget. — Líka bjóða e-m: B. Fremmede (Gjester). B. een til Bords (til Bryllup, til Fadder). B. een hen (ind) til sig. B. een ud paa sin Lystgaard. B. mange Folk sammen. — Einnig biðja = óska: B. een være velkommen biðja e-n (vera) velkominn. — b) (með þol. þess, er um er beðið): B. Godt over een biðja (óska) e-m góðs. B. Farvel kveðja e-n. — c) (með tveimur þolend.; þá merkir b.) fá e-ð fyrir bænastað: B. en Fange løs útvega bandingja lausn. B. sig fri for Straf þiggja sig undan hegningu. (í b. sig Lov af Skolen er orðasetningin öðruvísi.) — 2) h. s.: B. om Hjelp (om Almisse, om Naade) biðja sjer liðs (ölmusu, miskunar). B. for een (fornt: biðja fyrir e-m), biðja e-m vægðar (líknar). Han bad for sit Liv bað sjer lífs. — Einkum er bede haft sem h. s., þegar það er sama og vera á bæn, biðjast fyrir: Vaage og b. B. og synge Psalmer. B. til Gud. B. for en Syg taka til bæna. Vi kunne b. uden at bruge Ord; vi kunne bruge Ord uden at b. B. til noget óska eptir e-u. Agermanden beder ofte til Regn, medens den Reisende ønsker sig Solskin.

1. Bede, ft. -r, sk., [bede ós., A], sauður, geldingur (fornt).

2. Bede, ft. -r, sk., (eins konar ætijurt sem ræktuð er í görðum) *beta vulgaris.*

Bededag bænadagur (dagur sem lögskipaður er til bæna): Store B. kóngsbænadagur.

Bededagsansigt (óeiginl. og í gamni) ógnar mikill hátíðarsvipur.

Bedehuus bænhús (kapella).

Bedekjød sauðakjöt.

Bedeklokke bænaklukka (klukka sem hringt er til bæna).

Bedemand eins konar embættismaður (í borgum) sem hefur umsýslu við líkfylgdir og brúðkaup og fær burgun fyrir; (líklega kallaður Bedem. fyrir þá sök, að hann er látinn bjóða þeim, sem boðið er til líkfylgda eða í brúðkaupsveizlur; sb. bede 1, a).

Beden, án ft., sk., það að bede (bænagjörð, bæn).

Bederyg sauðarhryggur.

Bedeslag hvert af þeim 9 höggum sem hringd eru til bæna (á landsbyggðinni, morgun, kvöld og miðjan dag).

Bedested, [bede h. s.], staður þar sem áð er (sb. áfangastaður).

Bedesteg sauðakjötssteik.

Bedestol stúka sem maður biðst fyrir í.

Bedesøster kvennmaður sem allt af er á hænum til að sýna öðrum hvað hún sje guðhrædd.

Bedetime stund sem varið er til bænagjörðar.

Beding, ft. -er, sk., bakkastokkar. — 2) það sem akkerisstrengurinn er festur við þegar skip liggur um akkeri.

Bedrag, kl, svik: Paa B. í því skyni að svikja. Sb. Bedrageri.

bedrage, ás., svikja, vjela, tæla, blekkja, pretta, ginna: B. en Pige ved falske Løfter. — b) hafa af manni með svikum: B. een i Spil (i en Handel). B. een noget fra. B. een for noget. — c) blekkja = láta e-m missýnast, svikja e-n á sjer: Det Udvortes kan let b. (sb. opt er flagð í fögru skinni). Skinnet bedrager ofte ekki er allt sem sýnist. Deri har jeg bedraget mig mjer hefur missýnzt í því efni. — d) bregðast e-m: Han bedrages i sit Haab honum verður ekki að von sinni.

bedragelig, ft. -e, e., (um hluti), sviksamlegur, svikafullur: En b. Handlemaade. Bedrageligt Forhold. Bedrageligt (svikið, svikult) Arbeide. Bedragelige Lærdomme.

Bedrager, ft. -e, kk., (bæði só sem svikur aðra og sá sem lýgur til nafns síns til að blekkja), svikari, falsari.

Bedrageri, ft. -er, kl., svik, prettur, fals, tál.

bedragersk, ft. -e, e., a) (um lifandi verur), svikull, svikóttur, prettóttur, prettvís, hrekkvís. — b) (um orð og verk o. s. frv.), prettvíslegur, hrekkvíslegur, sviksamlegur, flærðarfullur.

Bedragerske, ft. -r, kvk., sú sem svikur eða lýgur til nafns síns til að blekkja.

bedre, miðstig, A) sem e. [= betri] af god; sjá god. — B) sem ao. [= betra f. betr] of godt og vel; sjá god og vel.

bedre, ás. 1, bæta, endurbæta, gjöra að e-u: Staaer Skibet ikke til at b. (D. L.). — B. paa en Muur (en Vei). B. paa Sæderne. — Den Syge bedres er í apturbata. Han begynder at bedres honum er farið að batna (skána). Det bedres med ham hver Dag honum batnar dag frá degi. Sb. komme sig. — b) bæta það sem maður hefur af gjört.

Bedrift, ft. -er, sk., 1) (ætíð í et.) þegar sagt er t. a. m.: Sidde i en stor B. hafa mikið um sig (undir, umleikis). — 2) (optast í ft.), verk sem mikið er í varið: Store (mandige) Bedrifter stórvirki, þrekvirki, afreksverk.

Bedring, án ft., sk., bati, apturbati: Den Syge er i B. — b) batnaður: Bod og B.

Bedringstegn batamerki.

bedrive, ás., (öldungis sömu merk. og) fremja; (bæði þessi orð eru optast nær höfð um illt og ekki, nema í fornlegri merk., um gott): B. (drýgja) Hor. B. Mord. (B. Manddoms Gjerninger er forneskjulegt.)

bedrøve, ás. 1, hryggja, hrella, angra, vinna e-m harm: B. sine Forældre. Bedrøves over noget hryggjast af e-u. — Bedrøvet óglaður, stúrinn, angurvær, sorgbitinn: Være bedrøvet over noget setja e-ð fyrir sig, o. s. frv.

bedrøvelig, ft. -e, e., a) (sem veldur harmi), hryggilegur: En b. Tidende (aumar frjettir). — b) (sem lýsir harmi), stúrinn á að sjá: Et bedrøveligt Ansigt (Udseende).

Bedrøvelighed, sk., það að vera bedrøvelig.

Bedrøvelse, án ft., sk., harmur, sorg, angur: Have megen Sorg og B. Være een til B.

bedse sjá beidse.

bedst [= bezt-r og bezt, f. betst-r og betst], efsta stig af god og vel; sjá þau orð.

Bedste, án ft., kl., [í fyrstu ekki annað enn hvorugkyn í et., með greininum, af bedst], hagur, hagsmunir, not: See paa sit eget (paa det almindelige) B. Til B. for ham selv sjálfum honum til góðs. Lægge sig noget til B. græða. Have noget til B. hafa meira enn maður þarf á að halda; en have een til B. gera gabb að e-m.

Bedstefader afi.

Bedsteforældre afi og amma.

Bedstemoder amma.

bedugge, ás., döggva (vökva, væta).

Beduggelse, sk., það að bedugge.

bedække þekja, hylja, skýla e-u: B. Roden paa et Træ med Jord. Havnen var bedækket med (alþakin af) Skibe. Himmelen var bedækket med Skyer alskýjaður. — b) (um herskap), skýla (hlífa) e-u, vera e-u til varnar: Den bedækkede Vei i en Fæstning. B. Fløiene med Rytteri. Handelsflaaden var bedækket af to Krigsskibe. — 2) fylja (um hesta): Lade Hoppen b. af Hingsten.

Bedækkelse, ft. -r, sk., það að bedække.

Bedækning, sk., = Bedækkelse. — b) vörn, skjól, fylgd til varnar: En B. af

Rytteri. Seile under B. af et Krigsſkib. — 2) það að bedække 2.

bedømme, ás., leggja dóm á: B. en Sag (et Arbeide).

Bedømmelse, n. -r, sk., dómur um e-ð.

Bedømmer, n. -e, kk., sá sem leggur dóm á e-ð.

bedøve gera e-n tilfinningarlausan: Skrækken bedøvede ham hann varð öldungis utan við sig af hræðslu. Bedøvende (narkotiske) Midler. En bedøvende Damp (Lugt).

Bedøvelse, sk., það að bedøve; líka það að vera utan við sig.

*Beefsteg (líka ritað Beufsteg) eins konar uxakjötssteik.

*Beelzebub, kk., (eiginl. flugnahöfðingi, þ. e.) djöflahöfðingi, yfirdjöfull. — 2) eins konar apynja.

Been, n. eins (þó finnst Bene), kl., [bein], 1) bein: Gjøre noget af B. smíða e-ð úr beini. Sb. Armbeen, Laarbeen. — 2) fótleggur (fóturinn frá hnjáliði og til ökla); þó merkir Been í tali opt allan fótinn fyrir neðan hnje, að skúfælinum ekki undanskildum. — b) fótur á dauðum hlut: Sætte B. under en Stol. Bordet hviler paa fire B. En Potte med tre B. (þrífættur). — c) álma á sirkli.

Beenaare beinæð.

beenagtig, n. -e, e., líkur beini, beinkynjaður.

Beenborer, n. -e, sk., beinbor; heilabor (= Trepan).

Beenbrud fótbrot; lærbrot.

Beenbygning beinalag í manni eða dýri.

Beendreier sá sem renair ýmsa hluti úr beini.

Beenedder beinátu.

Beengjødning jarðar-áburður af möldum beinum.

beenhaard beinaharður, harður eins og bein.

Beenhinde beinhimna (*periosteum*).

Beenhoved hnútukollur.

Beenhug beinfast sár.

beenhugget, [sb. hugge], beinfastur (höggvinn til beins): B. Saar.

Beenhule hnútuskál, (sb. augnakall).

Beenhuus lítið hús í kirkjugarði sem grúptur er lúlinn í.

Beenhævelse þroti í fæti (fótum), fótabólga.

Beenklæder, einungis í ft., það sem nú er kallað buxur á Íslandi; brækur er betra orð, en er nú óvíða haft. (Beenklæder á d. er ekki eins klúrt og Buxer.)

Beenknude hnútur á beini.

Beenkræft = Beenedder.

Beenkul kol af beinum.

Beenliim lím búið til úr beinum.

Beenlære beinafræði.

beenløs beinlaus, beinalaus.

Beenmølle beinamylna (sem bein eru möluð í til áburðar).

Beenpibe mergjarhol.

Beenplade beinflaga; sjá Plade.

Beenrad beinagrind.

Beenrør holið innan í beinunum.

Beensalve smyrsli við beinsár.

Beenshug beinshögg (högg sem getið er með beini; annað enn Beenhug).

Beenskade fótarmeia.

Beenskinne bryuhosa.

Beensort, án ft., kl., svartur litur búinn til úr beinum (einkum úr fílabeinum).

Beensplint beinflís.

Beenstykke kjötstykki sem bein er í.

Beenstøv bein sem eru möluð að dupti.

Beensuppe soð af beinum.

Beensygdom sjúkdómur í beinum.

Beentang eins konar töng sem yfirsetukonur hafa.

Beenudvæxt = Beenknude.

Beenved beinviður *euonymus europaeus.*

Beenvæsen efni það sem er í beinum.

Beenvæv frauð í leggjar-enda (annað enn frauður og hor í legg).

Beenvæxt beinavöxtur; beinalögun.

beesk, n. beske, e., [beisk-r], beiskur, rammur, ópægilegur á bragðið: B. som Galde. Have en b. Smag i Munden hafa óbragð (remmubragð) í munninum.

Beeskhed, án ft., sk., beiskja, remma.

*Beest (líka ritað Bæst), n. Bester, kl., (ekki haft nema í almugalegu tali), skepna: Mennesker og Bester. Leve (boe) som et B. eins og skynlaus skepna (skynlaust kvikindi). — b) (á landsbyggðinni og í D. L.), klár, jálkur, meri þegar það er líka um hesta.

*Beet, n. Beter, sk., (í spilum), það sem manni er skrifað í óhag þegar maður fær ekki nógu marga slagi: Sætte en B. Vinde en B. Spille Beterne ud. — II) sem e., beet, þegar sagt er: Blive beet. Gjøre een beet.

befale, ás. 1, (þó er stundum haft befoel í þát. t.), [sb. fela, befehlen á þ.], fela e-m e-ð á hendur: B. sig Gud i Vold fela sig guði á vald. B. sin Sag i Guds Haand leggja sitt ráð í guðs hönd. — b) skipa, bjóða: Han befalede i Stedet for at bede. Det befales i Loven. Kongen befalede, at. — Gjøre en befalet Gjerning. Befalet Sag (í lögum), mál sem málaflutningsmaður á að flytja eptir skipun yfirvaldanna. Hvad befaler? (kurteislegt orðatiltæki, þegar maður hefur ekki heyrt, hvað annar hefur sagt) hvað sögðuð þjer? — c) b. over noget ráða (vera) fyrir e-u: B. over en Hær (en Flaade). Han har ikke over mig at befale jeg er honum í engu háður.

Befaling, n. -er, sk., (fyrrum Befalning), umboð: Give een noget i B. Faae noget i B. — b) boð, skipun: En kongelig B. — c) völd, ráð, forráð, yfirráð, α) (um herforráð): Den høieste B. i en Krigshær forráð fyrir öllu liðinu. — β) um önnur forráð, t. a. m. þegar sagt er í lögum: Have B. hafa völd af konungs hendi, vera settur yfir e-ð af konungi (sb. hafa konungssýslu).

Befalingsmand a) sá sem ræður fyrir liði, hershöfðingi, herforingi, oddviti, o. s. frv. — b) sýslumaður konungs (í fornri merk.); líka um Stiftamtmænd og Amtmænd.

befare, ás., fara yfir, ferðast um: B. en Landstrækning (en Kyst, et Bjerg, et Hav). — b) befaren vanur sjóferðum: En befaren (heel befaren) Matros. — 2) b. en Grube (et Bjergværk) rannsaka nám.

befarelig, n. -e, e., fær (sem farinn verður): Et befareligt Hav.

Befarenhed, án ft., sk., það að vera befaren; sjá befare 1, b.

Befaring, n. -er, sk., [sjá befare 2], rannsókn náma.

befatte í orðatiltækinu b. sig med noget skipta sjer af e-u, fást (eiga) við e-ð: B. sig med uvedkommende Ting. B. sig med at skrive Breve.

befeide, ás. 1, herja á e-n (e-ð). Sjá bekrige, bekæmpe.

befile sverfa utan af e-u, skerða e-ð með því að sverfa það: B. en Mynt.

befinde standa e-n að e-u: Blive befunden i noget verða staðinn (fundinn, sannur, uppvís) að e-u. — b) reyna, komast að raun um: Jeg har befundet det saaledes, som det var angivet. Regningen befandtes rigtig. — c) halda, virða, meta: Hvis Rederne befinde raadeligst það sem þeir meta ráðlegast, það sem þeim þykir ráðlegast, (D. L.). — 2) b. sig vera, a) vera staddur. — b) vera á sig kominn: Jeg befinder (líka finder) mig vel tilfreds i min nye Bolig. Den Syge befinder sig bedre honum líður betur, honum er farið að skána.

Befindende, án ft., kl., (í lögum), raun sem á e-u verður (það hvernig e-t mál reynist þegar það er rannsakað): Efter B. eða efter Sagens B. eptir málavöxtum. — 2) ástand, eink. heilsufar: Hendes B. har forværret sig henni hefur versnað (þyngt). Sporge til eens B. spyrja hvernig manni líði.

befingre, ás. 1, (í tali), hafa hendur á öllu (um handræði).

Befippelse, sk., (haft í tali), það að vera befippet.

befippet, n. befippede, e., [sb. fipa], (í tali): Han blev b. það kom fát á hann.

befitte = tilsitte, en sjaldnar haft.

beflitte, ás. 1, [Flid], kostgæfa (ástunda, leggja stund á, leggja hug á, gera sjer far um, kappkosta): B. sig paa Dyd (paa gode Sæder, paa det Gode, paa at være een til Behag).

befolke, ás. 1, byggja (setja fólk í): Amerika menes at være først befolket fra Asien. Et vel befolket (fjölbyggt) Land; sjá folkerig.

Befolkning, n. -er, sk., bygging lands, (landnám). — 2) fólkstala: Landet har en ringe B. (er fólkfátt) i Forhold til dets Størrelse.

beforderlig, n. -e, e.,=behjelpelig.

befordre flytja e-ð (koma e-u) til e-s staðar: B. en Reisende (et Brev, en Pakke). — 2) óeiginl. a) styrkja e-n (veita e-m lið) til e-s: B. een til sin Ret (D. L.). — b) veita e-m embætti: Han har længe søgt; men er endnu ikke befordret. Han søger om at befordres til et bedre Kald. — c) flýta (flýta fyrir) e-u, styðja (styðja að e-u): B. eens Død (Undergang). B. (auka) Forbedelsen. B. et nyttigt Foretagende.

Befordrer, n. -e, kk., sá sem befordrer.

Befordring, sk., flutningur (sb. befordre 1). — b) það sem maður ferðast (eða er fluttur) á (einkanl. um vagna með eykjum fyrir): Reise med egen B. Have fri B. En god (beqvem) B. (Sb. fararskjóti = hestur og farkostur = skip.) — c) embættis-veiting: Søge om B. (beiðast embættis). Faae Løfte om B. til et Embede. — d) aðstoð, liðveizla.

Befordringsmaade flutningsháttur; háttur á að komast áfram til embætta eða í embættum.

Befordringsmiddel það sem haft er til að flytja ferðamenn (brjef, sendingar) í eða á, t. a. m. vagnar með eykjum, gufuvagnar, skip; vegur til að komast áfram til embætta eða í embætti.

Befordringsret rjettur til að láta flytja sig; rjettur til embættis-veitingar.

Befordringsvei vegur til að komast áfram til embætta eða í embættum.

Befordringsvæsen allur ferðamanna (brjefa, sendinga) flutningur í e-u landi.

befragte taka skip til leigu (undir varning): B. et Skib.

Befragtelse, sk., það að befragte.

Befragter, n. -e, kk., sá sem tekur skip til leigu (undir varning).

befrie frelsa, leysa: B. een af (leysa e-n úr) Fangenskab (sb. udfrie). B. (leysa) et Land fra (undan) fremmedt Aag (fra en Tyran). Man befrier een af hans Fængsel; men man redder ham fra at komme der. — b) = fritage, forskaane: dette Land har i lang Tid været befriet for Krig. Byen blev paa et Aar befriet for Skat.

Befrielse, sk., frelsi (frelsun), lausn.

Dragerløn burðarkaup.
Dragerpenge, n., = Dragerløn.
Dragersele ljetti.
Dragerstang burðarstöng.
draget, e., [sb. drage einkum I, A, 3], hryggjóttur (um nautgrip). Sb. rødbraget, fortdraget; sömul. blakdragen.
Dragkiste dragkista.
Dragknude lykkja. Sb. Lykke (n. -r), Trækkeknude.
Dragkone, [sjá drage I, A, 3], (fyrrum), kona sem tjaldaði hús.
*Dragoman, n -er, kk., tyrkneskur túlkur.
*Dragon, n. -er, kk., eins konar ljettbúinn riddari sem í fyrstu var ætlaður til að berjast ýmist á hesti eða fæti.
*Dragonhest hestur handa þessa konar riddara.
Dragplaster dragplástur. Sb. Trækplaster.
Dragslaa partur af plóg. Sb. Klove.
Dragt, n. -er, sk., byrði: En D. Brænde. — Give een en D. Prygl láberja e-n. — b) fatnaður, klæðnbúnaður, gervi (furnt): En let D. Sb. Klædedragt.
Dragtmaler pentari (piktur) sem dregur upp klæðabúnað.
Dragtmalning sú list að draga upp klæðabúnað.
dragtviis, ao., í (eptir) byrðum: Betale Bærerne d. fyrir hverja ferð.
Dragtøi = Seletøi.
Dragvod drag-(dráttar-)net.
Dram, n. -me, sk., staup (það sem er í staupi): Tage sig en D.
*Drama, n. Dramer, kl., (elgint. athöfn, starf); sjónarleikur, einkum alvarlega efnis og þó án hörmulegra afdrifa.
*dramatisere, ás. 1, gera sjónarleik úr e-n.
*dramatisk, n. -e, e., sem lýtur að sjónarleik: D. Konst sjónarleikn-mennt.
*Dramaturg, n. -er, kk., sá sem hefur vit á (eða kennir) sjónarleiknmennt.
*Dramaturgie, sk., sjónarleikafræði.
*dramaturgisk, n. -e, e., sem lýtur að sjónarleika-fræði.
Drank, án n, sk., = Bærme b: Fodre Creaturer med D. Sb. Drav.
Dranker, n. -e, kk., drykkjurútur, drykkjumaðar, (sb. vínsvelgur).
*drapere, ás. 1, koma fötunum fyrir á e-n (sjer í lagi á skript).
*Draperie, kl., lag á fötum (sjer í lagi á skript) eða á tjöldum í húsi.
*Drapering, sk., = Draperie.
Dras, kl., (úrelt eða mjög sjaldh.), það sem úr fellur þegar verið er að þriskja korn.
drasle (er), h. s. 1, [sb. Dras; sömul. drasla, dröslu], hrynja: D. ned.
*drastisk, n. -e, e., (um lækuisdóma), áhrifamikill.
Drat, sk., (í tali og sjaldh.), það sem lendir á einum stað af því sem hrynur niður hjer og hvar.
dratfingret, n. -fingrede, e., (í tali), sem glopnar öllu niður.
dratte (er), h. s. 1, [sb. drattn], (í tali), detta: Hun lod det d. paa Gulvet glopraði því niður. — $\beta$) hrynja (smátt): Der d. mange Æbler ned.
dratvorn, n. -e, e., (í tali), = dratfingret.
Drav, kl., [draf], draf (eptirslöðvar af öli eða brennivíni): Soen drømmer om D. og Kjerlingen om sin Krogstav (orðskv.).
Dravels, eig., (úrelt), ótætis, ólundar, ógerðar: D. Folk skríll, hyski. D. Snak saurugt hjal, kläm.
Dravkar drafker.
dravmæsket, [sb. mæske], alinn á drafi.
Dravtrug draftrog.
dreie, ás. 1, snúa e-u: D. et Hjul. D. noget rundt (í hring, í snarkringlu). D. sig om paa Hælen snúa sjer í snarkringlu. Jorden dreier sig (snýst) om sin Axe. Fløien dreier sig efter Vinden. Vinden har dreiet sig mod Nord snúið sjer í norður. D. (snúa við) en Vogn. — Óeiginl.: Han forstaaer at d. sine Ord maðurinn hefur tungur tvær, og talar sitt með hvorri. D. en Sag til sin Fordeel. Samtalen dreiede sig om (það var verið að tala um) denne Tildragelse. Spørgsmaalet dreiede sig kun derom það valt ekki á öðru. — b) renna (e-ð í rennismiðju): D. noget af Been (Horn). D. i Elfenbeen (Træ) renna fílabein (trje). Dreiet Arbeide það sem rennt er, rennismiði (Björn).
Dreiebro brú sem vikið verður til hliðar svo að skip komist í gegnum.
Dreiebænk = Dreierbænk, en sjaldh.
Dreiejern rennijárn.
Dreiekonst sú kunnátta að geta rennt.
Dreiel (eða Dreil), n. -er (um ýmsar tegundir), kl., eins konar þykkur rósavefnaður úr líni (sem einkanl. er hafður í borðdúka, handklæði, og þviuml.): En Dreiels Dug. Dreiels Haandklæder.
Dreielad rennismiðja.
dreielig, n. -e, e., sem snúið verður.
Dreien, án n., sk., það að dreie.
Dreier, n. -e, kk., rennari, rennismiður. Sb. Konstdreier, Beendreier, Blokkedreier, Rokkedreier.
Dreierbænk = Dreielad.
Dreierhaandværk rennara-iðu.
Dreierlære kennsla (nám) hjá rennismið: Sætte en Dreng i D.
Dreiermester meistari í rennara-iðn.
Dreiersvend fullnumi í rennara-iðn.
Dreil sjá Dreiel.
Dreining, n. -er, sk., snúningur.
Dreng, n. -e, kk., [dreng-r], (drengur), a) piltur, sveinn (fornlegt; sb. smásveinn, piltungur), $\alpha$) (um kynferði): Han har to Drenge og een Pige. — $\beta$) (um aldur, yngri enn 18 vetra): Han vil gifte sig, og er endnu kun en D. og er ekki kominn af barnsaldri. — Líka um aldur og stöðu, ljettadrengur: Han holder Karle og en D. paa Gaarden. — b) kenningarsveinn hjá iðnaðarmanni eða kaupmanni. Sb. Læredreng, Haandværksdreng, Kræmmerdreng.
Drengeaar, n, æsku-ár, kennslu-ár (sb. Dreng b).
drengeagtig, n. -e, e., ungæðislegur; strákalegur.
Drengealder sá aldur meðan maður er drengur.
Drengearbeide unglingavinna.
Drengebarn sveinbarn, piltur.
Drengehue húa handa pilti.
Drengekaadhed strákaleg keskni.
Drengekammer klefi sem ljettapiltar eru í. Gagnstætt: Karlekammer, Pigekammer.
Drengeleg leikur unglinga.
Drengeskole skóli handa piltum. Gagnstætt: Pigeskole.
Drengestreg strákapör, strákskapur.
Drengeværk líkt og Børneværk.
drenke, ás. 1, maka sig við blanda fuglinn (um steggja og blika).
Drenkning, sk., það að drenke. — b) unga-efni (í eggi).
*dressere, ás. 1, venja (t. a. m. hunda), temja (t. a. m. hesta), o. s. frv.
*Dressur, sk., það að dressere.
Drev, n. eins, kl., [drif], hjól í margbrotinni vjel, einkanl. aðalhjólið sem snýr hinum.
Drevstaal (líka Drivstaal) eins konar smíðað stál.
Drift, sk., [dript], 1) án fl., (eiginl. rekstur, þ. e.) gangur, hreifing: Hjulet er i D. snýst. Sætte noget i D. koma ferð á e-ð, eða þviuml. — $\beta$) óeiginl.: Sagen (Arbeidet) er i fuld D. það er komið á góðan rek-spöl. Det er ikke endnu kommet ret i D. ekki komið meir enn svo á rekspölinn enn þá. Han er i fuld D. med at bygge hann er að húsa í óða önnum. — Meðferð, notkun: Grubens (Fabrikkens) D. — Sjer í lagi um jarðyrkju, rækt, ræktun: Gaardens D. Jordens rette D. rjett meðferð á jörðinni. Indtage en Ager til D. Denne Ager er i D. Sb. Vexeldrift. — Sidde i en stor D. hafa mikið um sig. Sb. Næringsdrift. — b) framkvæmd, framtak, framtakssemi, atorka, atorkusemi: Der er ingen ret D. hos ham. Sb. Driftighed. — 2) með -er í fl., a) rekstur (fjenaður sem rekinn er í einu): En D. Stude (Faar). — b) fýsn, girnd: D. til Virksomhed (Bevægelse, Hvile). Sandselige (selskabelige, physiske, aandelige) Drifter. Sb. Kjønsdrift. — Af egen D. sjálfkrafa.
drifte, ás. 1, [sb. drofte, sem er reyndar sama orð í óeiginl. merk.], vinza eða sálda korn.
Driftefæ búnfje: Den, som hitter D. (D. L.).
Driftefold kornsáld.
Driftetrug trog til að vinza í korn.
Drifteværk sáldfæri í mylnu.
driftig, n. -e, e., [sb. Drift 1, b], (drifandi?), atorkusamur, framtakssamur: En d. og vindskibelig Mand.
Driftighed, án fl., sk., það að vera driftig. Sb. Drift 1, b.
*Driftscapital fje (peningar) sem varið er til e-r framkvæmdar sem arður er að.
Driftsjord jörð sem verið er að rækta.
Driftsmaade meðferð á jörðu, ræktunar-aðferð.
Driftstid ræktunartími.
Drik, sk., [sb. sögn. drekka fyrir drikka], a) það að drekka, $\alpha$) (naumast í fl.), drykkur (Fms. XI, 233), teygur: Han drak det ud i een D. — $\beta$) án fl. og greinis, drykkjuskapur: Slaae sig til D. fara að drekka = verða drykkjumaður. Forfalde til D. hætta að geta stillt sig um að drekka; sb. verða ófær (ótækur) drykkjumaður. Ødelægge sig ved D. og Spil. — b) það sem drukkið er, $\alpha$) (varla í fl.), teygur: En D. Vand (Øl). — $\beta$) með -ke í n., drykkur (það sem haft er til drykkjar; sb. ölföng, vínföng): En god (behagelig, sund, giftig) D. Stærke Drikke áfengur drykkur. — Sb Elskovsdrik, Sovedrik; Laxeerdrik, Lægedrik.
drikfældig, n. -e, e., hneigður til ofdrykkju, sem er drykkjumaður.
Drikfældighed, án fl., sk., drykkjuskapur.
Drikke, nafn, (ætíð án greinis), drykkur (það sem drukkið er): Give een baade Mad og D. bæði mat og drykk. Hunden (Fuglen) har ikke faaet D. (ekki fengið neina vökvun, eða þviuml.).
drikke, drak, drukken, ás., [drekka fyrir drikka], drekka, a) með þol., $\alpha$) d. Vand (Melk). Der er ti Flasker tilovers, som ikke bleve drukne. D. sig et Glas Øl fá sjer eitt glas af öli. D. sit Glas ud ljúka úr glasinu sínu. — D. Skaaler drekka minni. Din (hans) Skaal blev drukken. — D. noget i sig, haft óeiginl., merkir verða að hafa e-ð (eins og annað hundsbit). — $\beta$) sólunda e-u í drykkjuskap: D. sine Penge op i Brændeviin. Hvad han fortjener, drikker han op i Kroen.

— γ) koma e-u (e-m) á e-n stað eða í e-t ástand með drykkjuskap: D. Sorgen bort. D. sig en Tæring paa Halsen (drekka þangað til maður fær uppdráttarsýki). D. sig en Sygdom til (drekka svo, að maður verði veikur). De drak ham under Bordet þeir drukku þangað til hann valt út af. D. sig ihjel drekka sjer bana. D. sig fattig. D. sig drukken. D. een fuld. — δ) láta e-ð (sem ekki er áður) verða með því að drekka: D. sig en Runs = d. sig drukken. — ε) tryggja (staðfesta) e-ð með drykk: D. Jaord. D. Lidkjøb. D. Duus (Broderskab) med een. — b) án þol., ætíð um áfengan drykk, α) vi have før drukket sammen. D. over Tersten eða over sin Terst taka sjer heldur mikið neðan í því. D. tæt drekka fast. — Jeg har ham mistænkt for at han drikker mjer er grunur á að hann drekki (sb. Tiberius var undirhyggjumaðr mikill ok drakk mjök). D. i Smug drekka í laumi. — β) d. een til drekka e-m til (Fms. III, 185), drekka til e-s (Eg. 552); sb. drekkast á. — 2) ha. l. t. haft sem e., drukken, drukkinn, ölvaður, (sb. svinkaður): D. sig drukken. — Orðskv.: Drukken Mund taler af Hjertens Grund öl segir allan vilja. — β) óeiginl., frá sjer numinn: Drukken af Glæde. Sb. glædedrukken.

Drikkebæger = Bæger a.

Drikkegilde drykkja (drykkjuveizla).

Drikkeglas glas til að drekka úr.

Drikkekar drykkjarker.

Drikkelag drykkja: I et D. við drykkju.

drikkelig, ft. -e, e., drekkandi (drekkanlegur): Drikkeligt Vand.

Drikken, sk., það að drikke.

Drikkepenge, ft., þóknun eða hugnun í peningum.

Drikkeskilling = Drikkepenge, en hversdagslegra.

Drikkevare drykkur (það sem haft er til drykkjar), ölföng, vinföng.

Drikkevise drykkjuvísur.

Drikoffer drykkjarfórn, dreypifórn. Gagnstætt: Madoffer, Røgoffer.

Dril, ft. -le, sk., [sb. drili], rennibor til að bora með málm.

1. drille, ás. 1, bora (með Dril): D. Huller i Jern.

2. drille, ás. 1, erta, stríða e-m: Man maa ikke d. Børn. D. een med noget erta e-n á e-u, stríða e-m með e-u.

drille, h. s. 1, (úrelt), nema (venja sig við) aðferð í orustum: Lære at d. med Kanoner.

Driller, ft. -e, kk., sá sem ertir.

Drilleri, ft. -er, kl., ertni, ertingar.

driste, ás. og h. s. 1, a) ás., d. sig til dirfast, t. a. m. jeg dristede mig ikke til at bede derom. — b) h. s. (har), α) (öldungis úrelt), d. noget þora e-ð, dirfast e-s. — β) (næstum úrelt), treysta: D. paa sin Styrke.

dristig, ft. -e, e., djarfur, áræðinn, áræðisgóður: Dertil er han ikke d. nok hann hefur ekki áræði í sjer til þess. En d. (bíræfinn) Tyv. — β) djarflegur (um verk): Et dristigt Forsøg. En d. Gjerning. En d. Usandhed (ófeilni í því að ljúga). — sb. behjertet, bjærv, forvoven, kjæk, modig, uforfærdet, uforsagt; dumdristig.

Dristighed, án ft., sk., dirfska, dirfð, þor, áræði.

Drivbænk (líka Drivebænk) gróðrar-stía. Sb. Blomsterbænk.

Drive, ft. -r, sk., [drifn], haugur sem veður hefur feykt saman, skafl. Sb. Sandbrive, Snebrive.

drive, drev, dreven, ás. og h. s., [drífa], optast nær reka, A) ás., 1) eiginl., a) reka eða slá með hamri eða sleggju, α) með þol.: D. et Søm ind i en Bjælke. D. en Pæl i Jorden. — D. Planker sammen. D. et Gulv sammen. — β) án þol.: D. efter (slá seinustu höggin) med en Rødde. D. til slá af öllu afli. — b) drífa (*caelare*): Drevet Arbeide (sem er slegið út í bungur öðrumegin). — c) keyra, þeyta e-u, (sb. Gisli tók knöttinn á skeiði ok rekr á milli herða Þorgr.): D. en Bold op i Luften. — d) ýta e-u áfram með því að leggjast (eða láta e-ð leggjast) á það: D. Vandet op ved Maskiner ná vatninu. Vandet driver (snýr) Møllehjulet. Maskiner, som drives ved Dampkraft sem snúið er með gufuafli. Skyerne drives af Vinden (sb. það er far á skýjunum). En drivende Vind blásandi byr. — e) reka skepnur, stökkva e-u eitthvað: D. en Flok Qvæg (Faar). D. Qvæget ud. D. (líka jage) Vildt op; sb. reise (Vildt). D. Fjenden paa Flugt á flótta. D. Fjenden tilbage. D. een ud af Huset (sb. flæma, hrekja). — f) um læknisdóma: Et Lægemiddel, som driver Sveden gerir svita. — D. Udslæt bort eyða útbrotum; sb. fordrive. — g) hálf-óeiginl., neyða e-ð til vaxtar og viðgangs, α) d. Jorden for stærkt (ætla járðinni ekki af, þ. e. láta hana sprettu um of). Sb. d. en Jord op = opdrive en Jord. — β) sjer í lagi, hleypa upp plöntum með yl: D. Blomster (Træer, Frugter, o. s frv.). Sb. Varmen driver Væxterne frem. — 2) óeiginl., a) reka, neyða, knýja, a. s. frv., α) með þol.: D. een til noget ved Trudsler hræða e-n til e-s. Han arbeider kun naar Nøden driver ham dertil hann gerir ekki neitt, nema þegar neyðin þrengir honum til þess. Lysten driver ham dertil hann (dauð-) langar til þess, (sb. geta ekki stillt sig um e-ð, geta ekki á sjer setið). D. en Løgn i een (í tali) reka e-ð (tvöfalt) ofan í e-n. — Den Sag maa drives mere það verður að reka meir á eptir (herða betur á) því máli. — D. noget igjennem koma e-u fram. — D. Skatter (o. s. frv.) ind = inddrive Skatter (o. s. frv.). D. Penge (a. s. frv.) op = opdrive Penge (a. s. frv.). — D. noget op (hleypa e-u upp) paa en Auction; sb. opdrive. — β) án þol.: D. paa een reka á eptir e-m. Han driver paa (er áfram um), at det skal være færdigt om otte Dage. — b) d. noget vidt fara (komast) langt í e-u. Hvorvidt mon han vil d. sin Ondskab? D. Spøg for vidt verða of svæsinn, þegar maður gerir að gamni sínu. D. Strenghed for vidt verða of harður. D. det vidt i noget komast vel niður í e-u, verða góður í e-u. — c) líkt og iðka, α) fást við: D. Handel reka kaupskap, verzla. D. et Haandværk (hafa e-n iðnað sjer til bjargræðis eða ábata). D. Agerbrug yrkja (rækta) jörðina, vera jarðyrkjumaður. Han driver selv sin Avling hann yrkir sjálfur jörðina sína. D. en Jord godt sitja vel jörð. D. en Gaard búa á jörð. · β) hafa e-ð í frammi: D. Spot med noget hæðast (hæða, draga dár) að e-u. D. Spøg (Spil) med noget skopast (leika sjer) að e-u. — Han har drevet det i mange Aar hann hefur legið á því lúa-laginu í mörg ár. — d) ha. l. t. dreven út-smoginn, leikinn: Dreven i noget. En dreven Skjelm húðarskelmir; sb. gjennemdreven. — B) h. s., 1) (er): Skibet driver for Strøm og Vind reiðir fyrir vindi. Vraget driver om paa Havet reiðir um haf innan. Der er drevet et Vrag paa Stranden það er rekið skip. Dette Tømmer er kommet drivende i Land (til Landet) er rekið af sjó. Skyerne d. med Vinden (sb. A, 1, d). — β) d. over líða yfir, t. a. m. Uveiret (Regnen) driver nok over. — γ) ha. nút. t. drivende er haft í tali í sömu merk. og skafið, skont: Det gaaer drivende. — 2) (har), a) slangra: Vi drev et Par Timer omkring paa Gaderne vorum að slangra. Han gaaer og driver den hele Dag hann gerir ekki annað liðlangan daginn, enn slæpast til og frá. — b) [sb. drifinn, t. a. m. í orðatiltæk. blóði drifinn], lekn: Sveden drev (lak, rann) ned ad min Pande. Vandet drev ned ad hans Klæder. Líka hendes Klæder drev af Regnen það rann niður úr fötunum hennar.

Drivebro = Flydebro.

Drivebænk sjá Drivbænk.

Drivefjæder það sem knýr e-n til e-s, (sb. hvöt): Sandselige Drivefjædre. Attraa efter Ære, denne D. til store Handlinger.

Drivegarn (líka Drivgarn) net sem látið er reka ásamt skipinu: De Fiskerier, som skee ved D. om Natten.

Drivekraft afl sem ýtir e-u áfram (eða snýr e-u).

Drivekolle = Rødde.

Drivemiddel, [sb. drive A, 1, f], læknisdómur sem eykur t. a. m. útrás þvags eða svita úr líkamanum.

Driven, sk., það að drive.

Driver, ft. -e, kk., sá sem rekur fjenað: Leie een til D. kaupa mann til að reka fyrir sig. Sb. Qvægdriver, Studedriver, Oxendriver. — b) (í tali) = Dagdriver.

Driveri, kl., a) með -er í ft., ræktun með yl; gróðrarstía: Anlægge (forestaae) et D. Driverierne forsømmes i denne Have. — b) án ft., (í tali), = Dagdriveri. Sb. Lediggang.

Driverum svigrúm skips er liggur um akkeri eða dregur það upp.

Drivevægt þungi sem er hafður til að snúa e-u.

Drivgarn sjá Drivegarn.

Drivhjul hjól sem kemur hreifingu á e-ð. — b) óeiginl., það (sá) sem framkvæmir e-ð, orsök, undirrót, forsprakki, o. s. frv.

Drivhuus jurta-baðstofa.

Driviis haf-ís.

Drivmuur múr sem aldintrje eru gróðursett við á móti sólu.

Drivning, sk., = Driven, en sjaldnar haft: Ildens D. (aukning) i en Smelteovn.

Drivsand laus sjóarsandur.

Drivsky ský sem er á hraðri ferð.

Drivstaal sjá Drevstaal.

Drivtømmer rekaviður.

drivvaad, [sb. drive B, 2, b], rennvotur.

Drivværk smiðvjel (þar sem hvað ýtir eða snýr öðru): Til Alt optænkes D., for at spare Menneskehænder. — Óeiginl.: Det hele indre D. i Menneskelivet hugir mannanna, sem eru áþekkir margbrotinni smiðvjel.

Drog, ft. eins, kl., [sb dróg], ónytjungur, vesalmenni.

*Droguerie, kl., jurtir og ótilbúnir læknisdómar og litir a. s. frv.

*Droguist, ft. -er, kk., sá sem hefur Droguerie til sölu.

*Dromedar, ft. -er, sk., (eins konar úlfaldi) *camelus dromedarius*.

Drone, ft. -r, sk., eins konar hýfluga.

Dronning, ft. -er, kvk., [drottning], drottning: Kongen og Dronningen konungur og drottning. — Hun var Festens D. veizlan var gerð til sæmdar við hana.

dronninglig, ft. -e, e., (sjaldh.), drottningarlegur.

*Droschke, ft. -r, sk., eins konar vagn.

**Drossel,** ft. **Drosler,** sk., þröstur *turdus.*

**Drost,** ft. -er, kk., dróttseti. Sb. **Rigsdrost, Landdrost.**

**Drot,** ft. -ter, kk., [sb. drottinn], drottinn (sem stjórnandi), allvaldur, bragningur, buðlungur, döglingur, fylkir, gramur, hari, hildingur, hilmir, jöfur, landreki, lofðungur, mildingur, mæringur, ræsir, siklingur, sjóli, skilfingur, skjöldungur, tiggi, þengill, þjóðan, vísi (betra enn visir), öðlingur, a. s. frv.: Dyrt er Drottens Ord dýrt er drottins orðið (orðskv.). — í **Jorddrot** hefur D. hina upphaflegu merk.

**Dru,** sk., víndreggjar.

**Drue,** ft. -r, sk., vínberjaþöngull: Viinstokken begynder at sætte Druer er farinn að fá ber. Torrede Druer; sb. **Rosin.** — b) hnappur á fallbissu-enda.

**Drueblod** (skáldl.) veig (vín).

**Druebrændeviin** vínberja-brennivín.

**Druehals** hálsinn á milli fallbissuhnappsins og fallbissunnar sjálfrar.

**Druekam** vínberja-leggir (smá-leggirnir sem sjálf vínberin eru á).

**Druekjærne** hratkorn í vínberi.

**Drueklase** vínberjaþönglar á einum legg.

**Druemost** vínberja-lögur sem ekki er orðinn að víni.

**Druemunke** (eins konar jurt með svörtum berjum) *actaea spicata.*

**Drueqvas** vínberjahrat sem eptir verður þegar þau eru þrúguð.

**Druesaft** vínberja-lögur.

**Drueskud** kúlnaklasi (sem skotið er úr fallbissu).

**Druestilk** vínbers-leggur.

**Druesukker** vínberja-sikur.

**drueviis,** ao., eins og vínberjaþönglar.

**Drukkenbolt,** ft. -e, kk., drykkjumaður, drykkjusvoli. Sb. **Dranker.**

**Drukkenskab,** án ft., sk., drykkjuskapur, ofdrykkja.

**drukne,** s. 1, a) h. s., drukkna: Han druknede paa en Søreise. Saa vaad som en druknet Muus eins og dreginn af sundi. — b) ás., drekkja e-u: Han druknede sig i Aaen. D. en Hund.

**Drum,** kl., (sjaldh.), drunur, dimmur hljómur.

**drumme** (har), h. s. 1, (sjaldh.), drynja.

**drybe, drøb,** (har) **drøbet,** h. s., [**drybe:** drjúpa=**krybe:** krjúpa; sb. drýgr fyrir drjúgr], (sjaldh.), drjúpa, leka: Vandet drøb af ham. — Væggene d. af Fugtighed suddinn rennur niður eptir veggjunum. — Sb. **drive** B, 2, b, **dryppe.**

**drynte** (líks **drønte**) (har), h. s. 1, (í tali), lötra, drjólast, dragnast: See hvor han drynter afsted. Han kommer dryntende efter.

**Drypp,** n. eins (og sömul. **-per**), a) sk., afar lítill dropi: En D. Vand. Der er ikke en D. mere i Flasken. — b) kl., drop, (sb. leki), dropi sem er að leka: Det bestandige D. af Vandet paa Stenen. Der faldt et D. fra Loftet. Sb. **Tagdrypp.**

**dryppe,** s. 1, [sb. **drybe**], a) h. s. (er, har), drjúpa, leka, (sb. vætla): Det drypper af Taget. Der er dryppet Vand (líks det har dryppet — án Vand) ned igjennem Loftet. Orðskv.: Naar det regner paa Præsten, saa drypper det paa Degnen líkt og opt nýtur hundur síns herra. — Theemaskinen drypper. — b) ás., $\alpha$) dreypa e-u, láta e-ð drjúpa: D. Tælle (Vox) paa noget. — $\beta$) dreypa á, láta drjúpa (leka) á: D. en Steg med Smør. Han har dryppet sine Klæder over med Fedt látið leka ofan á sig; sb. **overdryppe.**

**Dryppebad** lekabað (þegar látið er leka ofan á þann part líkamans, sem manni er illt í).

**Dryppefad** fat (diskur) sem látið er leka í.

**Dryppelse,** sk., dreyping, ádreyping.

**Dryppen,** sk., það að **dryppe,** (leki).

**Dryppert,** sk., lekandi (eins konar veikindi) *gonorrhoea.*

**Dryprende** pípa (stokkur) sem e-ð lekur í gegnum.

**Drypsteen** dropsteinn *stalactites.*

**drysse,** s. 1, er að sínu leyti sama um þurra hluti, sem **dryppe** um vota, a) h. s. (er), smáhrynja, sáldrast: Der drysser Sand ned fra Loftet. — b) ás., sáldra e-u: D. Sand paa Gulvet. D. Sukker paa Maden. Sb. **stree.**

**Dræ,** án ft., sk., blómstur eða blómi rúgsins: Rugen har begyndt at sætte D. Rugen staaer i fuld D.

**dræbe,** ás. 2, [drepa], a) (öldungis úrelt), drepa = slá. — b) drepa, vega, deyða, lífláta, taka e-n af lífi, bana e-m, (sb. hlaða e-m, sem er fornlegt), o. s. frv.: D. et Dyr. Han dræbte to af de angribende Fiender, og den tredie tog Flugten. Han har havt det Uheld, imod sin Villie at d. et Menneske. Han blev dræbt ved et Kanonskud. Et dræbende Hug banahögg. D. een med Gift. Sorg dræber langsomt; sb. murka lífið úr e-m. — D. een med Snak, o. s. frv.; sb. pína, gera út af við.

**dræbelig,** ft. -e, e., (sjaldh.), dræpur.

**Dræber,** ft. -e, kk., (sjaldh.), bani (banamaður, dauðamaður) e-s.

**Dræbning,** sk., (sjaldh.), = **Drab;** sb. morð (í fornum kveðskap).

**dræe** (har), h. s. 1, (um rúg), standa í blóma.

**Dræg,** ft. **-ge,** sk., eins konar smá-akkeri.

**drægge,** h. s. 1, kraka (með Dræg): D. efter noget.

**Drægt,** ft. **-er,** sk., (næstum úrelt), eiginl. **burður,** a) það sem borið er í senn, $\alpha$) = **Dragt** a. — $\beta$) = **Kuld** b. — b) ferð á e-n (t. a. m. á hafís). Sb. **Fart.**

**drægtig,** ft. -e, e., eiginl. **sem ber,** a) (um dýr), með fangi, (sb. fylfull, hvolpafull, a. s. frv.): En d. Ko (So). Et drægtigt Faar lembd ær. — b) (sjaldh. um akra og sæði), frjófsamur, fullsprottinn: En d. Ager. Drægtigt Korn. — c) (um skip), sem tekur: Dette Skib er 60 Læster drægtigt tekur 60 lestir.

**Drægtighed,** án ft., sk., það að vera **drægtig:** Maale et Skibs D. hvað e-t skip taki.

**Dræk** (og í gamalli dönsku **Træk,** sem er rjettara, þar eð **þ** verður ekki að **d** í þess konar orðum), kl., [þrekk-r], saur. Sb. **Skarn.**

**Drækplade** saurþynna (járnþynna er skýlir enda öxuls og nafs).

**dræne,** h. s. 1, (sjaldh.), um býflygi í búi sínu, suða.

**Dræning,** sk., það að **dræe.**

**Dræt,** sk. og kl., [drátt-r, sb. drætti og dráttir], eiginl. dráttur, 1) um net, $\alpha$) það að draga net. — $\beta$) það sem dregið er í netinu. Sb. **Fiskedræt.** — 2) um vagn eða plóg, a) það hvernig vagn eða plógur dregst: Vognen (Ploven) har et let (tungt) D. — b) áhald til að draga með, $\alpha$) = **Dragtøi, Seletøi:** Hesten gaaer ikke godt i Drættet er stirður í fyrirgöngunni. — $\beta$) = **Plovdræt.** — c) það sem dregið er (innan) á (föt), fóður: Sye D. i en Kjole. — d) = **Opdræt.**

**Drætid** sú tíð þegar rúgurinn stendur í blóma.

**drætte,** ás. 1, fóðra föt: D. en Kjole med Silketøi.

**dræve** (har), h. s. 1, [sb. drafa], vera seinmæltur.

**drævevorn,** ft. -e, e., seinmæltur.

**drævle** (har), h. s. 1, [sb. drafla, Björn og G. O. Oddsen í greininni um **drævle**], (sjaldh.), bulla, þvaðra.

**Drævler,** ft. -e, kk., (sjaldh.), sá sem bullar (þvaðrar).

**Drøb,** kl., (sjaldh.), = **Drypp, Dryppen.**

**Drøbel** (framb. sem **Drøvel**), ft. **-er,** sk., úfur.

**Drøbelsald** úfdrop.

**drøfte,** ás. 1, [í fyrstu sama orð og **drifte**], óeiginl., rannsaka, íhuga, velta e-u fyrir sjer: D. en Sag. D. eens Grunde.

**Drøftelse,** sk., það að **drøfte:** Underkaste Sagen en streng D. rannsaka nákvæmlega.

**Drøftning,** sk., = **Drøftelse.**

**drøi,** ft. -e, e., [sb. drýg-r fyrir drjúg-r], (þjettur), drjúgur, sem endist vel, endingargóður, sem stendur vel undir, a. s. frv.: Drøie Lys. D. Kost (Mad, Føde). — $\beta$) örðugur, harður, svæsinn, o. s. frv.: Et drøit Arbeide. En d. Bog. Sige een drøie Ord. — b) þjettur = þungur: En d. Byrde. — c) þjettvaxinn, gildur: Han er ikke saa høi, som han er d.

**Drøide,** sk., gildleiki, er varla haft, nema í orðatiltæk. han har det ikke i Høiden, men i Drøiden.

**drøie,** s. 1, [sb. drýgja], 1) ás., a) drýgja. — b) (sjaldh.), drøies gildna. — 2) h. s., endast, hrökkva: Den Mad drøier kun lidt (vil ikke d. meget til saa mange).

**Drøielse,** án ft., sk., (um mat, kerti, a. s. frv.), það að endast eða standa við, (sb. það er enginn matur í þessu). Sb. **Forslag** (af **forslaae**).

**Drøihed,** án ft., sk., það að vera **drøi.**

**Drøm,** ft. **-me,** sk., [draum-r], draumur: Jeg havde en underlig D. mig dreymdi undarlegan draum. Det kom mig for i Drømme mjer þótti. Udtyde (ráða) en D. Det er for mig som en D. það er eins og í draumi fyrir mjer. — b) hugarburður: Ofte legede min Sjæl med den D., der at kunne hendrage sine øvrige Dage.

**drømles** draumlaus: En d. Søvn.

**drømme, drømte, drømt,** h. s. (har) og ás., [dreyma], a) eiginl., jeg drømmer mig dreymir, $\alpha$) h. s.: D. om noget. D. vaagende vera eins og í draumi (þó maður vaki). — $\beta$) ás.: Hun drømte en mærkværdig Drøm hana dreymdi merkilegan draum. Da vilde han troe, at han drømte hele sit Ophold hos mig. — b) óeiginl., d. om noget láta sjer detta (koma) e-ð í hug: Han havde aldrig drømt om (honum hafði aldrei komið til hugar eða í hug nje hjarta komið), at han skulde blive saa fornem. Hvo kunde vel d. herom hverjum gat dottið þetta í hug?

**Drømmebillede** draumur, draumórar.

**Drømmeblund** (sjaldh.), draumasvefn.

**Drømmebog** bók um drauma(-ráðningar).

**Drømmeliv** líf sem er tómir draumórar.

**Drømmen,** sk., það að **drømme.**

**Drømmer,** ft. -e, kk., a) (sjaldh.), sá sem dreymir. — b) optast nær, sá sem ímyndar sjer allt annað enn er.

**Drømmeri,** ft. **-er,** kl., hugarburður.

**Drømmerige** (sjaldh.), = **Drømmeverden.**

**Drømmerske,** ft. -r, kvk., sama um kvennmann og **Drømmer** um karlmann.

**Drømmespil** = **Drømmeværk.**

**Drømmesyn** það sem fyrir mann ber í draumi.

Drømmetaage óeiginl., draumleg þoka sem er yfir manni.

Drømmetyder, ft. -e, kk., draumvitringur, (sb. ok urðu ekki ráðendr til draumanoa).

Drømmetydning drauma-ráðning.

Drømmeverden veröld sem ekki er annað enn draumórar eða hugarburður.

Drømmeværk draumar, draumórar. — b) hugarburður.

Drøn, ft. eins, kl., [sb. dryn-r], drunur, dunur: Det gav et D. Man mærkede et D. i Jorden.

drøne (har), h. s. 1, [sb. drynja], a) í almúgamáli, um nautpening, drynja. — b) dynja (t. a. m. stuodum dundi grundin undir).

drønte sjá drynte.

drøse (har), h. s. 1, [sb. dræsa, æ fyrir œ?], dunda, hangsa.

Drøsepind = Drøser, nema enn hversdagslegra.

Drøser, ft. -e, kk., dundari, hangsari, slæpingur, hengimæna.

Drøseri, án ft., kl., dund, hangs.

drøsevorn, ft. -e, e., gefinn fyrir hangs.

Drøv, nafn, án ft. og greinis, og haft í orðatiltæk. tygge D. α) jórtra. — β) (í tali), japla (stagast) á hinu sama, og sjer í lagi stama.

drøve, ás. 1, (forulegt), hrella. Sb. bedrøve.

Drøvelse, sk., (forolegt), hrelling. Sb. Bedrøvelse.

drøvtygge eiginl. jórtra, 1) sjaldh. sem eiginl. sögn, stagast (japla) á e-u, taka e-ð upp aptur. — 2) í bo. sem e., a) nál. t., sem jórtrar: Drøvtyggende Dyr jórturdýr. — b) l. t., α) eiginl., jórtraður: Det drøvtyggede Foder. — β) óeiginl., sem stagazt hefur verið á, margtugginn: Denne drøvtyggede Lære. Sb. forslidt í greininni um forslide.

Drøvtygger, ft. -e, sk., jórturdýr.

du, gjör. et., [þú]; dig, þol. og þiggj. et., [þig fyrir þik]; eig. et. er ekki hafður; I, gjör. ft., [ið fyrir it (þið)]; eder, [iðr fyrir yðr], og jer (hversdagslegra), þol. og þiggj. ft.; eders og jeres (hversdagslegra), eig. ft., fn., þú: Du gjør dig herved ulykkelig. Er det dig ert þú það? Jeg har alt sagt dig det jeg er búinn að segja þjer það. — Sige du til een þúa e-n, þúast við e-n. — Troer I haldið þið það. Tag jer i Agt varið þið ykkur! Ingen af jer. — Fyrrum þjeruðu Danir með ft. of du, eins og Íslendingar gera, og sama siður helzt enn með almúga á landsbyggðinni.

*Dual, sk., = Total í málfr.

*Dualismus, sk., frumtvenning, þ. e. sú trú eða kenning, að α) tvær sjeu frumverur, góð og ill. — β) fáeinir sjeu kjörnir til sáluhjálpar, en allir aðrir til fyrirdæmingar. — γ) tvenn sjeu frumefni, andlegt og líkamlegt.

*Dualist, ft. -er, kk., sá sem trúir eða kennir frumtvenningu.

*dualistisk, ft. -e, e., sem lýtur að frumtvenningu.

*dubiøs, ft. dubiøse, e., efasamur, flókinn.

*Dublon, ft. -er, sk., spænskur og ítalskur gullpeningur (hjer um fjórar spesíur).

*Ducat, ft. -er, sk., eins konar gullpeningur (hjer um tvær spesíur).

Dude, nafn, (eins konar illgresi) *lolium temulentum*. Sb. Svingel.

due sjá duve.

due (har), h. s. 1, [duga], duga (sb. sverð þat, er hann hafði, dugði ekki), vera að liði, stoða, o. s. frv.: Han duer ikke til dette Embede þetta embætti er ekki hans meðfæri. Det duer intet það er hand-ónýtt. Hvad der duer noget (það sem nokkurt lið er að), beholder han selv. Han gjør kun hvad der ikke duer hann gerir ekki nema illt eitt. Det duer ikke, at lade unge Mennesker være orkesløse.

Due, ft. -r, sk., [Due: dúfa = Hue: húfa], dúfa, (einkum alidúfa): Handle med Duer. Orðskv.: Det buldrer kun lidt hvor Duer dandse.

Dueart dúfnategund.

Duebrødre (ft.), (fyrrum), eins konar munkar.

Duefanger sjá Duefænger.

duefrom meinlaus sem dúfa.

Duefænger (líka Duefanger), ft. -e, kk., fuglari sem veiðir dúfur.

Duehuus dúfnahús.

Duehøg (eins konar fálki) *falco palumbarius*.

Duekræmmer dúfna-kaupmaður.

*Duel, ft. -ler, sk., = Tvekamp.

duelig, ft. -e, e., hæfur, hæfilegur, o. s. frv.: Være d. (góður) til noget. En d. Arbeider góður að vinna, (sb. fljótvirkur og góðvirkur). En d. Mand fær um það er hann þarf að gera. Sb. dygtig, beqvem. — b) (í almúgatali), α) iðinn, atorkusamur. — β) = morgenduelig.

Duelighed, án ft., sk., það að vera duelig a.

*Duellant, ft. -er, kk, sá sem gengur til einvígis.

*duellere (har), h. s. 1, heyja einvígi, ganga til einvígis: D. med een.

Duemøg dúfnadrit.

Duepostei, Postei sem dúfa er í.

Duerede dúfnahreiður.

Duerik, ft. -ker, sk., hvöt dúfa.

Dueslag eins konar dúfnahús.

Duesteg steikt dúfa eða steiktar dúfur.

Duesuppe saup (soð) af dúfnakjöti (einkum handa sjúklingum).

*Duet, ft. -ter, sk., tveggja manna söngur; tveggja manna leikur á hljóðfæri.

Dueunge dúfu-ungi.

Duft, án ft., sk., ilmur, angi (Stjórn).

dufte (har), h. s. 1, ilma, auga: Blomsterne d.

Duften, sk., það að dufte.

duftrig (sjaldh.), ilmandi.

Dug, ft. -e, sk., [dúk-r], dúkur, sjer í lagi líndúkur, a) dúkur sem efni í e-ð, α) línkynjaður dúkur, í samsettum orðum, t. a. m. Kammerdug, Netteldug, Seildug. — β) klæði (sem dúk-tegund), í samsettum orðum; sb. Dugmager. — b) það sem búið er til úr dúk, α) = Borddug: Brede Dugen breiða á borð. (Sb. Disk). — β) sb. Halsdug, Brystdug, o. s. frv.

Dug, án ft., sk., [e. o. dugg fyrir dögg], dögg: Der falder D. Duggen falder.

Dugdraabe döggdropi.

duge, ás. 1, (sjaldh.), dúka, leggja dúk á: D. Bordet.

Dugfald döggfall, (líka döggvartími).

dugfuld aldöggvaður.

dugge, s. 1, [döggva], a) h. og persónulaus s. det dugger það er döggfall. — b) ás., (sjaldh.), = bedugge. — Ho. l. t. dugget sem e., döggvaður, votur af dögg: Gaae i det duggede Græs.

dugge, ás. 1, (sjaldh.), træða hús með hálmi (undir tigulþak).

Dugmager, ft. -e, kk., klæðisvefari.

Dugperle (skáldl.) = Dugdraabe.

Dugregn (sjaldh.), = Støvregn.

Dugsvend (fornt), borðsveinn, skutulsveinn.

dugvaad votur (rakur) af dögg.

Dugvand döggvarvatn.

dugvædet, [sb. væde], vættur af dögg.

Dukand fugl af þeim andar-tegundum er stinga sjer betur enn aðrar (t. a. m. húsönd og æðarfugl).

Dukke, ft. -r, sk., dverg-stoð eða dverg-súla (dálítil stoð eða súla, einkum kringlótt; sb. stól-brúða): Dukkerne i et Rækværk. — b) vöndull (sb. Hørdukke, Langhalmsdukke), skauti: En D. Traad tvinnaskauti. En D. Silke. — c) brúða: Pynte en D.

dukke, ás. 1, [af Dukke b], gera skauta úr e-u: D. Traad. D. Silke.

dukke, s. 1, a) ás., α) dýfa (stinga) e-u í vatn, kaffæra: D. en Hund under Vandet kasta hundi á kaf. De dukkede ham ned i Søen. D. sig stinga sjer. D. Hovedet under Vandet fara í kaf með höfuðið. — β) hneigja: D. Hovedet under Dynen fara með höfuðið niður undir yfirsængina. Han undgik Hugget ved at d. sig með því að lúta. — b) h. s., α) um hreifingar í vatni: D. under dýfa (stinga) sjer. D. ned fara niður. D. op koma upp. — β) hneigja sig, lúta.

Dukkebarn brúðubarn (brúða sem á að merkja barn).

Dukkehuus hús handa brúðum.

Dukkeleg það að leika sjer að brúðum.

Dukkemager, ft. -e, kk., sá sem býr til brúður handa stúlkubörnum.

Dukkemand brúða sem á að merkja karlmann.

Dukkeskab brúðuskápur: Stuen er saa peen som et D.

Dukkespil brúðu-leikur (sjónarleikur með brúðum).

Dukkestads brúðuskart.

Dukketøi, án ft., brúður og annars konar barnaglingur: Handle med D. — Det er ikke andet end D. það er enginn veigur í því, eða þvíuml.

Duksteen eins konar dropsteinn.

*Dulcian, ft. -er, sk., eins konar hljóðpípa í lögun eins og S.

*Dulcinea, kvk., (í fyrstu eiginlegt nafn, en merkir sæta), heilla: Din D. hún þarna heilla þín.

Dulle, ft. -er, kvk., púta.

dulme, s. 1, a) h. s., um verki, líða frá: Hans Smerte dulmer það bráir af honum. — β) sljákka: Det dulmer i Veiret. — γ) Solen dulmer það dregur fyrir sólinn. — δ) mókn, láta renna í brjóstið á sjer. — b) ás., lina, sefa: D., men ikke helbrede Smerten.

Dulmen, sk, afbráningur, fró: Smertens D. — β) blundur, svefnhöfgi.

dum, ft. -me, e, [dum: dumb-r = Kam: kamb-r], a) (sjaldh.), mállaus: Være døv og d. Sb. stum. — b) (sjaldh.), daufur (um lit), dimmur: En d. Farve. Sb. mat, dunkel. — c) (sjaldh.), dimmur (um hljóð). Sb. dump. — d) (altíðkað), α) heimskur: En d. Person. — β) (um athafnir), heimskulegur: En d. Streg. — dumt, sem ao., heimskulega: Det var dumt gjort.

dumdristig fífldjarfur, (biræfinn). — β) sem kemur til af fífldirfsku: Dette dumdristige Foretagende þessi fífldirfska.

Dumdristighed, án ft., sk., fífldirfska, (biræfni).

Dumhed, sk., α) án ft., heimska, flónska, fíflska, óvizka, fávizka, vitleysa, o. s. frv. — β) með -er í ft., heimska, o. s. frv., = heimskubragð, (sb. heimskupör): Begaae en D. (mange Dumheder).

Dummerhoved (í tali) heimskingi, flón, flónshaus. Sb. Dosmer.

dump, ft. -e, e., = dum c, og tíðkanlegra nú á dögum.

Dump, ft. eins. kl., dynkur, hlunkur.

dumpe (er), h. s. 1, (í tali), hlammast, hlunkast.

Dúmrian, ft. -er; kk., (í tali), = Dummerhoved.

Dunder, kl., (í tali), dunur, dynkur.

dundre (har), h. s. 1, [sb. dunur], dynja, o. s. frv.: Det dundrede i Jorden það buldi (tók undir) í jörðunni.

Dundren, sk., dunur, dynkir: Kanonernes D. Tordenens D.

dundse, ás. 1, [sb. dunur], (í tali), slá e-n með hnefa, lemja: D. een i Ryggen. sb. dunke.

dune, ás. 1, dýna (plokka, reyta) fugl.

dunes, þs. 1, fá fiður.

dunet, ft. dunede, e., [sb. dunes], búinn að fá fiður. — β) fiðrugur: Min Kjole er bleven ganske d.

Dunk, ft. -e, sk., dálítill kútur (1/16 partur úr tunnu): En D. Sild. — b) brúsi. sb. Øldunk.

Dunk, ft. eins, kl., hnefahögg: Give een et D.

dunke, ás. 1, = dundse.

dunkel, ft. dunkle, e., α) eiginl., dimmur, (sb. skuggsýnn), dökkur, daufur, dapur: Et dunkelt Veir dumbungs-veður. Dunkle Farver. — β) óeiginl., myrkur, óljós, óskýr, óskilmerkilegur, ógreinilegur: En d. Stiil. Et dunkelt Udtryk. Dunkle Svar. Dunkle Forestillinger.

Dunkelhed, án ft., sk., dimma. — β) óeiginl., myrkur, (sb. myrkviðri), o. s. frv.: I hans Foredrag hersker megen D.

Dunken, sk., dynkir: Han har en bestandig D. i Hovedet.

Dunkraft sjá Donkraft.

Dunst, ft. -er, sk., smágerð gufa: Dunsten af kogende Vand. Skadelige Dunster óholl gufa. Dunster (gufan) samle sig til Draaber, og, ved en større Grad af Kulde, til Riim eller Iis. (Sb. Eem, Damp.)

dunste, h. s. 1, α) (har), láta leggja af sjer gufu: Jorden dunster það gufar (leggur gufu, rýkur) upp af jörðunni. — β) (er), fara sem gufa: D. bort = bortdunste. D. ud = uddunste β.

dunstfri (gufulaus), hreinn: En d. Luft.

dunstfuld fullur af gufu.

Dunsthul gufugat.

Dunstkreds gufuhvolf, veðrahvolf. Sb. Atmosphære.

Dunstrør gufupípa (sem gufu á að leggja í gegnum).

*Duodez, sk., tólf blaða brot.

Dup sjá Dop.

*dupere, ás. 1, gabba, leika á.

*Duplicat, kl., = Afskrift, Gjenpart.

*duplicere, h. s. 1, (um verjanda sakar), gegna svari sækjanda (Replik), svara aptur.

*Duplik, sk., annað (seinna) svar verjanda (sb. duplicere).

Dupsko sjá Dopsko.

*Dur, nafn, hörð hljóðaskipun (í hljóðfæralist). Gagnstætt: Mol.

*durabel, ft. durable, e., haldgóður, veigagóður.

*Durabilitet, án ft., sk., hald, veigur.

*durchlauchtig, ft. -e, e., hágöfugur (l. a. m. eins og herlogi).

*Durchlauchtighed, ft. -er, sk., tign: Hans D. Hertugen af U. hertoginn af U.

*Dusin, ft. -er, kl., tylft: Et D. Knapper.

*Dusinviis í orðatiltæk. í D. í tylftum, tylftum saman.

Dusk, ft. -e, sk., skúfur: En D. i Huen. Sb. Qvast, Busk b; Kost (ft.-e).

dute, ás. 1, þúa. — 2) (líka ritað dutte eptir framburði), d. een noget paa bera e-ð upp á e-n (meira enn drótta e-u að e-m). Sb. paadute.

dutte sjá dute 2.

Duun, ft. eins, kl., [dún-n], dún. — β) hýjungur: D. paa Hagen (um unglinga). Sb. duunhaaret, duunhaget, Duunskæg.

duunblød mjúkur sem dún.

Duundyne dúnsæng = dúndýna.

Duunfjæder dúnfjöður.

Duunfugl fugl sem dún er á.

duunhaaret settur hýi: En d. Plantestængel.

duunhaget, ft. -hagede, e., sem hefur hýjung á hökunni: En d. Dreng.

Duunhammer = Donnemors.

duunløs dúnlaus.

Duunqvast dún-skúfur (l. a. m. til að sáldra dupti í hárið með; sb. Pudderqvast, Pudderdusk).

Duunseng dúnsæng (um rúm).

Duunskæg skegg (á unglingum) sem er eins og hýjungur.

1. Duus, nafn, það að þúast: Drikke D. (med een). Være D. (med een) þúast (við e-n).

2. Duus, nafn, haft í orðatiltæk. leve i Suus og D. í svalli og óhófi.

3. Duus, nafn, (daus á teningi), tvö, (sb. tvistur): D. Es (ás og daus), eitt og tvö. Sb. Treieduus.

Duusbroder sá sem maður þúast við: De ere Duusbrødre þeir þúast.

Duussøster (sjaldh.), sú sem e-r þúast við.

duve (líka due) (har), h. s. 1, [sb. dúa], (á sjó), a) höggva (um skip). — b) beita, kelkja: D. op imod Vinden beita upp í veðrið. D. op imod en Havn (leita til hafnar). D. Landet an (leita til lands).

*Dux, kk., sá sem er efstur í bekk (í skóla).

dval, ft. -e, e., (sjaldh.), (um mat eða drykk) daufur, væminn.

Dvale, án ft., sk., dá, (fasta svefn): Falde i D. Nogle Dyr ligge i D. om Vinteren. Orðskv.: Under sød Tale ligger Falskhed i D. sb. opt vjer fegurst mælum, er vjer flást hyggjum. — Óeiginl.: Den Sag har længe ligget i D. Han ligger nu reent i D. nú ber alls ekkert á honum, (sb. liggja niðri). — β) (fornlegt), fyrir dauði.

Dvalebær, nafn, (eins konar eiturjurt) *mandragora atropa.*

Dvaledrik (sjaldh.) = Sovedrik.

dvaledød (skáldl.), sem liggur í dauðadái.

Dvaleliv líf sem er eins og dá.

Dvalestand það ástand að liggja í dái, dá.

Dvaletid sá tími sem e-ð liggur í dái.

dvas, e., [sb. Dosmer], (sjaldh.), a) dónalegur. — b) = dval.

dvask, ft. -e, e., (í tali) = dvas a.

Dvelg, ft. eins, kl., stinnur og gljáandi strigi sem lagður er milli fats og fóðurs.

Dverg, ft. -e, kk., [dverg-r], dvergur.

Dvergemaal (fornl), dvergmál, bergmál. Sb. Gjenlyd.

Dverghat (fornt), hulinhjálmur.

Dvergplante planta sem kyrkingur hefur komið í.

Dvergtræ bot-slutt aldintrje (sem fyr meir var títt að hafa í aldingörðum).

Dvæl, sk., (sjaldh.), = Svaber.

dvæle (har), h. s. 1, [dvelja], dveljast, hafa dvöl, standa (staldra, hinkra, doka) við, o. s. frv.: Her d. vi ikke længe. — β) tefja, (sb. slóra, drolla, drjólast): Hvorlænge vil han d. med sit Svar hvað lengi ætlar hann að draga að svara? Sb. tøve.

Dvælen, sk, dvöl, viðstaða, töf, o. s. frv.

Dvæler, ft. -e, kk., (sjaldh.), = Nøler.

Dyb, ft. eins, kl., [e. o. dýp fyrir djúp], djúp, (hylur, kargi): Et bundløst D. karga-hylur, o. s. frv. Havets D. Maale Dybet. Sb. Afgrund.

dyb, ft. -e, e., [e. o. dýp-r fyrir djúp-r], djúpur: En d. Afgrund. Brønden er tyve Alen d. En d. Skaal. Et dybt Saar. Dybt Vand. D. Snee. — β) um hneiginugar: Gjøre et dybt Buk hneigja sig djúpt. En d. Hilsen. — b) óeiginl., mikill, þungur, þungbær, o. s. frv.: Et dybt (þungt) Suk; sb. stynja þungan. D. Smerte mikill (þungur) tregi. D. Sorg mikil sorg; líka um sorgarbúning, l. a. m. bære (gaae i) d. Sorg. D. Ydmygelse (Fornedrelse). D. Søvn fasta svefn. D. Taushed. En d. Hemmelighed mesta leyndarmál. Være (sidde) i dybe Tanker. D. Indsigt; sb. grundig. D. Forstand (sb. djúpvitur). En d. Tænker sá sem hugsar djúpt; sb. grundig. — 2) (um lengd eða breidd húss frá ytri til innri hliðar), langur, breiður: Dette Huus er meget dybt i Forhold til Breden. — B) dybt sem ao., 1) djúpt, langt niður, lágt: Det fandtes dybt i Jorden. Grave dybt i Jorden. Stedet ligger temmelig dybt; sb. lav. — β) um hneigingar: Bukke sig dybt. — b) óeiginl.: Være dybt i Gjeld vera skuldunum vafinn. Det er dybt indpræget i min Erindring mjer er það fyrir minni. — 2) langt: Vove sig dybt ind i Skoven. Reise dybt ind i Landet. Sb. lang.

Dybde, ft. -r, sk., [sb. dýpð = dýpt], dýpt: Havnens D. Havets forskjellige Dybder. — β) djúp (óeiginl.): Kjende, hvilke Dybder ere skjulte i Menneskets Inderste. — b) (sb dyb A, 2), lengd, breidd: Husets D.

dybe, ás. 1, [dýpa], a) (líka dybne), hleypa e-u lengra niður: D. (gagnstætt: lette) Ploven. — a) (sjaldh.), dýpka. Sb. fordybe.

dybfuret, [sb. fure], ristur djúpt, sem hefur djúpar akurforir eða rákir.

dybgaaende (líka dybtgaaende eða dybt gaaende), [sb. gaae], sem ristir djúpt eða nær langt niður: D. Slibe. En d. Rod.

Dybhed, sk., dýpt (einkum í óeiginl. merk.): D. i Tanken (Følelsen).

dybne sjá dybe a.

dybseende (líka dybtseende eða dybt seende), [sb. see], djúpsær.

dybsindig, ft. -e, e., djúphygginn. — β) djúpur (óeiginl.): Dybsindige Betragtninger.

Dybsindighed, án ft., sk., djúphyggni, djúpsæi.

Dybslod, kl., grunnsakka.

Dybsvod lagnet. sb. Bundgarn.

dybsørgende (líka dybtsørgende eða dybt sørgende), [sb. sørge], harmþrunginn: Hans d. Enke.

dybtgaaende sjá dybgaaende.

dybtseende sjá dybseende.

dybtsørgende sjá dybsørgende.

dybttænkende sjá dybtænkende.

dybtænkende (líka dybttænkende eða dybt tænkende), [sb. tænke], sem hugsar djúpt.

Dyd, ft. -er, sk., [dyggð], dyggð, kostur, a) aptaal nær mannkostur, manndýrð (fornlegt): Beflitte sig paa D. og gode Sæder. Huuslige Dyder. D. og Last. Dyder og Lyder kostir og brestir. — β) sjer í lagi skírlífi. — b) um aðra hluti (einkum í

*flexibel, n. flexible, e., sveigjanlegur, beygjanlegur, breytanlegur (um orð).

*Flexion, n. -er, sk., breyting orðs (sb. flectere).

Flid, án ft., sk., iðni, iðjusemi, ástundun, ástundunarsemi: F. i Studeringer. — b) vandvirkni, kostgæfni: Gjøre sig F. med noget vanda sig á e-u, leggja sig niður við e-ð, vera natinn við e-ð. Dette Arbeide er gjort med F. Anvende F. og Eftertanke paa et Arbeide. — c) med F. af ásettu ráði, viljandi: Gjøre noget med F.

Flig, n. -e, sk., [flik], laf, sepi, (sb. Ankerflig).

Flik, n. -ker, (líka Flikke, n. -r), sk., bót; sjer í lagi skóbót.

Flikke sjá Flik.

flikke, ás. 1, hæta: F. Skoe (Støvler). — b) f. noget sammen staga e-ð saman, (sauma e-ð saman úr pjötlum). — F. noget (smeygja e-u) ind i et Skrift. — c) f. paa noget ditta að e-u.

Flikken, án ft., sk., það að flikke.

Flikker, n. -e, kk., sá sem bætir e-ð, haft sem aptari liður í samsettu orði, sb. Skoflikker, Kedelflikker.

Flikkeri, kl., stagl.

Flikkeværk bótaklasi.

Flikning, n. -er, sk., það að flikke.

flink, n. -e, e., ötull, röskur: En f. Pige (Karl). En f. Arbeider góður verkmaður.

flinke, ás. 1, (í tali), í orðatiltæk. f. op dubba upp: Den Pige begynder at f. sig op.

Flinkhed, án ft., sk., ötulleiki, röskleiki.

Flint, sk., 1) án ft., eldtinna (*silex pyromachus*): Haard som F. Han var nær ved at springe i F. hann rauk eins og salt, hann rjeði sjer ekki fyrir vonzku. — 2) með ft. -er, bissa sem bleypt er af með tinnu. (Annað enn Luntebosse.)

Flintbosse = Flint 2.

Flintekolbe = Bøssekolbe.

Flintekugle = Bøssekugle.

Flintelaas = Bøsselaas.

Flinteskud = Bøsseskud.

Flintesteen = Fyrsteen; Bøssesteen; sb. Flint 1.

Flintflække tinnuflaga.

Flintglas gler úr eldtinnu.

flinthaard = haard som Flint (sjá Flint 1).

Flintlag tinnulag (í jörð).

Flintstykke tinnustykki.

Flip, n. -per, sk., [sb. flipi], spaði prests (sb. Flipkrave), horn á klút o. s. frv.: Flipper língeirar sem baðdir eru um hálsinn. En F. af Torklædet hænger ud. Flipperne af et Saar barmar á skurði.

Flire, n. -r, sk., [flira?], (karfstegund) *cyprinus wimba.*

Flise, n. -r, sk., böggvin hella eða öðruvísi til búin, (sjer í lagi = Gulvflise): Et Bord indlagt med Fliser. Sb. Marmorflise. — 2) flís, flaski: En F. i et Bord.

flise, s. 1, 1) ás., [sb. Flise 1], kljúfa e-ð í hellur eða flögur: F. Skifersteen. — 2) b. s., [sb. Flise 2], flaskast: Dette Træ vil let f.

Flisegulv hellugólf.

fliset, n. flisede, e., flaskaður: Bordet er blevet ganske f. er ekki orðið nema tómar flísir. Denne Steen har et mere f., end kornet Brud þetta er fremur flögugrjót, enn korngrýti.

Flitsbue bogi (til að skjóta af).

Flitter, án ft., kl., glingur.

Flitterguld næfruð messing (sem líkist gulli).

Flitterkram = Flitterstads.

Flitterstads glys (til viðhafnar; sb. prjál).

Flittervid (sjaldh.), áheyrileg fyndni sem ekkert er í varið þegar að er gáð.

flittig, n. -e, e., iðinn, iðjusamur, ástundunarsamur, kostgæfinn: En f. Arbeider. Være f. ved sit Arbeide vera vel að. — b) kostgæfilegur, rækilegur, stöðugur: En f. Undersøgelse af Sagen. Du maa have flittigt Eftersyn med alting i Huset. F. Kirkegang. — 2) flittigt, sem ao., kostgæfilega, rækilega: Arbeide flittigt. Hilse flittigt.

Flittighed, án ft., sk., það að vera flittig (sb. Flid a).

Flobjerg = Fløtsbjerg.

Flod sjá Flaad.

Flod, sk., [flóð], 1) án ft., flóð, a) gagnstætt fjöru: Ebbe og F. flóð og fjara. — b) = Vandflod, Oversvømmelse (í eiginl. merk.). — 2) með ft. -er, fljót, móða, á, vatn = vatnsfall: Bække og Aaer samle sig til Floder. Sb. Elv.

Flodbred fljótsbakki, árbakki.

Flodbugt árbugur.

Flodbige flóðgarður með á.

flode (har), b. s. 1, [e. o. flóða f. flæða], (sjaldh.), flæða: Naar Havet floder þegar að fellur.

Flodemaal sjá Flodmaal.

Flodfald foss í fljóti.

Flodfisk fiskur sem lifir í ám.

Flodfiskeri fiskiveiðar í vatnsföllum.

Flodgud fljótsguð.

Flodguld gullsandur í ám.

Flodhest (dýr) *hippopotamus*. Sb. Nilhest, Elvhest.

Flodholt sjá Flydholt.

Flodhvirvel hring-iða í á.

Flodleie (ár)farvegur. Sb. Flodrende, Flodseng.

Flodløb árrennsli, stefna fljóts.

Flodmaal (líka Flodemaal, e. o. flóðarmál f. flæðarmál) flóð (gagnstætt fjöru) að því leyti hvort það er mikið eða lítið. — b) það hvort vatnsfall er mikið eða lítið á e-m tíma.

Flodmunding (ár)ós.

Flodrende = Flodleie.

flodrig (eiginl. auðugur af vatnsföllum), sem margar ár renna um: Et flodrigt Land.

Flodsand sandur í fljóti.

Flodseng = Flodleie.

Flodskib skip sem haft er á vatnsfalli.

Flodtid flóðtíð.

Flodvand árvatn eða lækjarvatn.

Flodvei (sjaldh.), árvegur (vegur upp eða niður eptir á).

Flok sjá Flokke.

Flok, n. -ke, sk., [flokk-r], flokkur, sveit, hópur, hnappur, hersing, þyrping: Han var med i Flokken hann var þar í flokki. En F. Ryttere riðull. En F. Faar fjárhnappur. En F. Gæs (Høns).

flokke, ás. 1, ekki háð, nema í f. sig og flokkes, flykkjast saman, þyrpast, hópa sig: Folk begyndte at f. sig. En stor Folkehob flokkedes paa Torvet.

Flokke (eða Flok), n. Flokker, sk., hnoðri, hnökri.

flokke, b. s. 1, (um það sem ló er á), hlaupa í hnökra að tónni til.

Flokketal í orðatiltæk. i F. flokkum saman.

flokkeviis, ao., flokkum saman. — b) hver flokkur sjer.

Floksilke hnökrasilki.

Flom, sk., [sb. flaum], í Norv., vatnavextir (vatnagangur) á sumardag. — 2) í Danm., flói (líki og mýri).

Flomme, n. -r, sk., = Ister (i. n. m. í svínum og gæsum).

Flommehinde lífhimna (*peritonaeum*).

Flomsav í Norv., vjel til að saga með þegar straumurinn leggst á (í vatnavöxtum).

Flomtid sá tími þegar ár eru mestar í Narvegi.

*Flonel sjá Flanel.

Flor, kl., slæða úr silki (eða e-u smágerðu): Gaae med F. (= Sorgeflor) om Hatten eða Armen. En Flors Krave.

Flor, án ft., sk., 1) um blóm, a) margar jurtir er standa í blóma á e-m stað (blómreitur). — b) blómi (eiginl.): Roserne staae nu i F. eru nú í blóma sínum. — 2) blómi (óeiginl.), (sb. hagsæld): Landets F.

*Flora, sk., plöntur — eða lýsing á plöntum — er sprettà á e-m stað.

*florere, b. s. 1, vera í blóma sínum, standa með (fullum) blóma, blómgast, dafna.

*Floret, kl., það sem er ofið úr hnökrasilki.

*Floret, n. -ter, sk., eins konar lagvopn sem haft er við skilmingar.

*Floretsilke = Floksilke.

Flormeel flúr = hveitisalli.

Florsigte slæðusáld.

Florvæver slæðuvefari.

Flos, n. Flosser, kl., [flos], flos.

*Floskel, n. Floskler, sk., orðaprjál.

flosse, s. 1, [flosa], a) ás., flosa. — b) b. s., flosna, trafna.

flot, 1) e., sem er á floti: Gjøre et Skib f. flota skipi. — 2) ao., (í tali), í býlífi: Leve f.

*Flottille, n. -r, sk., dálítill skipafloti.

*Fluctuation, n. -er, sk., hvikulleiki, (sb. vera á reiki).

*fluctuere, b. s. 1, vera á reiki, standa aldrei í stað.

Flue, n. -r, sk., [fluga], fluga. — Slaae to Fluer med et Smæk (gera tvennt í senn). Sætte een Fluer i Hovedet (gera e-n ringlaðan).

Fluegift eitur til að drepa flugur á.

Fluenet eins konar verja til að hlífa bestum við kleggjabiti.

Flueskab skápur til að hafa í kjöt á sumrin svo flugur komist ekki að.

Fluesmække eins konar verkfæri til að drepa með flugur.

Fluespy vírur.

Fluesvamp (eins konar sveppur) *agaricus muscarius*.

Fluevifte blævængur til að fæla með flugur.

Flugt, án ft., sk., flótti, (líka flug- í samsettum orðum í skáldskap): Tage Flugten leggja (forni: leggjast) á flótta. Være paa Flugten vera á flótta. Slaae een paa Flugten reka e-n á flótta. — b) flug: Skyde en Fugl i Flugten á flugi. — Líka óeiginl.: Tankernes høie F. háleitar hugsanir. — í tali: Være i Flugten í kröggum. — c) ferð á e-u: Pilens (Kuglens) F. — d) bein stefna: Opføre en Bygning i lige F. med (í beinni stefnu af) andre Huse. Disse Agre ligge i een F. hver við endann á öðrum.

Flunk, kl., (sjaldh.), = Blink a, Glimt.

flunke, b. s. 1, glóa. Sb. glindse. — í tali, flunkende ny flunkur-nýr, spán-nýr (framb.: spá-nýr). — b) = gnistre a.

flux, ao., þegar = óðara, undir eins: Siig f., hvad du vil.

flyde, flod, (er og har) flydt, h. s., [sb. greinina um bryde], fljóta, A) = renna 1) eiginl., a) um vatn o. s. frv.: F. over renna út úr (út af börmum). (Sb. rinde, strømme.) — flydende sem rennur eða getur runnið: Gjøre noget flydende bræða e-ð. Qvægsølv er et flydende Metal. — b) um það sem e-ð rennur um, fljóta, flóa: Bordet flyder med Viin flýtur allt í víni. Jorden flyder med Vand flóir öll í vatni. Saaret flyder vægir eða það vætlar úr sárinu. Karret flyder over það rennur út úr ílátinu. — 2) óeiginl., a) vera liðugur (lipur, mjúkur): Talen vilde ikke f. for ham honum var heldur stirt um mál, hann var heldur málstirður, honum hætti til að reka í þúfurnar. En flydende Stiil lipurt orðfæri. Flydende Vers liðugur kveðskapur. En flydende Tunge mjúkt tungutak. — b) noget flyder af noget andet e-ð (e-n hlut) leiðir af e-u öðru: Der kan ikke f. andet end Tab af dette Foretagende. Det flyder ikke af denne Sætning, at. — B) líkt og synda, fljóta uppi: Træet flyder paa Vand flýtur í vatni. Vandet er her saa lavt, at Skibet ikke kan f. Vraget flod til Lands bar að landi.

Flydebom slá sem er á floti (t. a. m. um þvert hafnarmynni).

Flydebro flekabrú.

Flyden, ón ft., sk., það að flyde.

Flydenhed, án ft., sk., það að vera flydende (sb. flyde, einkanl. A, 1, a).

Flydholt (líka Flodholt), ft. -er, kl., (net)flá.

1. flye, s. 1, [flýja], a) h. s., flýja, leggja á flótta: Bedre er at f., end ilde at fegte betra er að flýja, enn flökta illa (sb. flökta, þ. e. flýja, Fms. X, 139), orðskv. F. for Fjenden. F. af Landet stökkva úr landi. — Óeiginl.: Lykken flyede hamingjan brást. — b) ás., flýja, forðast, sneiða sig hjá e-u: F. slet Selskab.

2. flye, ós. 1, a) einkum í tali, fá (rjetta) e-m e-ð, skila e-u: Han glemte at f. mig Brevet honum láðist eptir að fá mjer brjefið eða skila mjer brjefinu. F. noget hen til een fá e-m e-ð, fara með e-ð til e-s. Hvor skal jeg f. Brevet hen hvert á jeg að fara með brjefið? hvar á jeg að skila brjefinu. F. noget bort koma e-u burt eða af sjer. F. noget fra sig koma e-u af sjer, skila e-u. F. noget tilbage skila e-u aptur. — b) (sjaldh.), útvega, veita: F. een noget. F. (fá) een meget at bestille. — F. een af med noget losa e-n við e-ð. — c) (sjaldh.), gera við e-ð: Lade sine Klæder f. — F. paa noget gera við e-ð. — F. op (taka til) i en Stue; sb. rydde op. — F. noget til verka (ata) e-ð; sb. tilflye.

flyg, ft. -ge, e., fleygur (um unga).

flygges, þs. 1, verða fleygur (um unga).

flygte (er), h. s. 1, [sb. flökta, þ. e. flýja, Fms. X, 139], flýja, renna, leggja á flótta, (sb. taka til fótanna): F. ud af Landet stökkva úr landi (af landi burt).

flygtig, ft. -e, e., 1) eiginl., a) fornl., sem er á flótta. (Sb. landflygtig.) — b) (í frumefnafr.), sem fljótt verður að lopti: Legemets flygtige Dele. — 2) óeiginl., a) sviplyndur, hviklyndur, lauslyndur, brigðlyndur: Han er alt for f. (sb. vera út í hvippinn og hvappinn). — Et flygtigt Sind lauslyndi, o. s. frv. Have et flygtigt Væsen vera flosalegur (flagarnlegur) að sjá. — (Sb. auðr er valtastr vina.) — b) stopull, hverfull, fallvaltur, skammvinnur: Den flygtige Lykke. — c) gerður í flýti: En f. Betragtning. — B) flygtigt, sem ao., allra snöggvast, sem snöggvast, í flýti: See flygtigt paa noget. Dette Arbeide er gjort alt for flygtigt (sb. flýta sjer of mikið að e-u, broða e-u af).

Flygtighed, án ft., sk., það að vera flygtig, einkanl. í merkingunum 1, b, 2, a (lauslyndi, o. s. frv.), c.

Flygtling sjá Flygtning.

Flygtning (stundum Flygtling), ft. -er, kk., flóttamaður.

Flynder, ft. Flyndre, sk., [flyðra], flyðra, lúða, (sb. heilagfiski), *pleuronectes*. — 2) eins konar ormur sem finnst í lifur (t. a. m. í sauðkindum, Faareflynder).

Flyndergarn flyðrunet.

Flynderskind roð af heilagfiski.

Flytning, sk., það að flytte.

flytte, s. 1, [flytte: flytja = nytte: nytja], a) ós., flytja, færa: F. et Træ i Haven (gróðursetja það á öðrum stað). F. sig høiere op ved et Bord. Han veed ikke om han vil f. Benene hann nennir hvorki að víkja hendi nje fæti. F. noget frem (ind, ned, om, tilbage, tilside, ud). F. en Bondegaard ud (færa bóndabæ úr þorpi og á jörð bæjarins). F. et Gjerde ud færa garð út. — b) h. s., flytja sig, fara búferlum, færa bústað sinn: Han er opsagt af Huusverten og skal f. til Foraaret. F. fra en By. F. til en anden By. F. hen i en anden Gade. F. ind i et Huus. F. bort.

Flyttedag fardagur.

Flyttefold eins konar færikvíar sem fje er haft í til að láta það yrja upp þann stað.

Flyttefolk þjóð sem fer í annað land.

Flyttefærd (sjaldh.), flutningur.

flyttefærdig búinn til burtferðar, ferðbúinn; sem er á förum: „Der frygter jeg, at borgerlig Lyksalighed er f."

Flyttegjerde = Flyttefold.

Flyttegods flutningur (lausafje sem verið er að flytja).

flyttelig, ft. -e, e., flytjaalegur, flytjandi: Flytteligt Gods.

Flytteri, kl, flutningar = flutningsumstang.

Flyttetid fardagsleitið, fardagur.

flyve, fløi, (er) fløien og fløiet, h. s., [flyve: fljúga = lyve: ljúga], fljúga, a) um flugdýr: Strudsen flyver ikke (getur ekki flogið), men løber med udspilede Vinger. En flyvende Drage flugdreki. — Óeiginl.: Ville f. før man faaer Fjædre eða Vinger (takast e-ð í fang, fyr enn maður er fær um það; sb. reisa sjer hurðarás um öxl). — b) um bráða ferð hinsegin: Haaret fløi (flaksaðist, fauk) ham om Ørene. Torklædet fløi (fauk) fra hende i Vandet. Med flyvende (uppsettum) Faner. Han fløi afsted var á fleygiferð, fór sem fætur toguðu eða reið í loptinu. I flyvende Fart í mesta flýti. Huset (Skibet) fløi i Luften.

Flyveaske aska sem verður saman við málma þegar þeir eru bræddir.

Flyveblad, (sb. Blad 2, a), líkt og Flyveskrift.

Flyvebræt fjöl (fyrir utan op á býflugnabúi) sem býflygið sezt á áður enn það fer á stað og þegar það kemur heim aptur.

Flyvedigt (sjaldh.), kvæðiskorn sem heldur er skyndiskript á.

flyvefærdig fleygur.

Flyvegigt flugkveisa.

Flyvegrille heilaköst sem detta í mann.

Flyvehavre (eins konar jurt) *avena fatua.*

Flyvehede (líka Flyvhede) hitaflog.

Flyvehul op — sem býflygið flýgur út og inn um — á býflugnabúi.

Flyveindfald e-ð sem manni dettur allra snöggvast í hug.

Flyvekjærlighed (sjaldh.), ástarupp-þot.

Flyvekuller sjá greinina um Kuller.

Flyvelyst löngun sem dettur í mann allra snöggvast.

Flyven, án ft., sk., það að flyve (þó sjaldan haft um fugla): F. i Lemmerne verkjarumleitun.

Flyveredskab flugfæri.

Flyverygte flugufregn.

Flyvesand flugsandur.

Flyveskrift ritkorn sjer í lagi um e-ð sem mikil umræða er um.

Flyveskytte eins konar hræll.

Flyvetanke e-ð sem manni dettur í hug allra snöggvast.

Flyvetidende flugufregn.

Flyvhast (sjaldh.), flughraði.

Flyvhede sjá Flyvehede.

Flyvspring (í tali), flugreið: Ride i F. ríða í loptinu.

Flæ (líka Flæg), sk., hrossagaukur *scolopax gallinago.*

flæbe (har), h. s. 1, (í tali), skæla, hrina: Sige noget i en flæbende Tone segja e-ð kjökrandi (sb. grátstafr). Tale i en flæbende Tone kjökra.

Flæbedigt úgerðarlegt harmakvæði.

Flæben, án ft., sk., það að flæbe (skælur).

Flæber, ft. -e, kk., sá sem skælir (hrín).

flæde, ás. 1, (sjaldh.), höggva flöt á: F. en Tommestok.

Flæg sjá Flæ.

Flæg, ft. eins, sk., (jurt) *iris.*

flække, ás. 1, líka flakte, flakt, [flekja, sb. flaka], fletta e-u, líkt og kljúfa, fletja: F. (fletta) et Stykke Træ. F. (kljúfa) en Tobak. F. (fletja) en Sild.

Flække, ft. -r, sk., flaga (t. a. m. af steini).

Flækkesild flött sild söltuð og reykt.

flæse, h. s. 1, (sjaldh.), flaka (t. a. m. um skurð).

Flæse, sk., (sjaldh.), sár (skurður) sem gapir.

Fløde, án ft., sk., [e. o. fleyti-r], rjómi.

flode (líka floe), h. s. 1, [flæða], (úrelt), falla að.

flode, ás. 1, [sb. fleyta], (sjaldh.), veiða rjóma ofan af e-u: F. en Botte Melk. (Sb. afskumme).

Flødegrød rjómagrautur.

Flødeiis frosinn rjómi með eggjum og sikri (o. s. frv.) í.

Flødekage eins konar pönnukaka sem rjómi er í.

Flødekande rjómakanna.

Flødepotte rjómapottur.

Flødeskee rjómaskeið.

Flødeskind rjómaskán.

Flødeskæg = Grønskolding.

flødeskægget (sjaldh.), skegglaus (einkanl. um ungan mann, óreyndan og óharðnaðan).

Flødsand flæðisandur sem sjórinn ber á land.

floe sjá flode (h. s.).

Fløi, ft. -e, sk., 1) veðurviti. Sb. Veirhane. — 2) vængur a) helmingur hurðar (þar sem er vængjahurð). — b) að sínu leyti eins um glugga. — c) á Skjermbræt. — d) á borði. — 3) armur húss. — 4) fylkingararmur: Høire (venstre) F.

Fløibord vængjaborð.

Fløibygning hús sem armar eru á.

Fløidør vængjahurð.

Fløiel, án ft., kl., silkiflos eða baðmullarflos: En Fløiels Hat (Kaabe). — Slide F. for Armod (eyða hinu betra, af því mann vantar hið lakara).

Fløielsbaand dregill af silkiflosi eða baðmullarflosi.

Fløielsblomst eins konar blóm.

Fløielsberste flosbusti.

Fløielsgrød eins konar mjúkur og smágerður grautur.

Fløielshue húa úr silkiflosi eða baðmullarflosi.

Fløimand sá sem er yztur (einkanl.) í (hægra) fylkingararm.

Fløistang veðurvitastöng.

Fløite, ft. -r, sk., hljóðpípa: Spille (blæse) paa F.

fløite, ós. og h. s. (har) 1, 1) (sjaldh.), leika á hljóðpípu, a) ás.: F. et Stykke. — b) h. s.: F. efter Noder. — 2) blístra, a) ás.: F. en Melodie. — b) h. s.: F. ad en Hund (kalla á hund með því að blístra). F. efter een (til smánar).

Fløitemager, ft. -e, kk., sá sem býr til hljóðpípur.

Fløiten, án ft., sk., það að fløite.

fløiten, ao., haft líkt og farinn eða genginn fyrir ætternis-stapa: Gaae f. fara = fara að forgörðum. Han er alt f. horfinn (farinn) o. s. frv.

Fløiteri, kl., (sjaldh.), einlægt blístur.

Fløitespil það að leika á hljóðpípu.

Fløitespiller sá sem leikur á hljóðpípu.

Fløitetone hljóð sem kemur úr hljóðpípu eða líkist því.

Fløiteværk hljóðpípur í organi.

Fløs, sk., (eiginl. flennikjaptur), haft í óvönduðu tali í sömu merk. og Flab b.

Fløsmund, kk., (eiginl. flennikjaptur), haft í óvönduðu tali í sömu merk. og Flabmund.

fløsmundet, ft. -mundede, e., í óvönduðu tali = flabmundet.

Fløts, ft. Fløtser, sk., flöt og þunn fló eða flaga af e-u hörðu jarðsefni milli tveggja annara í jörðu.

Fløtsbjerg flögufjall.

Fløtskalk kalkberg í flögufjöllum.

Fløtssandsteen móberg í flögufjöllum.

Fnas, kl., [sb. flasa í höfði], (sjaldh.), hreistur (t. a. m. af kláða).

fnase, s. 1, (sjaldh.), a) ás., flysja. — b) h. s., f. af flagna. — sb. skalle.

Fnat, án ft., kl., kláði, útbrot, (sb. kaun, vos, krefðn).

Fnatmid kláðn-maur.

Fnatmiddel það sem á við kláða.

Fnatsalve kláðnsmyrsli.

fnattet, ft. fnattede, e., kláðfeldur, kláðugur, kláðsjúkur (655 XI).

fnise (har), h. s. 1, [sb. flissa], flissa, geta ekki haldið niður í sjer hlátrinum (sb. það ýskraði í honum hláturinn).

Fnisen, án ft., sk., það að fnise (fliss, hlátur).

Fnug, ft. eins, kl., fys.

fnyse, fnysede eða fnøs, (har) fnyset, h. s., [sb. frýsa], snuggn með nösum af grimmd eða ńþola. — Líka sem ás.: F. Rædsel og Død (þ. e. boða skelfing og dauða með því að snugga). — b) fnasa (Hamarsheimt), geysa, æða: F. af Vrede vera hálreiður, ráða sjer ekki fyrir heipt, rjúka eins og salt.

Fnysen, án ft., sk., það að fnyse (þjóstur, móður, grimmd).

*Focus, kl., = Brændepunkt.

Fod, ft. Fødder, og eins og et., þegar talað er um fet, sk., [fót-r], fótur fyrir neðan ökkla: Gaae med bare Fødder berfættur. Have kolde Fødder vera fótkaldur. Sætte Foden frem taka fram fótinn. Sætte Foden paa noget stíga á e-ð. — 2) talsh. og óeiginl. orðatiltæk., a) með Fod: F. for F. fót fyrir fót, fet fyrir fet (sb. lúra). Tage F. i Haand leggja krók á hala sinn. Paa staaende F. samstundis, umhugsunarlaust. Have den ene F. i Graven vera kominn að fótum fram. Gaae paa faldende F. vera kominn á steypi(ri)nu. Træde noget under Fødderne fóttroða e-ð, traðka e-u. Modsætte sig noget med Hænder og Fødder með hnúum og hnefum. — Komme (blive sat) paa fri F. vera látinn laus úr varðhaldi. Have en fri (reen) F. at staae paa hafa góðan málstað, vera sýkn saka. Staae paa sin egen F. spila uppá sínar eigin spýtur. Hans Sag staaer paa slette Fødder hann hefur illan málstað. Have det paa en god F. vera á góðum vegi staddur. Sb. Fredsfod, Krigsfod. — Tage noget paa en eftertrykkelig (alvorlig) F. gera gangskör að e-u, leggja kapp á e-ð, o. s. frv. — Udmyntning af Penge efter en vis F.; sb. Myntfod. — b) til Fods á fæti = fótgangandi: Reise til Fods ganga = fara á fæti. Komme til Fods koma gangandi. Fegte til Fods berjast á fæti. Tjene til Fods vera í fótgönguliði. Garden til Fods = Fodgarden. Til Fods í þessum dæmum er gagnstætt til Hest (sjá Hest). — Være rask (svag) til Fods vera góður (ónýtur) göngumaður; sb. fljótur (seinn) að hlaupa. — c) með Fode, α) til Fode, í orðatiltæk. falde til Fode (sb. falla til fóta e-m), lítillækka sig fyrir e-m. — β) for Fode hvern á fætur öðrum, niður í strá, hrönnum saman, unnvörpum: Hugge ned for Fode; (sb. hvern þar sem kominn var, hvern í sínu rúmi). — γ) paa Fode upp aptur (í betra ástand að nýju): Komme paa Fode reisa við (aptur). Hjelpe (sætte, bringe) noget paa Fode reisa e-ð við (t. a. m. bringe et Land paa Fode). — B) fet (sem hálf alin dönsk = tólf þumlungar): Fem F. lang fimm feta langur, fimm fet á lengd. — C) stuðull í vísuorði. — D) það sem e-ð stendur á eins og fæti: Foden af en Søile ökkli á súlu. Foden af et Huus undirstaða húss. Sb. Fodstykke. Foden af et Bjerg fjallsrætur. Sb. Bordfod, Sengefod. — E) það sem er neðst eða til fóta: Skrive paa Foden af (neðst á) et Document. Foden af en Seng fótalagið.

Fodangel herspori.

Fodbad fótlaug.

Fodbalde tá(a)berg.

Fodblad iljin.

Fodbred, sk., þverfótar breidd. Sb. Fodsbred.

Fodbræt fótskör.

Fodbækken fótlaugarker.

fode, s. 1, [fóta í fóta sig], a) h. s., hafa fótfestu, standa. — b) ás., í almúgatali ó Sjálandi, í orðatiltæk. fod dig, lyptu upp fætinum, (sem er sagt við hest, sem hefur stigið á e-ð).

Foder (I-II optast framborið og stundum ritað Foer í einni samstöfu), kl., I) það sem fjenaði er gefið, a) án ft., fóður handa peningi, (sb. áfóður): Sætte en Hest paa F. (koma hesti fyrir til fóðra eða eldis) hos en Bonde. — b) eins í ft., gjöf (t. a. m. í fyrirgjöf og eptirgjöf): Hesten har faaet sit andet F. Koen skal endnu have to F. — II) fóður undir föt(um). Sb. Dræt 2, c. — III) án ft., hylki eða laupur eða þvíuml. Sb. Flaskefoder.

*Foderal, ft. -er, kl., hylki til að hafa e-ð í, hús (í ft., t. a. m. Brillefoderal gleraugnahús), skeiðar. Sb. Foder III.

Foderart fóðurtegund.

Foderbaas fóðurbás.

Foderbønne (eins konar baunir) *vicia faba minor*. Sb. Hestebønne, Svinebønne.

Foderdug það sem ætlað er í fóður.

Foderdyrkning fóðuryrkja.

Fodergjeld fóðurkaup. Sb. Foderleie, Foderløn.

Fodergræs gæft hey.

Foderhavre hafrar sem hafðir eru til fóðra. Gagnstætt: Sædehavre.

Foderkarl hrossamaður; líka yfirmaður hrossamanna.

Foderkiste fóðurkista í besthúsi.

Foderkurv fóðurlaupur (sb. heymeis).

Foderlede það þegar skepnur vilja ekki jeta.

Foderleie = Fodergjeld.

Foderlerred fóðurljerept.

Foderlo sá partur af hlöðu sem fóður er haft í.

Foderloft lopt sem fóður er haft uppi á.

Foderløn = Fodergjeld.

Fodermangel fóðurskortur, (heyskortur).

Fodermester yfirhrossamaður.

Foderplante = Foderurt.

Foderpose dálítill poki með fóðri í sem bundinn er um skolt á hestum.

Fodergvæg fóðurpeningur.

Foderrod rót sem gefin er peningi.

Foderskaffer, ft. -e, kk, umsjónarmaður yfir fóðri (þar sem mikil hrossahöfn er).

Foderstud alinaut.

Fodersæk fóðurpoki sem hafður er á ferðum.

Fodertrang fóðurskortur.

fodertrang sem er samfara fóðurskorti: Et fodertrangt Aar fóðurleysisár.

Fodertrug fóðurkassi.

Foderurt fóðurjurt. Sb. Foderplante, Fodervært.

Foderværk (í þessu orði er að tiltölu optar ritað Foer- f. Foder-, enn í hinum samsettu orðunum), án ft, = Pelsværk.

Fodervært = Foderurt.

Fodfald það að falla til fóta e-m.

Fodfolk fótgönguliö. Gagnstætt: Hestfolk, Rytteri.

Fodfæste fótfesta: Faae (komme til) F. koma fyrir sig fótum, fóta sig. Have F.

Fodgang hægur gangur (um menn og hesta): Vi gik en ganske jævn F. gengum hægt og hægt. „At Hestene ikke kunne gaae uden F." nema fót fyrir fót.

Fodgarde þeir höfuðverðir sem eru fótgönguliö.

Fodgjerde fótalag.

Fodgrund (sjaldh.), undirstaða.

Fodgænger, ft. -e, kk., gangandi maður; góður (eða þvíuml.) göngumaður: Være en god F.

Fodjern fótajárn.

Fodknegt (úrelt), maður af fótgönguliði.

Fodkys það að kyssa á fót e-m: Stedes til F. hos Paven.

Fodled fótliður, ökklaliður.

fodlet (sjaldh.) = letfodet.

fodløs (sjaldh.), fótlaus.

Fodmaal mál í fetum: Skal det beregnes efter F. eller Alenmaal á að mæla í fetum eða álnum?

Fodpose fótapoki (sem maður hefur á ferðalagi). Sb. Fodsæk.

Fodpost göngupóstur.

fodrap (skáldl.) = fodsnar.

fodre (optar ritað fore eptir framburði), ás. 1, I) fæða (sb. fæða ærnar eptir um veturinn), gefa skepnum: F. sine Heste godt gefa þeim vel, kapp-ala þó. F. med Havre (Emter, Halm) gefa hafra (o. s. frv.). F. af gefa seinustu kvöldgjöfina. — II) fóðra (t. a. m. föt): F. en Overkjole med Silketøi. — F. (velja) et Ankertoug.

Fodreise ganga (ferðast á fæti).

Fodreisende, [sb. reise], sá sem ferðast á fæti.

Fodring (uptar Foring eptir framburði), sk., I) það að fodre I (gjöf): Creaturenes F. — II) það að fodre II. — Foringen paa et Skib borð sem (þiggj.) skipið er lagt innan.
Fodrustning (sjaldh.), fótabúnaður.
Fodsaale iljin.
Fodsbred, sk., = Fodbred.
fodse, ás. 1, setja fótinn í; (sb. lemja fótastokkinn).
Fodsfjed (sjaldh.), fótmál.
Fodsid skósiður: En f. Kjortel.
Fodskammel fótskemill (Fms. V, 301).
Fodskifte fótatak: Denne Hest har et godt (usikkert, snevert) F.
Fodslag hófatak: Hestens F.
fodsnar (skáldl.), fóthvatur.
Fodsokke = Sokke.
Fodsot (forn), fótaveiki.
Fodspor fótspor. — Óeiginl.: Træde i eens F. feta í fótspor e-s.
Fodsti = Gangsti.
Fodstykke jarðstokkar í húsveggjum. Sb. Fodtræ. — b) fótalagshluti: Fodstykket af en Seng.
Fodstod það að setja fótinn í e-ð. — b) viðspyrna.
Fodsvang = Svang.
Fodsæk = Fodpose.
Fodtraad, sk., (sjaldh.), fótaskör, fótastallur.
Fodtrin = Fodspor. — b) fet, skref. — c) fótastallur, fótskör.
Fodtræ jarðstokkar í húsveggjum á landsbyggðinni. Sb. Fodstykke a.
Fodtvæt fótaþvottur.
Fodtøi skófatnaður, skóföt, skóklæði (Laxd.).
Fodtømmer jarðstokkatimbur (sb. Fodstykken, Fodtræ).
Fodvand fótlaugarvatn.
Fodvaskning fótaþvottur.
Fodvei = Gangsti.
Fodværk fótaverkur.
Foer sjá Foder I-II.
Foerværk sjá Foderværk.
Fog, kl., [fok], sjaldh. út af fyrir sig, fok. Sb. Sneefog.
Fogdegaard fóetagarður.
Fogdekorn sjá Fogedkorn.
Fogderi, n. -er, kl., fóetadæmi, bæði sem fóetaembætti og fóetasýsla (hjerað sem fóeti er settur yfir).
Foged (með greininum ýmisl Fogeden eða Fogden), n. -er, kk., um ýmiss konar embættismenn, 1) í Danmörk, a) líkt og dómari eða rjettari. Sb. Birkefoged, Byfoged, Herredsfoged. — b) Kongens F. i Kjøbenhavn konungs fóeti í Kaupmannahöfn hefur það embætti, að kyrsetja fje skuldugra manna, setja menn í varðhald eptir dómi, og ýmislegt fleira. Sb. Underfoged b. — c) umsjónarmaður. Sb. Bondefoged, Havnefoged, Ladefoged, Ridefoged, Skovfoged, Sognefoged. — 2) í Norv., skattaheimtumaður.
Fogedinde, n. -r, kvk., (sjaldh.), fóetakona.
Fogedkorn (líka Fogdekorn) korn sem goldið er dómurum á landsbyggðinni.
Fogedtjeneste fóetaembætti.
Fok, sk., hið neðra framsegl á hafskipi með þremur siglum, framsegl á minna hafskipi.
Fokkemast sjá Fokmast.
Fokkemærs laupur á framsiglu.
Fokkeraa framsiglurá.
Fokmast (líka Fokkemast) framsigla á hafskipi með þremur siglum.
Fol, nafn, haft í orðstiltæk. være i F. vera fylfull (um kapal).
Fold, n -e, sk., rjett, tröð, stekkur, kvíar. Sb. Flyttefold.)

Fold (líka Folde), n. Folder, sk., [sb. falda og fald-r], brot, hrukka; einkanl. felling eða ferð á fati.
1. folde, ás. 1, [falda], leggja e-ð í fellingar: F. en Krave. F. et Brev sammen brjóta brjef. F. Klæderne op om sig stytta sig. F. sine Hænder fórna höndum; sb. spenna greipnr. — F. noget ud rekja e-ð (t. a. m. dúk) í sundur.
2. folde, ás. 1, (sjaldh.), reka e-ð í rjett (stekk), kvía, traða.
Folde sjá Fold.
Foldebænk = Slagbænk.
Foldekast ferð á fötum (t. a. m. í skripl).
Foldekniv sjálfskeiðingur, vasahnífur.
Foldekrave hálsskyrta með fellingum.
Foldeseng = Feltseng.
Foldestol stóll er leggja má saman.
foldeviis, ao., í fellingum.
Foldning, sk., það að leggja e-ð í fellingar.
Fole, n. -r, sk., [foli], (eiginl. hestur sem er eldri enn tvævetur og yngri enn fjögra vetra), foli. (Sb. Plag.)
fole (har), b s. 1, kasta (um kapal).
Folemester sá sem á að sjá um folaldskapla (í stóru stóði).
Foletid sá tími þegar kapall kastar eða er kominn að köstum.
*Foliant, n. -er, sk., bók í arkarbroti.
*Folie, sk., gljáblað (undir skuggsjárgleri eða gimsteini). Sb. Glandsblad.
Foling, sk., það að fole (sb. vera komin að köstum).
*Folio, sk., í orðstiltæk. i F. í arkar broti, í tveggja blaða broti.
Folk, n. eins, kl., [fólk], 1) fólk = menn, a) ætíð í ft.: Han er meget for at drille F. hann hefur gaman af að erta menn. Fornemme F. heldra fólk. Skikkelige F. Folk var endnu oppe i Byen. Være som F. er flest. Have været iblandt F. (hafa verið hjá ókunnugum eða vandalausum). F. sige menn segja, sagan segir. — b) eptirstöðvar af hinni fornu et.: Godt F. (í tali), góðir menn (opt = menn tómt), t. a. m. hvor godt F. er, kommer godt F. til. — 2) í tali, einkum hjá almúga, um einstakan mann, einkanl. kvennmann: Hun er et stilfeligt F. hún er ráðvönd. Han bliver nok til F. það verður maður úr honum. (Sb. Mandfolk, Qvindfolk.) — 3) í ft., fólk (líkt og ættfólk eða heimilisfólk): Være af fornemme F. vera af góðum ættum (háum stigum). Alle Gaardens F. allt fólk á bænum. — b) sjer í lagi, vinnufólk: Holde mange F. hafa margt vinnufólk. Folkenes Mad vinnufólks matur. Folkenes Senge vinnufólks rúmin. Vore F. ere i Marken vinnufólkið er á akri. — 4) í ft., lið: Fore sine F. i Marken. (Sb. Fodfolk, Heftfolk.) — 5) sjaldh. nema í et., þar eð Folkefærd eða Folkeslag er optast nær haft fyrir ft., þjóð: Det danske F. — 6) lýður = alþýða: Hige efter Folkets Gunst.
Folkebeslutning ráðsályktun á þjóðstefnu.
Folkeblanding þjóðasambland.
Folkebog bók handa alþýðu.
Folkedannelse þjóðarmenntun.
Folkedigter alþýðuskáld.
Folkedod mikill manndauði; drepsótt.
Folkeegenhed þjóðareinkunn, þjóðerni.
Folkefader góður höfðingi (stjórnari). Sb. Landsfader.
Folkefest þjóðhátíð. — b) almúgahátíð, tyllidagur hjá almúga.

Folkefjed mannaferill, mannaslóð.
Folkeforbund þjóðasamband.
Folkeforstander þjóðstjóri.
Folkeforædling þjóðarframför.
Folkefrihed þjóðarfrelsi.
folkefyldt, [sb. fylde], ofsettur af mönnum: „Hiint folkefyldte Land".
Folkefærd, n. eins, kl., a) (sjaldh.), ættbálkur, ættbogi; ætterni. — b) þjóð (einkum að því leyti er lýtur að uppruna).
Folkefode það sem er ætt.
Folkefølge (sjaldh.), fylgdarlið.
Folkegavn þjóðarþarfir.
Folkegunst alþýðuhylli, vinsældir. Sb. Folkeyndest.
Folkehandel (sjaldh.) = Menneskehandel.
Folkehob mannþyrping: En stor F. flokkedes efterhaanden paa Torvet.
Folkehæder þjóðarsæmd.
Folkehovding fólks-oddviti.
folkekjær siðblendinn, mannblendinn, viðræðisgóður. Gagnstæð: folkesky. — b) t. a. m. um konung, sem ann þjóð sinni, (sb. gumnn vinur, og þvíuml., í fornum kveðskap): Den faderlige, folkekjære Herster.
Folkekreds mannfundur, alþýðufundur.
Folkelagen vinnufólks rekkjóðir.
Folkeleder = Demagog.
folkelig, n. -e, e., alminnilegur = ekki afkáralegur nje frábrugðinn öðrum, sem er eins og aðrir menn: Siden han fik andre Klæder, er han bleven mere f. — b) mannblendinn, siðblendinn, alltilegur, þægilegur, viðkunnanlegur, n. s. frv. — c) vinsæll (ástsæll, þokkasæll, vel þokkaður) af alþýðu.
Folkeliv lifernishættir í e-u landi, landsbragur, landssiðir: Skildringer af Folkelivet.
Folkelove, n., lög í milli þjóða.
Folkelærer fræðari alþýðunnar.
Folkelæsning bækur handa alþýðu.
Folkeløn vinnufólkskaup.
Folkemagt vald þjóðarinnar.
Folkemangel mannfæð.
Folkemening almanna-rómur; ætlun alþýðu.
Folkeminde manna minni: Det er endnu i F. í manna minnum.
Folkemunde, n., (eiginl. mannamunnar), hámæli, alræmi: Komme (være) i F. verða (vera) alræmdur.
Folkemængde fólkstala, fólksfjöldi, fólksmergð, manngrúi.
Folkemode þjóðarsamkoma.
Folkenød bágindi heillar þjóðar.
Folkeoplysning þjóðarmenntun.
Folkeran mannrán (það að ræna mönnum).
Folkeregjering = Demokratie.
Folkeret skyldur og rjettindi þjóðanna sín á milli.
Folkerettighed alþýðurjettindi.
folkerig fjölmennur (um stað): En f. Stad.
Folkerigdom mikil fólksmergð (t. a. m. í e-u landi).
Folkerighed, sk., það að vera folkerig.
Folkeroes alþýðulof.
Folkerv almannarómur.
Folkesagn munnmæli.
Folkesamfund þjóðarfjelag.
Folkesang kvæði sem er títt meðal alþýðu.
Folkesanger sá sem yrkir handa alþýðu.
Folkeseng rúm handa vinnuhjúi (sjá greinina um Folk, 3, b).
Folkeskare mannþyrping, hersing.
Folkeskat skattur sem húsbóndi geldur fyrir vinnufólk sitt.

**Folkeskik** landssiðir. — b) siður á milli þjóða.

**Folkeskole** þjóðlegur skóli. — b) skóli handa þeim sem ekki eiga að læra (nær bæði yfir Borgerskole og Almueskole).

**folkesky** ómannblendinn, mannafælulegur.

**Folkeskyhed**, sk., það að vera folkesky.

**Folkeslag** (líka Folkeslags), kl., = Folkefærd.

**Folkeslags** sjá Folkeslag.

**Folkeslægt** þjóða-ætt.

**Folkesnak** þvaður manna á meðal.

**Folkestamme** þjóðbálkur: Den gothiske F.

**Folkestat** (sjaldh.), lýðstjórnarríki.

**Folkestifter** (sjaldh.), sá sem stofnar ríki.

**Folkestue** hjúahús.

**Folkestyrer** fólkstjóri.

**Folkestævne** = Folkemøde.

**Folketarv** þjóðarþarfir.

**folketom** auður að fólki: De folketomme Gader.

**Folketro** almenn trú: Det er en F. i denne Provinds.

**Folketælling** manntal.

**Folkevandring** þjóðarflutningur.

**folkevant**, [sb. vænne], vanur við að vera hjá mönnum.

**Folkevel** þjóðarheill.

**Folkevelstand** velmegun í landi.

**Folkevise** almúgakvæði.

**Folkevrimmel** urmull af fólki, manngrúi.

**Folkeværdighed** það sem ætti að vera varið í heila þjóð.

**Folkeværge** (sjaldh.), sá sem tekur málstað lýðsins.

**Folkeyndest** ástsæld af alþýðu, mannheill: Være i F. Sb. Folkegunst.

***Fond**, sk., (eiginl. botn, grunn), grundvöllur, undirstaða, o. s. frv.

***Fonds**, ft. eins, kl., (eiginl. leodur, jarðir), fje (í n.), innstæða, o. s. frv.

**Font**, sk., fontur. Sb. Døbefont.

***Fontaine**, ft. -r, sk., = Springvand.

***Fontenelle**, ft. -r, sk., gat á holdi sem baun er höfð í.

**for**, [for, t. o. m. Fms. V, 194, og í mörgum samsettum orðum], I) fs., A) um stoð, 1) þar sem fyrir stýrir þiggj. á ísl., a) í óaukinni staðlegri merk., fyrir framan: Han stod f. mig. Det laae lige f. mine Øine. — Sidde f. (við) Bordenden. — β) þar sem merk. hefur hoggazt nokkuð, líkt og á ísl.: Det suser f. mine Øren jeg hef suðu fyrir eyrunum. Jeg har ondt f. Hjertet mjer er illt fyrir hjartanu, jeg hef lítilleik fyrir hjartanu. Jeg har ondt f. Brystet mjer er illt fyrir bringspölunum, jeg hef verk fyrir bringspölunum. — b) í aukinni merk., α) fyrir (til tálma): Staae i Veien f. een vera fyrir e-m (svo hann komist ekki áfram); standa e-m í ljósi. — β) fyrir e-u, til að hlífa eða skýla því (have Slør f. Ansigtet), eða til að loka eða læsa. — γ) fyrir (t. a. m. í orðatiltæk. taka ofan fyrir e-m): Falde paa Knæ f. een. Knæle f. een. Bukke f. een hneigja sig fyrir e-m, lúta e-m. Reise sig f. een. Staae op f. een. Tage Hatten af (taka ofan) f. een. — δ) fyrir (líkt og frammi fyrir) e-m, eða í viðurvist e-s: Prædike f. Bispen (svo að biskup sje við). Han tilstod det f. de Tilstedeværende svo allir heyrðu, sem við voru. F. Alles Øren svo að allir heyrðu, upp yfir alla. F. Alles Øine í allra augsýn. — Læse noget f. een = forelæse een noget. Spille noget f. een (leika e-ð á hljóðfæri fyrir e-n svo að hann heyri). — 2) þar sem fyrir stýrir þol. á ísl., a) í upphaflegri merk., fyrir: Komme f. Kongen koma fyrir konung. Føres frem f. Dommeren (Retten). Kom ikke mere f. mine Øine. — β) líkt og framan á: Støde een f. Brystet (sb. Þorsteinn... stakk blóðreflinum fyrir brjóst honum). — Óeiginl.: Støde een f. Hovedet styggja e-n. — b) í aukinni merk., α) fyrir e-ð, til að hlífa eða skýla því (trække Gardinet f. Sengen draga sparlakið fyrir), eða til að loka eða læsa (skyd Slaaen f. Døren; sb. skjóta slagbrandi fyrir dyrr, Dropl.), eða til að stemma (dæmme f. Møllevandet). — β) fyrir, til að draga: Spænde f. Vognen. — B) um tíð, 1) þar sem fyrir stýrir þiggj. á ísl., á dönsku með siden: F. et Aar siden fyrir ári. F. en Maaned siden fyrir mánuði. — Sömuleiðis: F. længe siden fyrir löngu, eða (forn), og enn fyrir vestan) tómt löngu. F. kort siden fyrir skömmu, (skömmu tómt, Fms. VI, 385). — 2) þar sem fyrir stýrir þol. á ísl., a) fyrir (t. a. m. fyrir jól = áður enn jólin komu eða koma): Staae op f. Dag. Længe f. Juul. Noget (nokkru) f. Paaske. Mange Aar f. min Tid. F. og efter Dagens Opfyldelse. „Kongelig Ære, som ingen Konge havde havt f. ham." Sb. før. — b) þar sem talað er um undirbúning undir e-n tíma, eða e-ð, og vant er að sleppa fyrir á ísl., og komast öðruvísi að orði: Forsyne sig f. et Aar árlangt. Jeg har Brænde f. hele Vinteren nógan brennsluvið í allan vetur eða vetrarlangt. Kost f. en Maaned mánaðar-fæði. — C) í óeiginl. merkingum, 1) þar sem fyrir stýrir (eða mundi stýra) þiggj. á ísl., a) fyrir e-m (svo hann komist áfram): Lukke Døren op f. een. — b) fyrir (t. a. m. í: vinna fyrir mat sínum; sb. vera að stríða fyrir e-u). — c) fyrir (líkt og til hjálpar e-m), þar sem það stýrði þiggj. í fornöld, en optast þol. á vorum dögum: Gjøre sig Umage f. een leggja sig í framkróka fyrir e-n. Tale f. een tala máli e-s. Bede f. een bæði biðja fyrir e-m til guðs, og biðja fyrir e-n að honum sje ekki mein gjört (sem fornmenn einnig kölluðu að biðja fyrir e-m). (Sb. 2, g.) — d) þar sem vjer höfum reyndar fyrir með þol. í þeim talsháttum, er næst komast (sb. vera hneigður fyrir e-ð), af því þeir eru ekki hugsaðir eins og hinir dönsku, á e-u: Være f. en Sag vera á e-u (= vera e-u meðmæltur). Jeg er ikke f. (mjer er ekki um, mjer er það í móti skapi), at han skal reise. — En: Han er meget f. (hann er hneigður — gefinn — fyrir) at drikke Folk. — e) smigre (hykle) f. een smjaðra (hræsna) fyrir e-m. Beklage sig f. een berja sjer við e-n. Lyve f. een ljúga að e-m. — f) fyrir (t. a. m. í: flýja — renna, falla — fyrir e-m): Flygte (vige) f. een. Romme Huset f. een. Give efter f. een láta undan e-m. Falde f. Fiendens Sværd falla fyrir óvinum sínum. — g) við (t. a. m. í: vera hræddur við e-n eða e-ð): Være bange f. een. Frygte f. een. Forskrækkes (blive bange) f. noget; sb. mjer ufbýður það. — h) um (t. a. m. í: vera hræddur um e-ð að það verði): Frygte f. noget. — i) um (t. a. m. í: vera hræddur um e-n að honum hlekkist á): Være bekymret (bange, ængstelig) f. een eða noget. — k) fyrir (t. a. m. í: ala önn fyrir e-u), um (t. a. m. í: vera áfram um e-ð, eða hinu forna orðatiltæk.: ala önn um e-ð): Sørge f. noget annast e-ð. Være ivrig (nidkjær, omhyggelig) f. noget. — l) sem lækning við e-u: Søge Raad f. Tandpine (Gigt, Døvhed). Bruge noget f. Gigt. Det hjelper f. (á við) Gigt. — m) curere een f. noget (t. a. m. Svindsot) lækna e-n af e-u. — n) bare sig f. Latter eða f. at lee stilla sig um að hlæja. — o) fyrir e-m eða e-u (t. a. m. í: þjer er óhætt fyrir honum), o. s. frv.: Være sikker f. noget. Være fri f. (þurfa ekki að borga) Skat. Vide sig fri f. noget vita sig saklausan af e-u. — p) fyrir e-m svo hann komist ekki að því: Gjemme (dølge) noget f. een. — q) fyrir e-u, líkt og vegna e-s: Vi maae holde Vagt f. Tyve. — r) fyrir e-m = vegna e-s: F. mig (min vegna) maa han gjøre hvad han vil hann má gera hvað sem hann vill fyrir mjer. — s) fyrir e-u = vegna (sakir, sökum) e-s: Hun kunde ikke tale f. Graad kom ekki upp orði fyrir ekka. Man kan ikke være her f. Træk hjer er óverandi fyrir súgi. — t) advare een f. noget vara e-n við e-u. Vogte sig f. noget (varna við e-u, forn), vara sig á e-u, varast — forðast — e-ð. — u) undslaae sig f. noget skorast undan e-u. — v) til (t. a. m. í: kenna sig mann til e-s): Han er Mand (Karl) f. at gjøre det honum verður ekki stórt fyrir því. Være god f. noget vera fær um e-ð. — x) fyrir e-u (t. a. m. í: vera forsprakki fyrir e-u, eða þar sem vjer höfum eig. án fs.: Være Forstander f. (ráða fyrir, vera settur yfir) en Stiftelse. Han er Formynder f. Bernene. — y) eptir sögnir og einkunnir, sem merkja skort: Være blottet f. Alt vera allslaus. Nogen f. Linned línklæðalaus. — Reen f. Synd syndlaus. — z) fyrir e-m (óvart): Det gik itu f. mig hrökk (fór) í sundur fyrir mjer. Bogen er bleven borte f. mig jeg hef einhvernveginn misst bókina. — þ) á e-m (t. a. m. í: hafa óbeit á e-m): Have Afsky f. een. Jeg har Agtelse f. ham mjer þykir mikið til hans koma (mikið í hann varið). Jeg har Godhed f. ham mjer er vel við hann (vel til hans). — æ) ligge f. Døden liggja fyrir dauðanum, vera að dauða kominn, vera kominn að fram. — 2) þar sem fyrir stýrir eða mundi stýra þol. á ísl., a) det kom f. Kongen kom (barst) fyrir konung, kom til eyrna honum. Bringe noget f. Lyset leiða e-ð í ljós. — b) jeg kom f. Skade og nævnede hans Navn mjer varð það á (jeg var svo klaufi), að jeg nefndi hann. — c) um það sem maður girnist eða heimtar eða þarf á að halda: Være syg f. noget vera ólmur í e-ð. — Kræve een f. noget um e-ð. Overhænge (plage) een f. noget særa e-n um e-ð. — Være i Trang f. Penge vera í þröng um peninga, þurfa á peningum að halda. — d) um e-ð sem maður hefur misst: Sørge f. een syrgja e-n. — e) fyrir e-ð = vegna e-s, sakir e-s, sökum e-s, (sb. fyrir þær sakir, og hið forna fyrir þeim sökum): Laste (dadle, rose, berømme) een f. noget. Blive vred paa een f. hans Dovenskab (vegna þess, hvað hann sje latur). Holde af een f. hans Flid. — Líka f. eens (en Tings) Skyld vegna e-s, o. s. frv.: F. mine Børns Skyld. F. min Æres Skyld. — f) gjøre Regnskab f. noget gjalda skynsemi fyrir e-ð (forn = gera reikningsskap þess). — g) líkt og í hag e-m eða í þágu e-s, eða til eflingar e-u: Jeg glemmer aldrig hvad han har gjort f. mig mjer mun seint firnast, hvað jeg á honum upp að unna. (Sb. 1, c.) — h) þar sem vjer höfum jafnaðarlega eig. eða þiggj. án fs: En Trøster (Tilflugt) f. de Ulykkelige huggari (athvarf) þeirra sem bágt eiga. Til Fordeel f. een e-m í hag. Det er godt (heldigt, uheldigt) f. ham. F. mig er intet Haab jeg á öngrar (öngva) uppreisnar von. F. mig er Sagen ligegyldig; men den er det ikke f. ham mjer stendur á sama; en honum ekki. F. den Rene er alting reent allt er hreinum hreint. Hvad der er fundt f. een, er det ikke altid f. en anden (sb. Er þat illt manni? Eg. 604). Det er skadeligt f. Helbreden það er óhollt (óheilnæmt). — i) að (t. a. m. í: að því leyti): Jeg, f. min Deel (jeg fyrir mitt

Forsvarsstand það að vera hæfur til varnar: Sætte en Fæstning i F. (búa kastala til varnar).

Forsvarstale varnarræða.

Forsvarsvaaben hlífar. Gagnstætt: Angrebsvaaben.

forsvarsviis, ao., eins og þegar varizt er: Gaae f. til Værks gera ekki annað enn verjast.

forsvedt, [sb. svede], kófsveittur, allur löðrandi í svita.

forsvige = svige.

forsvinde hverfa, líða burt, dvína, eyðast: Han forsvandt for vore Dine. Duggen (Taagen) forsvinder for Solen.

Forsvinden, sk., hvarf.

forsviret, [sb. svire], eptir sig af drykkjuskap.

forsvælke = svække.

forsværge, ás., sverja þess (sverja sig um) að maður skuli hafna e-u: F. Brændeviin (Spil). Jeg har forsvoret, at komme der svarið mig um nð koma þar aldrei. — b) ville f. þora nð sverja fyrir: Jeg vilde have forsvoret (jeg hefði þorað að sverja fyrir), at det var ham; saa ukjendelig var han. — c) f. sig sverja meinsæri, (sb. sverja sig til helvitis).

Forsværgelse, sk., það að forsværge.

Forsværm fyrri býflygishnappur sem kemur úr flugnabúi sama ár og annar. Gagnstætt: Eftersværm.

Forsyn, án ft., forsjón: Stole paa Guds F. Lade Forsynet raade. Forsynets urandsagelige Veie.

forsynde, ás., i f. sig syndgast: F. sig imod (á) een.

forsyne, ás. 1, byrgja e-n eða e-ð að e-u: F. sit Huus med Fødevarer. F. sig for et Aar. F. sig godt til en Reise. Være forsynet med noget vera byrgur að e-u. F. sig mod Kulden dúða sig svo kuldinn komist ekki að manni. F. et Embede reka embætti annars (þegar hann er ekki við látinn).

Forsynelse, sk., = Forsyning.

Forsyning, sk., það að forsyne.

forsynlig, a) ft. -e, e., útsjónarsamur, (sb. fornbýll): En f. Huusfader. — b) sem ao., gætilega.

Forsynlighed, án ft., sk., útsjónarsemi. — b) = Forsigtighed.

forsyre of-sýra.

Forsæde fram-set: Forsædet i en Karreet. — b) tignarsæti, öndvegi: Have Forsædet (vera forseti) i et Raad. Møderne holdes under hans F. hann er forseti á samkomunum.

forsælge i f. sig selja af sjer, selja sjer í skaða.

Forsæt, ft. -ter, kl., [sb. foresætte], 1) (sjaldh.), eiginl., það sem er sett fyrir framan e-ð: Et F. af Pap for Vinduer. — 2) óeiginl., a) áform, ásetningur, það sem maður hefur í hyggju: Fatte et F. áforma e-ð. Med frit F. af ásettu ráði; sjálfkrafa. — b) úrelt = Indlæg d.

forsætlig, a) ft. -e, e., gerður af ásettu ráði, sem e-r gerir viljandi eða vísvitandi: Et forsætligt Mord. En f. Skade. — b) sem ao., af ásettu ráði, viljandi, vísvitandi: Gjøre noget f.

Forsætlighed, án ft., sk., það að vera forsætlig a.

Forsætning fremri hluti greinar. — b) önnur hvor fyrri greinin í ályktun.

forsætte, ás., 1) eiginl., a) setja e-ð á rangan stað: Bogen er bleven forsat. Sætteren har forsat denne Linie. — b) Skibet blev forsat (skipið hrakti eða bar) af sin Curs ved Strømmen skipið flatti fyrir straumi. — c) blanda: F. Kobber med Tin. — 2) óeiginl., a) setja e-u á rangan stað: Denne Bonde er forsat i sin Landgilde borgar of mikla landskuld. — b) (sjaldh.), spilla e-u: F. sin Helbred. — c) kippa vexti úr skepnu: „Slige unge Heste forsættes derved i deres Vært og Styrke“ það kemur kyrkingur í þá.

forsøde, ós. 1, sæta (6:3 á 28. bls.). — Óeiginl. = ljetta, gera e-ð ljettbært eða ljettbærara: F. Livets Sorger (Kummer, Møie).

Forsødelse, sk., það að forsøde.

Forsøg, ft. eins, kl., tilraun, raun, viðleitni, viðburðir: Gjøre (foretage) et F. Forsøget lykkes (mislykkes, falder slet ud). Physiske (chemiske, electriske) F. Alle hans F. vare forgjeves. Gjøre mange F. paa noget gera margar atrennur að e-u.

forsøge, ás., reyna a) líkt og freista e-s, kosta (reyna til) að gera e-ð: F. sig i Verden. F. sin Lykke. F. forskjellige Midler mod en Sygdom (sb. hefir nokkura verit leitað um meðu hennar). Vi maae f. (eða f. paa), om det vil lykkes. — b) líkt og þola, verða fyrir e-u: Han har forsøgt megen Gjenvordighed. En forsøgt (reyndur) Mand. — c) (sjaldh.), freista manns (til ills).

forsølve, ás. 1, silfra e-ð; einnig óeiginl., setja silfurlegan lit á.

Forsølvning, ft. -er, sk., silfring.

forsømme, -sømte, -sømt, ás., vanrækja (655 XXXII; sb. afrækjast rétt at gera, Gþl.), hirða e-ð ekki eða illa, hirða ekki (eða illa) um, o. s. frv.: F. sine Pligter. F. sit Embede. F. sine Børn. Han er forsømt i sin Opdragelse eða Ungdom (honum hefur ekki verið kennt mikið í ungdæmi sínu; sb. hafa ekki lært neinn góðan guðstitil). F. den beleilige Tid sitja af sjer gott tækifæri. Dette maa du endelig ikke f. Han forsømmer sig ikke (hann sjer um sig að verða ekki af því sem býðst; sb. sjaldan bregzt mjaldur á miði).

forsømmelig, ft. -e, e., hirðulaus: F. i sit Embede.

Forsømmelighed, án ft., sk., hirðuleysi.

Forsømmelse, ft. -r, sk., vanrækt, (hirðuleysi).

forsørge, ás., A) f. sig dragast upp á sorg. — B) án sig a) standa straum af e-u, sjá e-m farborða, færa fram ómaga (Grágás): Han har ikke faa meget, at han kan f. en Familie. Hans Døttre ere godt forsørgede (það er sjeð vel fyrir þeim). — b) (sjaldh.) = forsyne: F. een med Klæder.

Forsørgelse, sk., framfærsla (t. a. m. ómaga), o. s. frv.: Datteren har faaet en god F. i Klosteret (það er sjeð vel fyrir henni með því að koma henni í klaustrið).

Forsørger, ft. -e, kk, sá sem stendur straum af e-m, o. s. frv.

*Fort, ft. -er, kl., smó-kastali.

fort, ao., áfram: Fare f. = fortfare (t. a. m. fare f. at kæmpe halda upp orustu). — b) hratt (hraði).

fortabe glata e-u, týna e-u: Fortabes eða blive fortabt glatast, fyrirfarast, fara illa. — Ho. l. t. fortabt, sem e., hnugginn, dapur, hrelldur: Han saae ganske fortabt ud.

Fortabelse, sk., missir, tjón: Forbyde noget under Livs og Æres F. (banna e-ð og leggja við líf og æru). — b) glötun, fyrirdæming: „Frelse Sjælen fra Synd og F.“

Fortag heimild á að taka e-ð fyrst.

fortage, ás., a) úrelt, taka e-ð burt, eyða e-u. — b) f. sig oftaka sig.

Fortale formáli (sjer í lagi fyrir bók, eins og á ísl.): Her behøves ingen lang F. hjer þarf ekki lengi að troða fyrir sjer (sb. Nj. 229).

fortale, ás., 1) (nú sjaldh.), tala illa um, bakbíta, baknaga, (sb. bagtale). — 2) f. sig mistala sig, láta sjer verða mismæli.

Fortaler (með áherzluna á a), kk., sá sem bakbítur e-n.

Fortaler (með áherzluna á o), kk., formælandi e-s (Hávam.), sá sem talar máli e-s eða tekur málstað e-s.

Fortand framtönn.

Fortegn, 1) merki sem er fyrir framan e-ð, einkanl. sönglykill. — 2) = Forvarsel.

fortegne, ás., 1) draga e-ð skakkt upp: Denne Arm er reent fortegnet (af pentaranum). — 2) = optegne.

Fortegnelse, ft. -r, sk., skrá, (registur): Gjøre F. over noget skrá e-ð.

Fortegning (með áherzluna á e), sk., skakkur uppdráttur.

Fortegning (með áherzluna á o), sk., sönglykla-setning (sb. Fortegn 1).

fortfare halda áfram.

Fortgang = Fremgang.

Fortid, án ft, liðin tíð, liðnar aldir: F., Nutid og Fremtid. Fortids Sæder (Skikke). Fortids er líka opt ritað sem fremri partur í samsettu orði, t. a. m. Fortidsminde.

fortie, ás., þegja yfir e-u: F. noget for een dylja e-n e-s. — 2) f. sig, e. o. þegja af sjer (að sínu leyti eins og tala af sjer), ekki haft nema í talsh. man kan snarere fortale sig, end f. sig (það er hættara við, að maður tali af sjer, enn o. s. frv.).

Fortielse, sk., það að fortie (þögn — þagmælska — um e-ð).

*Fortification, sk., víggirðing; víggirðingalist.

*fortificere, ás. 1, víggirða.

fortil, ao., framan til, framanvert: F. (fram) i Vognen.

fortinge, ós., gera samning (semja, verða ásáttur) um, takast e-ð á hendur fyrir ákveðið kaup: F. et Arbeide (D. L.). — 2) f. sig hafa af sjer (hafa óhag) á samningi.

Fortingning, sk., það að fortinge 1: Arbeidets F. Have et Arbeide i F. (hafa tekizt verk á hendur fyrir ákveðið kaup).

fortinne, ás. 1, tina e-ð.

Fortinning, sk., tinun.

fortjene, ós, afla sjer e-s, (innvinna sjer), græða: Der falder endeel at f. það hrýtur að manni. Hvad han fortjener, drikker han op i Kroen. F. mange Penge græða mikið fje. Paa disse Varer er kun lidt at f. Jeg har intet fortjent ved denne Handel ekki ábatazt neitt á þessu kaupi. — b) vinna til e-s, (sb. eignast namn sitt í góðum siðum), eiga e-ð skilið, (sb. forskylde 1): F. Tak. F. Berømmelse. Han har fortjent sin Skjebne (Straf það var ekki von að vel færi fyrir honum); sb. það kom vel á vondan, það var honum mátulegt. Han fik sin fortjente Straf makleg málagjöld. Dette havde jeg ikke fortjent af ham jeg átti það ekki að honum. — Ho. l. t. fortjent, sem e., sem á gott skilið: Gjøre sig fortjent af Fædrelandet vera gagnsamur ættjörðu sinni. En meget fortjent Mand nýtasti maður.

Fortjeneste, sk., 1) án ft., a) afli, vinnuafli (60), gróði, ábati: Have F. af noget hafa e-ð til fjár sjer. Dette var min hele F. — b) tilverknaður, tilgjörð (655 XXV), verðung, verðleiki, maklegleikar: Straffes (belønnes) efter F. Han opnaaede denne Ære uden al F. — 2) með ft. -er, verðleikar (sem verk eða athafnir):

Paa Grund af hans Fortjenester. Han har mange Fortjenester af Fædrelandet samlandar hans eiga honum mikið gott upp að inna. En Mand af store Fortjenester mesti gagnsemdamaður.

**fortjenstlig**, ft. -e, e., (einkum í tali), góðra gjalda verður, nytsamlegur: Et fortjenstligt Foretagende.

**fortløbende**, [sb. løbe], sem ekki slitnar (það sem beldur áfram í sífellu): En f. Talrække.

**Fortoft** pelli (eða gerði) sem fylgir húsi og er fyrir framan það.

**Fortog** gangstjett (með endilöngum húsum í borgum): Belægge Fortogene med Fliser leggja hellur á stjettirnar.

**Fortogsret** framgangsrjettur á stjett (sb. Fortog).

**Fortogt** = **Fortrop**.

**fortolde**, ás., gjalda toll af varningi (sem kemur úr öðrum löndum).

**Fortoldning**, sk., það að **fortolde**.

**fortolke** þýða = skýra: Det blev os fortolket paa Dansk okkur var sagt efnið úr því á dönsku. F. Loven. F. (ráða) en Drøm.

**Fortolker**, ft. -e, kk., sá sem skýrir (þýðir) e-ð.

**Fortolkning**, sk., þýðing = skýring.

**Fortolkningskonst** skýringafræði.

**Fortolkningsmaade** skýringarháttur.

**Fortolkningsregel** skýringarregla.

**fortone**, ás., i f. sig vera tilsýndar, sýnast: Kysterne f. sig. Landet fortoner sig.

**Fortoning**, ft. -er, sk., það hvernig hlutir eru tilsýndar, (sb. hyllingar, tíbrá).

**Fortop** toppur á framsiglu: Føre Flag paa Fortoppen.

**fortove**, ás. 1, (forn) = **fortøie**.

**fortplante** (sjaldh.) = **forplante**.

**Fortrav** (sjaldh.) = **Fortrop**.

**Fortrin** það að vera tekinn fram yfir e-n: Hun gav ham Fortrinet for (tók hann fram yfir) alle de andre Friere. — b) það sem maður hefur fram yfir e-n, yfirburðir, kostur: Han har det F. (hefur það fram yfir) at være rig. Hun besidder mange F. Fødselens indbildte F.

**fortrinlig**, a) ft. -e, e., öðrum fremri, frábær, framúrskarandi, ágætur: Fortrinlige Egenskaber. Byen har en f. Beliggenhed til Handel. — b) sem ao., frábærlega, afbragðslega, sjer í lagi: Derved blev han f. berømt.

**Fortrinlighed**, sk., það að vera **fortrinlig a.**

**Fortrinsret** rjettindi öðrum fremur: Have F. til Befordring.

**fortroe**, ás., (sjaldh.) = **betroe**.

**fortrolig**, a) ft. -e, e., heimullegur: En f. Ven alúðar-vinur. De ere meget fortrolige sammen samrýndir. Hans Fortrolige trúnaðarmaður hans. Et fortroligt Venskab; sb. dáleikar. Holde f. Omgang med een. Jeg har havt en f. Samtale med ham derom við höfum talað einlæglega um það. — b) sem ao., einlæglega, kompánlega, o. s. frv.: Omgaaes f. med een (sb. gera sjer dælt við e-n).

**Fortrolighed**, sk., heimulleiki (sb. 655 XXXII á 1. bls.), trúnaður: Have F. (traust) til een reiða sig á e-n, þora að eiga undir e-m. Saa gjerne jeg endog taler med ham, saa kan han dog aldrig vinde min F. Sige (fortælle) een noget i F. í trúnaði.

**Fortrop** sá hluti liðs er fer á undan meginhernum, (sb. ferðarbroddurinn): Det kom til Fegtning imellem begge Hæres Fortropper.

**fortryde**, -**trød**, -**trydt** (og -**trudt**), ás., a) iðrast e-s, iðrast eptir e-u, sjá eptir e-u: F. sine Synder (Feil). Jeg fortryder, at jeg lod mig overtale dertil. — Einnig noget fortryder een (sb. e-n iðrar e-s): Kjøbet fortryder mig ikke jeg sje ekki eptir kaupinu. Det fortryder mig, at jeg har sagt ham det. — b) f. paa misvirða, láta sjer þykja eða mislíka, þykkjast (firrtast) af e-u: Ingen kan f. paa, at jeg søger min Ret. F. paa (sjá ofsjónum yfir) en andens Lykke.

**fortrydelig**, a) ft. -e, e., sem þykkja er í, sem misvirðir e-ð, firrtur, styggur, gramur: Han er bleven f. paa mig það er komið illt í hann við mig. Hun var f. over (henni þótti það eða þótti fyrir), at jeg ikke vilde følge med. — b) sem ao., í þykkju: Tage noget f. op misvirða e-ð.

**Fortrydelse**, án ft, sk., iðrun: Syndernes F. Føle F. over noget iðrast e-s. — b) þykkja, firrta, fúss, styggð.

**fortrykke**, 1) kremja (kreista, merja, þrýsta að e-u) til skemmda eða óbóta: Fortrykkes i en Trængsel. — b) óeiginl., þröngva kosti e-s, (sb. **undertrykke a**): F. den Fattige. — 2) misprenta: Dette Ark er fortrykt (rangprentað) og maa omtrykkes.

**Fortrykkelse**, sk., (sjaldh.), ánauð, ágangur. Sb. **Undertrykkelse**.

**fortrylle** töfra, trylla, seiða að e-m, leggja e-ð á e-n: Eventyr om fortryllede Riddere sem hafa orðið fyrir gjörningum, í álögum. Et fortryllet Slot. — b) gagntaka e-n með unun, gera e-n frá sjer numinn: Hendes Skjønhed har ganske fortryllet ham (hann er öldungis frá sjer numinn af fegurð hennar). En fortryllende (unaðsamleg-) Ynde (Naturlighed, Musik).

**Fortryllelse**, sk., töfrar; álögur. — b) það að gera e-n frá sjer numinn eða vera það.

**Fortræd**, án ft., sk., ami, mein, klípa, kröggur, vandræði: Den Dreng kan ikke dye sig; han skal altid gjøre F. (í tali) hann þarf alla jafna að gera e-ð til meins. Gjøre een F. gera e-m e-ð (illt), ama e-m, mýja e-m, áreita e-n. Volde (forvolde) een F. Føre een i F. Komme i F. for noget (stundum: fá illt fyrir e-ð). Komme i F. for en Andens Skyld (stundum: fá illt fyrir e-n). Jeg har havt megen F. (það hefur margt amað að mjer, eða þvíuml.) i Dag. Hans Besøg er mig kun til F. koman hans er mjer ekki nema til ama (leiðinda).

**fortræde**, ás., vinda á sjer fótinn (með því að misstíga sig): F. sin Fod. — b) troða e-ð niður: Kornet paa Ageren blev fortraadt (sb. Fms. V, 50, Fóstbr: 193).

**fortrædelig**, 1) ft. -e, e., a) önugur, afundinn, undinn og snúinn, nöldrunarsamur, stygglyndur, stirðlyndur, geðstirður, (sb. **fortræden**): F. i sit Sind illur (ekki góður) í bæinn sinn, ekki hýr í horn að taka. Blive f. over noget (styggjast við e-ð). Han er f. at omgaaes. F. i Omgang. — b) meinlegur = sem mein er að, hvimleiður (hvumleiður), leiðinda-: En f. Reise. Et fortrædeligt Arbeide. — 2) sem ao., a) önuglega, stygglega: Svare f. — b) meinlega, bagalega, (sb. **það kemur sjer illa**).

**Fortrædelighed**, sk., a) án ft., önuglyndi, stirðlyndi, stygglyndi. — b) með ft -er, óþægð: Embedet volder ham mangen F.

**fortræden**, ft. -**trædne**, e., önuglyndur, geðstyggur, (sb. **fortrædelig 1, a**).

**Fortrædenhed**, án ft., sk., (sjaldh.) = **Fortrædelighed a.**

**fortræffelig**, a) ft. -e, e., ágætur (sb. **fortrinlig**, **ypperlig**): En f. Mand allra vænsti maður. — b) sem ao., ágætlega, prýðilega.

**Fortræffelighed**, sk., það að vera **fortræffelig**.

**fortrække**, 1) ás., a) skæla = gretta, afmynda: F. Ansigtet. — b) f. sig (í tali) leika af sjer. — 2) h. s. (í tali), halda burt: Storken vil snart f. fer bráðum.

**fortrælle**, ás., i f. sig slíta sjer út (fara með sig) á vinnu.

**fortrænge**, ás., 1) = **fortrykke 1**: Hjelpe de Nødlidende og Fortrængte (bágstöddum og ánauðugum). — 2) bola e-m út, flæma e-n burt: F. een fra hans Plads. F. Fjenden af hans Stilling. F. een af hans Embede.

**fortrøden**, ft. -**trødne**, e., [sb. trauð-r], (sjaldh.), trauður, tregur.

**fortrøste** hughreysta, hugga: F. een med noget. — b) f. sig treysta, reiða sig á: F. sig paa Gud treysta guði. Jeg fortrøster mig til Kongens Retfærdighed.

**Fortrøstning**, sk., hughreysting, huggun. — b) traust, trúnaðartraust: Sætte sin F. til een treysta e-m. „F. til den Algode“.

**fortsætte**, ás., halda e-u áfram, halda áfram með e-ð: F. sin Reise halda fram ferðinni, halda (fara) leiðar sinnar. F. (stundum: ljúka við) et Skrift, som en anden har begyndt.

**Fortsættelse**, sk., framhald.

**Fortsætter**, ft. -e, kk., sá sem heldur e-u áfram sem annar hefur byrjað.

**fortumle**, ás., (sjaldh. nema í ho. l. t.), trufla = gera e-n ringlaðan í höfðinu: Være fortumlet i Hovedet.

**Fortumling**, ft. -er, sk., ringl, (sb. víma).

**fortvivle** örvænta, örvinglast, (sb. sturlast): F. om Guds Naade örvænta sjer guðs miskunar. F. om et heldigt Udfald af et Foretagende. Han er nær ved at f. (nærri búinn að leggja öldungis árar í bát). — 2) ho. l. t. **fortvivlet**, sem e., eiginl. örvæntingarfullur, a) örvinglaður, sturlaður: Et fortvivlet Menneske sem ekki svífist neins, sem ekki horfir í neitt. — b) sem maður örvæntir alls góðs um: Fortvivlede Omstændigheder. En fortvivlet Sag. — β) sem er samfara örvæntingu: „Fortvivlet Sorg“ harmur og örvænting, skelfilegur harmur. — γ) sem kemur til af örvæntingu: Et fortvivlet Anslag. — Gjøre et fortvivlet Angreb sækja að í ákafa. Gjøre en fortvivlet Modstand verjast með mikilli hreysti. Et fortvivlet Middel óyndisúrræði.

**Fortvivlelse**, án ft., sk., örvænting, örvinglun, bugarvíl: Han kan endog bringe Taalmodigheden til Fortvivlelse.

**fortydske**, ás. 1, snúa e-u á þjóðversku.

**Fortydskning**, sk., það að **fortydske**.

**fortygge** tyggja (bíta) e-ð til skemmda.

**Fortygning**, sk., það að **fortygge**.

**fortykke**, ás. 1, (úrelt), láta sjer þykja fyrir e-u: „Dersom han det skulde f.“ ef svo færi, að honum þætti fyrir því.

**fortynde** þynna; sömul. deyfa (t. a. m. f. Brændeviin med Vand).

**Fortyndelse**, sk., þynning: Luftens F.

1. fortælle, -tællede og -talte, -talt, telja e-ð skakkt: Pengene ere fortalte. — b) f. sig telja skakkt.

2. fortælle, -talte, -talt, segja = segja frá e-u: F. en Historie (Begivenhed, Tildragelse). Den fortællende Stiil sögulegt orðfæri.

Fortæller, kk., sá sem segir frá e-u, sögumaður: Han er en god F. hann segir sögulega frá.

Fortælling, ft. -er, sk., saga = sögn = frásögn. — b) saga: En sand F. En digtet F. skröksaga, samsetningur. En opdigtet F. lygasaga.

fortænke, ás., lá e-m e-ð: Man kan ikke f. ham deri, at (honum er ekki láandi, þó) han vil sikkre sin Eiendom. Jeg fortænker dig ikke, om (jeg lái þjer ekki, þó) du gjer det. — b) = mistænke: F. een for Tyveri.

fortænkelig, ft. -e, e., (sjaldh.) = mistænkelig a.

fortære, ás., eyða e-u: Fortæres ved Ild brenna (til ösku). Jernet fortæres af Rust jezt af ryði. — Óeiginl.: F. sine Kræfter. — b) eta (e-ð upp): F. Maden (ljúka matnum). F. Foderet (jeta upp í mold). — c) sóa (sólunda) e-u: F. sine Midler.

Fortærelse, sk., það að fortære.

Fortæring, sk., = Fortærelse. — b) fæða, fæðslu, fæði (einnig fæðslukostnaður einkum á ferðum): Deres hele F. bestaaer i Brød og Vand. Vognleie og F.

Fortætning, sk., það að fortætte.

fortætte þjetta.

fortøie, ás. 1, festa skip með strengjum og akkerum: F. et Skib; sbr. slá landfestum, bera festar á land.

Fortøining, sk., það að fortøie (sbr. landfestar).

fortømre, ás., bæta e-ð að timbri.

Fortømring, ft. -er, sk, það að fortømre.

fortørne, ás. 1, reita e-n til reiði, styggja, móðga: F. een med (eða ved) noget. Fortørnes (eða blive fortørnet) over noget styggjast við e-ð, reiðast e-u. Han er fortørnet paa mig það er illt í honum við mig.

Fortørnelse, sk., styggð, móður.

fortørre, ás, skræla: Jorden fortørres (skrælnar) af Solheden. Kilden fortørres þornar upp.

fortøve tefja, dvelja, biðleika við: F. længe paa et Sted.

forud, 1) um stað, a) (optast ritað for ud), fram, áfram, fram undan sjer. — b) á undan: Gaae (løbe, seile) f. — 2) um tíð, a) fyrir fram: Give een sin Betaling f. — b) fyrir: Vide (sige) noget f. vita (segja) e-ð fyrir. — c) = forlods: Tage noget f. — 3) óeiginl., fram yfir: Han har det f. for sine Medbeilere, at han er rigere.

Forudbestemmelse fyrirhugun, það sem er fyrirhugað.

foruden, [sbr. fyrir utan], A) (sjaldh.) sem ao. í eiginl. merk., utan: Karret var f. malet grønt, og forinden hvidt. Sbr. udvendig sem ao. — B) sem fs., 1) auk e-s: F. dette (hjer að auki), har jeg endnu en Fordring. — F. at auk þess sem. — F. hende, var der ingen tilstede það var enginn við, nema hún. — 2) án e-s, a) fyrir framan nafnið: Et Land f. Skov skóglaust land. — b) fyrir aptan nafnið: Han kan ikke være hende f. Man kan ingen Dag være Penge f. Det faaer han vel mig f. þó jeg sje ekki.

forudfattet, [sbr. fatte], sem maður hefur tekið í sig að óreyndu máli: Forudfattede Meninger hleypidómar.

Forudfølelse það að finna e-ð á sjer fyrir fram, (sbr. Anelse).

Forudkjendelse úrskurður um e-ð fyrir fram.

forudlove, (einkum haft í ho. l. t.), lofa e-u fyrir fram: Han paastod at have Løfte derpaa; men mig var det forudlovet en mjer hafði verið lofað því áður.

Forudsagn, kl., = Forudsigelse.

forudsee sjá e-ð fyrir.

forudsige segja e-ð fyrir, spá e-u.

Forudsigelse, sk., fyrirsögn (655 XIII), spásögn, spásaga, spádómur, spá.

Forudsætning, ft. -er, sk., það sem maður gerir ráð fyrir að sje: Under den F., at ef.

forudsætte, ás., gera ráð fyrir (búast við) e-u: F. noget som afgjort gera ráð fyrir að e-ð sje víst; ganga að e-u vísu. Jeg gaaer ud siden, forudsat, at det bliver godt Veir ef veðrið verður gott.

forudvidende, [sbr. vide], forspár, framsýnn (sbr. að tilvissan móður sinnar framsýnnar), framvís.

Forudvidenhed það að vera forudvidende.

foruleilige (einkum í ísl.), ónáða, gera e-m ónæði: F. een med noget.

forulempe, ás. 1, gera e-m e-ð til miska, amn e-m.

forulykkes, þs. 1, = mislykkes: Anlægget forulykkedes for ham. — forulykket sem hefur misheppnazt: En forulykket Student (sem ekki hefði átt að setja til bókar). — b) misfarast, farast, týnast: Skibet forulykkedes.

*Forum, kl., eiginl. þing, þingstaður, sbr. Værneting).

forunde unna e-m e-s = ljá e-m e-s, ljena: Om Gud forunder mig Liv og Helbred.

forunderlig, a) ft. -e, e., undarlegur, furðanlegur, furðulegur, kynlegur. — b) sem ao., undarlega, o. s. frv.

Forunderlighed, sk., það að vera forunderlig (undur, furða, býsn).

forundre, a) f. sig (eða forundres eða blive forundret) over noget furða sig á e-u, undrast e-ð, láta sjer þykja e-ð kynlegt, o. s. frv.: Enhver maa forundres over hans Færdighed það er ekki furða, þó allir undrist o. s. frv.; eða það er von það gangi yfir alla, hvað fimur (eða þvíuml.) hann er. — b) noget forundrer een e-ð gengur yfir e-n, e-n furðar á e-u, o. s. frv.: Det forundrede mig (jeg varð hissa á), at finde ham der endnu.

Forundring, sk., það að furða sig á e-u: Falde i F. over noget eða sættes i F. ved noget verða hissa á e-u, láta e-ð ganga yfir sig (eða fram af sjer).

forundringsfuld öldungis hissa.

Forundringstegn merki um að það gangi yfir mann.

forundringsværdig furðulegur.

forurette, ás. 1, gera e-m rangt til, gera á hluta e-s.

Forurettelse, ft. -r, sk., það að forurette. — b) rangindi (rangsleitni, ójöfnuður) við e-n.

Forurettter, kk., sá sem gerir e-m rangt til eða á hluta hans.

forurolige, ás. 1, ónáða, áreita.

Foruroligelse, ft. -r, sk., ónæði sem e-m er gert, áreiting.

forvaaget, [sbr. vaage], sem hefur vakað yfir sig, úrvinda.

Forvagt, ft. -er, útvörður. Sbr. Forpost.

forvalte, ás., hafa umboð yfir e-u, (sbr. bestyre, forestaae 1).

Forvalter, ft. -e, kk., umboðsmaður, umsjónarmaður: F. ved et Magasin. (Sbr. Slotsforvalter, Proviantforvalter, Amtsforvalter.) — b) sjer í lagi, ármaður (á búi e-s).

Forvaltning, sk., umboð, (sbr. Bestyrelse).

forvandle, ás. 1, snúa (breyta) e-u í e-ð annað: F. Vand til Viin. Glæden blev forvandlet til Sorg snjerist í hryggð; sbr. verða að e-u.

Forvandling, ft. -er, sk., það að forvandle (sbr. umskipti).

Forvandt, ft. -e, kk., (þjóðv.) = Frænde, Slægtning, Paarørende.

forvanske, ás. 1, skemma, glata e-u, farga e-u: F. betroet Gods. — b) óeiginl., afbaka, aflaga: Forvanskes gangast í munni.

Forvanskning, ft. -er, sk., það að forvanske.

forvare, ás., hirða e-ð á e-m stað, verja, geyma, varðveita: F. noget under Laas og Lukke læsa e-ð niðri. Vel forvaret imod Kulden sem ekki er hætt við að kuldi komi að. Vel forvaret imod Fjenden. F. sig vera var um sig, gæta sín.

Forvaring, sk., gæzla, geymsla, varðveizla: Flye een noget i (til) F. Have noget under sin F. = have noget i (til) F. Holde en Forbryder i sikker F. (sjá um, að hann geti ekki strokið).

Forvaringssted geymslustaður.

forvarlig = varlig, varsom, forsigtig.

Forvarsel = Varsel 2: Et ondt F. ills viti.

forvarsle vita á. Sbr. varsle.

forved, ao., fyrir framan.

Forvei ekki haft nema í orðstiltæk. i Forveien a) um stað, á undan: Gaae (ride, reise) i Forveien. — b) um tíð, fyrir fram, áður: Jeg sagde ham det i Forveien jeg var búinn að segja honum það. Dette maa afgjøres i Forveien.

forvende, ás., rangsnúa e-u, (sbr. fordreie): F. sin naturlige Skabning til allehaande Skikkelser (fornl.), bregðast í allra kvikinda líki. F. sit Maal breyta í sjer málrómnum. F. (rangfæra) eens Ord. F. Retten halla rjettu máli. F. Sandhedens Erkjendelse. Forvendte (skakkar, öfugar) Forestillinger. Et forvendt Sind rangsnúið hugarfar. — b) draga e-ð undir sig: F. betroet Gods.

Forvendelse, ft. -r, sk., það að forvende.

Forvendthed, sk., það að vera rangsnúinn.

forvente, ás., vænta e-s, vonast eptir e-u, eiga von á e-u, búast við e-u: F. et tilkommende Liv. Vi kan ikke f. andet end Uheld af denne Krig.

Forventning, sk., eptirvænting, eptirbið: I F. af hans Ankomst af því menn eiga von á honum (hingað). — Det svarede ikke til min F. það var allt minna háttar, enn jeg hafði búizt við.

Forventningstid eptirvæntingartíð.

Forverden, án ft., heimurinn eins og hann var á fyrstu öldum: Levninger fra Forverdenen (eptirleifar frá upphafi heims).

forvexle, ás., hafa skipti á e-u (einkanl. óvart), villast á e-u, (sbr. forbytte).

Forvexling, ft. -er, sk., = Forbytning.

Forvid (hálf-úrelt), brjál: Det løber i F. for ham eða han løber i F. það slær út í fyrir honum, hann er ekki með öllu ráði eða öllum mjalla.

Forvidenhed, án ft., sk., (úrelt), = Selvklogskab.

Forvidne (sjaldh.) = Forvarsel.

Forviisning, n. -er, sk., útlegð.

forvikle (eiginl. og óeiginl.), flækja, vefja: Forviklet flókinn.

Forvikling, n. -er, sk., flækja, vafningur, benda.

forvilde (eiginl. og óeiginl.), villa, leiða e-n afvega, leiða (fara með) e-n í gönur: F. een fra det rette Maal. Forvildes eða f. sig villast (t. a. m. jeg forvildede mig i Skoven. Ved slige Skrifter forvildes Almuen). — 2) ho. l. t. forvildet, sem e., a) eiginl., villtur, villur vegar. — b) óeiginl., α) ringlaður: Forvildet i Hovedet. Sb. forstyrre b. — β) óstýrilátur, óviðráðanlegur: En forvildet Dreng; (sb. óhemja, fjörkálfur).

Forvildelse, sk., villa (það að vera villtur).

forvinde, ás., bíða e-s bætur: Dette Fald forvandt jeg ikke i mange Dage jeg var ekki samur maður marga daga eptir þessa byltu. F. en Sygdom ná sjer aptur eptir legu. F. et Tab. — b) (úrelt), vinna e-n sannan að e-u: Nogen, som forvunden er for (sem orðið hefur sannur eða uppvís að) en uærlig Sag (D. L.). Sömul.: Forvunden paa en Sag (D. L.).

forvindelig, ft. -e, e., bætanlegur: Et forvindeligt Tab.

forvirre, ás., glundra e-u, trufla, (sb. forstyrre b, og einkanl. c). — 2) ho. l. t. forvirret, a) sem e., ruglaður, ringlaður, grautarlegur, óskilmerkilegur, o. s. frv.: En forvirret Tilstand ringul-reið, ruglingur, hrærigrautur, (sb. það gengur allt á trjefótum). Et forvirret Svar vöflur. Forvirrede Begreber. Forvirret i Hovedet ringlaður. — b) sem ao., á ringulreið, á ruglingi, í hrærigraut, grautarlega, ógreinilega, o. s. frv.: Han talte ganske forvirret það var ekkert vit í því, sem hann sagði.

Forvirrelse, sk., (sjaldh.) = Forvirring.

Forvirring, sk., uppnám, vöflur, rutl, (sb. Forstyrrelse b): Komme i F. ruglast. Der blev en stor F. i Huset þar varð allt í uppnámi. Der var en stor F. þar var allt á tjá og tundri. F. i Sindet rutl.

forvise, ás., gera e-n útlægan, reka e-n í útlegð, a) forvises (vera rekinn) fra Huus og Hjem. Forvises fra sit Fædreland. Forvises til Siberien. — b) han blev forviist Byen (Hoffet) hann var gerður útlægur úr borginni (hann var rekinn — honum var vísað — frá hirðinni).

forvisne = visne, henvisne.

forvisnelig, ft. -e, e., sem visnar eða visnað getur: En f. Krands.

Forvisning, n. -er, sk., fullvissa: Faae (have) F. om noget ganga (vera genginn) úr skugga um e-ð.

forvisse, áa. 1, færa e-m heim sanninn um e-ð: F. een om noget. F. sig om Sandheden af noget ganga úr skugga um e-ð. Du kan være forvisset paa (þú mátt ætla á), at Sagen forholder sig saaledes.

forvist (opt ritað for vist), sem ao., fyrir víst, til víss (fornl.): Man siger f. (menn fullyrða, það er fullyrt), at o. s. frv. Jeg troer f. jeg held mjer sje óhætt að (eða jeg megi) fullyrða.

Forvogn framhluti fjögrahjólavagns.

forvolde valda e-u, baka e-m e-ð: Han har forvoldt mig megen Fortræd. F. een Kummer vinna e-m harm (Fms. XI, 347).

forvorpen, ft. -vorpne, e., gjörspilltur í huga, rangsnúinn, argur.

Forvorpenhed, sk., það að vera forvorpen (sb. spilling).

forvoven, ft. -vovne, e., sem er ofurhugi.

Forvovenhed, sk., ofdirfska.

Forvox eins konar kvoða sem býflugl límir bústaði sína með.

forvoxe (er) = forgroe 2. — 2) vaxa skakkt. — forvoxen, (gamalt ho. l. t.; sb. voxen í greininni um voxe), sem e., skakkvaxinn, skakkur í vexti.

Forvoxning, sk., það að forvoxe.

forvride vinda, skekkja e-ð í liði: F. sin Fod (Haand). F. en Regle.

Forvridning, sk., það að forvride.

forvænne, -vænnede, -vænt, venja e-n á e-ð sem ekki ætti að vera: F. sig ved for megen Stuevarme venja sig á of mikinn hita inni hjá sjer. Drengen er forvænt og forkjælet hefur átt of gott og verið í of miklu eptirlæti.

Forvænnelse, sk., óvani, óvandi.

Forværk (sjaldh.), a) = Udenværk. — b) timburstifla.

forværre, áa. 1, gera e-ð verra, spilla e-u (enn meir): F. en Sygdom. F. en Forbryder.

Forværrelse, sk., vesnun.

Forværring, sk., = Forværrelse.

forynge, ás. 1, yngja e-n eða e-ð upp aptur: Forynges yngjast upp, verða ungur í annað sinn, kasta ellibelgnum.

Foryngelse, sk., það að forynge.

foræde, í f. sig jeta yfir sig, kunna sjer ekki magamál, skemma sig á oláti. Forædt skemmdur á oláti.

forædle, ás. 1, bæta (gera e-ð betra eða ágætara enn það hefur verið).

Forædling, ft. -er, sk., það að forædle.

forældes verða úreltur: Forældet úreltur, sem fallin er fyrnd á (t. a. m. et forældet Ord. En forældet Betydning. Forældede Skikke. Forældede Love).

Forældre, ft., [foreldra-r = forellra-r], foreldrar (í hinni nýju merk.): Ære sine F. Staae een i Forældres Sted.

forældrelos foreldralaus.

forære, a) fornt f. een med noget sæma e-n e-u. — b) tíðkanlegt f. een noget gefa e-m e-ð.

Forærинg, ft. -er, sk., gjöf, fjegjöf: Faae noget til F. fá e-ð gefins (eða að gjöf). Give kostbare Foræringer gefa góðar gjafir.

forøde eyða e-u (til óþarfa), glutra (sóa, sólunda, sjá fyrir) e-u.

Forødelse, sk., eyðsla, glutrun, sóun.

Forøder, ft. -e, kk., eyðsluvargur, sá sem er glutrunarsamur.

Forødning, sk., = Forødelse.

forøge auka, bæta við: F. sin Formue (Velstand, Magt).

Forøgelse, ft. -r, sk., aukning, æxling (677).

forønsket, [sb. ønske], æskilegur, ákjósanlegur.

Forøvelse iðkun til undirbúnings.

Fos, ft. Fosser, sk., [foss = fors], foss.

*fossil, ft. -e, e., grafinn úr jörðu.

*Fossil, optar í ft. -ier, kl., grafhlutir (steina kyns eða málma).

Fostbroder fóstbróðir, svaribróðir (Fóstbr.; sb. Fms. XI, 206).

Fostbroderskab = Fostbrodrelav.

Fostbrodrelav fóstbræðralag.

Foster, ft. Fostre, kl., [fóstr], burður = barn (í móðurkviði eða nýfætt); fang: Fordrive sit F. Et fuldbaarent F. tímabær burður. — b) óeiginl.: Dette F. af hans Digteraand (sb. Aandsfoster, Hjernefoster).

Fosterbarn uppeldisbarn, tökubarn.

Fosterbroder sá sem hefur alizt upp með e-m.

Fosterdatter fósturdóttir, uppeldisdóttir.

Fosterfader fósturfaðir (Fsk. 58), fóstri.

fosterfødende, [sb. føde], sem getur burð sinn lifanda. Gagnstætt: æglæggende.

Fostergjemme (sjaldh.) = Fosterleie.

Fosterhinde líknabelgur.

Fosterjord fósturjörð.

Fosterland fósturland (Al.).

Fosterleie burðarleg.

Fosterliv líf burðarins áður enn hann kemur í ljós.

Fosterlon meðgjöf með barni, fúlga.

Fostermoder fósturmóðir.

Fostermord barnsmorð (það að drepa nýfætt barn sjálfrar sinnar).

Fostersvob = Fosterhinde.

Fosterson fóstursonur (Rómv.), uppeldissonur.

fostre, ás. 1, [fóstra], = opfostre, en sjaldnar haft.

*Fourage, sk., áfóður.

*fouragere, h. a. 1, draga saman áfóður eða vistir.

*Foureer sjá Fureer.

*fournere, ás. 1, byrgja e-n að e-u. Sb. forsyne.

fra, fs., [frá], frá, o. s. frv., I) fyrir framan nafn eða orð, sem haft er eins og nafn, A) tómt (án þess af standi fyrir aptan), 1) um stað, a) um tóma hreifingu: Han er reist f. Byen i Gaar frá borginni eða úr borginni. Dette Skib er kommet f. Middelhavet. Vinden blæser fra Norden úr norðri. Skilles f. (við) een. — Holde f. sig halda (aka) til hægri handar. — Gaae f. Huus til Huus ganga hús úr húsi. — Eins og Íslendingar segja hús úr húsi, mann frá manni, skip af skipi, og þvíuml., eins segja Danir gaae Dør f. Dør fara um. — Forkynde noget f. Prædikestolen af prjedikunarstólnum. — β) sjer í lagi um þann stað, sem e-r er frá eða úr: Han er f. Jylland (Norge). — b) um hreifingu, þegar henni er fylgt í huganum þangað sem hún hættir: F. Byen til Skoven (frá borginni til skógarins, milli skógarins og borgarinnar) er knap en halv Miil. F. Issen til Fodsaalen frá hvirfli til ilja. — c) um fjarlægð frá e-u: Slottet ligger en halv Miil f. Byen. Blive f. et Sted koma þar ekki. — d) um átt eða hlið: Floden er Byens Forsvar f. denne Side þessumegin. — 2) um tíð: F. Morgen til Aften frá morgni til kvölds. F. Juul til Paaske. F. første Færd (allt í) frá upphafi. F. Barnebeen frá blautu barnsbeini. F. Tid til Tid eða f. Tid til anden öðru hverju. — 3) óeiginl., a) (að sínu leyti eins og 1, a): Befrie (frelse) een f. noget Ondt frá (eða af) e-u illu. — Afholde sig f. noget halda sig (nú sjer) frá e-u, sneiða sig hjá e-u. Holde sig f. een sneiða sig hjá e-m. — Tage (stjæle, liste) noget f. (frá) een. Lokke noget f. (út úr) een. — Afsætte een f. sit Embede víkja e-m úr embætti. Gaae f. Forstanden ganga af vitinu. Gaae f. sin Prædiken ruglast í prjedikun sinni. — β) (að sínu leyti eins og 1, a, β): En Foræring f. en kjær Haand vingjöf, gjöf sem góður er nauturinn að. — b) (að sínu leyti eins og 1, c): Det være langt f. mig, at ville skade ham (það sje fjærri mjer, að vilja gera honum mein). — B) með af fyrir aptan nafnið (til styrkingar við fra): Kjende een f. Ungdommen (Bargen) af þekkja e-n frá því hann var

barn (frá því hann lá í vöggu). F. Begyndelsen af eða f. først af allt í frá upphafi. F. nu af hjeðan í frá. F. Grunden (Roden) af gjörsamlega, algjörlega. — II) þar sem nafninu er sleppt, og það stýrir a) beilli grein: Jeg har kjendt hende f. (frá því) jeg var Barn. — b) alls öngvu: Skyd Slaaen f. Brække en Laas f. — Slaaen er f. Laasen er f.

Fraade, án ft., sk., [froða], froða: Fraaden stod ham for Munden hann froðufelldi.

fraade (har), h. s. 1, freyða (sb. villigeltir.... með freyðanda munni), froðufella: Hesten fraader.

Fraaden, án ft., sk., það að fraade.

fraadse (har), b. s. 1, jeta of mikið.

Fraadsegilde veizla þar sem mikið er jetið.

Fraadselav samkvæmi þar sem mikið er jetið.

Fraadsemaaltid snæðingur þegar of mikið er jetið.

Fraadsen, án ft., sk., ofát.

Fraadser, ft. –e, kk., átmaður, átvagl, bvomur, hít.

Fraadseri, kl., ofát.

frabede, ás., í f. sig noget (eiginl. biðja e-ð frá sjer, þ. e.) biðja sig undan e-u, biðja að hafa sig undan þeginn e-u, afbiðja e-ð: Han frabad sig den ham tiltænkte Æresbeviisning.

*Fraction, ft. –er, sk., eiginl. brotning (t. a. m. geislanna). — b) grein af e-i sveit (þegar talað er um flokkadrætti).

*Fractur, án ft., sk., settletur; brotaletur. — b) gotneskt letur.

Fradrag, ft. eins, kl., frádráttur: Med (eða efter) F. af Omkostningerne að frádregnum kostnaði.

fradrage draga e-ð frá (e-u): Naar dette fradrages Hovedsummen, bliver saameget tilbage.

Fradragelse, sk., það að fradrage.

fradømme, ás., a) í málaferlum, dæma e-ð af e-m: Gaarden blev ham fradømt. — b) þar sem ekki er talað um málaferli, draga e-ð af e-m (segja hann hafi það ekki til að bera): Man maa dog ikke f. ham sund Menneskeforstand það má hann þó eiga, að hann er með fullu viti.

Fradømmelse, sk., það að fradømme.

Frafald, ft. eins, kl., a) eiginl., (sjaldh.), t. a. m. afrennsli vatns. — b) óeiginl., það að ganga undan hlýðni við e-n, (sb. Affald 7): Landets F. Undersaatternes F.

frafalde, ás., óeiginl., a) láta af e-u: F. sin Paastand (Mening). — b) ganga úr (eða undan) e-n: F. et Forbund rjúfa samband. En Frafalden maður sem kastað hefur trúnni, guðníðingur.

fragaae, 1) h. s., a) ganga frá: Heri f. de Penge, han alt har modtaget. — b) í ho. núl. t. fragaaende sem fer frá embætti: Den fragaaende Embedsmand. — 2) ás., dylja e-s, synja e-s eða fyrir e-ð, (sb. benegte 2): F. sine Ord. F. sit Løfte.

Fragaaelse, sk., það að fragaae, t. a. m. „F. af Haand og Segl."

Fragang, sk., það sem frá gengur.

*Fragment, ft. –er, kl., brot (t. a. m. af riti); geiri.

*fragmentarisk, ft. –e, e., sem er í brotum.

Fragt, sk., farmur (á skipi), eða hlass (á vagni): Søge F. Bie efter F. Skipperen (eða Vogmanden) har ikke fuld F. — b) flutningskaup (kaup fyrir að flytja e-ð á skipi eða vagni): Han forlanger 5 Specier i F.

Fragtbaad flutningaskip (sem haft er til flutninga fyrir aðra).

Fragtbrev flutningsskrá (um það sem maður flytur á vagni).

fragte, ás. 1, taka skip eða vagn á leigu. — b) f. bort selja skip á leigu.

Fragtfart vöruflutningar á skipum fyrir aðra: Den danske F. paa Middelhavet.

Fragtgods flutningur (það sem flutt er fyrir kaup á skipi eða vagni).

Fragthandel sá bjargræðisvegur að selja skip sín á leigu, eða láta flytja á þeim varning fyrir aðra.

Fragtkjørsel það að flytja e-ð á vagni fyrir annan.

Fragtkudsk = Fragtmand.

fragtløs tómur (um vagn eða skip sem haft er til flutninga fyrir aðra).

Fragtmand flutningamaður (vagnstjóri sem flytur fyrir aðra á vagni sínum).

Fragtning, sk., það að fragte.

Fragtskib leigubyrðingur.

Fragtvogn flutningavagn (sem er hafður til flutninga fyrir aðra).

fraholde, ás., (sjaldh.), aptra e-m frá e-u. Sb. afholde.

Frak, ft. –ker, sk., frakki.

frakjende gera (dæma) e-ð af e-m: Han blev frakjendt al Paastand derpaa var sú gerð þeirra, að hann ætti alls ekkert tilkall.

frakjøbe, í f. sig noget kaupa sig undan e-u.

Frakketøi efni í frakka.

frakomme, h. s., (sjaldan höfð nema í ho. l. t.), hverfa: Bogen er mig frakommen jeg hef misst bókina.

fraliggende, [sb. ligge], fjarlægur: „Et ikke meget f. Sogn" sem ekki er mjög langt þaðan. „Kjende f. Folks Sæder."

Fraliggenhed, sk., fjarlægð.

fraliste, ás. hafa e-ð út úr e-m með kænsku: F. een noget.

fralokke, ás., lokka (ginna) e-ð út úr e-m: Disse Penge fik han fralokket Faderen.

fralukke stía e-u frá e-u öðru, sb. stía e-u í sundur.

fralægge, í f. sig noget bera e-ð af sjer, færast undan e-u, hreinsa sig af e-u: F. sig en Beskyldning. F. sig noget med Ed standa fyrir með eiði.

Fralæggelse, sk., undanfærsla.

franarre ginna e-ð út úr e-m: F. een noget.

*Franc, ft. –s og Franker, sk., frakkneskur peningur á borð við 1/6 úr spesíu (frakkneskt ríksort).

*Française, ft. –r, a) kvk., (eiginl. frakkneskur kvennmaður), kvennmaður sem kennir frakknesku. — b) sk., eins konar dans.

*franco, e., (utan á brjefi, merkir eiginl. frjálst, þ. e.) sem borgað er undir.

*frank, e., frjálslegur; laus og liðugur.

Franker, ft., (í tali Tyrkja), Norðurálfumenn.

*frankere, ás. 1, borga undir brjef.

Frankrige Frakkland, Frans (Fms.).

fransk, ft. –e, e., frakkneskur: De Franske Frakkar. — II) sem nafn er Fransk = frakkneska, frakknesk tunga: Lære Fransk.

Franskbager sá sem býr til frakkneskt brauð (Franskbrød).

Franskbind frakkneskt band á bók.

Franskbrød frakkneskt brauð (eins konar hveitibrauð).

Franskmand frakkneskur maður: Franskmænd Frakkar, Fransesar (Fms.).

*Frantsoser, ft., eins konar sjúkdómr;

franøde neyða (kúga) e-ð út úr e-m: F. een noget.

frapille plokka e-ð frá.

*frappant, ft. –e, e., furðanlegur, (sb. sagnirnar træffe, slaae, paafalde, overraske).

*frappere, ás. 1, gera e-n hissa: Det frapperede mig mjer hnykkti (eða brá) við, það gekk yfir mig.

fraraade, ás., telja e-ð úr; telja e-n af e-u, letja e-n e-s: F. en Krig. Alle Ministrene fraraadede Kongen denne Krig.

Fraraadelse, sk., það að fraraade.

frarane ræna e-u frá e-m: F. een noget.

fraregne, ás., reikna e-ð frá: Naar denne Sum fraregnes.

Fraregning, sk., það að fraregne.

frarense hreinsa e-ð úr: F. Avner. F. Ukrud.

Frarensning, sk., það að frarense.

frarive rífa e-ð frá: Seilet er frarevet. — b) raka e-u úr: F. Emterne.

frarøve ræna e-u frá e-m: F. een noget.

Frasagn, [sb. frásögn], sögn, sögusögn, munnmæli.

frasige, í f. sig afsala sjer, (sb. afsifja sjer, Björn): F. sig en Rettighed.

Frasigelse, sk., það að frasige sig.

fraskille skilja e-ð (eða e-n) frá eða úr, gera e-ð viðskila við annað: Et fraskilt Stykke.

fraskillelig, ft. –e, e., sem verður skilinn frá.

Fraskillelse, sk., það að fraskille.

fraskjelne, ás., greina e-ð frá.

Fraskjelning, sk., það að fraskjelne.

fraskjøde, í f. sig skeyta e-ð undan sjer: F. sig en Gaard.

fraskrive gera (dæma) e-ð skriflega af e-m: F. sig noget afsala sjer e-ð skriflega. — b) = fradømme b.

Fraskrivelse, ft. –r, sk., það að fraskrive.

frasnakke, ás., skrafa e-ð út úr e-m, hafa e-ð út úr e-m með orðagjálfri og gyllingum, skrafa e-n upp til að láta sig fá e-ð: F. een noget.

frasnappe, ás., hrifsa e-ð frá e-m: F. een noget.

frasnige hafa e-ð með slægð út úr e-m: F. een noget.

fraspænde (einkum í ho. l. t.), leysa eyk frá vagni eða sleða: Hestene ere fraspændte. Der er fraspændt það er búið að leysa frá hestana. — En fraspændt Vogn hestalaus vagn (þegar búið er að leysa þá frá).

frastaae, ás., láta af e-n, fara ofan af e-u: F. sin Paastand.

Frastand fjarlægð, fjarski: Man seer Byen i lang F. langt tilsýndar.

frastjæle stela e-u frá e-m: F. een noget.

frastøde, ás., hrinda e-u frá sjer: Eensartede Kræfter f. hinanden. En frastødende Kraft. — Hn. núl. t. frastødende, sem e., (um mann), óviðkunnanlegur, hryssingslegur, hrjóst(r)ugur, óþýður.

Frastødning, sk., það að frastøde.

frasværge, ás., standa fyrir (e-u) með eiði, synja e-s með eiði, hreinsa sig af e-u með eiði: F. sig en Beskyldning.

fratage, ás., taka e-ð frá e-m: F. een noget svipta e-n e-u.

Fratagelse, sk., það að fratage.

*Fraternitet, sk., bræðralag.

fratræde, ás., óeiginl., ganga úr e-u, fara frá e-u, láta af embætti: F. (ganga úr) et Forbund. F. sit Embede. Den fratrædende Embedsmand.

Fratrædelse, sk., það að fratræde.

gjöra, (sb. fuldbringe, fuldføre, fuldende). — c) fylla ætlunarverk, gegna e-u sem vera ber.

fuldgyldig órækur.

Fuldhed, sk., (sjaldh.), fylli.

fuldkantet ferstrendur (um timbur).

fuldklog heilvita.

fuldkogt, [sb. koge], fullsoðinn.

fuldkomme, ás. 1, fullkomna, algjöra. — b) leiða e-ð til lykta, ljúka út af við, ljúka e-u af. — c) efna, enda, binda enda á: F. sit Løfte enda heit sitt. F. (framkvæma) eens Befaling gern það sem e-r býður manni.

Fuldkommelse, sk., fullkomnun.

fuldkommen, [sb. komme], a) sem ekkert vantar í, sem hvergi er skarð í: Der var en f. Anretning þar skorti hvorki mat nje drykk. En f. Udrustning. Det er min fuldkomne Overbevisning mjer er enginn efi á því. Alt er i f. Stand (Orden). — b) fullkominn, algjör: Intet i Verden er fuldkomment. En f. Skjønhed. — c) (í tali, um föt), víður: Kjolen er ikke f. nok i Ærmerne nógu víður um ermarnar, nógu ermavíður. — 2) sem ao., algjörlega, öldungis, nægilega, nógu, a) fuldkommen: Han har f. ret hann hefur öldungis rjett að mæla. — b) fuldkomment: Det er fuldkomment nok kapp-nóg, nægilegt.

Fuldkommenhed, sk., n) án n., algjörleiki (sb. Fms. XI, 413): Bringe noget til F. gera e-ð fullkomið, verða algjör í e-u, komast algjörlega niður í e-u. Forstaae en Ting til F. kunna e-ð til hlítar. — b) í n. -er, kostir; manndýrðir.

Fuldmaane fullt tungl.

Fuldmagt vald = umboð, fullt vald og umboð: Give een F. til noget fá e-m umboð sitt til e-s, bjóða manni um að gera e-ð. En skriftlig F. valdsbrjef. — í gamansamlegu orðfæri = Fuldmægtig.

fuldmoden fullvaxinn, fullsprottinn: F. Frugt.

fuldmodne (sjaldh.), ljá e-u fullan þroska.

fuldmyndig sem hefur fullt vald og umboð til e-s.

Fuldmyndighed, sk., fullt vald og umboð.

Fuldmægtig, ft. -e, kk., umboðsmaður, fulltrúi, erindsreki: „Fuldmægtige eller Repræsentanter." — b) sjer í lagi, ritstofu fulltrúi eða embættismanns eða kaupmanns: F. i et kongeligt Collegium. F. hos en Amtmand.

fuldnær (sjaldh.), a) e., sem er æði nærri, æði náinn. — b) ao., nærri því, framt að því.

fuldproppe troðfylla.

fuldprøvet, [sb. prøve], fullreyndur: En fand, f. Ven tryggðavinur.

fuldraadig fullbær að ráða e-u: F. over noget.

Fuldskab, án ft., sk., ofdrykkja (það að vera of drukkinn).

fuldskjenket, [sb. skjenke], fylltur, barmafullur: Et f. Glas.

fuldskrive skrifa e-ð út: Bogen er fuldskreven út skrifuð. — b) ljúka við að rita (e-t efni): Brevet blev ikke fuldskrevet.

Fuldslag = Timeslag.

fuldsom, ft. -me, e., (úrelt), þrekinn, bústinn, gildur, o. s. frv.

fuldspunden, [sb. spinde], fullur af bandi: En f. Teen.

fuldstegt, [sb. stege], fullsteiktur.

fuldstemmig, ft. -e, e., alróma (sem öngva rödd vantar í): F. Musik.

fuldstoppet, [sb. stoppe], troðinn fullur, troðfullur: En f. Sæk.

fuldstændig, ft. -e, e., allur = heill = sem ekkert vantar í: Bogen er ikke f. bókin er ekki öll, það vantar í bókina. Et fuldstændigt (heilt) Exemplar af en Bog. Give en f. og udførlig Beretning om noget segja frá e-u út í æsar og fella ekkert undan.

Fuldstændighed, sö ft., sk., það að vera fuldstændig.

fuldstøbt, [sb. støbe], sem albúið er að steypa.

Fuldsøffende = Heelsøskende.

fuldtagen, [sb. tage og Grettis.... fulltakins (sem ekki mun vera íslenzkt að upprunu) karls], (úrelt), a) gildur: F. Mand. — b) fullvaxta, fullorðinn.

Fuldtagenhed, sk., (úrelt), það að vera fuldtagen.

fuldtakke fullþakka e-m e-ð.

fuldtale, ás., (sjaldh.) = aftale.

fuldtallig, ft. -e, e., allur (að tölu, þ. e.) sem sunnaðhvort er orðinn nógu margur eða sem ekki hefur týnt tölunni: De funde ikke blive fuldtallige gátu ekki orðið nógu margir.

fuldtonende, [sb. tone], hljómmikill: En klar, f. Stemme.

fuldtro alltryggur: „Den, som haver en f. Ven."

fuldvoxen, [sb. voxe], fullvaxta, fullroskinn, fullorðinn, frumvaxta.

fuldvægtig rjettur að þunga: F. Mynt.

Fuldvægtighed, sk., það að vera fuldvægtig (rjettur þungi).

*Function, ft. -er, sk., ætlunarverk, starf, sýsla, o. s. frv.

Fund, ft. eins, kl., [sb. fund-r], fundur (það að finna e-ð, eða það sem finnst): Gjøre et F. finna e-ð. Oplyse et F. lýsa e-u, sem fundizt hefur. — b) (sjaldh.) = Paafund a.

*Fundament, ft. -er, kl., grundvöllur, undirstaða.

*fundamental, ft. -e, e., eða Fundamental- sem fremri liður í samsettu orði, undirstöðulegur, undirstöðu-, grundvallar-.

*Fundation, ft. -er, sk., = Stiftelse (einkum a).

*Fundator, ft. -er, kk., = Stifter.

*Fundats (f. Fundation), ft. Fundatser, sk., skipulagsskrá (Dr. Seb.).

*fundere, ás. 1, stofna, stofnsetja, (sb. stifte). — b) f. Penge koma þeim í jarðir.

fundig, ft. -e, e., (úrelt), hugkvæmur, hugvitssamur.

*fungere, h. s. 1, vera (þ. e. reka embætti) í stað e-s embættismanns.

Funke, ft. -r, sk., neisti, sía.

funkle (har), h. s. 1, glóa: Funklende Ædelstene. Funklende Øine.

Funklen, án ft., sk., það að glóa.

Fure, ft. -r, sk., [sb. for], akurfor, plógfar: Pleie dybe (brede) Furer. — b) skora.

fure, ás. 1, rista, skora: „Der furer Kjølen Havet nu." Furede Piller súlur með skorum; sb. rifle. Grublen og Sorg har furet hans Pande (það eru komnar hrukkur í ennið á honum af hryggð og heilabrotum).

*Fureer (líka Fourier), kk., eins konar hirðþjónn. — b) líkt og Qvarteermester b.

Furefide só partur af sáðlandi sem er þeim megin við plóginn sem búið er að plægja, þ. e. plægði parturinn. — b) hægri hliðin á plógnum (af því þún snýr að plógfarinu). — Gagnstætt orð: Landside.

Furestrimmel = Ploiestrimmel.

Furetrækning það að gera forir eða skorur.

furevíis, ao., eins og akurforir.

*Furie, ft. -r, kvk., vítisnorn, hefndanorn. — b) um kvennmann, vargur, geðvargur.

fuse (har), h. s. 1, [sb. fuus], 1) eiginl. n) buna, dynja, streyma: Vandet fusede ud af Aabningen. Vandet fuser frem i Renden. — b) skríða (um skip). — 2) óeiginl., f. frem vera flasfenginn. F. ud med noget fleipra e-u út úr sjer.

Fusentast, ft. -er, kk., (í tali), gapi, sólargapi, glanni.

fuske (har), h. s. 1, fást (káka, klastra) dálítið við e-ð sem maður kann ekki: F. i (eða paa) et Haandværk. Jeg fusker noget paa Tegning fæst dálítið við að draga upp.

Fusker, ft. -e, kk., klaufi, bögubósi, (sb. bössusmiður og böngunarsmiður, Björn): Han er en F. i sit Arbeide klaufi í því sem hann á að gera.

fuskeragtig, ft. -e, e., klaufalegn tilbúinn.

Fuskerarbeide = Fuskeri.

Fuskeri, kl., það sem engin mynd er á, handaskömm, (sb. bössur, Björn).

Fuskerværk = Fuskeri.

*Fustage, ft. -r, sk., tunna.

*futil, ft. -e, e., (t. a. m. um ástæður), ómerkur, ljelegur, hraknýtur.

futte, h. s. 1, snarka; fuðra upp.

*Futurum, kl., ókomin tíð (um sögn).

fuul, ft. fule, e., [fúl-l], óeiginl., óhreinn (t. a. m. sodi), saurugur, ljótur, herfilegur, argur: „Onde Lyster og fule Begjerligheder."

Fuulhed, sk., (sjaldh.), það að vera fuul.

fuus, ft. fuse, e., (úrelt), fljótráður, fljótur á sjer.

fy! mo., fý (sb. hverr maðr kvað fý, Sturl.)! svei! bía!

Fyenbo Fjónbúi (Fms.), Fjónbyggi (Fms.).

fyensk, ft. -e, e., fjónskur.

fyge, feg, (er og har) feget, h. s., [fjúka; sb. ryge af rjúka], einkanl. um snjó, bæði um skafrenning, og um snjókomu þegar ekki er logn, fjúka: Sneen (Sandet) fyger allevegne omkring það er skafrenningur (sandfok). Sneen er feget (snjóinn hefur skafið) bort fra Veien. Regnen fyger os i Ansigtet regnið ber framan í okkur. — b) een fyger inde mann fennir inni, maður verður fanntepptur í húsi. — 2) persónulaust: Det fyger (fennir) ind igjennem Vinduerne. Det har feget stærkt hele Dagen það hefur verið kafald í allan dag.

Fyld, án ft., kl., það sem troðið er í e-ð, eða borið er ofan í e-ð: F. i en Dyne; sb. Dynefyld. — F. (ítroðningur) i en stegt Gaas. — Lægge F. paa (bera ofan í) en Vei.

Fylde, án ft., sk., [fylli], fylli (t. a. m. í: fá aldrei fylli sína). — b) nægtir, gnægð: Af sit Hjertes F. — c) fylling: I Tidens F.

fylde, ás. 1 og 2, [fylla], A) eiginl., 1) fylla, a) f. et Glas med Viin. F. en Sæk med Korn. F. sig kýla vömb sina. — b) sjer í lagi, troða í e-ð (þegar verið er að búa til mat): F. en Gaas (láta ýmiss konar sælgæti innan í gæs). Fyldt Kalvebryst (biti af kálfs bringukolli sem nokkurs konar kjötstöppu er troðið ínn í); sömul. fyldte Krebs (Log). — c) bera ofan í: F. en Sump (Vei). — 2) hella e-u (láta e-ð) í e-ð: F. Viin om paa et andet Fad. — B) óeiginl.: F. Tallet fylla töluna; vinna hans fulla. — Barnet fylder i Dag to Aar er (eða verður) fullra tveggja ára í dag, eða fer að klifrast á

þriðja árið. Drengen fylder 5 Aar ved Juleid verður fimm vetra um júlaleitið. I næste Uge fylder han 30 Aar hann verður þrítugur í vikunni sem kemur. Sb. blive B, 2, a.

**Fyldebug** átvagl, (matar)hít.

**Fyldebøtte** (í tali), átvagl; en þó optar drykkjusvín.

**Fyldehals** = **Fyldebøtte.**

**Fyldehorn** nægtahorn (*cornu copiae*).

**Fyldehund** (í tali) drykkjuhundur.

**Fyldekalk**, [af Kalk veggjalim], málalengingar, líka hortittir: F. i en Tale. F. i et Digt.

**Fyldemad** matur sem troðið er í annan mat. Sb. **Fyld**, **Fylding** b.

**Fyldeord** hortittur, eða annað uppfyllingarorð.

**Fylderi**, kl., ofát og ofdrykkja.

**Fyldeso** kvennmaður sem er drykkjusvín.

**fyldest**, ao., [í fyrstu nafn, e. n. fullustn f. fullnusta], til fullnaðar: Faae f. for sine Penge fá jafnvirði fjár síns. — „Forend den Forurettede er skeet f." — Gjøre f. for noget jafnast við e-ð (= vera eins gott og e-ð): Han kan gjøre f. for to Andre hann vinnur á við tvo (er tveggja manna maki til vinnu), eða jetur á við tvo.

**fyldestgjøre**, ós., gjalda e-m fullnað, gera e-n íhaldinn (skaðlausan). — b) gera e-n ánægðan. — c) fylla, líkt og gegna e-u til hlítar eða fullnaðar: F. sin Pligt. F. eens Forlangende gera það sem e-r heimtar.

**Fyldestgjørelse**, sk., fullnaðargjald. — b) = **Tilfredsstillelse.**

**Fyldevom** hvomur.

**fyldig**, ft. -e, e., þriflegur, holdugur, (mátulega feitur), gildur, bústinn, (sb. før c): Han er stærk bygget og f., uden at være fed þrekinn og þriflegur, en ekki feitur. F. i Ansigtet þykkleitur.

**Fyldighed**, án ft., sk., gildugleiki, hold (í ft.), o. s. frv.

**Fylding**, ft. -er, sk., það sem e-ð er fyllt með, 1. s. m. a) = **Fyldemad**, (sb. **Fyld**): F. i en stegt Gaas (Kalkun). — b) F. i en Dør = **Dørfylding.** — c) millifjalir á milli þykkvuslu hlífðarborðanna utan á skipi.

**Fyldingsed** eiður um að maður hafi hvorki goldið nje gefið það sem maður segir sig stolinn vera.

**Fyldning**, sk., það að **fylde.**

**Fylke**, ft. -r, kl., [fylki], fylki.

**Fylkekonge** fylkiskonungur, smákonungur.

**Fynd**, án ft., kl. og sk., skörungsskapur, máttur sem e-ð hefur til að bera, (sb. veigur): Det var F. i hans Tale það var mergur í máli hans. Den Tale har F. og Klem. Sb. **Klem** b, **Eftertryk** 1.

**fyndig**, ft. -e, e., sköruglegur, skorinorður, kostgóður, kjarngóður, rækilegur, (sb. mergjaður): Han holdt en kort og f. Tale; sb. gagnorður og skorinorður. Et fyndigt Beviis.

**Fyndighed**, án ft., sk., skörungsskapur.

**Fyr**, ft. -e, kk., (í tali, einkum í Kaupmannahöfn), piltur, ungmenni, en er haft þar sem vjer nefnum ekkert þess háttar orð: Det er en lystig (munter) F. hann er allra mesti galgopi. Hvad var det for en F. hvaða maður var þetta? (Sb. **Friskfyr**, **Springfyr.**)

**Fyr**, (í ft. **Fyrretræer**), sk., [fura], fura *pinus silvestris.*

**Fyr**, ft. eins, kl., viti: Skagens F. vitinn á Vendilskagn.

**Fyr**, án ft., sk., [sb. fur-r og hyr-r], (ekki haft, nema sem fremri liður í samsettu orði, og) í einstöku orðatiltækjum, eldur: Give F. skjóta (þ. e. hleypa af bissu). — Han er lutter F. og Flamme.

**Fyrbetjent** vitamaður (sem starfar að vita).

**Fyrbækken** = **Sengebækken.**

**Fyrbøder**, ft. -e, kk., kyndari (í annari merk. enn Fms. III, 200).

**fyre** (har), h. s. 1, a) kynda, kveikja, leggja að: F. under en Kedel. F. paa Skorstenen. F. for stærkt i Kalkeovnen kynda of mikið í ofuinum. — b) skjóta af bissu: F. med Geværer (Pistoler). F. paa Fjenden. Der blev fyret (var skotið) baade fra Voldene og fra Skibene.

**Fyren**, án ft., sk., það að **fyre.**

**Fyrfad** glóðarker.

**fyrgetyve** sjá **fyrretyve.**

**fyrig**, ft. -e, e., fjörugur, lífaður: En ung og f. Hest. Være f. (fylginn sjer) i noget. Fyrigt Mod hugrekki, hugprýði. En f. Indbildningskraft (fljúgandi ímyndunarafl). — Líka fjörlegur, fránn: Fyrige Øine (sb. fráneygr). Et fyrigt Blik.

**Fyrighed**, án ft., sk., fjör: Der er Liv og F. i hendes Spil hún leikur með lífi og fjöri. Fegte med F. með hugrekki. Tale med F. fjörugt. Elske med F. unna heitt.

**Fyring**, sk., = **Fyren.**

**Fyrmørser** = **Mørser.**

**Fyrplade** værulilið (sem veit inn í mannabús) á eldbúss-arni.

**Fyrrebord** furuborð.

**Fyrrebrænde** fura, sem brennsluviður.

**Fyrrebræt** furuborð.

**Fyrrekogle** furuköngull.

**Fyrreplanke** þykkt furuborð.

**Fyrreskov** furuskógur.

**Fyrretræ** furuviður.

**fyrretyve** (**fyrgetyve** rangt) fjörutíu.

**fyrretyvende**, [sb. fertugandi], fertugasti.

**Fyrretømmer** furuviður = furutimbur.

**Fyrstaal** eldstál.

**Fyrste**, ft. -r, kk., höfðingi = stjórnari: Keisere, Konger, Hertuger og andre Fyrster. — b) fursti α) einungis að nafnbót. — β) sá sem hefur furstaríki til forráða: Fyrsten af Lichtenstein. — c) = **Prinds.**

**Fyrstebarn** stórhöfðingjabarn.

**Fyrsteen** eldtinna.

**Fyrstegunst** stórhöfðingjahylli.

**Fyrstehader** stórhöfðingjahatari.

**Fyrstehuus** stórhöfðingjaætt.

**fyrstelig**, a) ft. -e, e., höfðinglegur, (eða: fursta-): F. Pragt = **Fyrstepragt.** Fyrstelige Personer stórhöfðingjar. — b) sem ao., höfðinglega.

**Fyrstemagt** stórhöfðingjavald.

**Fyrstendom** (sjaldh.) = **Fyrstendømme.**

**Fyrstendømme**, ft. -r, furstadæmi: Fyrstendømmet Lichtenstein.

**Fyrstepragt** höfðingleg (konungleg) viðhöfn.

**Fyrsterang** stórhöfðingjatign.

**Fyrsteslægt** stórhöfðingjaætt: Den mediceiske F. Hun var af F. var höfðingborin (tigin).

**Fyrstefold** kaup er stjórnandi geldur e-m.

**Fyrstestamme** stórhöfðingjaætt.

**Fyrstevælde** stórhöfðingjavald.

**Fyrsteæt** stórhöfðingjaætt.

**Fyrstinde**, ft. -r, kvk., stórhöfðingjafrú, (drottning, meykonungur, eptir því hvernig á stendur): Regjerende F. sú er að löndum situr (ein, eða með bónda sínum).

**Fyrsvamp** tundursveppur.

**Fyrtaarn** vitaturn.

**Fyrtøi** eldsvirki.

**Fyrtønde** tundurbaukur (eins og kútur í lögun).

**Fyrværk** = **Fyrværkeri.**

**Fyrværker**, ft. -e, kk., skoteldamaður; sá sem gerir flugelda til skemmtunar mönnum, flugeldamaður, flugeldameistari.

**Fyrværkeri**, ft. -er, kl., skoteldar í bardögum; flugeldar (til skemmtunar): Afbrænde et F. fleygja flugeldum. (Sb. **Fyrværk.**)

**Fyrværkerkonst** skoteldalist; flugeldalist.

**Fæ**, án ft., kl., [fé], a) (forn), fje = fjemunir, eignir. (Sb. **Danefæ**, **Liggendefæ.**) — b) um skepnur, α) (sjaldh.), fjenaður, (sb. **Qvæg**). — β) í styrðum, naut, auli.

**Fæavl** kvikfjárrækt.

***Fæcreatur** nautgripur.

**Fædrearv** ættleifð, (sb. föðurleifð, föðurarfur).

**Fædrehjem** átthagar manna.

**Fædreland** ættland, ættjörð, fósturland, fústurjörð.

**Fædrelandsforræder** landráðamaður (er svíkur ættjörðu sína).

**Fædrelandskjærlighed** þjóðrækni.

**Fædrelandsven** þjóðrækinn maður.

**fædrelandsk**, ft. -e, e., ættjarðar-, o. s. frv., (sem er í e-u sambandi við ættjörðu manns): Fædrelandske Begivenheder það sem við hefur borið á ættjörðu manns. Fædrelandske Helte hetjur sem hafa verið samlandar manns. — b) einkum, þjóðræknislegur: F. Aand þjóðrækni. F. Iver mikil þjóðrækni.

**Fædrenavn** ættarnafn (sem gengur í ætt).

**fædrene**, sem e., [sb. faðerni], föðurlegur, föður-, ætt-, ættar-: F. Bolig bústaður feðra manns. F. og mødrene Frænder föðurfrændur og móðurfrændur. F. og mødrene Arv föðurarfur og móðurarfur. Paa f. Side í föðurætt. Paa f. og mødrene Side í báðar ættir. — **fædrene** er einnig opt ritað áfast við það nafn, er því fylgir; sb. **Fædrenearv**, o. s. frv.

**Fædrenearv** föðurarfur; ættleifð.

**Fædrenefrænder** föðurfrændur.

**Fædrenegaard** jörð sem faðir manns hefur átt (föðurleifð) eða þeir langfeðgar (ættleifð).

**Fædrenegave** gjöf sem maður þiggur af föður sínum.

**Fædrenegods** föðurarfur, föðurleifð, ættleifð.

**Fædrenejord** land sem faðir manns hefur átt (föðurleifð) eða þeir langfeðgar (ættleifð).

**Fædreneland** = **Fædreland.**

**Fædrenelov** (forn) landslög.

**Fædrenemaal** = **Modersmaal.**

**Fædrenetro** trú sem haft hafa langfeðgar manna.

**Fædrestad** borg þar sem eru átthagar manna.

**Fædrift**, án ft., (eiginl. fjárrekstur; þar af) hagar, beitiland. — b) kvikfjárrækt: Agerdyrkning og F. ere Landets vigtigste Næringsveie.

**Fædriver** = **Qvægdriver.**

**Fægang** hagi, beitiland, (sb. **Græsgang**). — b) rekstrarvegur, fjárgata.

**Fæhandel** = **Qvæghandel.**

**Fæhave** umgirtur hagi.

**Fæhyrde** fjehirðir (Herv.; sb. **Hyrde**).

**Fæhoved** nautgripur, (sb. **Hoved**).

fæisk, ft. -e, e., dýrslegur (þó er fæisk enn verra): „F. Dorsthed eller Sandselighed."

fæl, ft. -e, e., [sb. fæla], ljótur, herfilegur, hryllilegur, andstyggilegur, viðbjóðslegur, (sb. grim, hæslig, styg): Et fælt Ansigt. Fæle Laber. Et fælt Skrig. Et fælt Veir (sb. tarna er ljóta veðrið!). F. Lugt.

Fæld, án ft., sk., hrörnun á húsi. (Sb. Bygfæld, Gaardfæld.)

Fælde, ft -r, sk., gildra. (Sb. Musefælde, Rottefælde, Ulvefælde.) — 2) lág (fallið trje i skógi); sb. Vindfælde.

fælde, ás. 1, [fella], 1) eiginl., a) fella (höggva) við i skógi: F. et Træ. F. Skoven fella mörkina. — b) fella = leggja e-n að velli eða við jörðu: F. een i Tvekamp. F. en Hjort (sb. Gþl. 450). — c) f. Spyd eða Bajonetter rjetta kesjur (eða bissustingi) fram undan sjer. — d) veita vatni: F. Vand fra sit sædvanlige Løb veita vatni úr farveg sinum (D. L.). — e) f. Taarer fella tár (I. a. m. 623). — f) fella tennur, o. s. frv.: F. Tænder (sb. tannfellingur). Hjorten fælder sine Takker. Træerne f. Blade. — Líka tómt fælde (þolandslaust): Dyrene f. ganga úr hárum; það er á þeim hárlos. Fuglene f. eru i sárum. — g) fella e-ð saman: F. Tømmer sammen fella (grópa, greypa) saman timbur. F. et Stykke Tøi i en Kjole auka því í. — h) f. en Ager brjóta akurland til sáningar. — 2) óeiginl., i málum, a) ríða e-m að fullu: Dette Vidne (Beviis) var det, som især fældede ham. — b) segja upp dóm: Dommen er fældet. F. Dødsdom over een.

Fældetid sá timi þegar fuglar eru i sárum, eða hárlos er á dýrum.

Fælding (Fældning), sk., a) það að fælde. — b) felling, samkoma, gróp, greyping: Det er gaaet op i Fældingen gliðnað um samkomurnar.

Fældning sjá Fælding.

Fælge, ft. -r, sk., einstakur partur af hjólhring: Et Hjul bestaaer af Fælger, Eger og Nav

Fælhed, án ft., sk., það að vera fæl (ljótleiki).

Fælle, ft. -r, kk., [sb. félagi], fjelagi, en er ekki haft, nema sem aptari liður i samsettu orði (t. s. m. Handelsfælle, Reisefælle, Sengefælle, Ægtefælle).

Fælled, ft -er, sk., almenningur = sameiginlegt beitiland, (sb. afrjett).

fælleds sjá fælles.

fælles (líka ritað fælleds), e. og ao., [f. Fælligs, eig. el. af Fællig], sameiginn (Al., 677), sameiginlegur: Et f. Bo; sb. Fællesbo. Vor f. Ven vinur okkar beggja eða allra. En f. Ulykke for hele Landet sem gengur (jafnt) yfir land allt. Lide f. Skade (Skjebne) sb. það gengur jafnt yfir alla. Til f. Brug (Fordeel). Døden er f. for alle eitt sinn skal hver deyja.

Fællesbo fjelagsbú hjóna.

Fællesbørn, ft, börn sem hjón eiga saman. Gagnstætt: Særkuldsbørn.

Fællesgods fjelagsfje.

Fælleskjøn samkyn orða.

Fællesnavn sameiginlegt nafn (*nomen appellativum*).

Fællesskab, án ft., kl., [sb. félagsskap-r], fjelagsskapur: Indgaae (leve i) F. med een. — b) sjer i lagi, samlög (sb. ísl. skjal 1351): Udskifte en By af F. (leysa bý úr samlögum).

Fællig, án ft., sk., [félag], fjelag, fjelagsskapur: Være i F. med een. Sidde i F. sammen.

Fæmark búfjárhagar.

Fæmarked = Qvægmarked.

Fæmon, [sb. fémun-ir], fjenaður, peningur, fritt = friðir peningar.

Fæmærke mark á kvikfjenaði (D. L.).

fængbar, ft. -e, e., eldfimur: Fængbare Ting.

Fængbarhed, án ft., sk., það að vera fængbar.

fænge (har), h. s. 1, taka eld: Krudtet vil ikke f. það kviknar ekki í púðrinu. Være let til at f. vera eldfimur.

fængelig, ft. -e, e., eldfimur: Let fængelige Ting eldfimir hlutir.

Fængerør tundurpípa á holkúlu.

Fænghul púðurgat.

Fængkrud kveikjupúður.

Fængpande panna ó bissu.

Fængsel, ft. Fængsler, kl., [fangelsi], a) fangelsi, myrkvastofa, dýflissa, prísund: Sættes (vera settur) i F. Holde (hafa) een i F. Frie een af Fængselet. — b) höpt, (sb. Fangenskab): Dømmes til evigt F. Efter et langvarigt F., er han igjen bleven fri.

fængselbunden, [sb. binde], (skáldl.), hafður i myrkvastofu.

Fængselsmuur dýflissumúr.

Fængselsstraf sú hegning að vera settur i fangelsi.

Fængselstid sá timi sem e-r er i fangelsi.

Fængselstvang ánauð i fangelsi.

fængsle, ás. 1, setja e-n i fangelsi (o. s. frv., sb. Fængsel): Lade een f. — Óeiginl., gagntaka: Hendes Skjønhed fængslede ham.

Fængsling, ft. -er, sk., það að fængsle.

Fænnike, ft. -r, sk., [sb. Fane], lítið hermerki.

Færd, án ft., sk., [ferð], ferð, för: Tre Dages F. — b) hreifing, i orðatiltæk. paa Færde α) á ferðum: Hvad er paa Færde hvað er um? hvað gengur á? Der er ingen Fare paa Færde það er engin hætta á ferðum. — β) á stjái: „For Morgenreden var han alt paa Færde." Være paa Færde (vera að) fra Morgen til Aften. — c) nthöfn, starf: Give sig i F. med et Arbeide fara að gera e-ð. Være i F. med et Arbeide vera að gera e-ð. — Være i F. med een (vera að semja við e-n, taka e-m tak) om noget. — Give sig i F. med een fást við e-n. Han er ikke god at give sig i F. med ekki góður viðureignar, ekkert barna meðfæri. — Komme (give sig) i F. med (hafa afskipti af eða samblendi við, leggja lag sitt við) slette Folk. — Fra første F. frá öndverðu. — d) meðferð = háttalag, hegðun, framferði: Han er underlig i al sin F. — e) tilburður, viðburður: En underlig (selsom) F. — (Sb. Brudefærd, Bryllupsfærd, Herrefærd, Jordefærd, Reisefærd, Ufærd, Velfærd.)

færde, ás. 1, (fornl.), bæta = gera við, hressa upp.

færdes, þs. 1, [ferðas(k)], (fornl.), ferðast, t. a. m. i orðskv.: Ufeig Mand f. tryggelig om Land (ófeigur má fara ugglaus um allt land, Orðskviðasafn). — b) vera á stjái: Hun f. tidlig og silde, baade i Huset og udenfor. Han f. bestandig iblandt dem hann er alla jafna innan um þá.

færdig, ft. -e, e., a) búinn til e-s: F. til Reisen (eða til at reise) = reisefærdig. F. til at seile = seilfærdig. — b) albúinn e-s, fús á e-ð: F. til (fús á) at tilgive. F. at opoffre Liv og Gods. — c) búinn α) að e-u eða með e-ð: F. med (að) sit Arbeide. Blive (være) f. med sit Arbeide koma (vera búinn að koma) því frá sjer. — Han er f. med (með) sine Midler. — β) = til lykta leiddur, alger (625): Arbeidet er færdigt búið, verkinu er lokið, það er búið að ljúka við það. Huset bliver færdigt i Sommer það verður lokið við það í sumar. Gjøre noget færdigt ljúka við e-ð. — d) (í tali), sem (þiggj.) liggur við e-u: Han var f. (eða f. ved) at doe af Sult hann var nærri dauður úr sulti. Hun er f. at græde (henni liggur við að gráta), naar hun feer Barnet. — e) leikinn (í e-u): En f. Arbeider góður verkmaður. Være f. i sit Arbeide leikinn (laglegur) í því, sem maður á að gera. Være f. i sin Pen lipur i að rita. En f. og flydende Tunge mjúkt tungutak.

Færdighed, ft. -er, sk., leikni, lag, liðugleiki, fipurleiki: Have F. i at tale et Sprog vera liðugur að tala e-t mál. Han besidder mange Færdigheder hann er mörgum íþróttum búinn.

Færdsel, sk., umferð, (sb. mannaferð, lestagangur): Paa denne Vei er megen F.

Færdselsfolk, ft., flutningamenn.

færdselsrig umferðarmikill, sem mikil umferð er um: En f. Vei.

Færge, ft. -r, sk., [ferja], ferja, farskip (Gþl.). (Sb. Smakke.)

Færgebaad lítil ferja.

Færgebro ferjubryggja.

Færgefart ferjuflutningur: Færgefarten fra Kallundborg til Aarhuus.

Færgefolk, ft., ferjumenn.

Færgegaard garður ferjustjóra eða ferju-eiganda.

Færgehuus íbúðarhús ferjustjóra eða ferju-eiganda.

Færgekarl ferjumaður.

Færgelaug farskips-eigendur.

Færgeløb ferjuferðir, ferjuflutningur: Have Løbber i et F.

Færgeløn ferjutollur, farleiga.

Færgemand farskips-eigandi; ferjustjóri; farhirðir.

Færgesmakke stór ferja.

Færgested ferjustaður.

Færgetold tollur sem greiddur er af varningi sem ferjaður er.

Færle sjá Ferle.

Færredsvogn vandvagn (tágavagn), ferðavagn.

Færredshaver, ft., hliðar á vandvagni (tágavagni).

Færredstøi = Kjøretøi.

Fæstald = Qvægstald.

Fæste, ft. -r, kl., [sb. festa], A) eiginl., 1) festa (það sem e-ð verður fest á): Krog til F. for en Stige til að festa stiga við. Faae F. med Hænderne (Fødderne); sb. Haandfæste, Fodfæste. — 2) hepti á sverði, mundriði. — 3) (úrell), vígi: Borg og F. — B) óeiginl., 1) leigumáli: Give nogen en Jord i F. byggja e-m land. Faae (have) en Gaard i F. hafa jörð á leigu. Give 100 Rigsbankdaler i F. af en Gaard gefa 100 dali fyrir að fá jörð til ábúðar. — 2) er eins og Fæste að fornu hafi verið = festar.

fæste, s. 1, [festa], A) ás., 1) eiginl., festa: F. noget med Søm. Træet har fæstet Rødder (hefur náð rótfestu). F. (binda) sit Haar op. — F. Ilden fela eldinn. — 2) óeiginl.: F. Bopæl taka sjer bólfestu. F. noget i Sindet festa e-ð sjer i huga. F. noget i Hukommelsen setja e-ð á sig. F. Lid til noget reiða sig á e-ð. — b) sjer i lagi, α) um jörð, leigja: F. en Gaard bort af een. F. Værelser. — F. en Gaard bort byggja manni jörð. — β) um vinnufólk, festa e-n i vist (sb. Gþl. 262), vista (ráða) e-n til sín: F. Tjenestefolk ráða vinnuhjú. F. sig bort en Pige ráða vinnukonu. — F. sig bort

vistast. — γ) festa sjer konu: F. sig en Mø. — B) h. s., festast: Sommet vil ikke f.

Fæstebonde leigumaður = landbúi annars, leiguliði, leiglendingur. Gagnstætt: Selveierbonde.

Fæstebrev byggingarbrjef.

Fæstefolk, ft., festarmaður og heitmey hans (D. L.).

Fæstegaard leigujörð, leiguból.

Fæstehuus leiguhús (hús sem manni er byggt).

Fæstejord leiguland (teygur sem manni er byggður).

Fæstekone kona sem (fyrir borgun) vísar vinnufólki á vist.

fæsteledig óbyggður: En f. Gaard.

Fæstemand maður sem (fyrir borgun) vísar vinnufólki á vist. — 2) festarmaður stúlku (Gþl. 212).

Fæstemø festarmey, heitmey.

Fæstemølle leigumylna.

Fæstemøller mylnumaður sem hefur mylnu á leigu.

Fæstensgave festargjöf.

Fæstensgilde veizla að festamálum.

Fæstensring = Trolovelsesring.

Fæstensøl = Fæstensgilde: Drikke F.

Fæstepenge, ft., festarpeningur sem gefinn er vinnufólki þegar það vistast.

Fæster, ft. -e, kk., sá sem leigir (eða hefur leigt) e-ð af öðrum, leigumaður, o. s. frv.

Fæsterettighed byggingarrjettur á jörð o. s. frv.

Fæstning, ft. -er, sk., kastali, vígi, virki: Anlægge en F. Beleire (storme, erobre, indtage) en F.

Fæstningsarbeide starf að kastalagerð. — b) þrældómserfiði í kastala: Dømmes til F. paa Livstid. sb. Slaveri b.

Fæstningsgrav kastaladíki.

Fæstningskrig bardagar um kastala.

Fæstningsmuur kastalamúr.

Fæstningsvold kastalaveggur.

Fæstningsværk einstakl vígi. — b) í ft., víggirðingar.

Fætter (líka ritað Fetter), ft. -e, kk., bræðrungur, systrungur, móðurbróðursonur eða föðursystursonur; frændi: De ere Fættere bræðrungar, systrungar, systkinasynir.

Fætterske, ft. -r, kvk., sama um kvenmann og Fætter um karlmann (sb. Cousine).

Fævang hagi.

Føde, án ft., sk., [fœða], fæði, fæða, fæðsla, atvinna, viðurværi: God (rigelig, slet, nærende) F. Fast F. Have Føden paa et Sted.

føde, fødte (sjaldan fødede), født (opt fød, sb. fædd-r), ás., [fœða], fæða, ala, A) = næra, færa e-n fram (nære, underholde): Han har over ti Mennesker at f. í heimili. — Olie føder Ilden. — „Koldsindighed fødede (ól, jók) Mistanken.“ — B) = eiga afkvæmi, a) um menn: Hun har født (fætt, alið, átt, eignazt) en Søn. Der fødes flere Mennesker, end der døe. F. (eiga barn) i Dølgsmaal. — Han er en født Englænder (fæddur á Englandi, fæðingi á Englandi); men opdraget fra sin Barndom i Frankrige. — Han er en født Digter hann er skáld af náttúru. Være født til noget vera mikillega náttúraður fyrir e-ð. — b) um dýr, bera, kasta folaldi, gjóta hvolpum eða kettlingum o. s. frv.: Dyr, som f. (eiga) levende Unger. Hoppen fødte et Hingstføl. — 2) óeiginl., leiða e-ð (illt eða gott) af sjer, valda e-u (illu): Denne Sag vil f. megen Fortræd af sig það mun hljótnst margt illt af þessu máli.

Fødeby fæðingarbýr e-s.

Fødedal dalur þar sem e-r er fæddur.

Fødeegn átthagar.

Fødegaard (fyrrum), hver sá búgarður (á Jótlandi) þar sem leyft var að koma upp nautum en ekki að ala þau. Gagnstætt: Staldgaard.

Fødejord ættjörð, fósturjörð.

Fødekorn = Brødkorn.

Fødeland fósturland.

Fødemangel bjargarleysi.

Fødemiddel það sem haft er til fæðslu: Et F. af Planteriget (fæðsla, sem tekin er af plöntum). Dyriske Fødemidler (matvæli, sem tekin eru af dýrum).

Fødemængde matföng = matvælaforði.

Føden, sk., það að føde.

Fødenød, [af Nød naut], í óvönduðu tali, landeyða (ónytjungur) sem ekki vinnur fyrir fæði sínu.

føderig þar sem er nóg til viðurværis, frjófsamur. — b) saðsamur.

Fødestad fæðingarborg e-s.

Fødestavn átthagar. — b) sjer í lagi (fyrrum í Danmörku), fæðingarstaður e-s sem hann átti ekki með að yfirgefa. (Sb. Stavnsbaand.)

Fødested átthagar.

Fødestud naut sem ekki mátti kapp-ala (gagnstætt: Staldstud); sb. Fødegaard.

Fødevarer, ft., matföng, matvæli: Forsyne sit Huus med F.

Fødeø ey þar sem e-r er borinn og barnfæddur.

Føding sjá Fødning.

Fødning (líka Føding; sb. Hjemføding og Hjemmeføding), ft. -er, kk., [sb. fœðing-i], ekki haft nema sem aptari liður í samsettu orði, t. a. m. í Efterfødning, Sildefødning, Hjemfødning.

Fødsel (með greininum optast nær Fødselen), ft. Fødsler, sk., [sb. Forsel af føre], fæðing, burður (bæði um menn og skepnur): Have en let F. koma ljett niður. Have en haard F. koma hart niður. Barnet døde i Fødselen. Han har været svagelig fra Fødselen af frá því hann fæddist. — Ogsaa Huusdyrenes F. behøver undertiden Hjelp. — óeiginl., uppruni, upptök: Dæmpe et Oprør i Fødselen setja uppreist óðara enn á henni bryddir. — b) burðir, ætt: Fødselens indbildte Fortrin. Han er af F. en Nordmand.

• Fødselsaar burðarár e-s.

Fødselsdag afmælisdagur.

Fødselsdele, ft, getnaðarliður, burðarliður.

Fødselsfest afmælishátíð, afmælisveizla.

Fødselshjelp yfirseta.

Fødselshjelper yfirsetumaður.

Fødselshøitid = Fødselsfest.

Fødselsleie það hvernig burðurinn liggur í fæðinguani.

Fødselslem sköp á kvennkyni.

Fødselsnød jóðsótt.

Fødselsret rjettindi sem maður er borinn til.

Fødselssmerter, ft, jóðsótt.

Fødselssted (sjaldh.) = Fødested.

Fødselsstiftelse fæðingarhús.

Fødselsstund burðarstund e-s.

Fødselstang yfirsetutöng.

Fødselstid sú tíð þegar kona skal fæða. — b) burðartíð e-s.

Fødselsveer = Veer (sjá Vee).

Fødselsvidenskab yfirsetufræði.

føie, sjaldh. nú á dögum, a) e., fár, lítill, stuttur, skammur: En f. Hob. F. Dage. Om en f. Tid innan skamms, áður enn langt um líður. En f. Tjeneste. — b) ao.: Agte noget f. meta e-ð lítils. „Her tøver jeg kun f.“ stutt, stutta stund. O. s. frv.

Føie, án ft., sk., heimild, vorkun: Med F. eða med god F. eða ikke uden F. ekki um skör fram. — b) líkt og eptirlátssemi, í orðatiltæk. falde til F. láta undan.

føie, ás. 1, A) eiginl., fella e-ð við annað: F. et Bræt ind i en Aabning. F. (fella, greypa, skeyta) noget sammen. F. et Stykke til bæta nokkru við. — þessi merk. er líka höfð óeiginl. — B) einungis óeiginl., 1) án sig, a) laga, haga (stýra, snúa) e-u svo, koma e-u svo fyrir: F. det ene efter det andet laga hvað eptir öðru. — Guds Viisdom har saaledes føiet det. Skjebnen føiede det saaledes. — F. (líka gjøre) Anstalt til noget (hafa viðbúning við e-u). F. Anstalt til Forsvar hafa viðurbúnað. — b) láta eptir (eða undan) e-m, slaka til við: F. een i noget láta e-ð eptir e-m. Hun føier Barnet for meget lætur of mikið eptir því, hefur of mikið eptirlæti á því. — Lykken har altid føiet ham látið honum, leikið við hann. — 2) f. sig α) lúga sig: Jeg maa f. mig efter ham (sb. verða að sitja og standa eins og annar vill). — β) leika í lyndi, ganga að óskum: Alt føiede sig for ham. Vinden vil ikke f. sig hann er þver. — γ) atvikast: Det føiede sig saaledes.

føielig, ft. -e, e., eptirlátur, eptirlátssamur, fyrirlátssamur, aflátssamur, auðráður: Være f. imod een. — b) haganlegur, hagkvæmur, hagstæður, hentugur: Vinden er ikke f. hann er þver. Paa en f. Tid.

Føielighed, ft. -er, sk., eptirlátssemi, aflátsemi (Björn): Jeg har viist ham mange Føieligheder gert honum margt í vil eða til þægðar.

Føining, sk., [af føie A], felling, samkomur.

føite (har), h. s. 1, (í tali), strunza: F. omkring i Byen strunza um bæinn.

føl, ft. -e, e., (í almúgatali), linur viðkomu.

Føl, ft. eins, kl., [fyl], folald.

føle, ás. og h. s. 2, 1) um áþreifingu, α) ás., þreifa (sb. þukla) á e-u eða um e-ð: F. Pulsen taka á lífæðinni. — F. sig for þreifa (eða reyna) fyrir sjer; líka óeiginl., leita fyrir sjer, fara í kringum (reyna að komast fyrir) e-n. — β) sem h. s., þreifa: Føl, hvor kold jeg er taktu á, hvað mjer er kalt! F. efter noget i Mørke gaufa eptir e-u. F. paa noget þreifa á e-u. F. til (á) noget. — b) finna e-ð (með höndunum o. s. frv): Jeg kan her f. en Hævelse. — 2) um líkamlega tilfinningu, finna til e-s: F. Kulde (Hede, Sult, Tørst, Smerte). — Han følte intet til Slaget fann ekkert til þess. — 3) um andlega tilfinningu: F. Glæde over noget gleðjast við e-ð, fagna e-u. F. Sorg over noget hryggjast af e-u, harma e-ð. F. Fortrydelse over noget iðrast e-s. F. Medlidenhed med een kenna í brjósti um e-n. Han føler intet ved Andres Nød hann kennir ekkert í brjósti um aðra. Han føler intet ved Naturens Skjønhed (fegurð náttúrunnar fær ekkert á hana). F. en Sætnings Sandhed finna að e-ð er satt. — Faae noget at f. kenna á e-u. — F. sig i Stand til noget kenna sig mann til e-s. — F. sig þykjast: Vel er hun smuk; men hun føler sig ogsaa það er hvorttveggja, að hún er falleg, enda veit hún af því.

Føleevne tilfinning (það að geta fundið til).

Følehorn horn t. a. m. á sniglum (antenna).

følelig, ft. -e, e., tilfinnanlegur a) eiginl., þreifanlegur (sem fundið verður til með fingrunum o. s. frv.). — b) óeiginl., sem um munar, sýnn: Et føleligt Tab

töluverður skaði. En f. Fornærmelse (Bebreidelse).

**Følelse**, ft. -r, sk., tilfinning, a) líkamleg: Følelsens Sands tilfinningin (þegar talað er um skilningsvitin). Med Livet ophører Følelsen. I denne Legemsdeel er han reent uden F. öldungis tilfinningarlaus. — Have en F. af Kulde (Smerte) finna til kulda (sárinda). En smertelig F. i Brystet sárindi fyrir brjóstinu. — b) andleg: F. og Villie. En behagelig (ubehagelig, levende, dunkel, stærk, svag, ligegyldig, blandet) F.

**Følelsesord** = Udraabsord.

**Følen**, án ft., sk., það að føle (þukl).

**Føleredskab** tilfinningarlimur á sumum smádýrum.

**Føleri**, án ft., kl., a) eiginl., (í tali), þukl: Lad det F. være vertu ekki að þessu þukli! vertu ekki að þukla þetta! — b) óeiginl., ónáttúrleg (óveruleg, uppgerðar-) tilfinning eða viðkvæmni.

**følesløs** tilfinningarlaus (einkum andlega): Han var f. (= ufølsom) ved hendes Taarer.

**Følesløshed**, án ft., sk., tilfinningarleysi (einkum líkamlegt): F. i Huden.

**Føletraad** eins konar tilfinningarlimur á sumum smádýrum.

**følgagtig**, ft. -e, e., (í tali), hlýðinn, ráðþæginn: Han vil ikke være f. hann gegnir (hlýðir) ekki.

**Følgagtighed**, sk., hlýðni.

**følge**, fulgte, fulgt, [fylgja], I) í áhrifsmynd, A) sem ás., 1) um stað, a) ganga (ríða, o. s. frv.) á eptir e-m: F. een. F. een i Hælene vera í hælunum á e-m. F. een i Afstand vera spottakorn á eptir e-m; fara í humátt á eptir e-m. F. een med Øinene horfa á eptir e-m. — b) fylgja e-m, halda í við: Han gaaer saa stærkt, at jeg kan ikke f. ham. — c) verða e-m samferða, vera með e-m, fylgja e-m (í virðingar skyni eða kompánskapar, til verndar eða leiðbeiningar, o. s. frv.): Han blev fulgt af et talrigt Tjenerskab með honum var margt þjónustumanna. Vi fulgte dem alle lige til Skibet. F. een et Par Miil paa Veien. — F. Brudefolk i Kirke. F. et Liig (fylgja líki til grafar). — F. een hjem (svo að hann villist ekki, eða að honum sje óhætt). F. een ned ad Trapperne (svo að hann reki sig ekki á). F. et Barn i Skole (svo það fari sjer ekki að voða). — 2) um tíð, koma eptir e-n: Sønnen fulgte Faderen i Embedet. — 3) óeiginl., a) fylgja e-m (þ. e. verða ekki á eptir; sb. 1, b): Han taler saa hurtigt, at man har vanskeligt ved at f. ham. — b) að sínu leyti sama og 1, c: Lykken fulgte ham til hans Død hann var lánsmaður meðan hann lifði. — c) fara (breyta, hegða sjer) eptir e-u: Som Herren er, saa f. hans Svende eptir höfðinu dansa limirnir (orðskv.). F. eens Exempel gera að dæmum e-s. F. Moden tolla í tízkunni. F. eens Raad hafa ráð e-s, fara að ráðum e-s, eða fara þeim fram. F. sin Tilbøielighed (gera það sem mann girnir). F. sit eget Hoved fara sínu fram. F. Naturens Stemme (sb. gá að guði og sjálfum sjer). — B) sem h. s., 1) um stað, a) ganga (ríða, o. s. frv.) á eptir e-m: F. efter een. Prindsen fulgte lige efter Kongen var rjett á eptir konunginum. — b) fylgja (þ. e. verða ekki á eptir): Han kan ikke f. med. — c) að sínu leyti eins og A, 1, c: Jeg red; men de andre fulgte til Vogns voru á vagni eða vögnum. Vi fulgte med (fylgdum, urðum samferða) lige til Skibet. Vil du f. med i Skoven verða samferða á skóginn? — Med Huset følger (húsinu fylgja) fire Kakkelovne. — d) sjer í lagi um það sem sent er: Brevet har jeg erholdt, men ikke det, som skulde f. med samme það, sem með því átti að vera. Pengene f. herhos (eru með brjefinu). Varene skulle f. (verða sendar, koma), saasnart Anviisningen indløber. — 2) um tíð, a) án fs., α) í ho. nút. t. følgende: Han holdt sig rolig Vinteren over; men følgende Foraar (er voraði, er vor kom, um vorið) begyndte han igjen sine Søtog. Den følgende Dag (næsta dag eptir, daginn eptir) var han igjen ganske frisk. — Den følgende Tid (ókomin tíð) vil lære det. En følgende Alder vil lade ham vederfares Ret þeir koma tímarnir, að hann verður látinn njóta sannmælis. — Líka að nokkru leyti um stað, sem nú kemur: De følgende Blade (Kapitler) i Bogen. — Sömul. um það sem maður ætlar að fara að segja, sem hjer fylgir, er nú fylgir hjer (Gþl. 47), er fylgir (sb. en þat er fylgir: „þá munu þeir leggja kálfa yfir altari...." 655 XXIII), er eptir fer (sb. Fms. II, 89): Han holdt derpaa følgende Tale. Det bør skee paa følgende Maade sem nú skal segja. Du maa erindre følgende þú verður að muna eptir því, (sem jeg ætla nú að taka fram við þig). Da jeg kom nærmere, læste jeg følgende sá jeg þar þessi orð. — β) í orðatillæk. som følger sem hjer segir (í því sem nú kemur): Brevet lyder, som følger. Han svarede saaledes, som følger hann svaraði á þessa leið. — b) f. efter noget koma eptir e-ð: Efter Regn følger Solskin það kemur skin eptir skúr, eptir skúra sólin skín. — Efter denne ypperlige Konge fulgte en Række af uduelige. — c) f. paa noget taka við af e-u: Det ene Tordenskrald fulgte paa det andet það kom hver þruman á fætur annari. Een Ulykke fulgte paa den anden (sb. mjór á ekki úr að aka). Betænk, hvad der vil f. paa hvað eptir muni fara. — β) að nokkru leyti um stað: Der følger et lystigt Eventyr paa den alvorlige Fortælling. Een smuk Egn følger paa den anden i bestandig Afvexling. — 3) óeiginl., a) líkt og 1, c: Det fulgte med i Kjøbet jeg (hann, eða þvíuml.) fjekk það í kaupbætir. — b) deraf kan f. meget Ondt þar af getur leitt (þ. e. sprottið) mikið illt. — Deraf følger ikke þar af leiðir ekki (þ. e. þar af má ekki álykta), at han er strafskyldig. — II) í þolmynd, a) følges ad verða samferða: Vi fulgtes ad den hele Vei. — b) følges med een verða e-m samferða, vera með e-m: Vil du følges med, eller gaae alene?

**Følge**, sk., [sb. fylgja], 1) án ft., a) röð (það hvernig hvað kemur á eptir öðru): Versene maae læses i en uafbrudt F. í samfellu. Forestillingernes F. (hugsanaröðin). — β) sjálfir hlutirnir í röð: En fuldstændig F. af romerske Mynter. — b) það að e-ð leiðir af e-u: Det er ingen F., at Kornet bliver dyrt i Aar, fordi Høsten her i Landet var maadelig það er ekki víst, að ...., þó að o. s. frv. — Drage til F. verða að ástæðu fyrir aðra, t. a. m. det kunde drage til F., om man tilstod ham denne Frihed (ef þetta væri látið eptir honum, þá gæti það dregið þann dilk eptir sig, að aðrir heimtuðu sama). — I F. að e-u = eptir e-u: Det skeer i F. kongelig Befaling það er gert eptir konungs boði. I F. vor Aftale eins og okkur talaðist til. I F. mit Løfte eptir loforði mínu. I F. de nyeste Efterretninger er Krigen virkelig udbrudt nú er stríðið byrjað að því er síðast hefur frjetzt. — c) það sem dregið (ályktað) er af e-u: Jeg indseer ikke, hvorledes man faaer denne F. ud af mine Ord jeg skil ekki, hveraig þetta verður dregið út af orðum mínum (eða hvernig orð mín verða dregin til dæmis um þetta). Tage noget (t. a. m. et Beviis) til F. hafa e-ð fyrir grundvöll (og draga annað þar af). — 2) með ft. -r, afleiðingar, (sb. eptirköst): Hvad vil Følgen heraf blive hvað leiðir af þessu? Følgen vil lære det (það mun sjást á afleiðingunum). Det er en F. af hans Uforsigtighed það kemur til (hlýzt) af óaðgætni hans. Denne Sag kan have vigtige (farlige) Følger. Det vil have slemme Følger það mun draga dilk eptir sig.

**Følge**, án ft., kl., [fylgi], a) fylgd: Være (komme) i F. med een vera í fylgd með e-m. Have een i F. med sig. — b) fylgdarlið, föruneyti: Han var iblandt Kongens F. hann var í fylgd með konungi. Et stort (prægtigt) F. stórt (frítt) föruneyti.

**Følgebrev** (úrelt), heimildarbrjef um jörð.

**følgelig**, a) ft. -e, o., (einkum í almúgatali), sjálfsagður, auðvitaður: Det er følgeligt (eða en f. Sag), at man maa holde hvad man lover. — b) sem ao. = altsaa: Han er den svagere; f. maa han give efter.

**Følgemageri**, kl., viðleitni að draga allt til dæma (leiða e-ð út af öllu).

**Følgepar** tveir sem ganga saman (t. a. m. í líkfylgd; sb. Sørgepar).

**følgeret** = følgerigtig.

**følgerig** sem hefur miklar afleiðingar.

**følgerigtig** rjett ályktaður.

**Følgerigtighed**, án ft., sk., það að vera følgerigtig.

**Følgeseddel** eins konar skýrteini sem liðsmönnum er gefið þegar þeir ætla í aðra sókn.

**Følgeskab**, kl., a) fylgd: Gjøre (være i) F. med een, eða gjøre een F. verða e-m samferða. — b) fylgdarlið, föruneyti: Et lidet (stort, anseeligt, fornemt) F.

**Følgeslutning** ályktun sem ekki er dregin beinlínis af öðru.

**Følgesvend** fylgdarmaður, fylgjari, sporgöngumaður. — b) (í tali), sá sem er með öðrum, samferðamaður, förunautur.

**Følgesætning** það sem ályktað er af öðru.

**Følgeterne** (sjaldh.), fylgdarmey heldra kvennmanns.

**følgeværdig** eptirbreytnisverður.

**Følgsomhed**, sk., (sjaldh.) = Følgagtighed.

**Følhoppe** folaldsmeri. — b) meri sem höfð er til undaneldis.

**følsom**, ft. -me, e., viðkvæmur, a) um líkamlega tilfinningu í orðstiltækjunum: F. imod Veirliget veðursjúkur (Björn). F. imod Kulden kulvís. — b) um andlega tilfinningu = blautgeðja, lingerður, auðkumull (fornt).

**Følsomhed**, án ft., sk., viðkvæmni, auðkymli (fornt).

**Føltand** folaldstönn.

**Føn**, án ft., sk., [sb. fön, et. af fanir á tálknom], hýjungur á sumum jurtum. (Sb. Freuld.)

**før**, [fyr-r og fyr], A) sem fs., fyrir (um tíð): Staae op f. Dag. En Time f. Middag. To Uger f. Paaske. — F. ham har Ingen nydt denne Ære. — B) sem ao., 1) fyr, áður, a) fyr eða áður: Han kom f. end alle de øvrige fyr enn allir hinir, á undan öllum hinum. Jeg hørte ham f. end jeg saae ham. — Han kom tidlig nok; men jeg kom dog f. Hvorfor kom du ikke f. ekki fyr enn þetta? — Jeg har nok engang f. seet ham áður, fyr enn nú. Det har f. hændt sig það hefur borið við áður, (fyr

Kronefistel eins konar átumein í ofanverðum brosshóf.

Kroneguld eins konar gull (að gæðunum til).

kronemærket, [sb. mærke], sem kóróna er mörkuð á.

Kronepodning = Barkpodning.

kroneprydet, [sb. pryde], prýddur (skreyttur) kórónu, krónaður.

Kronering neðri bluti kórónu (kórónugjörð). — b) hringur innan í kórónu. — c) eins konar djásn er líkist kórónu.

Kronglas eins konar gler sem bæði er skært og smágert.

Krongods ríkisfasteignir, (sb. konungdómsins jarðir, Gþl. 60).

Kronhammer verkfæri (sb. Skovhammer) til að marka með þau trje er fella á í skógum ríkisins.

Kronhjort (eins konar hjörtur) *cervus elaphus.*

Kronhjul = Kamhjul.

Kroning, n. -er, sk., krýning.

Kroningsdag krýningardagur, vígsludagur stórhöfðingja.

Kroningsdaler=Kroningsmynt.

Kroningsdigt vígslukvæði = krýningarljóð.

Kroningsdragt vígsluskrúð (Fms.), vígsluklæði (Fms. X, 15, 16).

Kroningshoitid vígsluhátíð (sú hátíð þegar e-r stórhöfðingi er vígður til kórónu).

Kroningsmynt vígslupeningur (peningur til minnis um vígslu stórhöfðingja).

Kroningsskat vígsluskattur (sem á er lagður vegna þess að stórhöfðingi er krónaður).

Kroningstog vígslugagna (sb. Fms. X, 15), vígslufylgd, (þegar stórhöfðingi er vígður).

Kronjern bezta miltisjárn.

Kronlehn = Rigslehn.

Kronmynt peningur sem kóróna er mótuð á.

Kronprinds elzti sonur konungs eða keisara.

Kronprindsesse, a) elzta dóttir konungs eða keisara. — b) kona elzta sonar konungs eða keisara.

kronrage, ás., [sb. krúnuraka], gera e-m krúnu.

Kronsav eins konar stórsög.

Kronskade eins konar meiðsli í hrosshóf.

kronskaldet sköllóttur í hvirflinum, (sb. pjetursskalli).

Kronskat skattur sem goldinn er stórhöfðingja.

Kronstilk = Blomsterstilk.

Kronsætning (sjaldh.), það að krones (sb. krone b).

Krontin bezta tin sem króna er mörkuð á.

Kronvildt=Kronhjorte (sb. Kronhjort); kjöt af þeirri hjartartegund.

Kronværk eins konar útgirðing (í kringum virgi).

Krop, n. -ppe, sk., [kropp-r, Sn. E.], a) búkur (sb. lítill búkr býr yfir miklu viti) = kroppur: Han eier neppe Klæder paa Kroppen hann á varla spjarirnar (garmana) utan á sig. Straffes paa Kroppen vera hýddur. En død K. nár; hræ. — í tali: En doven K. allra mesta letiblóð. En ugudelig (gudsforgaaen) K. (ófær maður; sb. gudsforgaaen). — b) búkur = bolur: Stille Hovedet fra Kroppen gera skilnað búks og höfuðs (sb. Al.), ganga milli bols og höfuðs. — Einnig, fall; sb. Oxekrop.

Krop, án n., sk., eins konar hálseitlabólga (*struma*). — b) = Dværke.

Kropand (eins konar önd) *anas clipeata.*

Kropbyld, a) eins konar kverkamein (á mönnum). — b) eins konar kýli undir hestkverk.

kropbrøi (sjaldh.) = forlemmet.

Kropbue (eins konar dúfa) *columba gutturosa.*

Kropflod, kl., nasarennsli á hesti sem hefur þann kvilla er Krop heitir.

krophalset, n. -halsede, o., a) sem hefur þess konar kverkamein er kallað er Krop. — b) (um hross), hálsþykkur.

Krophoste hósti í hrossi sem hefur þann kvilla er Krop heitir.

Krophoved eins konar matur (mjöl og grjón í þorskhöfði).

Kropknude, a) = Krop (án n.) a. — b) bólga sem kemur til af Krop (án n.) b og er undir kverkinni.

kropløs búklaus.

Kropmiddel læknisdómur við Krop (so n.).

kroppe, ás. 1, troða í, troða e-ð út.

Kroppert, n. -er, sk., = Kropdue.

Kroppulver dupt sem bezt er gefið við Krop (án n.) b.

Kropsalat eins konar salát.

Kropsmitte það að hestur fær Krop (án n.) b af öðrum hesti.

Krorettighed veitingaleyfi = leyfi til að hafa veitingahús (Kro A, a).

Kroskilt titilbrik (sb. legtitull) eða annað veitingamark á veitingahúsi (Kro A, a).

Krostue borðstofa í veitingahúsi (Kro A, a).

Krosogning = Krogang.

Krovert = Kroholder.

Krud, n. Kryder, kl., [sb. krydd], (úrelt), jurt: Ondt K. forgaaer ikke það lifir lengst sem bjúum er leiðast (málsh.).

Krud (líka ritað Krudt optir framburði; sb. Grud og Grudt), án n., kl., [sb. krot?], púður.

Kruddamp púðurreykur.

Krudflamme púðurblossi.

Krudforraad púðurbirgðir.

Krudhorn púðurhorn.

Krudkammer, 1) = Arkelie. — 2) innsti partur af bissuhlaupi.

Krudkarre = Krudvogn.

Krudkjelder púðurkjallari.

Krudkorn púðurkorn.

Krudkul kol sem eru höfð í púður.

Krudladning púður í bissu, púðurskot. — b) púðurfarmur.

krudlugt púðurþefur.

Krudmaal ílát til að mæla púður í bissu.

Krudmine púðurgröf = sprengigröf.

Krudmølle vjel (mylna) sem púður er búið til í.

Krudplet púðurblettur (á hörundi).

Krudprøve það að reyna púður.

Krudprøver, n. -e, sk., verkfæri til að reyna með púður.

Krudrende eldsmuga (smuga sem eldurinn er látinn læsa sig inn um í sprengigröf (Krudmine) eða brennuskip (Brander).

Krudrog púðurreykur.

Krudsigte = Krudsold.

Krudskib púðurskip.

krudsky bræddur við bissuskot, skotbræddur.

Krudsold sáld sem haft er við púðurgerð.

krudsprænge púðursprengja (að sínu leyti eins og púðurskjóta, sb. púðurskotinn fiskkarinn): K. Steen til Gjerder (púðursprengja grjót í garða).

Krudsvamp tundursveppur sem púðursalla er nuggað inn í.

Krudt sjá Krud (án n.).

Krudtaarn púðurstöpull, (eða e-t sjerstakt) púðurhús.

Krudtønde púðurtunna.

Krudvogn púðurvagn.

Krukke, n.-r, sk., [krukka, 655], krukka: Krukken gaaer saa længe til Vands, til den kommer hankeløs hjem (sb. hankeløs).

krukkedannet, [sb. dannel, sem er eins og krukka í lögun.

Krukkehank haudarhald á krukku.

krum, n. -me, e., [sb. viðurnefnið krum-r og krumma], boginn, bjúgur: En k. Linie. En k. Næse niðurbjúgt nef. — Óeiginl.: Gjøre ret det som er krumt (gera rjett úr röngu).

krumbenet bjúgfættur.

Krumbiil bjúgöxi.

krumbugtet = bugtet (sjá greinina um bugte).

krumboiet, [sb. boie], boginn, hálfboginn, kengboginn, bjúgur, álútur.

*Krumcirkel = Krumpasser.

krumdannet, [sb. danne], boginn, kengboginn, o. s. frv.

krumdreiet, [sb. dreie], undinn.

Krumfod boginn fótur.

Krumgang krókur (um veg).

Krumgavl ávalt gaflhlað.

Krumhals boginn eða undinn háls eða stútur.

krumhalset, n. -halsede, e., hálsboginn.

Krumhed, án n., sk., bjúgleiki.

Krumholt, n. -er, kl., skipsröng.

Krumhorn bjúghorn (sb. bjúgviðir hausa).

krumhornet bjúghyrndur, hringhyrndur.

krumhulet, [sb. hule], sem hveift (sleikt) er úr.

Krumkage eins konar kryddkaka.

Krumkam bjúgur hárkambur (sem kvennfólk hefur í hári).

Krumkniv, a) bjúghnífur. — b) bjúgeggjaður sniðill. — c) grasajárn, eða þvíuml.

krumknæet, n. -knæede, e., sem hnjen á eru bogin inn á við.

krumliniet, n. -liniede, e., (sem er) með bjúgum línum: En k. Triangel.

krumløbende, [sb. løbe], sem liggur í bugðum, hlykkjóttur, krókóttur: Krumløbende Veie.

Krumme, n. -r, sk., a) (brauð)moli: Krummer ere ogsaa Brød (orðskv.).; sb. ekki er autt þar sem hnoðrinn húkir, betra er lítið enn ekki neitt, kornið fyllir mæli(ri)nn, o. s. frv. — b) ungi(nn innan í brauðinu, P. Þ.).

krumme, ás. 1, beygja, sveigja: K. en Green. K. noget sammen. K. sig bogna, (svigna); sveigja sig og beygja.

Krumning, n. -er, sk., það að krumme. — b) bugur, bugða, hlykkur, o. s. frv.

krumnæbbet (um fugl), sem hefur bogið nef.

krumnæset, n.-næsede, e., bjúgnefjaður (B. H), sem niðurbjúgt nef er á.

Krumpasser bjúghringill (Dr. Sch.).

krumpen, n. krumpne, e., krepptur.

krumriflet, [sb. rifle], (sem er) með hvelfdum skorum.

krumrygget = krogrygget.

krumskaftet bjúgskeptur.

Krumslutning, sk., það að krumslutte.

krumslutte, ás., (um eins konar beguing), fjötra e-n í kuðung, (kuðunga?).

krumsnoet, [sb. snoe], hlykkjóttur.

Krumspring það að bregða á leik, eða þvíuml. — Óeiginl., undanbrögð, vífilengjur.

Krumstav bagall.

Krumtang beygitöng.

Krumtap boginn bjóigaddsendi.

Krumtømmer viður sem hafður er í rengur.

Krumvei = Krogvei.

krumvoxet, [sb. voxe], bjúgvaxinn, boginn í vexti.

krumvunden, [sb. vinde], = krumsnoet.

Kruse (eða Kruus), n. Kruser, sk., liður á hári: Kruser i Haaret. — b) felling á líni eða e-u þess kyns: Sætte Kruser i en Halskrave. — c) hrukka: Gjøre Kruser i Panden. — d) gjøre Kruus af een eða gjøre Kruser for een hafa mikið við e-n.

kruse, áa. 1, gera liði á: K. Haaret. — kruset, sem e., hrokkinn: Krusede Lokker eða kruset Haar hrokkið hár. — b) ýfa: En sagte Vind kruser Vandet (sb. þegar galan gráa gárar vatnið bláa). — c) gera fellingar á: K. Kalvekros. — d) k. Hovedet paa een eða gjøre een Hovedet kruset vera e-m til ama; reita e-n til reiði; eða þviuml.

Krusejern taogir til að kreppa með hár.

Krusemynte (eina konar minta) *menta crispa*.

Krusen, án ft., sk., það að kruse.

Krusenaal (fyrrum), eins konar prjónn til að kreppa með hár.

Krusepind (fyrrum), eina konar verkfæri til að kreppa með hár.

Kruus sjá Kruse.

Kruus, ft. Kruse (fyrrum Kruus), kl., kanna: Drikke et K. Øl med een.

kruus, e., ekki haft nema sem fremri liður í samsettum orðum, hrukkóttur.

kruusbladet sem blöðin á oru með fellingum.

Kruusflor hlaupin slæða.

Kruushaar hrokkið hár.

kruushaaret hrokkinn = hrokkinhærður.

Kruushoved (i Isl.), a) maður sem er hrokkinhærður. — b) óeiginl., α) maður sem er einþykkur, þverhöfði. — β) funi.

Kruuskaal eina konar kól.

Kruuslaag könnulok.

Kruuslok lukkur sem liðast.

Kruusning, ft. -er, sk., það að kruse.

kruusuldet, ft. -uldede, e., sem ullin á er hrokkin.

kry, ft. -e, e., hreykinn, maskinn: Blive k. ved (af) noget.

Kryb, ft. eins, kl., skriðkvikindi; kvikindi (í venjulegri merk.).

Krybbe, ft. -r, sk., stallur; jata (forot: eta); garði.

Krybbebider, ft. -e, sk., bestur sem nagar stallfjölina.

Krybberum = Krybbe.

Krybbønne eina konar Snittebønne (sb. krybe 1, e).

Krybdyr skriðkvikindi. — b) ferfætla.

krybe, krøb, krøben og krøbet, h. s., [krybe: krjúpa = drybe: drjúpa], 1) eiginl., krjúpa (fornt) = skríða, skreiðast: Barnet har begyndt at k. er farið að geta skriðið. Han krøb bag Sengen skreið á bak við rúmið. K. i Skjul hlnupa í felur. K. paa alle fire skríða á fjórum fótum. — K. (klifrast) over et Gjerde. — Han begynder at k. noget omkring hann er farinn að skríða á fótum eða skreiðast á fætur; (sb. rjátla). — b) smjúga: Ræven krøb ind i Hulen. — c) k. ind (um vefnað og prjónles) hlaupa, þófna. — d) k. sammen α) t. a. m. af kulda, engjast saman. — β) af elli, ganga niður í jörðina. — e) (um plöntur), liggja með jörðunni: En krybende Stængel. — f) mora, vella: Osten kryber af Mider. Kjødet kryber af Maddiker. — 2) óeiginl., gera sjer lineiau með af mikilli auðmýkt, (sb. smjaðra): K. for de Store (vera auðmjúkur við meiri menn). — b) vera auðvirðilegur: En krybende Stiil auðvirðilegt orðfæri.

Krybekrage eins konar stigi.

Kryben, án ft.!, sk., það að krybe (sb. Kryberi).

Kryber, ft. -e, kk., sigakeppur (silakeppur). — b) auðvirðilegur smjaðrari.

Kryberi, kl., auðvirðileg auðmýkt.

Kryberter, ft., eins konar ertur (sb. krybe 1, e).

Krybeskytte skotlæðingur (Dr. Sch.).

Krybeskytteri, kl., launskot (í annars manns landi).

kryberagtig, ft. -e, e., kryddlegur, krydd-.

Kryderbad bað í kryddvatni.

Kryderbrød kryddbrauð.

Kryderdrik kryddaður drykkur.

Krydereddike ölvinan sem stendur (eða hefur staðið) á kryddjurtum.

Kryderi, ft. -er, kl., krydd: Komme K. paa Maden.

Kryderiskab kryddskápur.

Kryderkringle kryddbögld (eina konar kryddbrauð).

Kryderlugt kryddilmur.

Krydermad kryddaður matur.

Krydermyrte (eins konar trjo) *myrtus pimenta* (sb. allehaande 2).

Krydernelliker, ft., negulnaglar.

Kryderost ostur með kryddjurtum í.

Kryderpose jurtapoki (sem lagður er á bólgu).

Kryderskab = Kryderiskab.

Krydersmag kryddbragð.

Kryderthee eina konar seyði (te) af lækningajurtum.

Krydertvebak tvíbaka sem krydd er í.

Kryderurt kryddjurt.

Kryderwand = Urtevand.

Kryderviin vín sem stendur (eða hefur staðið) á kryddjurtum.

Kryderwært kryddplanta.

krydre, áa. 1, krydda: Krydrede Retter. K. (bæta) Maden med Peber (Salt). — b) óeiginl., bæta, gera e-ð þægilegra eða viðkunnanlegra: K. sin Tale med Skjemt (hafa í ræðu sinni gamanyrði til skemmtunar). — 2) krydret, sem e., kryddlegur, krydd-: Krydrede Urter kryddjurtir. En krydret Smag kryddbragð.

Krydring, ft. -er, sk., það að krydre.

Kryds, ft. eins, kl., kross (sem mark): Sætte et K. ved noget gera kross við e-ð með penna eða ritblýi. — Paa K. á víxl. — b) spjaldhryggur á mönnum, en þó optar það sem honum samsvarar á dýrum.

Krydsbaad eltingaskúta.

Krydsbaand = Korsbaand.

Krydsbeen, a) (í manni), lendabein (P. Þ.; *os sacrum*). — b) hælrófubein (í skepnu).

Krydsbind umbönd í kross.

Krydsbom, a) = Bindebom. — b) krossspýtur sem liggja á efra staðarenda (t. a. m. í hliði) og snúið verður.

Krydsbord borð á krossfæti.

Krydsbue = Korsbue.

krydsbannet, [sb. danne], (sem er) eins og kross í lögun.

krydse, s. 1, 1) h. s., a) (sjaldh.), gera kross á pappír: K. ved et Sted i en Bog. — b) kelkja (fornt), beita, slaga: Skjøndt Vinden var stik imod, krydsede vi over paa fem Timer gátum við komizt yfir um á fimm stundum með því að slaga. — K. langs med en Kyst. K. efter Sørøvere. — Einnig singa á landi (sb. vakka, tölta, vera á vaðbergi; sömul. synda, í orðatiltæk. synda milli skers og báru.). — 2) áa., a) k. sig = k. 1, b. — b) liggja yfir um: Veiene k. hinanden liggja á víxl. — Óeiginl., t. a. m.: Tanker, som k. hinanden hugrenningar, sem fara hver í bága við aðra. — c) k. Arter (Racer) af Huusdyr láta tamdar dýrategundir blandast saman, koma upp kynblendingum. — d) gera smáfellingar á: K. en Halskrave. — e) lagga: K. en Tønde.

Krydser, ft. -e, a) sk., skip sem er að slaga (beita, kelkja). — b) kk., sá sem er að slaga e-staðar á landi (spæjari, njósnari, njósnarmaður, eða þviuml.).

Krydsfod krossfótur (t. a. m. undir borði eða stól): Et Bord paa K.

Krydsforbind, kl., þess konar múrsteinahleðsla að hinir efri steinar binda hina neðri.

Krydshammer eins konar múrsleggja.

Krydsholt (líka Krøsholt), kl., eins konar laggarnverkfæri.

Krydshug krosshögg.

krydshvælvet, [sb. hvælve], sem er með krosshvolfi.

Krydshvælving = Korshvælving.

Krydshøvl (sjaldh.), eins konar lokar (sb. krydse 2, e).

Krydsild bissuskot er ganga á víxl.

Krydsjern eins konar laggarnverkfæri (sb. krydse 2, e).

Krydsknokkel = Krydsbeen.

krydslam sligaður.

Krydslamhed, án ft., sk., það að vera sligaður.

krydsløbende, [sb. løbe], sem rennur (liggur) í kross (á víxl): K. Veie.

Krydsning, ft. -er, sk., það að krydse.

Krydspind krossteinn (teinn sem er krosslagður við annan tein).

Krydspunkt sá depill þar sem tvær línur ganga á víxl.

Krydspæl staur sem er lagður á víxl við annan.

Krydsraa eins konar skiparú.

Krydsrem lend-ól.

Krydsseil eins konar segl.

Krydssnit = Korssnit.

Krydsspil eins konar vindás.

Krydsspor veiðidýrs ferill er liggur í krákustig.

Krydsspring það að stökkva upp og slá fótunum á víxl í loptinu.

Krydsstang eina konar biti á skipi.

Krydssting nálspor sem ganga á víxl.

Krydsstreg krossstryk.

Krydssøm eins konar saumur (á fötum).

Krydstog ferð skipa eða skipa á e-n stað til að slaga þar.

Krydstræ trje sem er lagt yfir um annað trje.

Krydstøile eins konar beizli á tvo hesta (krosstaumabeizli).

Krydstømme = Krydstøile.

Krydsvei = Korsvei.

krydsviis, ao., á víxl, í kross.

Krydsvinde eins konar vindás.

Krykke, ft. -r, sk., hækja: Gaae ved K.

krykkedannet, [sb. danne], sem er eins og hækja í lögun.

Krykkegang það að ganga við hækju(r).

Krykkekjerling (sjaldh.), hækjukerling.

Krykkekors (á skjaldmerki), kross sem er svipaður hækju.

Krykkemand (sjaldh.), hækjukarl (B. H.)

Krykkestav = Krykke.

Krykkestok stafur sem líkist hækju.

krympe, s. 1, 1) áa., a) hleypa (t. a. m. klæði): K. Klæde. — b) k. sig engjast saman: K. sig som en Orm. K. sig af Kulde. — Óeiginl.: K. sig ved (sjaldnar for) noget kveinka (kinoka) sjer við e-ð. — 2) h. s., k. sammen hlaupa (t. a. m. um klæði), skorpna.

Krympekraft það að geta hlaupið eða þófnað: „Uldens K."

Krympler, ft., blykkjáttar renglur.

Krympling, kk. eða sk., kreista = apturkreista.

Krympning, ft. -er, sk., það að krympe.

*Kryptkirke = Kraftkirke.

*Krypto-, sem fremri liður af samsettu orði, laun-, (leynilegur).

Kryst, ft. eins, kl., kreisting: „Hvilket Favntag, hvilket K.!“ (bjer: það að líma e-n að sjer; sb. Hjertekryst).

*Krystal (líka Kristal), ft. -ler, sk., a) = Bjergkrystal. — b) kristallur (steinn eða e-ð þviuml. sem er svo lagað af náttúrunni, að það er með eggjum, hliðum og hornum).

*krystalagtig, ft. -e, e., svipaður kristalli: Krystalagtige Former.

*Krystalform kristallslögun.

*Krystalglas eins konar gott og skært gler.

*Krystalgrube glerhallanámur.

*Krystalhinde ein af himnunum í auganu.

*krystalklar hreinn og tær.

*Krystallindse (partur augans) *lens crystallina.*

*krystallisere, ás. 1, i k. sig og krystalliseres fá kristallslögun (eggjar, horn og hliðar).

*Krystallisering, ft. -er, sk., það að krystalliseres (sb. krystallisere).

*krystallisk, ft. -e, e., sem er með kristallslögun.

*Krystallographie, sk., kristallafræði.

*Krystalsalt salt sem fionst með kristallslögun.

*Krystalspath eins konar steinn sem er svipaður glerhalli.

kryste, ás. 1, [sb. kreista og þrýsta], kreista: K. eens Haand. K. een i sine Arme kreista (faðma) e-n upp að sjer, líma e-n að sjer. K. Saften af en Drue.

Kryster, ft. -e, kk., kveif, mannskræfa.

Kræ, ft. eins, kl., skepna, kind, kvikindi.

Kræft, án ft., sk., krabbamein, átumein. — b) visnun í trjóm.

kræftagtig, ft. -e, e., sem er nokkurs konar átumein.

Kræftbyld krabbameinskýli, átumeinskýli.

Kræftknude þrimill sem er upptök átumeins.

Kræftmiddel lækning við átumeini.

Kræftfaar opið átumein.

Kræftsalve smyrsli við átumeini.

Kræftskade opið átumein.

Kræftvand vatn sem átumein eru fægð með.

Kræge, ft. -r, sk., (eins konar trje) *prunus insititia.*

Kræk, sk., = Kryb.

Kræmmer, ft. -e, kk., smásölumaður, (mangari, Björgv. býjorsk.).

Kræmmeraand mangarabragur.

Kræmmerdreng = Boddreng.

Kræmmereg meitilsegg. — b) um annað enn hnífs og þviuml.: Disse Tørklæder have endnu deres K. (eru óþvegnir enn).

Kræmmerfolk, ft., smásölufólk, mangarafólk.

Kræmmerhuus brjefstikill (Dr. Sch.).

Kræmmerkone kona smásölumanns eða mangara. — b) kona sem er smásölumaður eða mangari.

*Kræmmerlatin hrognalatína.

Kræmmerlaug smásölumannalag, mangaralag.

Kræmmerleie, kl., sölumanna-aðsetur, mangara-aðsetur.

Kræmmermærke merki sem smásölumenn eða mangarar setja á varning sinn (til minnis um verðið, o. s. frv.).

Kræmmerregning reikningur um smávarning.

Kræmmersvend = Krambodsvend.

Kræmmervægt vikt er tíðkast hjá smásölumönnum eða mangurum: K. og Apothekervægt.

krænge, s. 1, 1) ás., a) snúa e-u um: K. en Handske. K. en Strømpe; sb. brjóta á hæl. K. et Ærme af fletta ermi af handleggnum. — b) flá, (sb. birkja): K. en Hare. — c) k. et Skib láta skip fletja. — 2) b. s.: Skibet krænger skipit (þol) fletur.

Krængning, ft. -er, sk., það að krænge.

krænke, ás. 1, [krenkja], a) spilla e-n, rjúfa (óeiginl.), ganga á (t. o. m. grið), gera á hluta e-s, o. s. frv.: K. eens gode Navn og Rygte spilla mannorði e-s. K. eens Rettigheder krenkja rjett e-s (Hist. I, 437). K. Retten halla rjettu máli. — b) særa (óeiginl.), skaprauna e-m: Det krænkede ham (honum sárnaði, honum gramdist), at see sig tilsidesat. — c) leggjast með konu: K. en Mø.

Krænkelse, ft. -r, sk., það að krænke (rof; rangindi; skapraun, o. s. frv.).

Kræs, kl. (?), [e. o. kræs f. krás, eins og gæs f. gás, gætt f. gátt], krás, krásingar, sælgæti.

kræse (har), b. s. 1, [kræsa], bera fram krásingar: K. (eða k. op) for een gæða (tigla) e-m.

kræselig, ft. -e, e., [kræsilig-r], ljúffengur, lostætur, gómsætur.

kræsen, ft. kræsne, e, a) matvandur. — óeiginl., vandlátur: Være k. i sit Valg. — b) (sjaldh.) = kræselig.

kræve, ás. 1, [krefja], krefja e-s, æsta e-s, heimta: K. sin Løn heimta kaupið sitt. K. det, man har tilgode. K. Skatter ind heimta saman skatta. K. Regnskab af een eða k. een til Regnskab krefja e-n skynsemdar. K. een for noget krefja e-n e-s, heimta e-ð að e-m.

Kræven, án ft., sk., það að kræve (heimta, heimting, sb. Krav).

krøbbel, e., krepptur (um mann).

Krøbbelgang skjökt.

krøbbelslaae, ás., berja e-n til óbóta.

Krøbbeltræ trje sem kyrkingur er í.

Krøbbelvæxt (sjaldh.), það að vera afstirmi, (sb. kyrkingur).

Krøbling, ft. -er, kk., [krypplíng-r], krypplingur, (sb. kararmaður): Blive til en K. Slaae een til K. berja e-n til óbóta.

krøge, s. 1, [sb. krœkja], 1) h. s., bogna, svigna. — 2) ás., a) beygja, sveigja: K. en Green. — b) erja með þess háttar plóg er Danir kalla Krog (Krog c).

Krølerter, ft., soðnar baunir óstappaðar.

Krølhaar, ft., stælt hrosshár sem haft er í dýnur og þviuml.: Et Krølhaars Stolesæde.

krølhaaret = kruushaaret.

Krølle, ft. -r, sk., [sb. krœkla], 1) hrukka, brot, liður: Der er kommet Krøller i (það eru komnar hrukkur — er komið brot — á) Tøiet. Lægge en K. (brjóta blað) i en Bog. Sætte Krøller i Haaret kreppa hárið (á e-m); einnig: snúa brjefvindla í hár sjer. Haaret slaaer Krøller (hárið hrökkur) i Nakken. — 2) gróðareitur (á spilaspjaldi): Skrive (sætte) i Krøllen.

krølle, s. 1, 1) ás., a) (um föt og þviuml.), böggla: K. sine Klæder. — b) (um hárið), α) kreppa, setja liði á: K. Haaret. — β) k. sig hrökkva, liðast: Hendes Haar krøller sig af Naturen. — 2) h. s., hrökkva (um hár): Barnets Haar krøller af sig selv hárið á barninu er hrokkið.

Krøllejern = Krusejern.

krølnakket, ft. -nakkede, e., hrokkinn í hnakkanum.

Krølskæg (sjaldh.), hrokkið skegg.

Krølstraa smábálmur.

*Krønike, ft. -r, sk., annáll: Middelalderens Krøniker. — b) (í tali), samsetningur = skröksaga.

*Krønikeskriver annálaritari.

Krøs, ft. eins, kl., garnhimnur (*mesenterium*). — b) = Kalvekrøs b.

Krøsaare garnhimnuæð.

Krøsbetændelse garnhimnubólga.

Krøshinde garnhimna.

Krøsholt sjá Krydsholt.

Krøskjertel garnhimnueitill.

Krøsnerve garnhimnutaug.

Kube, ft. -r, sk., [kúpa], = Bikube a. Sb. Qværnkube; Aalekube.

Kubebinder sá sem ríður býflugnabú (úr hálmi).

Kubehul = Flyvehul.

Kubemager, ft. -e, kk., = Kubebinder.

Kubetag eins konar þak yfir býflugnabúi. — b) efri hluti býflugnabús.

Kudsk, ft. -e, a) sk., (úrelt), kerra. — b) kk., vagnstjóri: Tjene for K. vera vagnstjóri (hjá e-m).

Kudskebræt vagnstjóraskör.

Kudskehynde seta sem vagnstjóri situr á.

Kudskekappe vagnstjórakápa.

Kudskesæde vagnstjórasæti.

kue, ás. 1, [kúga], kúga.

Kuen, án ft., sk., það að kue (kúgun).

Kuf, sk., eins konar hafskip.

Kugle, ft. -r, sk., [sb. kúla], hnöttur: Jorden er en K. er hnöttótt. Kuglen i Keglespil. — b) kúla: Kugler og Krud.

Kuglebane braut hnattar eða kúlu.

Kugleblomst (sjaldh.), hnöttótt blóm.

Kugleblý kúlnablý.

Kuglebøsse kúlubissa; sjer í lagi = Riffel.

kugledannet, [sb. danne], hnöttóttur.

kuglefast sem stenzt kúlur: En k. Muur.

Kugleflade hnöttur utan (yfirborð hnattar).

Kugleflugt ferð á kúlu: Beregne Kugleflugtens Hastighed.

Kuglesod hnöttóttur fótur (t. a. m. undir skáp).

Kuglefoder kúlu-umvaf (svo að kúla fylli út í bissuhlaupið).

Kugleform hnattarlögun. — b) kúlnamót (til að steypa kúlur í).

kugleformet, [sb. forme], = kugledannet.

kuglefri sem kúlur vinna ekki á.

kuglehvælvet, [sb. hvælve], sem er með kringlóttu hvolfi.

Kuglehvælving kringlótt hvolf.

Kuglekammer kúlnaklefi (á skipi).

Kuglekiste kúlnakista.

Kuglekrands kúðalbringur sem kúlur eru lagðar í á þilfari.

Kugleladning kúluskot (í bissu).

Kuglelygte hnöttótt skriðbytta.

Kuglemaal áhald til að mæla með kúlur.

Kugleovn ofn sem fallbissukúlur eru heitar í.

Kugleplaster = Kuglefoder.

Kuglepose kúlnapoki, kúlnaskjóða.

Kugleprøver, ft. -e, sk., = Kuglemaal.

Kugleregn ógurleg kúlnaskothríð, kúlnadrifa.

Kugleriffel = Riffel.

Kuglerist kúlurist (rist sem kúlur eru heitar á).

kuglerund öldungis hnöttóttur.

Kuglesaar sár af kúlu.

Kugleskee, a) verkfæri til að ná kúlum úr holdi. — b) áhald til að bera glóandi kúlur á (kúluberi).

Kugleskud kúluskot, kúludrag.

Kuglesnit (í mælingafr.), hnattsneið.

Kuglespil eins konar leikur.

Kuglestøber sá sem steypir kúlur.

**Kuglestøberi** kúlusteypa (staður þar sem kúlur eru steyptar).

**Kuglestøbning** kúlusteypa (það að steypa kúlur).

**Kugletang** töng til að ná kúlum með út úr sárum.

**Kugletrækker**, ft. -e, sk., verkfæri a) til að draga kúlur með út úr sárum. — b) til að draga hleðsluna með út úr fallbissum.

**Kuglevalg** kúlnakosning.

**Kuglevægt** kúluþyngd.

***Kujon** (líka **Cujon**), ft. -er, kk., geit = raggeit, bleyðimaður.

***kujonere**, ás. 1, kúga, mokka.

***Kujonerie**, kl., heigulskapur, gunguskapur.

**Kuk**, sk., = Gjøg.

**kukke** (har), h. s. 1, (um gauk), kvaka: K. som en Gjøg kvaka sem gaukur.

**Kul** (líka ritað **Kuld**, nafn, [e. o. kull-r f. koll-r], (úrelt), kollur.

**Kul**, ft. eins, kl., [e. o. kul f. kol], kol: Svie K. svíða (brenna, Grágás, Nj.) kol. Brænde K. brenna (=svíða) kol; brenna kolum.

**Kulaske** kola-aska.

**Kulax** = Brandax.

**kulblandet**, [sb. blande], sem kol eru í (= saman við, innan um).

**Kulbrud** = Steenkulsbrud.

**Kulbrænde** = Kulved.

**Kulbrænder**, ft. -e, kk., = Kulsvier.

**Kulbrænding** kolbrenna (Kyrb.), kolgjörð (Vilk.).

**Kulbækken** glóðarker, eldker, eldberi.

**Kuld** sjá **Kul** (kollur).

**Kuld**, ft. eins, kl., öll þau börn sem getin eru í sama hjónabandi: To K. Børn. Børn af første K. börn með fyrri (fyrstu) konunni eða með fyrra (fyrsta) manninum. Lyse een i K. og Kjøn ættleiða (arfleiða) e-n (sem er barn manns). — b) hópur sem er borinn (gotinn, o. s. frv.) í einu: Et K. Grise. Grise af eet K.

**Kuld** [sb. kul], sjá **Kulde**.

**Kuldamp** kolagufa, kolareykur, kolasvæla.

**Kulde** (**Kuld** fornl.), án ft., sk, [kuldi], 1) eiginl., a) kuldi: Vandets K. — En stærk (streng, gjennemtrængende) K. mikill kuldi, herpingskuldi, gaddharka, nepja, næðingur, o. s. frv., (eptir því hvernig á stendur). — b) hrollur, kuldahrollur: Faae Kulden efter Heden. — c) kalda, beinverkir, eða þvíuml.: Være fuld af K. i Kroppen. — 2) óeiginl., a) fáleikar, fæð: Modtage een med K. taka e-m fálega. — b) það að manni bregður ekki, stilling: Med K. gik han Dødsfaren imode.

**Kuldegrad** kuldi = það hversu kalt er: Under denne K. (í þessum kulda = þegar svona er kalt) fryser Qvægsølvet.

**Kuldegysen** = Kuldegysning.

**Kuldegysning** hrollur, köldufiog.

**kuldet** (líka ritað **kullet**), ft. **kuldede**, a., [kollótt-r], a) kollóttur: En k. Ko. Orðskv.: Det er vel, at Stakke fik ikke Hale og k. Ko Horn guð gerði vel, að hann gaf ekki eiknum (ægum) uxa horn. — b) sköllóttur. — c) snubbóttur á að sjá: En k. (þ. e. stöpullaus) Kirke. Et k. Taarn turu sem engin stöng er upp af, eða þvíuml.

**Kuldfriskning**, sk., (í Norv.), vaxanda frost og blotar á milli.

**kuldfrossen**, [sb. fryse], = forfrossen.

**kuldkaste**, a) eiginl., steypa e-u, umturna e-u. — b) óeiginl., ónýta, (sb. bakferla, hrinda e-u): K. et Testament. K. en Plan.

**Kuldkastning**, sk., það að **kuldkaste**.

**kuldlyse**, ás., = lyse i Kuld og Kjøn (sb. **Kuld** a).

**Kuldlysning**, sk., það að **kuldlyse**.

**Kuldrager**, kk., sá sem ber kol (t. a. m. þegar verið er að ferma skip eða afferma).

**Kuldrift** notkun steinkolanáma.

**kuldseile**, a) h. s., sigla sig í kaf: Han havde nær kuldseilet. — b) sjaldh., ás., sigla skip í kaf: K. et Skib.

**Kuldseiling**, sk., það að **kuldseile**.

**kuldskjær**, ft. -e, e., [skjær annaðhvort = skær, eða af skjarr], kulvís, hjartkæll.

**Kuldskjærhed**, án ft., sk., kulvísi.

**kuldslaae**, ás., taka úr e-n kaldakulið: Kuldslagen (ylnuð) Melk.

**Kuldsot** (sjaldh.), veikindi sem koma til af kulda.

**kuldsveden**, [sb. svide], kalinn (um jurtir): K. Sæd.

**Kule**, ft. -r, sk, gryfja: Grave (kaste) en K.

**kule**, ás. 1, (sjaldh.), götva, dysja, kasa.

**Kule**, sk., = Kuling.

**kule** (har), h. s. 1, hvessa, gusta: Det begynder at k. op (sb. rifa sig upp). En frisk, kulende Vind (sb. blásandi byr).

**kulegrave** sjá **kuulgrave**.

**Kulegraver** sá sem grefur gryfjur.

**Kulemøg** mykja sem geymd er í gryfjum.

**Kuleveir** rosaveður.

**Kulfad** málmílát sem brunnin kol eru lögð á.

**Kulfløts** steinkolaflö (í jörðu).

**Kulfører** sá sem flytur kol (á vagni).

**Kulgang** steinkolagöng (í jörðu; sb. **Gang** C, 2).

**Kulgløder**, ft., kolaglæður.

**Kulgrube** steinkolanámur.

**Kulhandler**, ft. -e, kk., kolasölumaður.

**Kulhuus** kolahús (sem kol eru geymd í).

**Kulild** kolaeldur.

**Kuling**, sk., kul (sb. fær hann fagrt kul af landinu), kylja, gustur: Vi fik en stærk K. það rak á fyrir okkur hvassviðri.

**Kulk**, sk., a) kok. — b) sopi, gúlsopi: Tage en god K.

**kulke**, s. 1, a) ás., svolgra, sloka: K. af Flasken. — b) h. s., um það hljóð sem verður þegar svolgrað er, eða þvíuml.

**Kulkjelder** kolakjallari.

**Kulkube** riðinn skrokkur (stokkur) á kolavagni.

**Kulkurv** vandlaupur sem kol eru borin í.

**Kullag** = Kulfløts, Kulgang.

**Kuller**, ft. eins, sk., ísa *gadus aeglefinus*.

**Kuller**, án ft., sk., eins konar hrossaveiki sem ýmist er með æði (den gale K.) eða með doða (den stille K.). Heitir Flyvekuller þegar hún kemur að með kippum, Solkuller þegar hún kemur til af of miklum sólarbita, o. s. frv.

**kullersk**, ft. -e, e., (um hest), sem hefur þá veiki er Danir kalla **Kuller**.

**Kullerstald** hesthús handa þeim hrossum er hafa **Kuller**.

**kullet** sjá **kuldet**.

**Kulmand**, a) = Kulsvier. — b) = Kulfører.

**Kulmile** kolaviðarhuðlungur.

**Kulmine** = Kulgang.

**Kulmule**, sk., (eins konar fiskur) *gadus carbonarius*.

**kulmørk** koldimmur.

**Kulovn** eins konar ofn.

**Kulpande** = Ildpande.

**Kulpulver** koladupt.

**Kulrager**, ft. -e, sk., skörungur til að skara með í kolum.

**kulre**, h. s. 1, (um hross), líta út fyrir að vera að fá þá veiki sem Danir kalla **Kuller**.

**Kulskib** kolaskip.

**Kulskipper** sá sem ræður fyrir kolaskipi.

**Kulskriver** sá sem hefur á hendi kolareikninga (t. s. m. í málmnám).

**Kulslukker** verkfæri til að slökkva með í kolum.

**kulsort**, [kolsvart-r], kolsvartur.

**Kulsted** kolagröf.

**Kulsteg** kjöt sem steikt er á kolaeldi.

**Kulstift** oddmjótt kol sem pentarar hafa.

**Kulstof** kolafrumefni.

***Kulstofgas** = Kulsyregas.

**Kulstøv** koladupt. — b) steinkolamylsna.

**kulsuur** sem kolsýra (**Kulsyre**) er í.

**Kulsvier**, ft. -e, kk., kolmaður.

**Kulsvierhytte** kolamannakofi.

**Kulsvieri**, kl., = Kulbrænding.

**Kulsviertro** hugsunarlaus trú.

**Kulsyre** kolsýra.

***Kulsyregas** kolsýra sem lopt.

**kulsyret**, [sb. syre], sem kolsýra er í.

**Kulsæk** kolapoki.

**Kultorv** kolatorg (þar sem kol eru seld).

**Kultønde** kolatunna.

**Kulved**, [kolvið-r], kolviður (Grágás).

**Kulvogn** kolavagn.

**Kulværk** steinkolanámur.

**Kumme**, ft. -r, sk., djúp skál, djúpur bolli. — b) kringlóttur stampur, einkum til að setja undir bunuvatn eða vatn úr vatnasug. Sb. Vandkam.

**Kummen** (líka ritað **Kommen**), án ft., sk., kúmen *carum carvi*.

**Kummenbrændeviin** kúmensbrennivín.

**Kummenhave** kúmensreitur.

**Kummenskringle** eins konar brauðhögld með kúmen ó.

**Kummer**, án ft., sk., hugar-angur, böl, sút, harmur, tregi, (sb. Græmmelse, Bedrøvelse, Sorg).

**kummerblandet**, [sb. blande], = sorgblandet: „K. Fryd".

**kummerfri** = sorgfri.

**kummerfuld** = sorgfuld.

**kummerlig**, a) ft. -e, o., aumur, aumlegur, bágur, vesall, vesaldar-: Et kummerligt Udkomme. — b) sem ao., aumlega, báglega: Nære sig k. eiga í basli (bágindum, volæði).

**kummerløs** = kummerfri.

**kummerplaget**, [sb. plage], mæddur.

**kummersaaret**, [sb. saare], sorgbitinn.

**kun**, ao., a) ekki nema, að eins, (einungis, alls): Han gjør det k. af Frygt hann gerir það af öngvu nema (öngvu öðru enn) ótta eða af eintómum ótta; honum gengur ekkert annað til, enn ótti. Jeg var der k. een Gang jeg hef ekki komið þar, nema einu sinni. Jeg eier k. (á ekki nema, á ekki meira enn, á alls) een Rigsdaler. Der blev k. een tilbage það varð ekki nema einn eptir. Han er k. sexten Aar ekki nema sextán vetra. Han tillod ham at gaae ud; men k. (en þó ekki nema) midt om Dagen. Det bliver k. værre deraf það gerir ekki annað, enn versna við það. — Naar k. det mindste rører sig óðara enn nokkur ögn bærist. — b) í efa eða ósk eða þvíumlíku: Jeg veed k. ikke (jeg veit ekki), om en saadan Rettighed er billig. — Dersom han k. ei bliver vred það vildi jeg, (að) hann yrði (nú) ekki reiður! — Jeg vil tillade det; k. at (jeg vil leyfa það; en þá má; eða jeg vil leyfa það, með því móti, að) Ingen saa misbruger denne Frihed. — c) í leyfi: Gaa k. foran (þjer er óhætt að fara á undan eða far þú á undan); han kommer nok efter. Lad ham k. komme (láttu hann koma eða honum er vel komið að koma), om han tør.

kund, e., [kunn-r], (úrelt), kunnur.

kundbar, ft. -e, e., alkunnugur: En k. Sag. Gjøre noget kundbart gera e-ð kunnugt, birta (auglýsn) e-ð.

Kundbarhed, án ft., sk., það að vera kundbar (sb. hámæli).

Kunde, ft. -r, kk., sá skiptavinur (kaupunautur) annars vem vanur er að kaupa að (hjá) honum: Han er een af mine Kunder.

kundgjøre, [kunngjöra, á ísl. skjali 1375], kunngjöra, sb. bekjendtgjøre, forkynde: K. noget for Folket lýsa e-u yfir.

Kundgjørelse, sk., birting, auglýsing.

Kundskab, ft. -er, sk., a) (úrelt), kunnleikar = kunningsskapur. — b) = Efterretning b: Bringe (give) K. om noget innn (greina, skýra) frá e-u. Indhente K. om noget grennslast eptir e-u. — c) vitneskja, kynning (t. a. m. gaf guð honum kynning sína nafns), kunnleiki (t. a. m. Glúmr ... kvað sèr á þessu engan kunnleika vera), fróðleikur, (sb. kunnátta, þekking): K. om en Ting vitneskja um e-ð, kynning e-s. K. i en Ting kynning e-s. En Mand af mange Kundskaber mikill fróðleiksmaður, margfróður maður. — d) vitnisburður: En Haandværksvends K. — e) (úrelt), njósn: Gaae paa K.

Kundskaber, ft. -e, kk., = Speider.

Kundskabsdrift fróðleiksfýsn.

Kundskabsfrugt fróðleiksávöxtur.

kundskabsgridsk sólginn í fróðleik.

Kundskabsmand (sjaldh.) = Speider.

kundskabsrig fróður, vel að sjer.

Kundskabsvæsen allt sem til fróðleiks heyrir.

kunne [kunna], kan [kann], kunde [kunna, kunni], kunnet [kunnat], b. s. (har), a) kunna = mega = geta: Jeg vil gaae saa langt jeg kan svo langt sem jeg get (kemst). At ville er eet, at k. et andet (sb margur segir: Ef jeg get). Den Steen, man ei kan løfte, maa man lade ligge það er bezt að sniða sjer stakk eptir vexti, (sb. reisa sjer burðarás um öxl). Hvad een ikke kan, det k. flere margar hendur vinna ljett verk. Han kunde have været her for længe siden hann gæti verið kominn (hefði getað komið) fyrir löngu. — Han kan være henved 40 Aar gammel hann er, á að gizka, um fertugt. — Saaledes kan en retskaffen Mand ikke handle slikt gerir enginn vandaður (alminnilegur) maður. Man kan ikke fordre meer af ham það verður ekki meira af honum heimtað, það er ekki meira af honum heimtandi. Det kan ingen forbyde mig það á enginn með að banna mjer það. Han kunde ikke andet hann komst ekki hjá því, hann gat ekki hliðrað sjer hjá því. — b) mega: Han kan gaae naar han vil. — Du kan troe mig (þú mátt trúa mjer til þess), han er ikke din Ven. — c) kunna, α) k. dandse kunna að dansa. K. godt ride kunna vel að ríða; sb. vera vel bestfær. — β) k. Græsk kunna grísku. K. noget udenad kunna e-ð utanbókar. Dette Barn kan meget for sin Alder veit mikið (er vel að sjer) á þeim aldri.

*Kuppel, ft. Kupler, sk., = Kuglehvælving, Hjelmtag.

kure, b. s. 1, [kúra?], kúra: Hønen kurer over sine Kyllinger. Sidde hjemme og k. hýrast heima.

Kure, kk., (úrelt), varðmaður.

Kurre, ft. -r, sk., snurða, gálma. — Der er kommet en K. paa Traaden imellem dem það er kominn í þá uppstyttingur.

kurre, b. s. 1, (sjaldh.), snurða, gálma: Traaden kurrer.

kurre (har), b. s. 1, (um dúfu), kvaka.

Kurren, sk., það að kurre: Duernes K. (dúfnakvak).

Kurv, ft. -e, sk., (karfa, þ. e) vandlaupur, tægja: Binde (flette) Kurve riða vandlaupa. — Give een Kurven hryggbrjóta e-n (þ. e. neita e-m). Faae Kurven vera hryggbrotinn, láta hryggbrjóta sig.

Kurvearbeide það sem riðið er úr tágum: Kurvearbeidet paa en Vogn.

Kurvebinder = Kurvemager.

Kurvebro brú úr limi (yfir díki eða mýrar).

Kurvefading vagnskrokkur riðinn úr tágum.

Kurveflaske flaska eða glas sem riðinn er vandlaupur utan um.

Kurvefletning það að riða vandlaupa.

Kurvefletter, ft. -e, kk., = Kurvemager.

Kurvehank handarhald á vandlaup.

Kurvekram sjer hvað smávegis sem riðið er úr tágum.

Kurvemaatte tágamotta.

Kurvemager, ft. -e, kk., sá sem riður vandlaupa.

Kurvepiil píll sem limarnar á eru góðar til að riða úr.

Kurveqvist tág sem höfð er í vandlaup eða þvíuml.

Kurveseng rúm riðið úr tágum (vandrúm).

Kurvesting eins konar saumur: Mærke Linned med K.

Kurvevogn vagn riðinn úr tágum (vandvagn).

Kurvevugge vagga (rugga) riðin úr tágum (vandvagga).

Kurvfuld, sk, fullur vandlaupur, full tægja: En K. Hø.

kuske, ás. 1, (í tali), hasta á (t. a. m. hund). Óeiginl. hafa e-n í skefjum.

Kutter, ft. -e, sk., eins konar herskúta.

Kutting, ft. -er, sk., kútur undir brennuvín.

kuulgrave (líka kulegrave) snúa um jarðveg svo að svörðurinn fúni.

Kuulgravning, sk., það að kuulgrave.

Kux, ft. -er, sk., partur af nám (námum).

kydsk, ft. -e, e., skirlífur, (sb. blufærdig).

Kydskhed, án ft., sk., skírlífi, hreinlífi (í orðinu hreinlífismark, 625; sb. Blufærdighed).

kyle, ás. 1, henda (þeyta) e-u: K. noget ud af Vinduet.

Kylling, ft. -er, sk., [kjúkling-r], hænuungi.

Kyllingebræt borð (fjöl) með holum sem hænuungum er gefið í.

Kyllingebuur hænuungahús.

Kyllingehøne (líka Kyllinghøne) hæna með ungum.

Kyllingemad það sem hænuungum er gefið.

Kyllingesorg smávandræði.

Kyllingetid sá tími árs þegar einkum er vant að koma upp hænuungum.

Kyllinghøne sjá Kyllingehøne.

Kynde, án ft., sk., [sb. kynni], (úrelt), a) kunnandi (kvk.) = kunnátta, fróðleikur. — b) kunnleikar = kunningsskapur.

kynde, ás. 2, [kynna], (úrelt), birta, lýsa e-u yfir.

Kyndelmisse, [kyndilmessa], kyndilmessa.

Kyndelmissefnude (í almúgatali), kyndilmessufrost.

Kynder, ft., ljettasótt.

kyndig, ft. -e, e., [e. a. kynnig-r t. kunnig-r; sb. kyndug-r], kænn við e-ð (sb. mjök kænn með orrostu), sem er vel að sjer, (sb. kunnugur e-u): Være k. i en Videnskab. — b) (sjaldh.), alkunnugur: En k. Sag.

Kyndighed, sk., það að vera kyndig a (kunnátta, skynbragð, fróðleikur).

Kynding, ft. -e, kk., [sb. kunningi], (forul.), = bekjendt II.

Kype, ft. -r, sk., stór litunarketill.

Kyper, ft. -e, kk., = Viinkyper.

*Kyrads, ft. Kyradser, (líka Kyrads, ft. Kyrasser), sk, bolhlíf úr járni eða leðri, (sb. spangabrynja).

Kyras sjá Kyrads.

*Kyrasseer, ft. Kyrasserer, kk., riddari sem hefur Kyrads.

*Kyrasseerhest hestur þess konar riddara.

*Kyrasserer, ft. -e, kk., = Kyrasseer.

Kys, ft. eins, kl., koss: Byde (give) een et K.

Kyse, ft. -r, sk., eins konar kvennhattur.

kyse, kos (líka kysede, kyste), kyset, ás., fæla, hræða, (sb. skjóta e-m skelk í bringu): K. Tyve bort. K. een fra noget.

kysse, ás. 1, [kyssa], kyssa, (sb. minnast við, hverfa til e-s): K. een paa Munden. Han kyssede hendes Haand kyssti á höndina á henni. — kysses kyssast.

kyssekjær = kysselysten.

Kysseleg kossaleikur (eins konar Selskabsleg).

Kysselyst löngun til að kyssa.

kysselysten gefinn fyrir kossa.

Kyssen, án ft., sk., það að kysse (kossagangur, kossaflenns).

kyssesyg ólmur í koss.

Kyst, ft. -er, sk., strönd, (sb. strindi í skáldskap): Seile langs med Kysterne.

Kystbaad smáskip sem látið er ganga með landi fram.

Kystbefalingsmand foringi fyrir landvarnarliði (við sjó).

Kystfarer skip sem vant er að ganga með landi fram. — b) skip sem fer til Gínen (í suðurálfu).

Kystfart skipaferðir með landi fram.

Kystfiskeri fiskiveiðar skammt undan landi.

Kystflod stutt á sem rennur í sjó.

Kysthandel verzlun á sjóarströnd.

Kystladning farmur sem fluttur er með landi fram.

Kystland strandmikið land, land sem liggur við sjó.

*Kystmilits = Kystværn b.

Kystseilads = Kystfart.

Kyststad borg við sjó, (sb. sæborg, Fms. XI, 75).

Kyststrækning partur strandar.

Kysttog ferð með landi fram.

Kystvagt = Strandvagt.

Kystvogter strandvörður.

Kystværn allt sem til strandvarnar (landvarnar við sjó) heyrir: Sætte Kystværnet i god Stand. — b) landvarnarlið (við sjó), strandvarnarlið: Anføre Kystværnet.

kælve, h. s. 1, [kelfa], kelfa (Gþl. 504), bera (um kú): Koen har kælvet i Dag.

Kælvetid tal (kýr).

kæmme (líka ritað kjæmme), ás. 1, [kemba], kemba: K. sit Haar. K. Uld.

Kæmmekam lúsakambur.

Kæmmen, án ft., sk., það að kæmme (kembing).

Kæmmererer, ft. -e, kk, = Kæmner.

Kæmner, ft -e, kk., gjaldkyri, a) borgargjaldkyri, eða þvíuml.: Kjøbenhavns K. K. ved Øresunds Toldbod. — b) birðgjaldkyri.

Kæmnerembede gjaldkyraembætti (sh. Kæmner).

Kæmneri, ft. -er, kl., gjaldkyrastörf. — b) gjaldkyrabúð. — c) = Kæmnerregnskab.

Kæmnerkasse lekjufje sem gjaldkyri hefur undir höndum.

Kæmnerregnskab reikningur gjaldkyra.

Kæmning, ak., það að kæmme (kembing).

kæmpe (har), h. a. 1, stríða, berjast: K. for sit Fædreland. — Óeiginl.: K. imod Fordom. — b) sem áa.: K. en Kamp eiga orustu, heyja strið, eða þvíuml.

Kæmpe (líka ritað Kjæmpe), ft. -r, kk., [kempa], a) hermaður, kempa, kappi, garpur. — b) tröll að vexti, risi, (sh. bergrisi), jötun, (sh. beljaki, raumur).

Kæmpeart það að vera tröllaukinn.

Kæmpebillede = Colos, (sh. beljaki, raumur).

Kæmpedysse haugur fornmanna.

Kæmpefod fótur á (eða sem er eins og fótur á) risa.

Kæmpefolk breystiþjóð, (sh. kappaval).

Kæmpegang (sjaldh.), afreksverk, hreystiverk, frægðarverk.

Kæmpegrav = Kæmpedysse.

Kæmpehaand hönd á (eða sem er eins og hönd á) risa.

Kæmpehøi haugur fornmanna.

kæmpehøi afar hár, feikilega hár.

Kæmpehøide fjaska hæð (á manni).

Kæmpekraft tröllastyrkur (Fas. II, 151; sh. ásmegin), geysi burðir.

Kæmpekrop voðalega stór kroppur.

Kæmpeland kappaland.

Kæmpelav líki og kappatala (Fms. III, 157; sh. kappaval).

kæmpeliig = kæmpemæssig.

Kæmpemod hugprýði, hjartaprýði.

Kæmpemuur múrveggur sem menn segja að risar hafi gert.

kæmpemæssig, ft. -e, e., risalegur (Al.), stórkostlegur, stórvaxinn, feikna stór.

Kæmpeold kappaöld. — b) jötnaöld.

Kæmper, ft. -e, kk., (sjaldh.), bardagamaður, vígmaður (677), kappi.

Kæmpesal kappasalur.

Kæmpesang kappakvæði.

Kæmpesind kappageð, hugur kappa.

Kæmpeskare kappalið, kappaval (Fms. II, 315).

Kæmpeskridt feikna langt stig, (sh. stdrstígur, stika stórum, skálma). — Óeiginl., stórkostlegar framfarir: Gjøre K. i noget.

Kæmpeslag stórefils-högg, (sh. bylminga-, rokna-, griðar-): Slaae K.

Kæmpeslægt kappaætt. — b) risakyn (Stjórn), risaætt (Isil.).

Kæmpestamme = Kæmpeslægt, (sh. risafólk, Fas. II, 384).

Kæmpestene, ft., stórir einstakir steinar (björg) í ekru eða haga.

Kæmpestrid viðureign kappa. — b) ófriður með jötnum.

Kæmpestyrke = Kæmpekraft.

kæmpestærk rammur að afli, fulefldur, sem er mesta heljarmenni (til burða), (sh. tröllaukinn, Korm. 242).

Kæmpestorrelse risavöxtur (Stjórn).

Kæmpestøtte tröllalíkan.

Kæmpesundhed heiðinna manna heilsa.

Kæmpesværd sverð sem fáum er vopnhæft.

Kæmpetid = Kæmpeold.

Kæmpeviis kappasiður: Paa K. (að kappasið, að hreystisið).

Kæmpevise danskt fornkvæði.

Kæmpevælde reginafl.

Kæmpeværk mesta afreksverk.

Kæmpeæt = Kæmpeslægt.

kæntre, h. a. 1, (í farmannatali) ≐ kantre.

Kær (líka ritað Kjær), ft. eins, kl., [ker], lítil tjörn, (sh. stararker), vilpa, fen.

Kærager akurland sem tjörn (tjarnir) eru í eða við.

Kærand (eins konar önd) *anas palustris*.

Kærblomst mýrablóm, tjarnablóm.

Kærdynd leðja (for) í tjörnum eða mýrum.

kære (har), h. a. 1, [kæra], (úrelt), kæra.

Kæremaal kæra (Stjórn), kærsla (Stjórn).

Kærgræs = Mosegræs.

Kærjord = Mosejord.

Kærlod, ft. -der, mýrarpelli.

Kærre (líka ritað Kjærre), ft. -r, ak., [kerra], = Karre.

Kærsiv sef.

Kærstrækning mýri.

Kærv (eða Kærve), sk., skora.

Kærve sjá Kærv.

Køgemester soðgreifi.

køl, ft. -e, e., [kœll í hjartkæll], (sjaldh.) = kølig.

Køle, án ft., ak, [kœla], kul, vindblær.

køle, áa. 1, [kœla], kæla: K. en Viin. — Kølende Drik = Køledrik, Svaledrik. — b) óeiginl.: K. sin Vrede (Harme) eða k. sit Sind svala geði sínu; mýkja skap sitt.

Køledrik = Svaledrik.

Kølefad sár (ker) til að láta e-ð kólna í.

Kølekar ker (ílát) til að láta e-ð kólna í.

Kølemiddel lækning til að tempra með óigu í blóðinu.

Kølepande grunnur ketill til að láta e-ð kólna í.

Køleplaster plástur til að tempra með óigu í blóðinu (temprunarplástur).

Kølesalve áburður til að tempra með óigu í blóðinu.

Kølestok grunnt ílát í ölgjörðarhúsum til að láta e-ð kólna í.

Kølesvaber eins konar þyrill til að stökkva vatni með á heitar fallbissur.

Køletrug nór, nóstokkur, herzlustokkur.

Køletønde = Svaletønde.

Kølevand vatn sem e-ð er kælt í, einkum herzluvatn.

kølig, ft. -e, e., svalur, andkaldur.

Kølighed, án ft., ak., það að vera kølig: Luftens K.

Køling, ak., a) kæling. — b) það að vera svalur eða andkaldur. — c) kul, vindblær.

1. Kølle, ft. -r, ak., [kylfa], kylfa, klumba (Fms. XI, 129), klubba (Fsk.). — b) lær af ætri skepnu.

2. Kølle, ft. -r, ak., [kylna], kylna.

Køllebeen viðbeinið.

Køllebjørn = Bjørn B.

køllebrændt, [sh. brænde], (um malt), of brennt á kylnu.

køllebannet, [sh. banne], sem er eins og kylfa í lögun.

Køllebrager sá sem hefur kylfu að vopni (kylfumaður).

Kølledør kylnudyr.

Køllefjæl kylnufjöl (götótt fjöl sem kornið er breitt á á kylnu).

Kølleflager, ft., tágafleki eða málmþynna sem korn er breitt á á kylnu.

Køllehoved kylfa þar sem hún er digrust.

Køllehug kylfuhögg (Fms. XI, 144).

Kølleild kylnueldur (Gþl.).

Køllemalt kylnumalt (malt sem þurrkað er á kylnu).

Køllert, ft. -er, ak., ermalaus leðurbrynja (panzari?).

Køllerør kylnupípa.

Kølleskaft kylfa þar sem hún er mjóst.

Kølleslag = Køllehug.

Køllesvamp (eins konar sveppur) *clavaria*.

kølletørret, [sh. tørre], þurrkaður á kylnu (kylnuþurrkaður — að sínu leyti eins og sakubakaður).

kølne, a. 1, a) h. a. (er), kólna. — b) sem áa., (kæla), að því leyti sem kølnes er haft í sömu merk. og k.

Kønrog klorok.

Køter, ft. -e, ak., = Bondehund. — b) durtur, furtur.

# L.

L, tólfti stafur í stafrofinu, kallaður El, hefur sama atkvæði og l á ísl.; ll lætur eins og ll í milla (á upphlut; eða í hinu útlenzka orði pilla), en ekki eins og ll í öðrum orðum. — Danir hafa opt tvöfalt l, þar sem vjer höfum einfalt, (sh. skulle og skulu); sömuleiðis ll, þar sem vjer höfum lj, (sh. ville og vilja). — Hið íslenzka ll hefur víða orðið að ld á d. (eins og á ísl. í öldungis f. öllungis), t. a. m. i falde, spilde. — Um tómt. l f. hl sh. greinina um H.

Laad (líka ritað Lod, án ft., kl., [loð í loðkápa], a) um ýmsa konar ull. — b) loðna, hiungur.

laadden, ft. laadne, (líka ritað lodden, ft. lodne), e., [loðin-n], loðinn.

Laaddenhed, án ft., ak., það að vera loðinn, loðna.

laadhaget, ft. -hagede, e., sem hálfsprottið er grön. Sh. dunhaget.

Laag, ft. eins, kl., [lok], lok; hlemmur.

Laagbænk = Kistebænk.

Laage, ft. -r, ak., [loka], lúka, lúkugat; smádyr.

Laagkande kanna með lokl.

laaglos, [loklaus-s], loklaus.

Laan, ft. eins, kl., [lán], lán: Slutte (aabne) et L. (fá sjer peninga til láns). — b) lánfje, lánsfje: Tilbagebetale et L.

laane, áa. 2, [lána], A) þar sem sá er gjörandi, er e-ð lætur af hendi, 1) um lán, a) lána e-m e-ð: L. paa Pant. — b) ljá e-m e-ð: Jeg laante ham min Overkjole. — 2) (í tali), ljá (fá) e-m e-ð = rjetta e-ð að e-m. — B) þar sem sá er gjörandi, er við e-u tekur, taka e-ð til láns, a) láta lána sjer e-ð: L. Penge. — b) láta ljá sjer e-ð: L. en Hest af een.

Laanebank fjárhirzla þar sem menn geta fengið peninga til láns.

Laanegods lánfje, lánsfje.

Laanehuus hús þar sem menn geta fengið peninga til láns (hjástuðarhús).

Laanekorn korn sem maður hefur fengið að láni (lánkorn).

Laaner, ft. -e, kk., = Laantager.

Mastekran smiðvjel til að hefja á lopt siglutrje stórskipa.

Mastekrave segldúkur utan um siglunn neðan til og á þilfarinu þar í kring.

Mastesmør skemmt smjör sem stundum er haft í stað tjöru á skipum.

Mastespor far í kilinum sem siglutrjeð er sett niður í.

Mastestump bútur af siglutrje.

Mastetop siglutoppur (simb.).

Mastetræ trje sem ætlað er í siglu.

Masthul gat í gegnum ofanverða siglu.

*Mastix, án ft., sk., a) eins konar viðarkvoða. — b) eins konar gljákvoða sem borin er í sprungur á fornum pentskriptum.

Mastkurv = Mærs.

mastløs siglutrjeslaus.

*Mastodon, ft. -ter, kl., eins konar forndýr er finnst í jörðu.

Masttarm = Endetarm.

Mastværk siglur í skipum með öllu sem þar til heyrir.

*Masurka, sk., eins konar þjóðdanz Púlínamanna.

*Mat, kk., [sb. máti], (á skipi), undirmaður e-s annars er hefur sama embætti.

mat, A) ft. -te, e., 1) ljemegna, máttvana, máttfarinn, máttlitill, linur: M. af Hede. Han er endnu m. efter Sygdommen. — En m. Kugle sem ferðin er af. — b) óeiginl., daufur: M. Stiil dauft orðfæri (á riti). En m. Tanke. — 2) um ljós eða lit: Et m. Lys dauft ljós. Matte Farver daufir litir. En m. Overflade (einkum í málmi), sem ekki gljáir á, óskyggður. — 3) um fisk, dauður eða hálfdauður: Matte Aborrer. — 4) í skák, = skakmat. — B) sem ao., dauft: Dette Lys skinner meget m. logar dauft (illa). Sb. matlysende, matblinkende, o. s. frv.

*Matador, ft. -er, 1) kk., a) griðungsbani (í spænskum nautabardaga). — b) burgeis, stórbokki. — 2) sk., um hæstu spil í sumum spilum.

matblinkende, [sb. blinke], sem blikar (leiptrar) dauft.

*Materiale, ft. Materialier, kl., 1) í et., efni í e-ð. — 2) í ft., a) efni, tilföng: Samle Materialier til et Skrift. — b) tilfærur, áhöld.

*Materialforvalter umsjónarmaður yfir e-m stað þar sem geymd eru ýmiss konar tilföng og vagnar og annboð o. s. frv.

*Materialgaard garður sem ýmiss konar tilföng og vagnar og annboð o. s. frv. er geymt í.

*Materialhest hestur sem beitt er fyrir tilfangavagn.

*Materialhuus hús sem ýmiss konar tilföng og annboð o. s. frv. er geymt í.

*Materialist, ft. -er, kk., a) sá sem verzlar með ýmislegum vörum. — b) sá sem selur lyfjar og þvíuml. í hópakaupum.

*Materialkudsk vagnstjóri á tilfangavagni.

*Materialskriver sá sem hefur það starf að skrá tilföng og áhöld o. s. frv.

Materialvogn áburðarvagn sem ekið er á þungum blutum eða miklu í senn (tilfangavagn).

*Materie, sk., A) án ft., 1) efni a) í e-ð eða í e-u: „Adskillige Kar, kostbare baade for Arbeidet og Materien". — b) sjer í lagi, um efni allra líkamlegra bluta: Materiens Endelighed. — 2) það að prentuð bók er hvorki brotin eða bundin: En Bog i M. (eða raa M.). — 3) = Edder b. — B) með ft. -r, efni hugsunar eða máls eða rita, (sb. umboganarefni, umtalsefni): Skrive over en vis M. rita um e-t efni. — Denne M. (það, þann hlut, það mál, eða þvíuml.) vil jeg ikke berøre.

*materiel, ft. -le, e., líkamlegur = (sem er) af líkamlegu efni, sem lýtur að efninu; sem á ríður; o. s. frv.

Mathed, án ft., sk., deyfð, slen, magnleysi, máttleysi, vanmegin (Fms.).

*Mathematik, án ft., sk., stærðafræði, reikningur, reikningslist.

*Mathematiker, ft. -e, kk., góður (eða þvíuml.) reikningsmaður.

*mathematisk, ft. -e, e., sem lýtur að stærðafræði.

matlysende, [sb. lyse], daufur (= sem logar dauft, eða þvíuml.).

*Matras (líka Madras), ft. -ser, sk., hvers konar dýnu sem líkt er til búin og meldýnur á Íslandi (gagnstætt: Fjæderdyne, Duundyne; sb. hæra).

*Matrem, nafn, (eins konar jurt sem ræktuð er í aldingörðum) *matricaria parthenium*.

*Matrice, sk., a) = Skruemoder. — b) mót til að steypa það letur sem prentað er með.

*Matricul sjá Matrikel.

*matriculere, ás. 1, skrá jarða-nöfn og dýrleika þeirra.

*Matrikel (líka Matricul), ft. Matrikler, sk., skrá; sjer í lagi = Jordeskyldsbog.

*Matrikelskat = Jordskyld b.

*Matrikelvæsen allt sem að jarðaskrám lýtur.

*Matrone, ft. -r, kvk., hefðarkona, höfðingskona.

*Matros, ft. Matroser, kk., háseti á hafskipi (Grágás I, 90), skipari, skipverji: Tjene (fare) for M. Fare som M.

*Matrosarbeide hásetaverk (á hafskipi).

*Matrosdragt hásetabúningur, skiparabúningur.

*Matrosdreng farpiltur.

*Matrosindsald farmannafyndni.

*Matroshyre hásetakaup.

*Matrostjeneste það að vera háseti: Tage M. ráðast til háseta. Gjøre M. vera háseti.

*Matrosvittighed farmannafyndni.

matstraalende, [sb. straale], skindaufur.

Matte sjá Maatte.

matte, ás. 1, lýja, mæða.

Maurer, ft. -e, kk., = Mor (kk.) a.

*Mausoleum, kl., veglegt grafarmark.

Mave, ft. -r, sk., [magi], magi, kviður (sb. minta styrkir kvið, 655 XXX), vömb: En god (stærk, svag, slet, ureen) M. Han har Ondt i Maven honum er illt í maganum. — Maga í fugli köllum vjer fóhorn (fóarn, Fóstbr.). — b) kviður: Bære et Bælte om Maven hafa belti um sig miðjan. — Have en tyk M. hafa keis; vera vambmikill. Begynde at faae M. fara að safna istru.

Mavebetændelse magabólga.

Mavebørste (fyrrum), eins konar verkfæri til magahreinsunar.

Mavedraaber, ft., magadropar.

Maveegn kviðurinn að utanverðu.

Mavefylde = Bugfylde.

Mavekage eins konar smá-kaka til kviðstyrkingar.

Mavekneb = Bugvrid.

Mavekrampe sinadráttur í maganum.

Mavemaal magamál.

Mavemund = Mavemunding.

Mavemunding magamunni (B. H., P. Þ.).

Maveolie olía sem núið er inn í kviðinn honum til magastyrkingar.

Mavepibe vjelindi, vælindi.

Mavepine iðraverkur (Al., Stjórn; sb. Bugvrid).

Maveplaster plástur sem lagður er á kviðinn til magastyrkingar.

Maveport sá staður þar sem þarmarnir taka við af maganum (*pylorus*).

Mavepose urtapoki sem lagður er á kvið til magastyrkingar.

Mavepulver dupt sem er gott fyrir magann.

Mavepølse eins konar itroðningur (í svínsvömb).

Mavesaft meltingarvökvi(nn í maganum *succus gastricus*).

Maveslim slepja er safnast í magann.

Mavesmerte = Mavepine.

mavestyrkende, [sb. styrke], sem styrkir kvið (655 XXX): Et m. Middel.

Mavestyrkning e-ð sem styrkir magann.

mavesyg magaveikur.

Mavesygdom magaveiki.

Mavesyge = Mavesygdom.

Mavetrykning kipringur í maganum, og litilleiki fyrir hjartanu eða hjartverkur, sem þar af leiðir.

Maveviin vín er styrkir kvið.

Mavevædske = Mavesaft.

*Maxime, ft. -r, sk., grundvallarregla (sem ætíð er höfð í huga eða ætlt að vera höfð í huga).

*Maximum, kl., það sem er mest (hæst), mesta verð, eða þvíuml.

*Mechanicus sjá Mechaniker.

*Mechanik (líka ritað Mekanik), án ft., sk., hræringafræði (þegar talað er um þá hluti sem eru fastir í sjer).

*Mechaniker, ft. -e, (líka Mechanicus, ft. Mechanici), kk., sá sem kann að beita því er kennt er í hræringafræði (þjellra bluta), (einkanl.) sá sem býr til verkfæri til reiknings eða náttúrurauna; sá sem býr til smiðvjelar; o. s. frv.

*mechanisk, 1) ft. -e, e., a) sem hræringafræði til heyrir, sem er um hræringafræði: Et m. Skrift. — b) fólginn í (sem kemur til af) líkamlegri hræringu: Et Legemes mechaniske Tryk. — c) kominn undir krapti sem kemur utan að e-m hlut: En m. (þ. e. ekki chemisk) Deling af et Legeme. — d) meir kominn undir hagleik enn djúpri hugsjún: De mechaniske og skjønne Konster. — e) = maskinmæssig a. — f) = aandløs b. — 2) sem ao.: Gjøre noget ganske m. öldungis ósjálfrátt, (af tómum vana). Fremsige en Tale m. þylja upp ræðu (án fjörs og rjettrar áherzlu).

*Mechanisme, ft. -r, sk., allur tilbúningurinn í e-l smiðvjel.

Med (líka ritað Meed), ft. eins, kl., a) (sjaldh.), mið: Tage M. paa noget henda mið á e-u (Sturl.). — b) = Maal 2, b, Formaal, Sigte (kl.) a.

med, [með], 1) fs., A) þar sem með stjórnar nú þiggj., eða mundi stjórna honum, ef það væri haft, 1) þar sem sá hlutur, er jarteiknaður er með því orði, sem fs. stýrir, er á vora tungu ríkari í greininni, enn það sem er í sambandi við hann: Tage noget m. sig. Reise m. een fara (ferðast) með e-m, verða e-m samferða. — Glæde sig m. een samfagna e-m. Bedrøve sig m. een sambryggjast e-m. Lide m. een sampínast e-m. — Vinden er m. os við höfum byr. Være m. een vera með e-m (sb. Nj. 93). Holde m. een draga taum e-s. — Det skete vel m. Faderens Vidende (var á vitorði hans), men imod hans Villie. M. min Villie (ef jeg má ráða) faaer han hende aldrig. — Gjerdet gaaer lige m. Veien. Langs m. Aaen með endilangri ánni. — Staae op m. Solen fara á fætur um sólaruppkomn. Vandet falder m. Ebben. — Blive klog m. Alderen (þegar maður eldist). M. Tiden þegar fram líða stundir. M. det nye Aar (um nýárið) begynder her en anden Indretning. — 2) þar sem sá hlutur, er jarteiknaður er með því orði, sem fs. stýrir, er á vora tungu minni í greininni, enn það sem er í sambandi við

hann, a) þar sem með er nú jafnaðarlega haft: Han blev henrettet m. Sværd. Jeg har seet det m. mine egne Øine sjálfur horft á það. Beslaae noget m. Jern slá e-ð (með) járni (sb. Fms. V, 339). Fylde et Kar m. Vand fylla ker með (eða af) vatni. More sig m. noget (sb. skemmtast með skröksögur, Hisl. I, 581). Prale m. noget hrósa e-u (sb. norðanvindr... hróaar þá þaim auð, ar hann hefir gadgaslan til, Skuggsjá). Bjerget er bevoxet m. Skov skógi vaxið. Forsyne een m. noget byrgja e-n að e-u. Være begavet m. Forstand vera vel viti borinn. Spise m. Maade (sb. drekki þd at hdfi mjäð, Hávam.). M. Forsæt eða m. Villie af ásettu ráði eða viljandi. M. det Gode með góðu. Have Opsyn (Tilsyn) m. noget vera settur til umsjónar um e-ð. — Være m. Barn vera með barni. Koen er m. Kalv er kálffull. Hunden er m. Hvalpe tíkin er hvolpafull. — M. Forlov með leyfi (sb. Skuggsjá 50). — M. mindre nema e-ð sje. — M. alle með öllu, algjörlega. — M. eet allt í einu. — b) þar sem ekki er vant að hafa með: Reise m. (á með þiggj.) sin egen Vogn. Fede Gæs m. (á með þiggj.) Havre. Dræbe een med Gift á eitri. — Slaae op m. Haanden bregða upp hendinni. Helde m. Hovedet; sb. helde A, a. — 3) þar sem ekki er hægt úr að skera, á hvaru meira beri: Tale m. een tala við e-n (þó stendur í Stjórn bæði tala með e-m og tala með e-n). Trættes m. een rífast (jagast) við e-n. — Brydes m. een glíma við e-n. — Holde det m. een jafnast við e-n, jafnvægja e-m, (sb. hafa við e-m). — Denne holder ikke ud m. den anden i at løbe endist ekki við hinn. — B) þar sem með stjórnar nú þal., eða mundi stjórna hanum, ef það væri haft: Sende een bort m. noget. — Gaae m. lange Buxer vera á langbuxum. Manden m. den blaae Kappe bláköpumaðurinn. Pigen m. det lyse Haar ljóshærða stúlkan. — Være tilfreds m. noget vera ánægður með e-ð. Være i Færd m. et Arbeide (vera með e-t verk). Skynde sig m. noget (flýta sjer með e-ð). Være færdig m. noget (búinn með e-ð). Handle m. noget (hafa e-ð til sölu). Være sig galt ad m. noget (fara vitlaust að e-u). Være forsigtig m. noget fara varlega með e-ð. Hvad vil han m. Bogen (hvað ætlar hann að gera með bókina)? — M. det første (snareste) sem fyrst. — b) þar sem nú er haft með, en fornmenn höfðu um: Det forholder sig anderledes m. den Sag það stenzt öðruvísi af um það mál. Det er ude m. ham (hann er farinn, hann er frá). — II) sem aa.: Han var m. i Følget. Jeg reiser ikke m. jeg verð ekki samferða. Faae noget m. i Kjøbet í kaupbætir. Der gaaer meget m. (verður uppgangssamt) i saa stor en Huusholdning. Lykken gaaer ham m. hann er lánsamur. Det er mig ikke m. ekki er mjer um það.

Medaarsag arsök sem er annari samfara.

*Medaille, ft. -r, sk., minnis-peningur (P. þ.).

*Medailleur, ft. -er, kk., sá sem býr til minnispeninga eða annað þess kyns.

*Medaillon, sk., stór minnis-peningur.

Medarbeider samvinnari (sb. Sn. E.): Være M. ved et Værk.

Medarving samerfingi (sb. Fms. I, 281).

medbaaren, [sb. bære], (fornl.) = medfødt.

Medbeiler sá sem biður sömu konu og annar. — b) sá sem hleypur í kapp við annan um hvað sem er: Han havde mange Medbeilere til dette Embede.

Medbeileri, kl., það að hlaupa í kapp við aðra.

Medbeilerske, ft. -r, kvk., (sjaldh.), kvennmaður sem hleypur í kapp við e-n um e-ð, (sb. elja).

Medbesiddelse það að hafa e-ð með öðrum (samhöfn).

Medbestyrer samstjórnarmaður (e-s).

Medboler samfriðill, samhór.

Medborgen samvörzlumaður (annara).

Medborger samþegn, samborgarmaður (mennirnir eru í Stjórn kallaðir samborgarmenn englanna), borgarmaður (619); á mörgum stöðum má vel hafa landi, samlandi: En af vore Medborgere.

Medborgerinde, ft. -r, kvk., (sjaldh.), sama um kvennmann og Medborger um karlmann.

medborgerlig, ft. -e, e., sem að því lýtur að menn eru samþegnar.

Medborgerskab, án ft., kl., það að vera samþegn e-s, það að menn eru samþegnar.

medbringe hafa e-ð með sjer, koma með: Han har medbragt mange Sjeldenheder fra America. Han medbragte en mærkelig Nyhed.

Medbroder samfjelagi (Fms. II, 122), bróðir (óeigiul.).

medbydende, [sb. byde], sem býður í e-ð undir eins og annar.

Medbygger, ft. -e, kk., sambyggðarmaður (sb. samhýlismaður).

Medbør byr, leiði: Have (seile for) M.

*Medchristen, sem nafn, samkristinn maður.

meddeelagtig = deelagtig.

meddele, ás., miðla e-m e-u (fornt: a-ð; úthluta, útbýta): „Glemmer ikke at gjøre vel og at m." M. Nogen (segja e-m) en vigtig Efterretning. M. een sine Tanker (Følelser. Sb. segja... e-m allan hug, Hávam.).

meddelelig, ft. -e, e., sem maður getur látið af hendi eða í ljósi við e-u.

Meddelelse, ft -r, sk., það að meddele (miðlun; vísbending, sögusögn, o. s. frv.).

Meddeling, sk., = Meddelelse.

Meddelingsiver ákafi í að fræða aðra á e-u.

Meddelingssprog það mál sem menn hafa til að láta í ljósi hugsanir sínar, lídkaalegt mál.

*Meddiscipel skólabróðir.

Meddommer samdómandi.

Meddomsmand samdámamaður (meðdómsmaður).

Meddolgsmand = Hæler.

Mede, ft. -r, sk., [sb. meið-r], a) meiður. — b) = Læsmede.

mede, s. 1, [miða], 1) h. s., miða: M. til et Maal. — 2) um það þegar verið er að keipa, a) h. s., keipa: Sidde i en Baad og m. Han er ude at m. hann er róinn til fiskjar. — M. med Guldkrog heita mútum, bera fje á e-n, eða þvíuml. — b) sem ás., draga fisk úr sjá: Man meder og den Fisk, som nødig vil (orðskv.).

Mededsmand sá sem vinnur eið með e-m (að hans eiður sja rjettur).

Medeie = Sameie.

Medeiendom = Medeie.

Medeier sá sem á e-ð saman við annan, (sameigl, Jóh.).

Medekrog öngull.

Medelsker samelskari.

medens (líka mens með úrfellingu) sjá imedens.

Medesnor handfæri.

Medestang fiskistöng (Gisl.; veiðistöng, P. þ., Jóh.).

Medetøi dorg (sb. þair ráru tveir á báti með dargar sínar at smáfiski).

Medfange sambandingi.

medfare, ás., er varla haft, nema í ha. l. t.: Han blev ilde medfaren það var farið illa með hann, hann var illa leikinn.

Medfart, án ft., = Behandling.

Medforbunden, [sb. forbinde], sem nafn, = Bundsforvandt.

Medforlover = Medborgen.

Medfrier = Medbeiler a.

Medfærd = Behandling.

medfødt, [sb. føde], sem maður er fæddar með, innborinn (Stjórn): En m. Lyde. Medfødte Drifter.

Medfølelse það að samfagna eða samhryggjast öðrum, (sb. sampíning).

medfølende, [sb. føle], sem samfagnar eða samhryggist öðrum, (glaður með glöðum, hryggur með hryggum).

Medfølge, (kl.), = Følge (kl.) b.

medfølge, h. s., (sjaldh. nema í þál. t. og í hluttekningarorðunum), vera með e-u: Der medfulgte et Brev. Vogerne findes i medfølgende Kasse.

Medfølger, ft. -e, kk., meðfylgjari (Sturl. IV, 120), fylgjari, förunautur, (sb. Følgesvend).

Medfør, án ft., kl., eðli, ásigkamulag: Sagens M. málavextir. I M. af denne Omstændighed af því að þannig stendur á, eða þvíuml. I M. af hans Løfte eptir loforði hans.

medføre leiða (e-ð) af sjer: Den stærke Hede medfører adskillige Sygdomme miklum hita fylgja ýmislegir sjúkdómar. Det er noget, som Alderen medfører það fylgir ellinni.

medgaae ganga upp, ganga í súginn, eyðast: Det er alt medgaaet paa Reisen.

Medgang, án ft., meðlæti: Baade i M. og Modgang bæði í blíðu og stríðu.

Medgift mundur = heimanmundur = heimanferð = heimanfylgja.

medgive fá e-m e-ð (til að hafa það með sjer): Det ham medgivne Brev. — b) hð. l. t., medgiven, sem a., = medfødt.

Medgjest samgestur.

medhandle, ás., = behandle b.

Medhandling, sk., ill meðferð.

Medhave, sk., það sem maður hefur meðferðis; farangur. — b) heimanfylgja.

Medhersker samveldismaður.

Medhjelp aðstoð annara, liðveizla, styrkur.

Medhjelper aðstoðarmaður, (sb. undirtylla).

Medhold, án ft., a) samsinning, góður rómur: Hans Meninger fandt M. hos Mange margir voru honum samdóma. — Give een M. i Alt hvad han gjør veita e-m eptirmæli í öllu sem hann gerir (sb. Nj. 20). — b) fylgi. — c) = Bekræftelse a: Dette finder ikke M. i (kemur ekki saman við) Historien. I M. af Loven að lögum.

Medholder, ft. -e, kk., sá sem dregur taum e-s, (sb. liðveizlumaður, sambandsmaður).

Medhustru hjákona.

Medhæler samhilmari.

*Mediat- (sem fremri liður í samsettu orði), sem er undir öðru, t. a. m. Mediatstad borg sem ekki er dómur í til að dæma um mál borgarmanns.

*Mediateur, ft. -er, kk., meðalgöngumaður.

*Mediation, ft. -er, sk., meðalganga. — b) miðlun mála (í heimspekilegri merk.).

*Medicament, ft. -er, kl., = Lægemiddel.

*Medicin, án ft., sk., a) = Lægekonst, Lægevidenskab: Studere M.

Doctor i Medicinen. — b) = Lægemiddel: Tage (bruge) M.

*Medicinal-, (sem fremri liður í samsettum orðum), sem lýtur að Medicin, t. a. m. Medicinaltaxt verðlag á læknisdómum.

*Mediciner, fl. -e, kk., sá sem stundar læknisfræði, læknisefni, (læknir).

*medicinere (har), h. s. 1, vera að taka læknisdóma (sb. taka líkamsfæzlu, 656 A II).

*Medicinglas glas sem læknisdómar eru í.

*Medicinkiste kista sem læknisdómar eru í.

*Medicinkrukke krukka sem læknisdómar eru í.

*medicinsk, fl. -e, e., sem lýtur að læknisfræði: M. Candidat fullnumi í læknisfræði.

*mediere, ás. 1, miðla málum.

Medister, sk., = Medisterpølse.

Medisterpølse bjúgo sem saxað svínakjöt er í og þar saman við flesk eða feiti.

*Meditation, sk., það að meditere (íhugun, hugleiðing).

*meditere, h. s. 1, íhuga, hugleiða.

*Medium, (fl. Medier), kl., miðja, miðbik; = Middelvei; = Hjelpemiddel; o. s. frv.

Medkriger orustufjelagi, samriddari (623).

Medlem fjelagsmaður (í e-n sambandi).

Medlevende, [sb. leve], sem nafn, sá sem er e-m samtíða eða samtíða við e-n: Hans M. agtede ham.

Medlidelse (sjaldh.), sampíning.

medlidende, [sb. lide], brjóstgóður: M. Menneskers Deeltagelse. Et m. Hjerte brjóstgæði.

Medlidenhed, án fl., sk., sampíning: Have M. med een kenna í brjósti um e-n, miskuna e-m (677 bls. 21).

Medlyd samhljóðandi (Sn. E.).

medlydende, [sb. lyde], samhljóðandi: Et m. Bogstav samhljóðandi.

Medlærer samkennandi.

Medlærling samlærisveinn.

Medmenneske náungi (í guðrækil. skilningi): Elske sine Medmennesker.

Medopsyn umsjón (gæzla) er e-r hefur á hendi ásamt öðrum.

Medreder sá sem gerir út skip með öðrum.

*Medregent = Medhersker.

Medregjering samveldi, samstjórn.

medregne, ás., telja (e-ð) með.

medreisende, [sb. reise], sem verður e-m samferða: En m. Landsmand. — b) Medreisende, sem nafn, samferðarmaður, förunautur: Han var uhøflig mod sine Medreisende.

Medsanger sá sem syngur með öðrum.

medsende senda (e-ð) með: Den medsendte Pakke.

Medskabning, með fl., samskepna: „Dyrene ere vore Medskabninger“ dýrin eru skepnur sem vjer.

medskabt, [sb. skabe], = medfødt.

medskyldig valdur að e-u illu ásamt öðrum: Han er m. i denne Forbrydelse. — b) Medskyldig, sem nafn: Angive sine Medskyldige.

Medskyldner = Selvskyldner.

Medspiller sá sem spilar við annan eða aðra: Han gav sin M. betydelige Fordele.

Medstemme atkvæði með e-u.

Medstrider, fl. -e, kk., liðveizlumaður.

Medsvoren, [sb. sværge], sem nafn, sá sem hefur svarið ásamt öðrum.

medsøgende, [sb. søge], sem hleypur í kapp við e-n um e-ð.

Medsøger = Medbeiler b, Concurrent.

Medsøgning = Concurrence.

Medsøster sama um kvennmann og Medbroder um karlmann.

medtage, ós., a) taka (e-ð) með sjer: Skipperen medtager (tekur) baade Gods og Reisende. — b) = udkræve: Det vil endnu m. store Bekostninger. — c) (taka upp á), veikja, veikla, draga úr (e-m eða e-u), eða þvíuml.: Han er bleven meget medtagen i denne Sygdom. Landet blev saa medtaget i denne Krig, at o. s. frv.

Medtjener samþjónn.

Medtjeneste samþjónusta.

Medundersaat samþegn.

Medvand meðstreymi.

medvandrende, [sb. vandre], sem verður samferða.

Medvandrer förunautur.

Medvandring samferð (sb. B. H.).

medvidende, [sb. vide], samvitandi, sem er í vitorði: M. om noget samvitandi e-s (Fóstbr. 61).

Medvidende vitorð, vitund: Uden mit M. án minnar vitundar.

Medvidenhed, án fl., sk., vitund, vitorð.

Medvider, fl. -e, kk., samvitandi (sb. Fms. VIII, 280): Han havde ingen Medvidere i sit Anslag.

Medvidne samvottur.

Medvind = Medbør.

medvirke, h. s., styrkja til e-s; valda (ásamt öðru) að e-ð verði.

Medvirken, án fl., sk., það að medvirke.

Medvirkning, sk., það að medvirke (sb. aðstoð, aðveizla, liðveizla, liðsinni).

Medynk sampíning: Have M. med een kenna í brjósti um e-n. Føle M. ved andres Ned komast við af bágindum annara, (sb. raungóður).

medynksfuld mjög armvitugur.

medynksløs harðbrjósta(ður).

medynksom, fl. -me, e., brjóstgóður, armvitugur.

Medynkssmiil bros er sýnir að maður kenni í brjósti um annan.

Meed sjá Med.

Meel, án fl., kl., [sb. mél (mjel) f. mjöl], mjöl.

meelagtig, fl. -e, e., svipaður mjöli.

meelartet, [sb. arte], = meelagtig.

Meelbing stór mjölkassi.

Meelbolle til búinn mjölkökkur.

*Meelbudding Budding sem mestmegnis er úr mjöli.

Meelbær muðlingur eða mulningur.

Meelbøtte mjölkolla.

Meeldrøier, sk., eins konar ofvöxtur í rúgi.

Meeldug eins konar dupt er sezt á jurtir og verður þeim til vanþrifa.

Meeldyst = Meelstøv.

Meelgrød mjölgrautur.

Meelhandel mjölverzlun.

Meelhandler, fl. -e, kk., = Meelmand.

Meelkage pönnukaka sem að mestu leyti er búin til úr mjöli.

Meelkalk brennt veggjalím (kalk) sem fyllt hefur verið vatni.

Meelkiste mjölkista.

Meelkjelder mjölkjallari.

Meelklister hveitilím.

Meelklump mjölkökkur. — b) = Meelbolle.

Meelkrud púðursalli.

Meelmad mjölmotor.

Meelmaling kornmölun.

Meelmand mjölsölumaður.

Meelmide mjölmaðkur (í skemmdu mjöli).

Meelmølle mjölmylna.

Meelmøller sá sem hefur mjölmylnu.

Meelorm = Meelmide.

Meelpap mjölmjólk.

Meelpose lítill mjölpoki. — b) = Sigtepose.

Meelrende mjölpípa (sem mjöl í mylnu rennur um í sekk eða sáld).

meelrig mjölmikill: En m. Kornart.

Meelrighed, án fl., sk., það að vera meelrig.

Meelrør = Meelrende.

Meelsand = Støvsand.

Meelsigte mjölsáld.

Meelsigtning mjöl-sælding.

Meelskud mjölpípuop (í mylnu).

Meelsold (kl.) mjölsáld.

Meelspise = Meelmad.

Meelstøv mjölsalli, (solladumba, Jóh.).

Meelsuppe mjölsaup a) úr mjöli og vatni. — b) úr mjöli og mjólk = Meelvælling.

Meelsæk mjölsekkur (sb. Nj.), mjölkýll (sb. Nj.),

Meeltragt mjöltrekt (í mylnu).

Meeltønde mjöltunna.

meelvinget (um skorkvikindi), sem hefur nokkurs konar dupt á vængjunum: Meelvingede Insecter *lepidoptera*.

Meelvælling mjölmjólk.

Meen, án fl., sk., [mein], lýti, galli. — b) yfirsjón; meingjörð. — c) mein, meinleiki: Lide M. ved noget. — d) meinbugir, tálmi, fyrirstaða.

Meeneed, [meineið-r, 619], meinsæri, meineiður, ljúgeiður (656 A II).

Meeneder, fl. -e, kk., meinsvari, meinsærismaður, meinsæramaður, meineiðamaður (Ilist. I, 522).

meenedersk, fl. -e, e., a) er sver rangan eið, sem er meinsærismaður. — b) sem lýtur að meinsæri.

meenfør, [sb. meinfœr-r, Hkr.], = vanfør.

Meenføre, [sb. vér eigum langt hingat at sækja .... ok svá meinfært, Hkr.], = Uføre.

meenlig (fornt) = almindelig, menig.

meenlydt, [sb. lyde af lýta], (sjaldh.), meiddur (á líkamanum).

Meenlykke, [af Lykke hamingja], = Vanlykke.

Meenlykke, [af Lykke = Løkke], mein í akri.

meenløs meinalaus (í fornri merk.); saklaus.

meenslaae, ás., berja e-n til óbóta.

meensværge, h. s., sverja rangan eið; er tíðkanlegast í hð. l. t. meensvoren sem er meinsvari.

meer sjá mere.

meerbemeldt optgreindur.

Meerskum, kl., leirtegund sem einkanl. er höfð í tóbakspípuhöfuð.

*Megalosaurus, sk., eins konar forndýr sem finnst í jörðu og orðið hefur allt að 70 feta á lengd.

*Megatherium, fl. Megatherier, kl., forndýrið mikla.

megen [mikin-n], hvorugk. meget [mikit], án fl.; miðstig mere [meiri, meira] og meer [meir-r], efsta stig mest [mest-], e., mikill: Han har anvendt m. Flid derpaa hann hefur vandað sig á því. Der bliver meget Hø (heyjast vel) i Aar. Godset var meget, og Folkene, til at bære det, saa. Naar jeg faaer mere Tid þegar um hægist fyrir mjer. Han opholder sig den meste Tid (lengstum) paa Landet. Den meste Deel. — b) det er mig (o. s. frv.) lige meget mjer (o. s. frv.) stendur á sama. — c) det var meget segðu ekki lengur! — 2) megen og meget er stundum = mikli og mikla;

Den m. Mad (allur sá matur), vi fik. Alt det meget Hø (allt það hey), vi havde i Fjor. — B) hvorugk. sem nafn eða ao., 1) meget, a) án nafns (þ. e. sem nokkurs konar nafn): Der blev meget tilovers. — b) sem ao., α) með sögn: Han bad meget om Tilgivelse (bað mikillega fyrirgefningar). Det glæder mig meget það er vel farið, því fer betur, hamingjunni sje lof. — Saa (eða i hvor) meget han end stræber (þó hann vinni baki brotnu), kan han dog ikke erhverve det nødvendige. — β) með einkunn, mjög, stórum, stórlega: En meget lærd Mand. Han blev meget glad derover. — γ) með atviksorði: Jeg vil ikke betroe ham min Hest; meget mindre min Søn ekki trúa honum fyrir hestinum mínum, því síður (eða hvað þá) fyrir syni mínum. Han burde ikke opgive Forsøget; men meget mere gjentage det med nye Midler hann ætti ekki að hætta við svo búið, utan heldur reyna til aptur o. s. frv. — 2) mere, a) án nafns (þ. e. sem nokkurs konar nafn), meira: Han forlanger mere af dette Tøi. „Er ikke Livet mere end Maden" (er ekki meira varið í lífið enn í fæðsluna)? Han vil være mere (meiri, meiri maður) end hans Jævnlige. — b) sem ao., α) meir: Jeg elsker hende mere end tilforn. — β) við þær einkunnir, sem vantar miðstig: Fremmed, mere fremmed, mest fremmed. — γ) þar sem tvær einkunnir eru bornar saman hvor við aðra: Han er mere vittig, end dybsindig fremur fyndinn, enn djúphygginn; hann er fyndnari, enn hann er djúpsær til. — δ) det var mere (fremur) Lykken, end Forstanden, der hjalp ham. — ε) framar = optar: Kom ikke mere for mine Dine. Jeg kommer der ikke mere jeg er hættur að koma þangað. — ζ) lengur: Det regner ikke mere það er hætt að rigna, það er stytt upp. Jeg kan ikke see mere get ekki lengur sjeð, er hættur að geta sjeð. — η) mere og mere, t. a. m. hun bliver mig mere og mere kjær mjer er allt af að verða betur við hana. — θ) saa meget mere og hvor meget mere því heldur. — 3) meer, a) sem nokkurs konar nafn, meira: Jo meer een har, jo mere vil han have mikið vill meira. — b) sem ao., meir, o. s. frv.: Meer end gjerne guðvelkomið, eða þvíuml. — 4) mest, a) sem nokkurs konar nafn: Af Alle har han givet mest. — Han fik det meste hann fjekk það mestallt. Det meste af noget e-ð mestallt, allur þávaðinn af e-u. For det meste að mestu leyti; optast, optast nær. — b) sem ao., α) han holdt mest af (honum þótti vænst um) den ældste Søn. Han opholder sig mest (lengstum) paa Landet. — β) við þær einkunnir, sem vantar efsta stig: Fremmed, mere fremmed, mest fremmed.

megne, ás. 1, [megna], (í bændatali), megna.

meie, ás. 1, [sb. meiða?], skera korn, (sb. slá upp, N. g. L. I, 258): M. Rug (Byg). Vi har begyndt at m. i Dag.

Meiedag kornskurðardagur.

Meiedrag kornorf.

Meiejern = Meielee: Vi have fire M. (fjóra kornskurðarmenn) i Marken.

Meiekrog kornvarp (sá tilbúningur — á kornorfi — sem ýtir korninu til hliðar um leið og það er skorið).

Meielee kornljár.

Meier, ft. -e, kk., kornskurðarmaður (677).

Meiered (líka Meierede), kl., [sb. Rede kl.], kornorfið með ljánum og öllu saman.

Meierede sjá Meiered.

Meieri, ft. -er, kl., (á stórgarði), búr (þar sem strokkað er og búnir til ostar o. s. frv.).

Meierigaard garður (bær) þar sem er þess háttar stórbúr er Danir kalla Meieri.

Meierske, ft. -r, kvk., búrstýra (sb. Meieri).

Meietid kornskurðartíð.

Meining, sk., það að meie (kornskurður, kornslátta).

*Meiran sjá Merian.

Meise, ft. -r, sk., (eins konar söngfugl, meisingur?) *parus*.

Meisel, ft. Meisler, sk., meitill, klappa.

Meiselbor eins konar grjótnafar.

meiselgravet, [sb. grave], meitlaður — klappaður — í e-ð.

*Mekanik sjá Mechanik.

*Melancholie, sk., þunglyndi, geðveiki.

*melancholsk, ft. -e, o, þunglyndur, geðveikur: En m. Person. Det melancholske Temperament.

*Melange, sk., blendingur (sambland) af ýmsu (einkum af ýmiss konar tóbaki).

Meld (eða Melde), sk., garðasól *atriplex hortensis*.

Meld (eða Mjeld), ft. eins, sk., a) hnotviðarfræ. — b) frjókorn á bækitrje.

Melde sjá Meld.

melde (líka ritað mælde), ás. 2, a) gera vart við: M. sin Ankomst (Bortreise). Reisende skulle meldes ved Porten (það á að segja þar til þeirra, gera þar vart við þá). Lade sig m. gera boð fyrir e-n sem maður vill tala við (eða þvíuml.). — Hunden melder sig ved Gjøen. — b) m. sig gefa sig fram, (sb. bera sig eptir e-u), eða þvíuml.: Der har ingen Creditorer meldt sig i Boet. Der har meldt sig mange til denne Tjeneste. — c) segja e-m frá e-u: Han meldte det for Kongen. Jeg maatte m. ham hendes Død. — d) geta um e-ð: Derom melder Historien intet (sb. það fara öngvar sögur af því).

Meldekaal = Meld (Melde).

Melden, án ft., sk., það að melde.

Meldning, ft. -er, sk., a) = Melden. — b) það sem frá er skýrt, skýrsla.

mele, ás. 1, gera (e-ð) mjölugt, hnoða mjöl saman við: M. sin Kage maka krókinn. — 2) meles verða að (mjöli, þ. e.) dupti.

*melere, ós. 1, blanda. — Ho. l. t. meleret, sem e., mislitur.

melet, ft. melede, e., a) sem er eins og mjöl sje í því, sem molnar: Melede Kartofler (Æbler). — b) mjölugur.

*Melis, sk., hvítasikur.

Melk (líka ritað Mælk), án ft., sk., [sb. mjólk], mjólk: Nymalket M. spenavolg nýmjólk. Sød M. nýmjólk. Afskummet M. undanrenning. Melken sætter Fløde það sezt rjómi á mjólkina. Melken løber sammen mjólkin hleypur. Melken ostes mjólkina ystir. — Sætte M. op láta mjólk súrna svo hún verði að hlaupi, og borða Danir það hlaup (þau þjel) og kalla opsat (líka tyk) M. mjólkurhlaup. — Oplagt M. sjað skyr. — b) í orðinu Mandelmelk. — c) svil.

melkagtig, ft. -e, e., svipaður mjólk.

Melkblande (í Norv.), blanda sem drukkin er við þorsta.

melkdrukken, [sb. drikke], alinn á mjólk.

Melkebøtte rjómastampur (sama að sínu leyti og rjómatrog).

*Melkecuur mjólkurlækning.

Melkedeie, ft. -r, kvk., [Deie = deigja, í Ægisdrekku], (fyrrum), = Meierske.

Melkefad mjólkurfat (fat undir mjólk).

Melkefarve mjólkurlitur,

melkefarvet, ft. -farvede, e., sem mjólkurlitur er á.

Melkefeber stálmakalda (barnsængurkvenna, P. Þ.).

Melkefisk hvatur fiskur (sem svil eru í).

Melkeflor, kl., hvít slæða þjett og smágerð.

Melkegang hver af þeim smápípum (í þörmunum) er sígur í sig næringuna úr fæðunni.

Melkegriis grís alinn á mjólk.

Melkegrød grautur sem aptur er soðinn í mjólk.

Melkegysen bryllingur sem kemur til af Melkefeber.

melkehvid hvítur sem mjólk.

Melkehylde mjólkurhilla (í búri).

Melkekalv kálfur alinn á mjólk; kálfur sem gengur undir kúnni (dilkur, Grágás II, 307).

Melkekammer mjólkurklefi, mjólkurbúr.

Melkekar mjólkurílát.

Melkekjelder mjólkurkjallari a) þar sem mjólk er geymd. — b) þar sem mjólk er til sölu.

Melkeknude mjólkurþrimill (í brjóstum).

Melkekopper, ft., eins konar útbrot (svipuð bólunni).

Melkekudsk sá sem hefur það starf að flytja mjólk á vagni.

melkelydt, e., [við -lydt sb. hlý-r?], = melkevarm.

Melkemad mjólkurmatur, (lýsumatur, P. Þ).

Melkemand mjólkurmaður, mjólkursölumaður.

Melkemund, kk., mjólkurfífl.

Melkepenge, ft., peningar sem maður hefur fengið fyrir mjólk.

Melkepige mjólkurstúlka, mjólkursölustúlka.

Melkepotte mjólkurpottur (til að hafa eða sjóða mjólk í).

Melkepulver mjólk seydd þangað til hún verður að dupti.

melkerig mjólkurmikill.

Melkesaft næringarvökvinn sem gengur út í blóðið.

Melkesi (ný)mjólkursía, (sb. síll).

Melkeskilt einkennisfjöl á mjólkursölukjallara.

Melkeskorpe eins konar útbrot á andlitum brjóstmylkinga.

Melkespand mjólkurfata (fata sem mjólk er borin í).

Melkestue mjólkurklefi.

Melkesuger, ft. -e, sk., = Natravna.

Melkesukker eins konar salt sem fæst úr mysu.

Melkesuppe mjólkursaup.

Melketand hver af þeim tönnum sem ungviði hefur áður enn það fellir tennur.

Melkevalle = Valle.

melkevarm nýmjólkurvolgur.

Melkevarme nýmjólkurvelgja.

Melkevei mjólkhringur (1812), vetrarbraut.

Melkevogn vagn sem mjólk er flutt á.

Melkevædske hvítleitur vökvi úr jurtum eða aldini (hafður við þorsta saman við vatn o. s. frv.).

Melkevælling = Vælling.

melkfedet, [sb. fede], alinn á mjólk.

melknes, þs. 1, (sjaldh.), a) verða að mjólk. — b) (um kú), fara að mjólka.

mellem sjá imellem. — B) af mellem er dregið hið efsta stig mellemst, a) ft. -e, e., (sem er) í miðið: Han var den mellemste i Rækken í miðri röðinni. Hans mellemste Datter dóttirin í miðið. — b) sem ao., í miðið: Sidde m. ved et Bord.

Mellemaar miðlungsár (hvorki sem bezt eða sem verst).

Mellemaarsag orsök sem er á milli frum-orsakar og afleiðingar.

*Mellemact sjónarleiks-partur sem hleypt er inn í milli tveggja annara parta.

Mellemarbeide frátafir; hjáverk.

Mellemart blendingur tveggja tegunda.

mellemblande blanda (e-n) innan um (eða) saman við annað.

Mellembrusk brjósk á milli e-s: Mellembrusken i Næsen miðsnesið.

Mellembryn bilið á milli augnabrúnanna.

Mellembud, a) orðsending, (sb. Bud 1, c). — b) sá sem ber boð á milli, (sb. Bud 2, a).

mellembygge, ás., reisa mannvirki í milli tveggja annara, tíðkanlegast í bo. l. t.: En mellembygget Muur.

Mellembygning, n. -er, sk., a) það að mellembygge. — b) mannvirki sem reist er á milli tveggja annara.

Mellemdige garður milli tveggja annara.

Mellemdræt, a) = Mellemfoder. — b) = Plovstjert.

Mellemdæk miðþilfar (í skipi sem þrjú þilför eru í).

mellemdæks, ao., milli þilfara: Skibet er stuvet m.

Mellemdør líkt og skellihurð.

Mellemfang millibil.

Mellemfarve miðlitur (milli tveggja annars lita).

Mellemfinger löngutöng.

Mellemflesk svínssíða milli lærs og bógs.

Mellemfletning, n. -er, sk., a) það að fljetta e-ð á milli annars. — b) fljettingur milli e-s.

Mellemfoder millifóður.

Mellemfrist millibil (þegar talað er um tíma).

Mellemfure miðfor (akurfor á milli tveggja annara).

Mellemgaard garður (Gaard b) milli tveggja annara.

Mellemgade, a) miðstræti (á milli tveggja annara). — b) = Tværgade.

Mellemgang, a) meðalganga. — b) göng úr einum klefa í annan.

Mellemgift milligjöf a) sem fjenaði er gefin. — b) = meðalauki (Laxd. 146).

Mellemgjerde merkigarður milli akra eða milli eigna manna.

Mellemglas miðgler (í sjónpípu).

mellemgod sem er í meðallagi að gæðum.

Mellemgods meðalvarningur að gæðum.

Mellemgrad (eiginl. stig sem er á milli annara stiga), meðallag.

Mellemgrund það sem er í miðju að sjá á pentskript sem við manni blasir, (miðsýni).

Mellemgrændse skil (n., sb. orðaskil).

Mellemgulv þind.

Mellemhaand, án n., (í spilum), kví (gagnstætt: Forhaand og Baghaand): Sidde (være) i Mellemhaanden.

Mellemhandel verzlun milli tveggja landa eða hjeraða fyrir framkvæmd þeirra manna sem eru í hinu þriðja landi eða hjeraði: „Ligger en Stat beqvem til M. imellem andre Riger.“

Mellemhandler, n. -e, kk., meðalgöngumaður.

Mellemhandling, a) meðalganga, sáttaumleitun (Fms.), sættaumleitun (Sturl.), sættarumleitun (Fms.), o. s. frv. — b) atriði sem hleypt er inn í sjónarleik eða sagnaljóð, útúrdúr.

Mellemhegn merkigarður.

Mellemhensigt mið-tilgangur.

Mellemhest (í dvönduðu tali) f. Mellemmand, Mellemhandler.

Mellemhinde himna á milli e-s tvenns.

Mellemhjul miðhjól (milli tveggja annara).

Mellemhvile hvíld, það að manni verður á milli.

Mellemkjendelse = Interlocutorium.

Mellemkjød (á manni), það sem er á milli þarfagangs og leyndarlims (*perinaeum*).

Mellemklæde meðalklæði (að gæðum).

mellemkommende, [sb. komme], sem kemur inn á milli e-s.

Mellemkomst, án n., sk., meðalganga: Ved hans M. blev Sagen bilagt.

Mellemlag e-ð sem lagt er á milli tveggja annara hluta.

mellemlagt, [sb. lægge], lagður á milli.

Mellemled miðgrein (í ályktun).

Mellemlinie miðlína, miðstryk.

mellemløbe (eiginl.: hlaupa á milli), sjaldan haft, nema í bo., a) eiginl.: En mellemløbende Fure akurfor á milli tveggja annara. — b) óeiginl.: Mellemløbende Forretninger aukastörf sem koma að höndum öðru hverju.

Mellemløber, a) kk., kjaptaskúmur (sem hleypur með þvaður á milli manna). — b) sk., miðhestur (annar hesturinn sem er í miðið þegar sex hestar draga vagn).

Mellemmaaltid miðsmálagetur.

Mellemmad miðsmálagetur (einkum af þurmeti).

Mellemmagt vald sem er í miðið á milli æðra og lægra valds.

Mellemmand = Mellemhandler.

Mellemmuur múr sem er á milli e-s.

Mellempenge, n., = Mellemgift b.

Mellempille miðstoð.

Mellemplads svið á milli e-s.

Mellemrang miðtign (sem er á milli hærri og lægri tignar); meðaltign.

Mellemregjering = Mellemrige.

Mellemregning reikningur um skuldaskipti: Vi have opgjort vor M.

Mellemreise milliferð (Fms. IX, 322).

Mellemret aukarjettur (á matborði).

Mellemrige ríkisstjórnin í e-u landi meðan höfðingjalaust er.

mellemrigs, ao., á meðal tveggja ríkja sem einn höfðingi er yfir: En Handel, som drives m.

Mellemrigshandel kaupverzlun á meðal tveggja ríkja sem einn höfðingi er yfir.

Mellemrigstold landaurar sem goldnir eru af vöru sem flutt er milli tveggja ríkja sem einn höfðingi er yfir.

Mellemrum millibil. — b) einnig um tíð: Efter et M. af nogle Aar að nokkrum árum liðnum.

Mellemrør pípa sem gengur úr einni pípu í aðra.

Mellemskjel landamerki.

Mellemskov meðalskógur (að hæð).

mellemskreven, [sb. skrive], skrifaður á milli línanna.

mellemskudt, [sb. skyde], sem hleypt er inn á milli.

Mellemskygge skuggi sem hvorki er mjög dimmur eða mjög daufur.

Mellemslags það sem er í meðallagi.

Mellemsort = Mellemslags.

Mellemspil, a) = Mellemact. — b) hljóðfæraslàttur á milli sjónarleika eða á milli höfuðparta hljóðfæraskemmtunar.

mellemst sjá greinina um mellem.

Mellemstemme meðalrödd (að hæð).

Mellemstreg stryk á milli (e-s).

Mellemstue miðklefi.

Mellemstund = Mellemtid.

Mellemstykke miðhlutur, miðstykki. — b) stuttur sjónarleikur sem leikinn er á milli tveggja annara, (mið-leikur).

Mellemstørrelse meðalstærð: Være af M. mundangsmikill; meðalmaður vexti.

Mellemsæd það sem sáð er til skiptis við það sem vant er að sá.

Mellemsætning, a) það að setja e-ð á milli e-s. — b) grein sem hleypt er inn í klausu.

Mellemtale það að tala fram í. — b) mið-tala (á milli tveggja annara).

Mellemtarm mið-görn (á milli tveggja annara).

Mellemtid millibil (haft um tíð): I den M. at (eða medens) han var borte meðan hann var í burtu.

Mellemtilstand meðalástand.

Mellemtime stund a) á milli tveggja annara. — b) þegar manni verður á milli, (sb. Fritime).

Mellemting, a) hlutur á milli tveggja annara. — b) e-ð sem er beggja blands, blendingur: En M. imellem Pære og Æble. En M. af Klæde og Stof.

Mellemtrin stig (þrep) á milli tveggja annara. — Óeiginl.: Staae paa et M. vera í meðallagi; vera svona bil beggja.

Mellemtøi það sem haft er sem millifóður.

Mellemtømme ól á milli höfuðleðra á tveimur hestum er ganga samsíða.

Mellemtømmer = Indtømmer.

Mellemvei mið-vegur (vegur á milli tveggja annara).

Mellemvidde meðalbil (sem er mitt á milli hins minnsta og mesta bils).

Mellemvind vindur sem ekki stendur úr neinni höfuð-áttinni.

Mellemvirkning afleiðing sem kemur á milli tveggja annara afleiðinga.

Mellemvold miðhluti víggirðingar.

mellemvoxet, [sb. voxe], vaxinn inn á milli annars.

Mellemvoxning, sk., það að e-ð vex inn á milli annars.

Mellemvæg veggur á milli e-s.

Mellemværelse, kl., mið-klefi.

mellemværende, [sb. være], sem hvarfar á milli manna: En m. Regning reikningur um skuldaskipti. — b) Mellemværende, sem kl. nafn, það sem hvarfar á milli manna, (einkum) skuldaskipti: Jeg ønsker at afgjøre vort Mellemværende.

Mellemværk eins konar vefnaður. — b) (fyrrum), eins konar knipplingar framan á svuntu.

Mellemvæsen meðal-vera (sem hvorki er teljandi meðal hinna æðstu nje hinna lægstu).

Mellemvæxt meðalvöxtur; meðalstærð.

*Melodie, n. -r, sk., sönglag, (sb. slagur): Sætte M. til en Vise búa til lag við kvæði.

*Melodik, sk., sönglagafræði.

*melodisk, n. -e, e., sem lætur vel í eyrum, hljóðfagur, hljómfagur.

*Melodrama, kl., þess konar sjónarleikur þar sem hljóðfæraslàttur tekur við af hverri grein þegar búið er mælt á enda.

*Melon, n. -er, sk., (eins konar planta) *cucumis melo.*

*Melonkasse gróðrarstía sem plantan *cucumis melo* er ræktuð í.

*Melonkjærne kjarni í *cucumis melo.*

*Melonskal hýði á *cucumis melo.*

*Melotenplaster eins konar plástur (af jurtinni *melilotus*).

*Membran, n. -er, sk., a) himna. — b) bókfell; einnig skinnbók.

*Memoire, sk., a) í et., áminningarrit; bænarskrá; ritgjörð. — b) með n. -r, minnisrit.

*Memorandum, kl., minnisbók.

*memorere, ás. 1, a) muna. — b) nema e-ð utanbókar.

*Memorial, sk., = Memoire a.

men (eða mænd; sb. Mand B, 4), mo., í jo m. og jo saa m.; sb. jo A, 2, f—g.

men, st., [sb. meðan], en: Han var engang rig; m. nu er han fattig. Vel er hun smuk; m. ikke saa smuk som hendes Søster. — b) heldur: Strudsen flyver ikke, m. løber med udspilede Vinger. — c) í upphafi greinar (eptir punkt) sleppum vjer því jafnaðarlega: M. sig mig dog, hvor du har været! hvar hefurðu verið? — Með ja fyrir framan: Ja, m. det er jo ikke den Bog, jeg forlangte það er ekki sú bók, sem jeg bað um.

*Menage, sk., búmennska; sparnaður.

*Menagelampe sparnaðarlampi (sem þarf lítinn ljósmat).

*Menageovn sparnaðarofn (= óeldiviðarfrekur ofn).

*menagere, ás. 1, fara vel með, líkt og taka spart á e-u.

*Menagerie, n. -r, kl., = Dyrehuus; (einnig) dýrasafn.

mene, ás. 1, [meina], = formene (meina e-m e-ð, o. s. frv.).

mene, meente, meent, h. s., hyggja, ætla, halda: Bønderne meente det var et Spøgelse. Hvad mener (heldur) du om denne Sag? — b) ætla: Jeg mener at være her tilbage om otte Dage ætla að vera kominn aptur að viku liðinni. — 2) sem ás., a) hyggja, ætla: Den Hær, som meentes at være uovervindelig. — b) eiga við: Jeg meente ikke hende dermed. Han mener ikke et Ord af det, hann siger það er ekkert alvara af því sem hann segir. Sige eet og m. et andet tala þvert um hug sjer. Det var ikke saaledes meent það var ekki sagt í því skyni. — c) m. det godt med een vilja e-m vel.

menig, n. -e, e., allur, gjörvallur: Den menige Almue öll alþýðan. Det menige Folk alþýðan, almúginn, almúgurinn. Tale m. Mands Sag tala máli alþýðunnar.

Menighed, sk., a) án n., lýður, almenningur, almúgi, alþýða: Den christne M. kristinn lýður. „Al Menigheden knurrede mod Fyrsterne". — b) með n. -er, (þegar talað er um trúarefni), söfnuður.

Menigmand múgamaður.

Mening, n. -er, sk., ætlun, hyggja (sb. að minni hyggju); (sb. skilning, Nj. 142): Jeg er ikke af hans M. jeg er honum ekki samdóma. Den offentlige M. almannarómur. — b) það hveruig á að skilja e-ð, skilningur (Sn. E. 346), merking, efni: Hvad er Meningen af dette Udtryk (hvað merkir þetta orðatiltæki)? Det kan tages i to Meninger það er tvírætt. Der er ingen M. (vit) i det, han har skrevet. Dette er Forfatterens egentlige M. þetta er það sem höfundurinn á við í raun og veru. — c) efni í klausu, klausa, grein: Her er Meningen ude — d) ætlun = ásetningur, tilgangur: Det var ikke min M. (jeg ætlaði ekki) at fornærme ham. Gjøre noget i en god M. í góðu skyni.

Meningsforskjel ágreiningur.

Meningsfrihed frelsi til að hugsa og tala.

meningslignende, [sb. ligne], líkur að merkingu: M. Ord.

meningsliig (sem er) sömu skilningar a) sem hefur sömu ætlun á e-u. — b) (sem er) sömu merkingar: Meningslige Ord.

Meningsliighed, (sk.), það að vera sömu skilningar, a) það að hafa sömu ætlun á e-u. — b) það að vera sömu merkingar.

Meningssag það sem komið er undir ýmislegri ætlun manna. Gagnstætt: Gjerningssag.

Meningsstrid þræta um hversu mönnum lítist e-ð, ágreiningur.

Meningstvang ófrelsi sem á er lagt orð og hugsanir.

Meningstvist, (sk.), = Meningsstrid.

Meningsyttring það að láta í ljósi hugsun (hugleiðing) sína.

Menneske, n. -r, (með greininum Mennesken), kl., [sb. manneskja, 619], maður: Mennesket (maðurinn) lever under alle Jordens Klimater. Der fødes flere Mennesker, end der døe fleiri menn fæðast, enn deyja. Vi hørte Mennesker (mannamál) i Skoven.

Menneskeagt það að virða (meta) mikils mennina.

Menneskealder mannsaldur.

Menneskeansigt mannsandlit.

Menneskeart, a) = Menneskerace. — b) = Menneskenatur.

Menneskebeen mannsbein, mannabein.

Menneskeblod mannsblóð, mannablóð, mannadreyri; en þó optast um mannslíf: Udgyde M. hella út mannablóði. Spare M. þyrma lífi manna.

*Menneskeclasse mannabálkur (645); stjett.

Menneskedigt manna (mannlegur) samsetningur.

Menneskefjende sá sem er fjandskapaður við mannkynið.

menneskefjendsk fjandskapaður við mannkynið. — b) sem kemur til af fjandskap við mannkynið: Menneskefjendske Forestillinger fjandskaparhugsanir til mannkynsins.

Menneskefjendskab fjandskapur við mannkynið.

Menneskeflid mannvirki (sb. veitti svá vatni í Hjerúsalem með miklu mannvirki ok kostnaði, Stjórn), mannleg iðjusemi.

Menneskeforstand manns-vit, manns mannvit (sb. Fms. X, 251): Have sund M. hafa fullt (venjulegt) manns-vit.

Menneskefrygt ótti við menn.

Menneskeføde mannfæði, mannfæða, mannamatur.

Menneskefølelse mannleg tilfinning.

Menneskegjerning mannaverk, mannvirki.

Menneskehaand mannshönd: Et Værk af M. (eða Menneskehænder) mannaverk, mannvirki.

Menneskehad mannhatur.

Menneskehader mannhatari.

Menneskehandel mansal.

Menneskehed, án n., sk., mannlegt eðli: Menneskeheden maa oprøres ved en saadan Grusomhed. — b) = Menneskeslægt a: Menneskehedens Historie.

Menneskeheld lán.

Menneskehjelp mannleg aðstoð.

Menneskehob mannþyrping.

Menneskekjender sá sem þekkir á mannlegt eðli og hugarfar, sá sem er góður að sjá aðrn út: En dyb (fiin) M.

menneskekjærlig velviljaður mannkyninu.

Menneskekjærlighed, (sk.), góðvild við mannkynið.

Menneskekjød mannakjöt (Stjórn), mannahold (Fms).

Menneskekjøn = Menneskeslægt a.

Menneskeklogt mannlegt hyggjuvit.

Menneskekraft mannlegur kraptur: Udrette noget ved Menneskekræfter.

Menneskekrop mannsbúkur.

Menneskekundskab þekking á mönnum, (sb. mannraun, Fms. VI, 63).

Menneskelidelse mannleg þjáning.

menneskelig, n. -e, e., mannlegur, mennskur (sb. ávöxtr mennskrar ágirni): Det menneskelige Liv. M. Skrøbelighed mannlegur breiskleiki (veikleikur). — b) mannúðlegur (gagnstætt: umenneskelig): En m. Behandling bærileg meðferð.

Menneskelighed, án n., sk., mannlegt eðli, manndómur, mennska, mannúð: Vise M. mod Fjender veita mennsku óvinum sínum.

menneskeligviis, ao, á mannlegan hátt.

Menneskeliv líf mannsins, mannlegt líf.

Menneskemængde mannmergð, manntal.

*Menneskenatur mannlegt eðli.

Menneskenavn, a) það að vera kallaður maður: Han fortjener neppe M. — b) mannsnafn: Hunden har et M.

Menneskeoffer mannblót.

Menneskeoffring mannblót (það að blóta manni).

Menneskepar tveir menn (þegar talað er um karl og konu; sb. Fms. XI, 192): Det første M.

Menneskeplager sá sem pínir (kvelur) aðra.

Menneskepligt mannleg skylda.

*Menneskerace mannakyn.

Menneskeran mannrán (það að ræna mönnum).

Menneskeraner sá sem rænir mönnum.

Menneskerettighed mannleg rjettindi.

Menneskeroes manna-lof (619).

Menneskerov = Menneskeran.

Menneskeroft mannsrödd.

Menneskesamfund mannasamband.

Menneskesands = Menneskeforstand.

Menneskesind mannlegt hugarfar.

Menneskesjæl mannleg sál.

Menneskeskarn mannasaur.

Menneskeskikkelse mannsliki (Sn.E.), mannsmynd (Stjórn).

menneskesky = folkesky.

Menneskeslægt, a) án n., mannkynið. — b) með n., kynslóð (allir sem uppi eru samtíða).

Menneskestemme = Menneskerost: Høre Menneskestemmer heyra mannamál.

Menneskestyrke manns-afl, mannlegt afl.

Menneskétarv mannlegar nauðsynjar.

Menneskevandel mannleg hegðun.

Menneskevel bagur mannkynsins.

Menneskeven mannvinur.

Menneskevælde mannlegt veldi.

Menneskeværd það sem varið er í manninn (mannlegt eðli).

Menneskeværdighed tign mannsins.

Menneskeværk mannvirki, mannaverk.

Menneskevæsen, a) mannleg vera, maður. — b) mannlegt eðli.

menneskeædende, [sb. æde], sem er mannæta.

Menneskeæder mannæta.

mens sjá medens.

*Mensalgaard borðbaldsgarður sem fylgir brauði.

*Mensalgods borðbaldsjörð sem klerki eru ætlaðar tekjur af, (borðljen P. þ.).

*Menstruation, sk., tíðir kvenna.

*menstruere, h. s. 1, fá (hafa) tíðir, hafa á klæðum.

*mental, n. -e, e., sem lýtur að hoga manns eða geðsmunum: Et Menneskes mentale Tilstand; sb. Sindstilstand.

*Mentor, kk., maður sem annar (einkum unglingur) sækir heilræði til, (sb. spýta í e-o).

*Menuet, n. -ter, sk., eins konar hægur danz.

*mephitisk, n. -e, e., fullur af ódaun, daunillur, fúll.

*mercantil, n. -e, e., sem lýtur að kaupskap.

*mercantilsk, n. -e, e., = mercantil.

*Mercur, 1) kk., rómverskt goð. — 2) sk., a) ein af hinum reikandi stjörnum. — b) = Qvægsølv.

mere (og meer), miðstig af megen; sjá megen.

*physiologisk, ft. -e, e., sem lýtur að líffærafræði.

*physisk, ft. -e, e., a) sem náttúrufræði til heyrir. — b) náttúrlegur, (í líkri merk. og) líkamlegur: Physiske Drifter.

*Phænomen, ft. -er, kl., merkileg sjón; (einkum) loptsjón.

*Phenix, sk., (fuglinn) fenix.

*pianissimo, ao., (um söng og hljóðfæraslátt), mjög hægt.

*Pianist, ft. -er, kk., sá sem leikur Fortepiano.

*piano, ao., (um söng og hljóðfæraslátt), hægt, seint.

*Pianoforte, kl., = Fortepiano.

pibe, peb, pebet, s. t, 1) h. s., a) blása: P. paa et Blad. — b) blístra: P. efter een. — c) hvína; þjóta; ýla: Kuglerne peb i Luften. Vinden piber i trange Aabninger. — d) tísta (um mýs og fuglsunga). — e) vera skrækhljóðaður (mjóhljóðaður). — f) hljóða, skrækja, (sb. væla): Den Dreng piber for ingen Ting fer að hljóða hvað lítið sem er. — 2) ás., a) blístra: P. en Melodie. — b) p. een (noget) ud blása í pípu að e-m (e-u) til að sýna að maður vilji ekki sjá hann (það): P. en Skuespiller ud. P. et Stykke ud.

pibe, ás. 1, er haft um eins konar gróðursetningu (kvista eða lima) á öðrum trjám.

pibe, ás. t, [af Pibe A, 2, c], gera pípur (spírur) í (e-ð): Den Krave er ikke pibet nok.

Pibe, ft. -r, sk., [pípa], A) pípa (sb. Beenpibe, Bøssepibe, u. s. frv.). — 2) sjer í lagi, a) hljóðpípa: Blæse i en P. blása pípu. Lyden af en P. pípuhljóð. — Dandse efter eens P. (líkt og sitja og standa eins og e-r vill). — b) = Tobakspibe: Stoppe sin P. láta í pípuna sína. Tænde sin P. kveikja í pípunni sinni. — c) (í fötum), pípa, spíra. Sb. Pibekrave. — B) eins konar áma (undir vín eða viðsmjör).

Pibebeen leggur (í manni eða skepnu).

Pibebeslag búningur á (tóbaks)pípuhöfði.

*Pibeboie dufl sem er eins og ómo.

Pibebor nafar til að bora með (tóbaks)pípuleggi.

pibedannet, [sb. danne], sem er eins og pípa í lögun.

*Pibefabrik verkstaður þar sem tóbakspípur eru búnar til.

Pibefrihed leyfi til að blása í pípu í leikhúsi (sb. pibe 2, b).

Pibehandel það að selja tóbakspípur.

Pibehandler, ft. -e, kk., sá sem selur tóbakspípur.

Pibehat (fyrrum), eins konar kvennhattur með pípum (sb. Pibe A, 2, c).

Pibehoved (tóbaks)pípuhöfuð.

Pibehytte = Pibehætte.

Pibehætte virlok á leir-tóbakspípu.

Pibejern verkfæri til að gera með pípur í fatnaði (sb. Pibe A, 2, c).

Pibekande kanna með pípu út úr sjer.

Pibekradser, sk., öskuteinn (til að ná ösku úr pípuhöfði með).

Pibekrave pípukragi (sb. Pibe A, 2, c).

Pibekruser, ft., fellingar (á kraga eða líningu) sem eru eins og pípur.

Pibeleer pípuleir (leir sem hafður er í tóbakspípur).

Pibelærke (eins konar lævirki) *alauda trivialis (Linn.)*.

Pibelunte það sem kveikt er í tóbakspípu með.

Pibelyd pípuhljóð.

Pibelæg, kl., felling sem er eins og pípa.

Piben, án ft., sk., það að pibe (þ. e. blístra, o. s. frv.).

Piber, ft. -e, kk., sá sem blæs pípu.

Piberenser, sk., áhald til að hreinsa með (tóbaks)pípuleggi.

Pibering hringur á hjólnöf.

Piberør tóbakspípuleggur.

Pibestaver, ft., ámustafir.

Pibestilk kefli af leirpípulegg.

Pibesvøb e-ð sem vafið er utan um tóbakspípu.

pibet, ft. pibede, e., holóttur: P. Ost.

Pibetøi allir partar tóbakspípu.

Pibeværk pípur (í organi).

pible, h. s. 1, (um vökva), spretta upp: Kilden pibler frem af Sandet.

*Pickenik sjá Piquenique.

Pidsk, ft. -e, sk, a) keyri; svipa. — Holde een under Pidsken hafa e-n í skefjum. — b) pizkur (í hnakkanum): Binde sin P.

Pidsk, ft. eins, kl., svipuhögg; keyrishögg, o. s. frv.: Faae P. vera hýddur. Man kunde tælle ethvert P.

pidske, ás. 1, keyra (lemja með keyri), hýða, strýkja: Pidskes med Riis. — Stormen pidsker Bølgerne. — b) sem h. s.: P. paa (keyra) Hestene. — Regnen pidsker paa Ruderne lemur á glugganum (gluggunum).

Pidskebaand pizkband (sb. Pidsk, sk., b).

Pidskeknald smellur af keyri eða svipu.

*Pidskeparyk hárkolla með pizk.

Pidskeskaft svipuskapt.

Pidskeskrald = Pidskeknald.

Pidskesmeld = Pidskeknald.

Pidskesnert, a) sk., keyris-ól, svipuól. — b) kl., keyrishögg, svipuhögg.

Pidskning, ft. -er, sk., það að pidske.

*Piece, ft. -r, sk., a) fallbissa. — b) kver, bæklingur.

*Piedestal, sk., fótstallur (líkneskju, 655 XXXII).

*Pierrot, kk., heimskupjetur (einfaldur þjónn í frakkneskum og ítölskum bendingaleikum).

*Pietet, sk., rækt.

*Pietisme, sk., oftrú.

*Pietist, ft. -er, kk., oftrúarmaður.

*Pietisteri, kl., (verra enn Pietisme), oftrú og uppgerð.

*pietistisk, ft. -e, o., oftrúar-.

Pig, ft. -ge, sk., gaddur, broddur, tindur: Pindsvinets Pigge.

Pige, ft. -r, kvk., a) stúlka (ógiptur kvennmaður): Drenge og Piger. En gammel P. ógiptur kvennmaður sem farin er að eldast. — b) daspjölluð mey. — c) vinnukona: Holde een Karl og to Piger.

Pigeaar þau árin áður enn stúlka giptist.

Pigealder kvennmannsaldur þangað til hún er gjafvaxta.

Pigearbeide vinnukonuverk.

Pigebarn, a) meybarn: Drengebørn og Pigebørn. — b) ung stúlka: Et smukt P.

Pigebrud, kvk., brúður sem ekki hefur verið gipt áður. Gagnstætt: Enkebrud.

Pigedragt stúlkubúningur.

pigefro sem unir því vel að vera ógipt.

Pigegjek sá sem er ólmur eptir kvennfólki.

Pigehue stúlkuhúfa.

Pigejæger kvennamaður, kvennagaur (P. Þ.).

Pigekammer stúlknabúr.

Pigelav stúlknasamfjelag: Dandse Bruden af P. danza brúðina úr stúlknahópnum (seinast í brúðkaupi).

Pigelune mislyndi kvenna.

Pigeløfte kvennaheit.

Pigeløn vinnukonukaup.

Pigeran það að ræna burt stúlku.

Pigeseng vinnukonurúm.

Pigesind kvennaskap (þ. e. stúlkna).

Pigeskole skóli handa stúlkum. Gagnstætt: Drengeskole.

Pigestand, án ft., það að vera ógipt.

Pigestemme stúlkurödd.

Pigestrænghed kvennmannsharka.

Pigesvend sá sem er slimamjúkur við stúlkurnar.

Pigesæder, ft., stúlknasiðir.

Pigetjeneste vinnukonuverk: Hun maa gjøre P. verður að ganga eins og vinnukona.

Pigetro trúnaðarheit stúlku.

Pigetugt, a) stúlknaagi. — b) skírlífi stúlkna.

Pigevæsen allt sem til stúlkna heyrir.

pigget, ft. piggede, e., (sjaldh.), tindóttur.

Pighage stöng með brodd og krók í endanum.

Pighammer = Pikhammer.

Pighvar sjá Pigvare.

pighvas (hvass) eins og nálaroddur.

Pigkrave eins konar hundabelsi.

Pigrokke (eins konar skata) *raja pastinaca.*

Pigstav broddstafur.

Pigstok = Pigstav.

Pigsuer (eða Piksuer), sk., eins konar trje í skipi.

Pigvare (eða Pighvar), sk., (eins konar lúða) *pleuronectes maximus.*

Piil, ft. Pile, sk., ör.

Piil, ft. ýmist Pile eða eins og et., sk., [píl-l], píll (trjetegund): Plante P. (eða Pile). Styde i Veiret som en P. (sb. blása í sundur).

piildannet (einnig piledannet), [sb. danne], (sem er) eins og ör í lögun.

piilflux, ft. -e, o., (fornl.) = piilsnar.

piilsnar sem er eins og sendiag, (sb. som kólfi skyti).

Piilsod sjá Pileod.

piinagtig, ft. -e, e., þjáningarfullur, kvalræðisfullur, (sb. pínilegur, Stjórn).

Piinagtighed, án ft., sk., pína, kvöl, kvalræði.

piinlig, ft. -e, e., [sb. píniligr], pínilegur (sb. uton alla piniliga angist, Stjórn), kvalsamlegur (Skuggsjá): En p. Tilstand. — Piinligt Forhør það að pína menn til sagna.

Piinsel, ft. Piinsler, sk., [píusl], pínsl, písl, píning.

Pik, ft. eins, kl., högg af fingurgómi: Et P. paa Døren.

Pik, ft. -ker, (einnig ritað Pique, ft. -r), sk., eins konar lagvopn.

*Piket, nafn, eins konar spil: Spille P.

*Piket, sk., gætingjaflokkur (þ. e. hjer um 50 liðsmanna sem eru látnir vera á vaðbergi til að gá að óvinaliðinu hvort ráð þar er tekið).

Pikhammer, a) víghamar með lagvopni út úr. — b) hvassmynntur steinhamar.

pikke, s. 1, [pikka, Stjórn], a) ás.: P. en Steen klappa stein með hvassmynntum hamri (sb. Pikhammer b). P. en Hølee dengja ljá. — b) h. s., pikka, pjakka: P. paa Døren. Det pikker paa Døren það er pikkað á dyrnar. — Uhret pikker (gengur svo, að það heyrist). Hjertet pikker berst. — P. af snauta burt; hrökkva upp af.

Pikkelhue leðurhúfa með broddi upp úr (eins konar hjálmur).

Piksuer sjá Pigsuer.

Pikøxe öxi með lagvopni.

pil- er sett framan við einkunnir til að auka merkingu þeirra (sb. pilraadden, pilskaldet, pilsuur).

*Pilau (einnig Pilaw, Pillau), sk., (í austurheimi), eins konar hrísgrjónagrautur.

*Pilaw sjá Pilau.

Pileart píltegund.

Pilebark pílbörkur.

Pilebul pílbolur.

piledannet sjá piildannet.

Pilesjæder ein af þeim fjöðrum sem festar er á örvarenda til að ráða stefnu örvarinnar.

Pileflugt (eins fljót ferð og kólfi sje skotið), fleygiferð, flug.

Pilegrim, ft. -me, kk., [pílagrím-r], pílagrímur, vallari: Pilegrimme, som reise til Rom rómferlar. Pilegrimme, som reise til Mekka.

Pilegrimsdragt pílagrímsbúningur.

Pilegrimsfærd pílagrímsferð.

Pilegrimsgang pílagrímsganga.

Pilegrimsreise = Pilegrimsfærd.

Pilegrimsstav pílagrímsstafur.

Pilehave pílagarður.

Pilehegn pílgirðing.

Pilekogger = Kogger.

Pilekrat lágur pílaskógur.

Pilekul pílkol.

Pilekurv vandlaupur úr píltágum.

Pilelund lundur af píltrjám.

Pileod (einnig Piilsod) örvar-oddur.

Pileplantning gróðursetning píla: Opmuntre P. hos Bønderne.

Pileqvist pílkvistur; pílkvisl.

pileret beinn sem örvarflug.

Pilerter, ft., grænar ertur sem belgurinn er tekinn af.

Pilesaar sár eptir ör.

Pileskaft örvarskapt.

Pileskud örvarskot: Dræbes ved et P. vera lostinn öru til bana. — b) örskot, ördrag: De vare hinanden paa et P. nær það var ördrag á milli þeirra.

Pileskud (nýsprottinn) pílteinungur.

Pileskytte, kk., = Bueskytte.

Pilespids = Pileod.

Pilestage rjett pílkvisl og ekki all-mjó.

Pilevaand pílteinungur.

Pileved pílviður.

pilke, ás. 1, smá-plokka.

Pillau sjá Pilau.

pille, ás. 1, plokka, kroppa, reyta; tína, lesa: P. Barken af et Træ (sb. flysja). P. Erter taka grænar ertur úr belgjunum. Fuglen piller sig med Næbbet. — P. noget op (ud) tína e-ð upp (úr). — 2) sem h. s., a) p. ved noget vera að dunda við e-ð, (sb. nostra). — b) p. af snauta (snáfa) burt.

Pille, ft. -r, sk., dálítil kúla úr læknisdómum. — b) sneið (í orðum; sb. Gluffe).

Pille, ft. -r, sk., a) stoð, stólpi, máttarstólpi (einnig óeiginl.). — b) súla: Joniske (corinthiske) Piller. — c) (sá hluti) múr(s sem er) á milli tveggja glugga. — d) (í bók), α) málstokkur(inn eða) málbálkur(inn, þ. e. sjálft málið á einni blaðsíðu). — β) dálkur: Bogen er trykket med dobbelte Piller í dálkum.

Pillebaand járngjörð á stuð eða stólpa.

Pillebul = Bul b.

Pillefod súlu-ökkla.

Pillehoved höfuð á súlu.

Pillemad, a) e-ð sem lítill matur er og kroppa verður af (t. a. m. smáfuglar). — b) = Plukkemad.

Pillen, án ft., sk., það að pille.

*Pillepaneel Paneel á Pille c.

Pillerad súluröð.

Pilleri, ft. -er, kl., a) það að vera að smá-plokka, eða þvíuml.: Lad det P. være vertu ekki að reyta þetta, eða þvíuml. — b) sitt hvað smávegis, smámunir, (sb. reytur, reytingur).

Pilleværk sá hluti grjónamylnu þar sem hýðið flysjast af korninu.

pilraadden grautfúinn.

pilskaldet nauðsköllóttur.

pilsuur gallsúr.

Pilt, ft. -e, kk., [pilt-r], (í skáldskap), sveinn.

pimpe, ás. 1, a) (sjaldh.), dreypa í e-ð vörunum. — b) smá-drekka (e-ð áfengt): P. i Smug skála sig í laumi.

Pimpebæger (sjaldh.), harmafullur bikar.

Pimpekruus (sjaldh.), leirkrukka sem böfð er undir drykk.

Pimpernelle sjá Pimpinelle.

Pimpinelle (líka Pimpernelle), sk., = Steenbræk.

Pimpsteen vikur, vikurkol.

*Pincet, sk., dálítil töng (læknis-áhald)).

Pind, ft. -e, sk., teinn, tittur, tindur, (úr trje eða — sb. Strikkepind — málmi): Skære en P. — Sætte en P. for noget stemma stigu fyrir e-u. Staae paa Pinde for een vera boðinn og búinn til þjónustu við e-n, vera til taks hvenær sem e-r skipar. Det kan du skyde en hvid P. efter þú sjerð (þ. e. færð) það aldrei aptur. Til Pinds Ende út í gegn; út í hörgul. — b) fuglsfjöður þegar að eins hálar á henni út úr baminum.

pinde, ás. 1, 1) [sb. Pind a], reka titti í: P. Skoe. — b) tinda: P. en Rive. — c) negla: P. en Kasse sammen. — d) p. Brænde ud kljúfa brennsluvið í smáspýtur. Sb. Pindebrænde. — 2) [sb. Pind b], pindes fá flugfjaðrir.

pindeagtig, ft. -e, e., (um hlut), sem er eins og hann væri búinn til úr teinum (og enginn veigur er í).

Pindebrænde brennsluviður í smáspýtum.

pindebygget, [sb. bygge], = klinkebygget.

Pindehugger, ft. -e, kk., sá sem hefur það starf að kljúfa brennsluvið í smáspýtur.

Pindehuus, 1) hylki til að hafa í handprjóna. — 2) hús sem fisað er saman.

Pindekniv sjá Pindkniv.

Pindesko skór sem yfirleðrið á er neglt við sálann.

Pindespil eins konar leikur.

Pindesteg kjöt sem steikt hefur verið á spýtu eða rist.

Pindetoi = Pindeværk.

Pindevogn rimavogn (P. Þ.).

Pindeværk, a) rimar í rimavagni. — b) e-ð úr trje sem fisað er saman: Det er kun P., der ikke holder það er enginn veigur í því, það stendur öngva stund, eða þvíuml.

Pindhammer hamar til að reka með titti eða nagla.

pindhornet hníflóttur.

Pindhose, a) (sjaldh.), prjónaður sokkur. — b) eins konar kvilli í hestfæti.

Pindhul naglagat (í hæl á skó eða stígvjeli).

Pindhængsel eins konar hjörur.

Pindkniv (einnig Pindekniv) hnífur til að tálga með titti sem reknir eru í hæla á skóm eða stígvjelum.

pindmager skinhoraður.

Pindse sjá Pintse.

Pindso blóðdur ígull.

Pindsteen hver af smásteinum þeim sem hafðir eru til steinleggingar með öðrum stærri.

Pindsviin, a) ígull *erinaceus*. — b) dýrið *hystrix*.

Pindsyl alur til að bora með göt fyrir titti í hæla á skóm eða stígvjelum.

Pine, ft. -r, sk., [pína], kvöl, písl.

pine, ás. 1 og 2, [pína], kvelja, pína: P. een til at bekjende pína e-n til sagna. — Denne Tanke piinte ham endnu i hans Dødstime. — P. een om noget særa (sárbæna) e-n um e-ð.

Pinebænk píslarfæri: Lægges paa Pinebænken vera kvalinn.

pinefuld kvalafullur, kvalsamlegur (Skuggsjá), pínilegur (sb. utan alla pínliga angist, Stjórn): Et pinefuldt Liv.

Pinelse, sk., píning, pínsl, písl, kvöl.

Pineredskab píslarfæri.

Pinested kvalastaður, píslarstaður, pínslarstaður, píningarstaður.

*Pinie, ft. -r, sk., (suðræn furutegund) *pinus pinea (Linn.)*.

Pink, ft. -er, sk., eins konar byrðingur með flötum botni og háum skut.

Pinkelhage járnkrókur á kaðalenda sem við er hafður þegar akkeri er dregið upp á skipshlið.

Pintse (einnig ritað Pindse), án ft., sk., hvítasunna, hvítadagar (forni).

Pintseaften kvöld(ið) fyrir hvítasunnu.

Pintsedag hvítasunnudagur: Første P. fyrsti í hvítasunnu, hvítasunnudagur, hvítsunnudagur, hvítdrottinsdagur. Anden P. annar í hvítasunnu.

Pintsefest hvítadagahelgi (Sturl.).

Pintsehelligdage, ft., hvítadagahelgi (Sturl.), hvítadagar.

Pintsehoitid = Pintsefest.

Pintselilie (eins konar blóm) *narcissus poëticus.*

*Pintsemai laufgað lim sem kirkjur eru prýddar með á hvítasunnu.

Pintsenat nátt(in) fyrir hvítasunnu.

Pintsetid hvítasunnuleiti, hvítasunnuskeið.

Pintseuge hvítadagavika (sú vika sem hvítasunnan er í).

Pip, sk., eins konar fuglasýki (einkum hænsna).

Piphas, nafn, hnútur sem stundum kemur á apturfót á hesti.

Pipling, ft. -er, sk., eins konar lítið epli.

pippe (har), h. s. 1, (um e-ð sem byrjar að spretta), koma í ljós: Græsset begynder at p. frem.

Pipskæg hýjungur (á höku unglings).

*piquant, ft. -e, e., sem ertir og lokkar, o. s. frv.

*Pique, sk., a) sjá Pik. — b) spaði (í spilum). — c) kali, (sb. óþokki, fæð).

*Piquenique (einnig Pickenik), sk., skytningur, samburðaröl.

*piquere, ás. 1, erta, styggja, stríða e-m; særa e-m: Blive piqueret firrtast, styggjast, láta sjer þykja fyrir, (sb. það kemur hnndur í mann). — P. sig þykjast af e-u.

*Pirat, ft. -er, kk., = Sørøver.

pirhjernet, ft. -hjernede, e., uppstökkur, (sb. nasbráður).

pirhovedet = pirhjernet.

pirke, ás. 1, (sjaldh.), fiðra við.

*Pirogue, sk., = Canot.

*Pirouette, ft. -r, sk., snarsnúningur (í danzi eða á reið).

*pirouettere, h. s. 1, snarsnúast (í danzi eða á reið).

pirre, s. 1, 1) sem h. s., pota, bora: P. i Jorden med en Kjep. — 2) ás., a) æsa, hafa (þægileg) áhrif á: Pirrende Lægemidler. — b) óeiginl., áreita; erta, stríða e-m; ýta undir (e-n).

pirrelig, ft. -e, e., viðkvæmur.

Pirrelighed, án ft., sk., viðkvæmni.

Pirremiddel það sem æsir eða hrífur á.

Pirren, án ft., sk., það að pirre.

Pirring, sk., það að pirre.

Pis, án ft., kl., hland.

pisdrivende, [sb. drive], = urindrivende (sem er kurteislegra).

pisse, s. 1, míga, a) h. s.: P. under sig míga undir. — b) sem ás.: P. Blod míga blóði.

Pisseblære = Urinblære (sem er kurteislegra).

Pissetrang það að manni er mál að míga.

pissetrængt, [sb. trænge], sem er mál að míga.

*Pistil, kl., = Støvvei.

*Pistol, ft. -er, sk., smábyssa: Udfordre een paa Pistoler.

*Pistole (einnig Pistolette), ft. -r, sk., gullpeningur á verð við fjórar spesíur.

*Pistolette sjá Pistole.

*Pistolhylster smábyssuhylki (við hnakk).

*Pistollaas smábyssulás.

*Pistolskud, a) smábyssuskot. — b) bil er smábyssa dregur: De var hinanden paa et P. nær.

*pittoresk, n. -e, e., = malerisk.
pjaddre sjá pladdre b.
Pjalt, n. -er, sk., [sb. pjatla], tuska, drusla, dula, ræfill, garmur, (sb. tötrar, larfar): Hans Klæder hang i Pjalter hann var allur rifinn og táina.
Pjaltebod leppabúð.
Pjaltehandel leppasala.
Pjaltekjærling kerling sem tínir saman luskur á strætum og stigum.
Pjaltekram (alla kyns) leppar (sem ætlaðir eru til sölu).
Pjaltekræmmer leppasölumaður.
pjaltet, n. pjaltede, e., rifinn og táinn, a) um föt: Ofte er deiligt Hjerte under p. Kaabe (sb. opt er dyggð undir dökkum hárum), orðskv. — b) um mann, tötrugur (Fas.): Pjaltede Tiggere.
Pjaltetorv leppatorg (þar sem leppar eru seldir).
pjaske, h. s. 1, [sb. pjaskn-st], sulla, (sb. busla): P. i Maden.
Pjasken, án n., sk., það að pjaske (sull).
Pjaster, sk., a) spænskur peningur á verð við speslu. — b) tyrkneskur silfurpeningur (í milli þriggja og fjögra marka að verði).
pjatte, h. s. 1, [sb. pati], (í tali), bulla, þvaðra, eða þvíuml.
pjuske sjá pluske.
*Placat, n. -er, sk., a) auglýsingarskjal (sem fest er á múr eða þvíuml.). — b) opið (stjórnar)brjef.
*placere, ás. 1, setja e-ð (á e-n stað), koma e-u fyrir (á e-m stað).
Pladder, án fl., kl., a) = Dynd; (einnig) lepja, eða þvíuml. — b) þvaður, þvogl, rugl, bull.
pladderfuld fleytifullur.
Pladdermund só sem alórei getur þagað.
Pladderpose = Pladdermund.
pladdre, ás. 1, a) p. noget sammen hræra e-ð (sem þunnt er) saman. — b) (einnig pjaddre), þvaðra, þvogla, rugla, bulla.
plade, ós. 1, (sjaldh.), leggja (e-ð) þynnu, leggja þynnu á. — b) slá þynnur úr (e-u): Pladet Kobber.
Plade, n. -r, sk., [sb. pláta], þynna (of málmi), þunn hella (af steini), flaga (af steini eða — sb. Beenplade — beini). — b) plata: „Min P., mit Pandser, mit Glavind, mit Skjold". — c) = Lyseplade.
Pladeguld gull í þynnum.
Pladehammer járnsleggja sem málmur er heltur út með.
Pladejern járn í þynnum.
Pladekobber eir í þynnum.
Pladeovn ofn úr járnþynnum.
Pladepandser brynja úr smá-málmþynnum sem eru eins og hreistur.
Pladeslager (optar Plattenslager), kk., sá sem beitir út málma.
Pladeværk e-ð sem gjört er úr málmþynnum.
Plads, n. Pladse og Pladser, sk., [pláz, Stjórn], 1) eiginl., a) rúm, (pláss): En tom P. autt rúm. Finde P. komast fyrir. — Det tager ingen P. op það fer ekkert fyrir því. Give (gjøre, vige sin) P. for een rýma fyrir e-m. — β) einkum = sæti: Dette er min P. Tage (optage) en P. for en anden taka sæti handa öðrum (svo að hann geti sest þar þegar hann kemur). — b) vígvöllur: Romme Pladsen leggja á flótta. Beholde Pladsen (sb. Brjánn fèll ok hèlt velli). — c) svið, svæði: Torve og offentlige Pladse. En fri P. autt svæði. Sb. Legeplads. — d) stæði (sb. Haveplads). — e) (einkum hjá kaupmönnum), borg, staður, kaupstaður, eða þvíuml. Sb. Handelsplads. — 2) óeiginl., a) hlutskipting: P. i et Jomfrukloster. — b) embætti, starf, sýsla: Denne P. er endnu ikke besat. — c) være paa sin rette P. vera það sem maður er bezt til fallinn.
pladse, h. s. 1, (sjaldh.) = pladske.
Pladshjort só hjörtur sem rekur alla hina burt í brundtíðinni.
Pladsk, n. eins, kl., skvamp (B. H.).
pladske (har), h. s. 1, a) skvampa. — b) busla: P. i Vandet.
*Pladsmajor sá sem er settur yfir varðhöld í kastala.
Pladsmester sá sem vísar mönnum í sæti.
Pladsregn = Skylregn.
*Plafond (líka ritað Platfond), sk., ræfur.
Plag, n. -e, sk., trippi á öðru ári.
Plage, n. -r, sk., a) þjáning, kvöl, kvalræði, bágindi: Søvnløshed er en stor P. — b) raun = skapraun, armæða: Han er mig kun til P. hann er mjer ekki nema til armæðu, jeg hef ekki annað enn armæðu af honum. — c) drepsótt.
plage, ás. 1, fara illa með, þjá, pína, kvelja, ama e-m: P. een for noget vera að særa e-n (nauða á e-m) um e-ð.
Plageaand eiginl. óhreinn andi sem pínir e-n; (þar af) e-r sem allt af er að ásækja annan.
Plagefoged umsjónarmaður (eða skattaheimtumaður eða þvíuml.) sem níðist á undirmönnum sínum.
Plagegudinde = Furie a, (píslanorn).
Plageliv aumt líf: I disse Aar førte han et sandt P. það var auma lífið sem hann átti þau árin.
Plagen, án n., sk., það að plage.
Plager, n. -e, kk., sá sem kvelur (o. s. frv.) aðra.
*Plageri, n. -er, kl., ami, eða þvíuml.
Plagested armæðustaður.
*Plagiarius, kk., ritþjófur; bragþjófur.
*Plagiat, kl., ritþjófnaður; bragþjófnaður.
*Plaid, sk., skozk yfirhöfn (blint?, blias?).
*plaidere, ás. 1, flytja (mál í dómi).
*Plaine, n. -r, sk., flöt(ur), sljettur völlur.
*Plaisir (sem Danir framberu optast nær Plaseer), sk., gaman: For P. að gamni sínu (mínu, o. s. frv).
Plan, n. -er, sk., a) flöt(ur; sb. flatlendi), flatneskja, flesjar, sljetta, grund, völlur, hall. — b) ætlun (sb. sú ætlan, sem áðr var sett um atlöguna), fyrirætlun, tilætlun (Hkr. II, 94), ráðaætlun, ráð, áform: Han havde lagt Planen til dette Felttog lagt niður (sagt fyrir), hvernig haga ætti þessari herferð. Udkaste en P. til et Foretagende leggja ráð á um e-a fyrirætlun. Gjennemskue eens Planer sjá hvað e-r ætlar sjer.
*Planche, n. -r, sk., eirspjald með skrifaðri mynd; eirskrifuð mynd.
*Planeerhammer áhald sem vættur pappír (sb. planere b) er barinn með þegar hann er þornaður aptur.
*Planeerpresse þröng sem vættur pappír (sb. planere b) er fergður í til að ná úr honum nokkru af vætunni.
*Planeertrug ílát sem pappírsvatnið (sb. Planeervand) er haft í.
*Planeervand pappírsvatn (vatn sem lím og álún er saman við og pappír er dýft í til að bæta hann).
*planere, ás. 1, a) sljetta: P. en Grund. — b) væta (pappír) í vatni sem lím og álún er saman við (til að bæta hann), bæta (pappír).
*Planet, n. -er, sk., pláneta, reikandi stjarna, gangstjarna.
*Planetaar sá tími sem líður meðan e-r pláneta gengur hring sinn.
*Planetbane plánetubraut, plánetuhringur.
*Planetsystem, kl., þær plánetur sem ganga í kring um sömu sól.
*Planimetrie, sk., flotmálsfræði.
planke, ós. 1, i p. ind = indplanke.
Planke, n. -r, sk., langt og þykkt borð.
Plankebro brú úr borðviði.
Plankebygning hús (eða e-l þess konar mannvirki) úr borðviði.
Plankedæk þilfar úr borðviði: Et P. paa en Baad.
Plankehoved borðs-endi er út stendur.
Plankelag borð sem eru hvert ofan á öðru eða hvert við hliðina á öðru: P. i et Skib.
Plankesav sög sem borð eru söguð með úr trjóm, flettisög.
Plankeværk skíðgarður.
planløs sem engin ætlun (ekkert ráð, ekkert vit) er í, ráðleysislegur.
planmæssig, n. -e, e., með ráði gjörður.
*Plantage, n. -r, sk., staður þar sem ýmsar plantanir eru gróðursettar (sjer í lagi um þá gróðurstaði sem norðurálfumenn eiga í vestureyjum og á Indlandi).
plante, ás 1, rótfesta (t. a. m. trje, 677), setja (plöntu) í jörð, gróðursetja: P. Træer (Blomster). — Óeiginl.: P. Dyd og Fromhed i de Unges Hjerter. — b) setja, eða þvíuml.: P. Fanen i Jorden setja niður merkisstöng. P. Kanoner paa en Vold flytja upp fallbissur á vígveggi (og koma þeim þar fyrir).
Plante, n. -r, sk., a) jurt, (sb. gras, eins og títt er að hafa það orð). — b) (hvers konar) planta, plöntun (Stjórn).
Planteaftryk mót eptir plöntu.
planteagtig, n. -e, e., sem er líks eðlis og planta.
Plantebed sáðreitur.
Planteborger = Colonist.
Plantedeel plöntupartur: Jord af raadnede Plantedele.
Plantedyr (kvikindi sem næst eru plöntum að eðli sínu) *zoophyta*.
Plantefarve litur sem tekinn er úr plöntum.
Plantefro plöntufræ.
Plantefode fæða af plöntum.
Plantegaard laukagarður.
Plantegreen kvísl (kvistur) sem gróðursett(ur) er.
Plantehave = Plantegaard.
Plantehul hola sem planta er sett ofan í þegar hún er rótfest, rótarhola.
Plantehuus hús sem plöntur eru ræktaðar í, gróðrarhús: „Disse Træer kunne blot haves i varme Plantehuse".
Plantejord, a) jörð sem ekki er nema rotnaðar plöntur. — b) jörð til að gróðursetja í.
Plantekjender sá sem þekkir vel plöntur: Han er en god P., uden at være lærd Botaniker.
Plantekonst sú kunnátta að gróðursetja.
Plantekul kol af plöntum, viðarkol.
Plantekundskab plöntuþekking.
plantekyndig vel að sjer í grasafræði.
Plantelag lag af plöntum: P. i Moserne.
Plantelegeme plöntulíkami.
Planteliv sú tegund af lífi sem er í plöntum.
Plantelære = Botanik.
Plantemaade það hvernig farið er að gróðursetja.
Plantemaler plöntumálari, grasamálari.
Plantemester umsjónarmaður yfir gróðursetningu.
Plantemuld = Plantejord.
Plantenavn plöntunafn.
Plantenæring, a) = Plantefode. — b) það sem plöntur nærast af.
Planteolie feiti úr plöntum.
Plantepind spýta sem við er búið þegar verið er að gróðursetja.
Planter, n. -e, kk., sá sem gróðursetur.

— b) eigandi gróðurstaðar (sb. Plantage): En P. i Vestindien.

planterig grösugur, grasgefinn, frjór (um jarðveg).

Planterige allar plöntur.

Plantesaft plöntusoli.

Plantesalt eins kanar salt úr ösku af plöntum.

Plantesamler sá sem safnar jurtum.

Plantesamling plöntusafn.

Planteskole gróðrorstaður (staður þar sem ýmiss kanor plöntur eru gráðursettar; sb. oldiogarðor, laukagorðnr). — Óeiginl.: „Opdragelsen er denne gjensidige Velvillies P." þessi gáðvild hverra til annara er undir uppeldinu kamin. — b) skóli.

Planteskud gróðrarangi (sem er að spretta út úr plöntu).

Planteslim eins kanar slepja í plöntum.

Planteslægt plöntukyn: Det er en Egenhed ved denne P.

Plantestad nýlenduborg.

Plantested staður til gróðursetningar; staðnr þar sem e-ð er grúðursett. — b) nýlenda.

Plantesteen steinn sem mót eptir plöntu er á.

Plantestok spýtu sem við er böfð þegar verið er að gróðursetja.

Plantesyre sýra í plöntum.

Plantesøvn plöntusvefn.

Plantetid tíð til gráðursetuingar.

*Planteur, n.-er, kk., = Planter b.

Planteverden allt plöntukyns.

Plantevæxt plöntuvöxtur, (sb. grasvöxtur). — b) vaxandi plóntur (á e-m stað): En rig P.

planteædende, [sb. æde], sem oærist við jarðsrávöxt: P. Dyr (sb. grasbitur).

Plantning, sk., það að plante (gróðursetning, rótfesting). — b) staður þar sem e-ð er gróðursett; það sem gróðursett er á e-m stað: En P. af unge Grantræer.

Plaster, n. Plastre, kl., [plástr, 655 XXX], plástur: Lægge P. paa Saaret.

Plasterbei bnoðaður plástur áður eon baun er dreginn í.

Plasterdug rýja (pjatla) sem plástur er dreginn í.

Plasterstryger, sk., áhuld til að draga plástur í með.

*Plastik, sk., sú list að gjöro líkneskjur með því að bnaðu eða kloppa o. s. frv.; (einnig) sú list leikara að bafa allar líkamshreifingar samkvæmar skapi þess eða geðsbræringum sem leikinn er.

*plastisk, n. -e, e., sem beyrir til myndagjärðar; sem er með skírri mynd ag vel viðurkvæmilegri; o. s. frv.

plastre, ás. 1, leggja plástur (plástra) á.

plat, 1) n. -te, e., a) (í tali), flatur, sljettur: Det platte Land sljettlendið. — b) (um arðatiltæki, eða þviuml.), hverudagslegur, auðvirðilegur, rustalegur, (sb. dónalegur), klúr: Et p. Udtryk. Platte Talemaader. En plump eller p. Charakteer. — c) (sjaldb.), hreinn og beinn. — d) (sjaldb.), sem liggur í augum uppi. — 2) sem aa., með öllu, öldungis, alls kostur: Sige sin Mening p. ud hreint og beint.

*Plateau, sk., = Høislette, Bjergslette; a. s. frv.

*Plateforme, sk., flatt þak. — b) (til búin) sjdnarhæð (sem er flöt ofan).

Platfiil eins konar lítil þjöl (sem höfð er við skrár ag lása).

Platfisk, a) flatir fiskar (Sn. E.), *pleuronectes*. — b) barður fiskur.

platfodet, n. -fodede, e., sem engin halil er á: Platfodede Dyr.

*Platfond sjá Plafond.

Plathed, sk., það að vera (eða: það sem er) plat 1, b.

Plathoveder, n., eins konar smár saumur (smáir naglor) með flötu ag stóru höfði.

*Platin (einnig Platina), sk., gráleitur málmur sem bæði er þyngri ag dýrri enn gull, (bvítagull, G. O., P. Þ.).

*Platina sjá Platin.

*Platitude, n. -r, sk, klúrt orðatiltæki.

Platlæder sljett leður (sem engiu bárhamslíking er búin til á).

platnæset, n. -næsede, e., = fladnæset.

*platonisk, n. -e, e., sem lýtur að Platóo heimspekingi: P. Kjærlighed fýsnarlaus ást, andlegar ástir (G. O., P. Þ).

Plattenslager sjá Pladeslager.

Platting, n. -er, sk., eins kanar skipstaug.

plattydsk sem lýtur að þeirri mállýzku sem töluð er af olþýðu um norðurhluta þjóðverjalands: En p. Ordbog. Det Plattydske = Plattydsk. — II) sem nafo er Plattydsk = sjálf mállýzkan er nú var nefnd: Tale Plattydsk.

*plausibel, n. plausible, e., áheyrilegur.

*Plebeier, n. -e, kk., maður sem ekki er lendbariun, maður af lágum stigum.

*plebeiisk sjá plebeisk.

*plebeisk (einnig plebeiisk), n. -e, e., ekki lendbarinn, ættsmár.

*Pleiader, n., = Syvstjerne(n).

pleie (har), h. s. 1, vera vanur: Han pleier daglig at ride. Tag saameget, du pleier.

pleie, ás. 1, hjúkra e-m: P. en Syg. — b) = haandhæve: P. Retten.

Pleie, án n., sk., hjúkrun, aðhjúkrun, þjónustu, o. s. frv.: Den Gamle (Syge) behøver omhyggelig P. — b) = Haandhævelse: Retlens P.

Pleieamme = Goldamme.

Pleieanstalt = Pleiestiftelse.

Pleiebarn, a) uppeldisbaro, tökubarn. — b) barn í uppfæðsluhúsi.

Pleiedatter uppeldisstúlka.

Pleiefader fóstri = fósturfaðir.

Pleieforældre fósturforeldrar.

Pleiehuus (bjúkrunarbús), spítal, spítali.

Pleiel, n. -er og Pleiler, sk., þustur (Fms. XII).

Pleielhilde þust-ál.

Pleielæge læknir sem vitjar fátækra sjúklings sem ekki kamast í spítala ag fær kaup fyrir það úr breppssjóðnum.

Pleiemester farmaður spítals eða uppfæðsluhúss.

Pleiemoder, a) fóstra = fósturmóðir (Stjórn). — b) umsjónarkanu í uppfæðsluhúsi.

Pleiestiftelse, a) uppfæðslubús. — b) = Pleiehuus.

Pleiesøn fóstri (farot) = fóstursonur (sb. Fosterson).

Pleievæsen alli sem lýtur að spítölum eða uppfæðslubúsum.

*Plenar-, sem fremri liður í samsettu orði, í sömu merk. ag fuldtallig, t. a. m. Plenarmøde fuodur sem allir koma á.

*Plenarium, kl., a) helgidómastokkur eins ag bók í lögun. — b) bók sem öll guðspjöllio og allir pistlarnir eru í.

*Plenipotentiaire, kk., sendiherra með fullu umboði.

*Pleonasmus, sk., ofmæli (P. Þ.), málalenging, (sb. hégómleg viðrlagning eðoar sagnar yfir þat fram, sem fullu máli heyrir, Sn. E.).

*pleonastisk, n. -e, e., sem er yfir það fram er fullu máli beyrir (sb. Pleonasmus).

*Plesiosaurus, sk., undorlegt forndýr með furðanlega smáu hüfði ag eins löngum hálsi ag búkuiun er.

Plet, n. -ter, sk., [sb. blett-r?], blettur, flekkur, a) = díli, depill: En rød P. i Huden. — En P. Jord dálítið petti. — Nu ere vi paa Pletten á sjálfum stoðnum. — b) = ljóður, (sb. galli, anmarki, ankanai; o. s. frv.): En Død uden Pletter.

pletfri flekklaus.

*Plethi sjá greinino um Krethi.

Pletkugle kúla af sápo til að taka bletti úr fötum með.

Pletleer (einnig Pletteleer) eins kanar leir sem hofður er til að taka bletti úr fötum með.

Pletsæbe eins kooar sápn til að taka bletti úr fötum með.

plette, s. 1, 1) ás., a) eiginl., setja blett(i) á, (sb. káma, ata): P. sine Klæder. — b) áeiginl., flekka: Ved denne Handling plettede han sit Rygte. — 2) b. s., fá bletti: Dette Tøi er let til at p.

Pletteleer sjá Pletleer.

*plettere, ás. 1, næfra (e-ð) með silfri = leggja næfurþunnt silfur á (e-ð, til prýðis).

Pletteskrædder skraddari sem teknr blettl úr fötum ag bætir þau.

Plettetal, í orðatiltæk. i P. = plettevüs.

pletteviis, ao., í blettum (blettor bjer og hvar): Kornet staaer p. ret godt paa denne Mark.

Pligt, n. -er, sk., skylda: Efterkomme (forsømme, svigte) sine Pligter rækja (vanrækja) skyldur sínar. — 2) úreltar merkingar, a) líkt ag særi, í orðatiltæk. Ed og P. — b) líkt ag iðrun, í arðotiltæk. P. og Bod iðrun og yfirbót. — c) hegning.

Pligt, sk., stafnpallur (pallur í framstafoi á skipi) — b) = Pligtanker.

Pligtanker stærsta akkeri á skipi, (meginakkeri).

Pligtarbeide skylduverk, skyldarsýsla (Skuggsjá), skyldarembætti (Skuggsjá).

Pligtarbeider só sem vinnur e-t skylduverk: Pligtarbeidere, frivillige Arbeidere.

Pligtbegreb hugmynd um skyldu.

Pligtbud baðorð skyldunnar, skylda.

Pligterkjendelse það að kannast við skyldu sinu.

pligtfri skyldulaus.

Pligtfølelse það að finna til skyldo sinnar.

Pligthugger, kk., stafobúi (á skipsbát).

pligtig, n. -e, e., skyldugur, skyldur.

Pligtlære skyldnfræði.

pligtmæssig, n. -e, e., samkvæmur skyldu.

Pligtsfoged = Pligtskarl.

Pligtsfolk, n., fólk sem vinour e-t skyldoverk eða e-a kvöð.

Pligtsgjerning = Hoveri.

Pligtskarl sá sem settur er yfir það fólk sem er að vinna e-a kvöð.

pligtskyldig (sjaldb.), a) = pligtig. — b) skyldulegur (sb. vár skyldulegábyggja, 655 XXXII).

pligtstridig gagnstæður skyldu.

Pligttoug streugur stærsta akkerisins.

pligtvillig fús að rækjo skyldu sína.

Pligtydelse skyldarreiða.

pliiröiet píreygður.

Plire, n. -r, sk., rauður flekkur á börundi.

plire (einnig blire), b. s. 1, gera sig píreygðan.

Pliren, án n., sk., það að plire.

*plombere, ás. 1, a) setja innsigli úr blýi fyrir (e-ð). — b) fylla (bola tönn) með blýi.

Plov, n. -e, sk., [plóg-r], plógur, arður: Trække P. draga arður. Hestene gaae i P. eru bafðir til plógdráttar. — Hans P. gaaer godt líkt og hann græðir á tá og fingri. — b) (sumstaðar), svo mikið land sem kamizt verður yfir að erja með einum plógi.

Plovaas lengsta spýtan í plógi.

Plovarbeide araing.

**Plovaxel** öxull i plógi.
**Plovbræt** = Muldfjæl.
**Plovdreng** piltur sem stýrir hestunam fyrir þann sem plægir.
**Plovdrift** nrning.
**Plovdriver** sá sem stýrir hestum fyrir plógi.
**Plovdræt** einn partur af hjólplógi sem dregina er af fjórum hestum.
**Plovdyr** skepna sem höfð er til að draga plóg (optast hross eða naut).
**Plovfjæl** = Plovbræt, Muldfjæl.
**Plovfolk**, ft., fólk sem er að erja (= plægja).
**Plovfred** friðhelgi þeirra sem eru að arningu eða öðru akurverki.
**Plovfure** arðurfor (Stjórn).
**Plovfællig** það að hafa plóg suman: Være i P. sammen.
**plovfør** fær um að draga plóg: En p. Hest (Oxe).
**Plovgang** plóggangur: Kjøre P. aka (svo) hægt (eins og maður sje að plægja).
**Plovgilde** það að maður gefur vinnufólki sinu betra mat enn vant er þegar lokið er arningu, (sb. töðugjöld, slægjur).
**Plovgreb** handarhald (sb. Fas. II, 355) á plógi.
**Plovhammel** þverspýta á framanverðum plógi.
**Plovhandel** = Plovgreb.
**Plovhest** plóghestur.
**Plovholder**, kk., = Plovmand.
**Plovhoved** (einnig Plovshoved) = Plovlob.
**Plovhugger**, kk., sá sem telgir trje í plóg.
**Plovhøvl** gróp-lokar. Sb. Fughøvl, Naadhøvl.
**Plovjern** plógjárn (Fms., Skuggsjá), arðurjárn (Stjórn): Et Sæt P. ein plógjárn (þ. e. bæði járnin sem höfð eru í einn plóg). — b) = Langjern.
**Plovkarl**, [plógkarl], sá sem plægir eða stýrir eykjum fyrir plógi.
**Plovkiste** partur af plógi.
**Plovkjep** áhald sem plógkarlinn hefur til að hreinsa plóginn með.
**Plovkjører**, kk., = Plovdriver.
**Plovkjoring**, kk., = Plovdreng.
**Plovkniv**, a) = Haandplov. — b) (fornl.), = Plovjern.
**Plovkærre** fremri partur plógs með hjólunum. Sb. Forkærre, Forplov, Forrede 2.
**plovlam** sem hefur öngva eða dnýta hesta til að erja með.
**Plovland** = Ploieland.
**Plovlav**, kl., = Plovfællig: Være i P. sammen.
**Plovlegeme** meginhluti plógs.
**Plovlob** sú spýta sem neðst er í plógi og aptara plógjárnið er sett í.
**Plovmand** plógkarl (Skuggsjá), plógari (Stjórn).
**Plovoxe** arðuruxi.
**Plovredskab** arningar-áhald.
**Plovret** rjettur ábúanda til að yrkja jörð eptir því sem honum sýnist haganlegast.
**Plovrulle** einn partur(inn) af plógnum.
**Plovrydde**, sk., verkfæri til að hreinsa plóg með.
**Plovshoved** sjá Plovhoved.
**Plovskat** skattu  í plógi hverjum.
**Plovskær** apta a plógjárn(ið; hið fremra er kollað Langjern)
**Plovspilde** skemmdir á arningar-áhöldum.
**Plovstav**, a) (eins konar) bestastafur (sem hafður er þegar verið er að plægja), — b) = Plovkjep, Plovrydde. — c) áhald er stundum er stungið í plóginn til að geta stýrt hanum betur.
**Plovstjert** hondarhald (Fas. II, 355) á plógi (einkum hið hægra).

**Plovstrimmel** = Ploiestrimmel.
**Plovstud** = Plovoxe.
**Plovstyrer** = Plovmand.
**Plovsule** einn partur(inn) of plógnum.
**Plovtist** festi i plógi.
**Plovtøi** arningar-áhöld.
**plovvant**, [sb. vænne], vanur við að draga plóg: En p. Hest.
**Plovvending** það að snúa plógi við (þegar komið er að akurs-jaðri).
**Plovvise**, sk., = Plovkjep.
**Pludder**, án ft., sk., for, leðja, forarleðja. — 2) þvogl, þvaður, þvættingur, rugl, bull, (sb. vaðall).
**Pludderdynd** = Pludder 1.
**Pluddermund**, kk., þvoglari.
**pluddermundet**, ft. -mundede, e., = pluddervorn.
**Pluddertørv** = Æltetørv.
**pluddervorn**, a., gefinn fyrir að þvagla.
**pluddre**, a. 1, A) ás., (á Sjálandi), væta (mó, áður enn hann er hnoðaður): P. Torven. — B) h. s., þvogla, þvaðra, þvætta, rugla, bulla, (sb. vaða): Den ene pluddrer i Munden paa den anden það gargar hver framan í annan. — Barnet begynder at p. hjala.
**Pluddren**, án ft., sk., það að pluddre B.
**Pluddring**, sk., það að pluddre A.
**pludse**, h. s. 1, a) p. ned dengjast niður. — b) p. til álpast til (e-s): Han pludsede til at sige det það álpaðist fram (hvappaðist upp) úr honum.
**pludselig**, a) ft. -e, e., skyndilegur, hastarlegur, snöggur, (sb. sviplegur): En p. Overgang fra Glæde til Sorg. — b) sem aa., snögglega, skyndilega, hastarlega, allt í einu, þegar minnst (vonum) varir, (sb. sviplega): Han døde p. það varð snöggt um hann, hann varð bráðkvaddur.
**pludset**, n. pludsede, e., þrútinn: Han seer saa p. ud i Ansigtet.
**pludsfed** sem rær í spikinu, spikfeitur, spikaður, eða þvíuml.
**Pludsfedme** það að vera pludsfed.
**pludskindet**, n. -kindede, e., bólduleitur.
**Pluk**, ft. eins, kl., smá-rykkur. — I smaa P. í smá-snökkum, eða þvíuml.
**Plukgjeld** smá-skuldir (hingað og þangað).
**Plukister** mör sem reyttur er af netjunni og garnmörnum hjer og hvar.
**plukke**, ás. 1, [plokka], 1) túmt, a) plokka, reyta: P. Gæs. — b) lesa = tína: P. Nødder (Æbler). — 2) p. op a) reyta: P. Ukrud op af et Havebed. — b) tæja e-ð upp: P. Tougværk op. — c) skera (e-ð) í smábita til að velgja (eða sjóða) það upp aptur: P. Fisk (Steg) op.
**Plukkefisk** plokkfiskur.
**Plukkemad**, [sb. plukke 2, c], matur sem er skorinn í bita og velgdur (eða soðinn) upp aptur.
**Plukkeri**, kl., sífelld plokkun. — b) tíningur, samtíningur, rusl: Det P. vil jeg ikke tage med.
**Plukkesteg** steik sem er brytjuð og velgd upp aptur; (sb. smásteik, bitasteik).
**Plukketalg** (einnig Pluktalg) = Plukister.
**plukkeviis** sjá plukviis.
**Plukning**, ft. -er, sk., það að plukke.
**plukstjæle**, h. s., = smaastjæle.
**Pluktalg** sjá Plukketalg.
**Pluktyveri** hnupl.
**Plukuld** ull sem reytt er af gærum.
**Plukveer**, ft., smáverkir sem fara á undan ljettasótt.
**plukviis** (einnig plukkeviis), aa., smátt og smátt, í smá-snökkum: Stjæle p.

***Plumage**, sk., (á höfuðfati), fjaðrir, fjaðraskúfur.
**plump**, ft. -e, e., a) eiginl., óliðlegur; þunglamalegur; klúr; o. s. frv.: Plumpe Lemmer. Denne Snedker gjør sit Arbeide altfor plumpt klúrt. — b) óeiginl., frumtalegur, rustalegur, klúr, (sb. dónalegur): Være p. i sin Tale. En p. Spøg.
**Plump**, ft. eins, kl., a) skellur (á vatni): Det gav et stærkt P. — Einnig sem mo: P.! der laae han i Vandet. — b) (sjaldh.), fall (einkum í vatn).
**plumpe**, a. 1, 1) h. s., a) pompa: Han plumpede i Vandet. — b) p. til at gjøre noget álpast til að gera e-ð. — c) p. ud med noget fleipra e-u út úr sjer, (sb. e-ð hvappast upp úr e-m). — 2) ás., i p. noget sammen grauta e-u saman.
**Plumphed**, sk., a) án ft., það að vera plump (sb. rustaháttur, rustaskapur, dónaskapur). — b) með ft. -er, klúrt (u. s. frv.) orðatiltæki: Saadanne Plumpheder tillader intet veloпdraget Menneske sig.
**Plumphugger**, kk., (í tali), rusti, búri.
**plumre**, ás. 1, grugga (e-ð) upp: P. Vandet for Fiskene (svo hægra sje að veiða þá).
***Plural** (eða Pluralis), sk., fleirtala, (margfaldleg tala, Sn. F.).
***Pluralis** sjá Plural.
***Pluralitet**, sk., meiri hluti; allur þorri.
***plus**, e. i hvorugk., meira: 3 p. 2 (jafnaðarlega skrifað 3+2) 3 og (að auki) 2. — Sem kl. nafn er Plus afgangur.
**plusfe** (einnig pjuske), ás. 1, gera (e-ð) úfið eða ódátlegt: P. een i Haaret.
***Plusqvamperfectum**, kl., (í málfræði), sú tíð sem er á undan liðnum tíma.
**Plyds**, ft. eins, kl., eins konar vefnaður (uppistaðan úr lini, en ívafið annaðhvort úr silki eða úr hárinu af *capra hircus Angorensis*): En Plydses Kjole.
**plyndre**, ás. 1, ræna, (sb. raufa, Fms. XI, 380): Byen blev plyndret. Overfalde og p. en Reisende.
**Plyndren**, án ft., sk., það að plyndre.
**Plyndring**, sk, það að plyndre (rán, gripdeildir).
**Pløg** (einnig Plok), ft. -e, sk., trjetittur (til að negla e-ð með).
**Pløghul** gat fyrir trjetitti í hæla undir stígvjelum.
**Pløgsyl** alur sem skóarar bora með göt fyrir trjetitti.
**pløie**, ós. 1, [plœgja], 1) erja, plægja: P. en Ager. — P. til Rug velta jörðu til rúgs. — P. Jord fra en andens Ager erja sjer af annars akri. — P. ind paa en andens Ager fara arði á annars manns akur, erja sjer af annars akri. — P. om plægja vandlega; plægja upp aptur. — P. op erja (jörð) í fyrsta sinni; plægja (e-ð) upp (úr jörðu, t. a. m. disse gamle Mynter har en Bonde pløiet op paa sin Ager). — P. med en Andens Kalv erja með annars kvígu (sb. Stjórn). Orðskv.: Den kommer og frem, som pløier (einnig kjører) med Stude kemst, þó seinna fari. — b) óeiginl.: P. en Bog igjennem lesa bók frá upphafi til enda (með mikilli fyrirhöfn). — c) p. Bølgen o. s. frv. (sb. þú er ek reist, þá er ek renna gat, kaldan straum kili, kaldan sjá kili; o. s. frv.). — 2) grópa: P. et Gulv sammen grópa gólf saman (úr borðum). Et pløiet Gulv gólf sem borðin i eru grópuð saman, grópað gólf.
**Pløiedag** dags-arning: Denne Bonde maae gjøre 5 Pløiedage verður að erja fimm daga (fyrir aðra).
**Pløiehøvl** = Plovhøvl.
**Pløiejord**, a) akurland: Der er ikke megen P. til den Gaard. — b) akur (sem

verið er að plægja): Folkene ere ude paa Ploiejorden.

Ploieland land sem plægt er, akurland: Han har gjort en Deel af sin Engjord til P.

ploielig, ft. -e, e., plægjandi (= plægjanlegur): P. Jord.

Ploieløn arningar-kaup.

Ploiemark = Ploieland.

Ploiestrimmel garður (hryggur) á milli tveggja akurfora.

Ploietid sá tími þegar vant er að erja.

Pløining, sk., a) arning. — b) það að pløie 2.

Pløk sjá Pløg.

*Ploris, án ft., sk., (í tali), tak undir síðunni.

Plos, sk., (sjaldh.), þykk kinn.

plosfindet, ft. -findede, e., = pludsfindet.

Plosmund, kk., varaþykkur maður og búlduleitur.

plosmundet, ft. -mundede, e., varaþykkur og búlduleitur.

*Pocal, ft. -er, sk., bikar, (sb. kalkur).

*Podagra, sk., fótaveiki, fótaverkur. Sb. Fodsot.

*Podagrist, ft. -er, kk., sá sem hefur fótaveikl.

Pode, ft. -r, sk., a) lítið eikar-efni nýsprottið úr jörðu. — b) kvistur sniðinn af trje og ætlaður til gróðursetningar á öðru. — 2) (einkum í gamni), krakki, eða þvíuml.: Han har allerede tre haabefulde Poder.

pode, ás. 1, [sb. pota], gróðursetja (frjókvist af trje á öðru ófrjórra, til að bæta það).

Podekløft = Podesplit.

Podekniv eins konar snubbótt sveðja til að gera með skurði í trje sem annarlegir kvistir eru gróðursettir á.

Podemester sá sem kann að flutning frjókvista af einu trje á annað; aldinfágandi.

Podeqvist frjókvistur sem fluttur er af góðu trje á annað ófrjórra.

Podeskole sú deild aldingarðs þar sem ung aldintrja eru bætt með gróðursetningu annarlegra frjókvista (sb. pode).

Podesplit skurður í trje til að gróðursetja annarlega kvisti í.

Podestamme eikarbolur til að gróðursetja annarlega kvisti á.

Podested sá staður á trja sem annarlegur kvistur er gróðursettur á.

Podetid sá tími þegar frjókvistir eru fluttir á önnur trje.

Podetræ trje til að gróðursetja annarlegan kvist á.

Podevox vax með kvoðu úr *terebinthus* saman við sem drepið er á þann stað trjes þar sem annarlegur kvistur hefur verið gróðursettur.

Podning, sk., það að pode.

*Poem, kl., kvæði.

*Poesie, sk., a) án ft., = Digtekonst. — b) með ft. -r, skáldskapur, kveðskapur, skáldmæli, ljóðmæli, ljóð, kvæði, samföst orð (Fms.).

*Poet, ft. -er, kk., skáld: En elendig P. leirskáld.

*Poetik, sk., kveðskaparfræði, (sb. Skálda).

*poetisk, ft. -e, e., sem lýtur að skáldskap, sem er í skáldskap, skáldskapar-: Poetiske Skrifter skáldmæli. — b) skáldlegur.

Pog, ft. -e, kk., [púki], strákur, (strák-) hvæplingur, (sb. piltur, piltungur, naggur).

*Point, kl., (eiginl. punktur), eitt (af e-u).

Pokkenholt, án ft., kl., trjeð úr eikinni *guajacum officinale*.

Pokker, kk., [sb. pukra], grefill, (sb. Fanden). — Einkanl. tíðkast eig. ef. Pokkers, ýmist sem nokkurs konar e., (en Pokkers Støi skrambans hávaði, blótaður hávaði), eða sem nokkurs konar ao., (en Pokkers rask Pige skollans ötul stúlka).

Pol, ft. -er, sk., öxul-endi. — b) heimskaut, himinsskaut.

*Polak, a) ft. -ker, kk., Sljettumaður (pólskur maður). — b) sk., (í tali), leifar í staupi eða tóbakspípu.

*Polarbjørn = Iisbjørn, Hvidbjørn.

*Polarcirkel, sk., = Polkreds.

*Polarhav = Iishav.

*Polaritet, sk., það eðli að snúast (leita) til heimskauta. — b) gagnstaðleikur tveggja hluta sem þó eiga saman.

*Polarkreds = Polkreds.

*Polarstjerne = Polstjerne.

*Poleerbørste (einnig Polerebørste), busti til að fægja með (þ. e. núa e-ð með svo að það verði skyggt).

*Poleerfiil þjöl til að fægja með málma, (fægiþjöl).

*Poleerhammer hamar sem málmar (einkanl. eir) eru sljettaðir með.

*Poleerjern járn sem haft er til að fægja e-ð með.

*Poleerkugle kúla sem fægt er með, (fægikúla).

*Poleermølle fægimylna.

*Poleerpulver fægiduft.

*Poleersand fægisandur.

*Poleerskive fægikringla.

*Poleersteen fægisteinn.

*Poleertøi áhöld til að fægja með.

*Polemik, sk., þrætur (á prenti), bóklegar deilur.

*Polemiker, ft. -e, kk., sá sem á í þrætum á prenti.

*polemisere, h. s. 1, þræta á prenti.

*polemisk, ft. -e, e., sem lýtur að þrætum á prenti.

*polere, ás. 1, fægja, fágn: Poleret (skyggt) Staal. — b) óeiginl.: En poleret (kurteis) Nation. Polerede Sæder kurteisi í háttalagi. — Einnig er poleret líkt og slægur, sjeður, kænn, slunginn.

*Polerebørste sjá Poleerbørste. o. s. frv.

*Polerer, ft. -e, kk., sá sem fægir. — b) (hjá steinmeisturum og timbursmiðum) = Mestersvend.

*Polering, sk., það að polere.

Polhøide sá bugur hádegisbrings sem er á milli sjóndeildarbrings og heimskautsins.

*Police, ft. -r, sk., ábyrgðarbrjef.

*polisk, ft. -e, e., slægur.

*Politesse, sk., kurteisi. — b) (í tali), slægð.

*Politie, án ft., kl., lögregla; lögreglumenn.

*Politieanordning tilskipun um lögreglu.

*Politiebetjent hver af hinum minna háttar lögreglumönnum.

*Politiebud sendimaður lögreglumanna.

*Politiedom lögregludómur.

*Politieforhør rannsókn af hendi lögregludómanda.

*Politiefængsel fangelsi sem maður er látinn í fyrir lögreglubrot.

*Politiehaand (fyrrum), hlutur sem lögreglumenn höfðu á sjer til jarteina og var eins og hönd í lögun.

*Politiekammer hús þar sem gert og dæmt er um lögreglumál.

*Politiemester æðsti lögreglumaður.

*Politieret, a) dómur sem dæmir um lögreglumál. — b) lög og tilskipanir um lögreglumál.

*Politiesag lögreglumál.

*Politiesegl lögreglu-innsigli.

*Politiesoldat, ft. -er, kk., vopnaður lögreglumaður.

*Politietegn einkennismark lögreglumanna. — b) mark sem fæst hjá lögreglumönnum.

*Politievidenskab lögregluvísindi.

*Politievæsen (öll) lögregla (og allt sem þar að lýtur).

*Politik, án ft, sk., (land)stjórnarfræði: Indvortes og udvortes P. — b) stjórnaraðferð: Englands P.

*Politiker, ft. -e, kk., landstjórnarmaður, (land)stjórnarvitringur.

*politisere, h. s. 1, ræða um landsins gagn og nauðsynjar, ræða um landstjórn.

*politisk, ft. -e, e., sem lýtur að ríkisstjórn. — b) kænlegur.

*Politur, án ft., sk., gljái. — b) óeiginl., kurteisi.

*Polka, sk., eins konar danz.

Polkreds hjólgaddshringur.

*Pollution, ft. -er, sk., njórunardrop (B. H., G. O.).

*Polonaise, sk., eins konar pólskur danz, eða log sem hann er danzaður eptir.

polsk, ft. -e, e., pólskur: P. Pas eins konar spil, (pólspassi).

Polstjerne leiðarstjarna.

*Poltron, kk., = Kujon.

*Polygamie, kl., það að eiga fleiri enn eina konu eða fleiri enn einn mann í senn, (fjölkvæni — G. O., P. Þ. — er ekki nógu yfirgripsmikið).

*Polygon, sk., marghyrningur (mælingamynd sem hefur fleiri enn fjögur horn).

*Polygynie, kl., fjölkvæni.

*Polyp, ft. -er, sk., eins konar dýrakyn sem líkist plöntum. — b) eins konar mein, (kvikur?).

*Polytechniker, ft. -e, kk., fjöllistamaður.

*Polytheismus, sk., það að trúa á marga guði.

*Polytheist, ft. -er, kk., sá sem trúir á marga guði.

*Pomade, sk., hársmyrsli.

*Pomerants, ft. Pomerantser, sk., eins konar gult aldin eins og epli í lögun.

Pommer sjá Pommeraner.

*Pommeraner (einnig Pommer, Pommerer), ft. -e, kk., maður í Pommern.

Pommerer sjá Pommeraner.

Pommern, kl., hjerað á norðanverðu Þjóðverjalandi.

pommersk, ft. -e, e., sem heyrir til Pommern.

Pomp, án ft., sk., viðhöfn, (sb. pris).

pompe, ás. 1, ausa (e-ð) með dælu: P. Vandet af en Kjelder. P. en Brønd lens þurausa brunn með dælu. — b) p. Luften ud soga loptið út (með loptsugu).

Pompe, ft. -r, sk., dæla.

Pompebor dælunafar.

Pompedrag dælusog.

Pompeemmer, sk., = Pompesko.

Pompehjerte dæluspeldi.

Pompehjul dæluhjól.

Pompekrave tjargaður segldúkur utan um dælu á skipi.

Pompekrog krókstöng úr járni til að draga upp með byttuna úr dælu þegar gjöra þarf að henni.

Pompekurv eins konar eirlegging um skipsdælu neðanverða.

Pompemester sá sem er settur til að sjá um dælu.

Pompemølle austurmylna.

Pomperedskab áhald sem heyrir til dælu.

Pomperende stokkur sem vatnið rennur í úr dælumunna.

Pompering járngjörð utan um dælu.

Pomperør hol(ið) í dælu(nni).

Pompeskive leðurkringla á dælubyttu.

Pompesko dælubytta.

Pompeslag = Pompedrag.

gervar; Karl lætr gera heani laug). — d) r. een ilde til leikn e-n illa. Sb. tilrede. — e) r. et Skib ud búa skip; sb. udrede b. — f) r. en Seng (einnig r. en Seng op) búa um rúm. — g) búa (e-n góðum klæðum): R. en Brud. Sb. pynte. — h) r. sit Haar greiða sjer. — i) r. noget fra sig koma e-u af; losnst (losa sig) við e-ð. — R. sig ud af noget smeygja sjer út úr e-u: R. sig ud af sin Gjeld koma sjer úr skuldum. — 2) sem b. a., a) r. for sig standa í skilum, gjöra skil, (sb. skilgóður, skilríkur). — b) r. under sig búa um sig. — c) r. til Barsel; sb. Barsel 2.

rede, ft. eins, e., [sb. reiða], a) búinn e-s, (sb. albúinn e-s, baðinn og búinn); til búinn, sem er til taks; reiðubúinn, sem er til reiðu: Være r. til noget. Gjøre sig r. búast. Alting er r. Have noget paa r. Haand; sb. Haand A, 2, a. R. Penge reiðupeningar (sb.: þá skulu þeir taka í reiðu peningum — einnig reiðum peningum — XV merkr af konungs garðe, N. g. L. II, 446). R. Sølv mátað silfur, silfurpeningar. — b) beinn, greiður: Den redeste Vei. — Óeiginl.: „En r. og klar Sag".

redebon, ft. -ne, e., [reiðubúin-n], búinn e-s, fús á e-ð: R. til noget.

Redebonhed, án ft., sk., greiðfýsi (P. Þ.), fúsleiki (P. Þ. — Sb.: hafa allt á takteini, og þvíuml.).

Redebygning hreiðurgerð.

Rededeie, kvk., (úrelt), ráðskona, bústýra.

Redefugl fugl sem liggur á eggjum, eggfugl.

Redehøne hæna sem liggur á eggjum.

Redekam hárgreiða.

Redekone (úrelt), = Pyntekone.

redelig, [sb. reiðulig-; sb.: lúka reiðuliga kirkjunni áðr greint lán, á ísl. skjali 14. aldar], 1) ft. -e, a., a) (úrelt), líkt og alminnilegur, sæmilegur, góður. — b) skír; greiður: Den Sag er r. nok. — c) vandaður, ráðvandur, valinkunnur, (sb. frómur; skilgóður, skilríkur, skilvænn, skilvís): En r. Mand (Kjøbmand, Embedsmand). — Einnig um hegðun og athafnir: R. Handlemaade ráðvendni í hegðun. — d) einlægur, frómlundaður, hreinskilinn. — 2) sem aa., a) skírt, greinilega: Læse r. — b) ráðvandlega. — c) einlæglega, frámt.

Redelighed, án ft., sk., a) (úrelt), = Billighed. — b) ráðvendni (f. ráðvendi). — c) einlægni, frómlyndi, hreinskilni: Hjertets R.

redeløs, [sb. reiðileysi], (úrelt), sem ekki hefur gjört skil.

Reder, ft. -e, kk., sú sem gerir út kaupskip.

Rederi, ft. -er, kl., (skips)útgjörðarmaður, eða (skips)útgjörðarmenn.

Redeskyld (úrelt), skattar og skyldir (sem greiða á).

Redesvend (fyrrum), ráðsmaður.

Redeæg egg í hreiðri.

*redigere, ás. 1, koma fyrir greinum í e-u riti (einkum tímariti): Det (þ. e. tímaritið) er godt redigeret það er vel frá því gengið.

redmælet, ft. -mælede, e., (úrelt), skírmæltur.

Redning, ft. -er, sk., það að redde (björg; lífgjöf): Han er uden R. honum er ekki líft, eða þvíuml.

Redningsanstalt tilbúningur til að bjarga mönnum

Redningsbaad eins konar bátur (skip) til að bjarga á, bjargbátur (að sínu leyti eins og bjargkviður).

Redningsgods góss sem bjargað er.

Redningshjelp hjálp sem er frelsun; sb. Redning

redningsløs sem ekki verður bjargað (bargið), sem telja má af.

Redningsmand lífgjafi, fjörgjafi.

Redningsmiddel útvegur til að frelsa, (sb. honum vildi það til lífs).

Redningsstige stigi sem við er hafður þegar húsbrunar verða.

*Redoute, sk., lítið ferhyrnt vígi á víðavangi (vígvelli).

*redreffere, ás. 1, endurbæta, bæta úr e-u, ráða bætur á e-u.

Redsel, ft. Redsler, [sb. reizla f. reiðsla], sk., (úrelt), gjald, skattur, skattgjald.

Redskab, ft. -er, kl., [sb. reiðskap-r], tól, verkfæri, áhald: Skibet sælges med staaende og løbende Redskaber með rá og reiða.

*reducere, ás. 1, a) leiða (e-t náttúru-efni) aptur í sjálft sig (= í hina fyrri mynd þess). — b) færa (e-ð til e-s; sb. færa vísu til rjetts máls), snúa (e-u í e-ð annað): R. Sølvværdi til Navneværdi. — c) færa (peninga) niður (að verði). — d) fækka e-u: Alle hans Argumenter kunne reduceres til to allar röksemdir hans má draga saman í tvær. — e) veita (t. a. m. liðsmönnum eða embættismönnum) lausn til fækkunar (t. a. m. liðsmanna eða embættismanna): R. Embedsmænd (Soldater, et Regiment). — f) ónýta (peninga; þ. e. kippa úr þeim öllu verði með lagatilskipun).

*Reduction, ft. -er, sk., það að reducere.

*Reduplication, sk., tvítekning (stafs eða samstöfu).

*reduplicere, ás. 1, tvítaka (staf eða samstöfu).

redvillig (úrelt), = tjenstagtig, tjenstvillig.

Redning, sk., það að rede.

*reel, ft. -le, a., verulegur; áreiðanlegur; (sb. staðgóður, sem veigur er í, a. s. frv.).

Reen, ft. Rener, sk., [rein; sb. Um markreinaskipti, N. g. L. I, 117], = Agerreen, Agerskjel.

Reen, ft. Rener, sk., [rein-n f. hrein-n], = Rensdyr.

reen, ft. rene, e., [rein-n f. hrein-n], 1) eiginl., a) um það sem er þvegið eða verkað, hreinn: Rene Klæder (sb. en klæði eigi hrein, Fms.). Reent Linned (sb. í lindúki reinum, 619). Vaske (skylle) noget reent. — b) sem hvorki er á klæði nje kýli eða annað þess kyns, (sb. líkþrálr hreinsaz, 625): Denne Hest har rene (gallalausa, heilbrigða) Been. Drengen har et reent Hoved er kreddulaus. — c) reent Farvand (um sjó, sem er) α) skerjalaus. — β) hreinn of víkingum (sb. honu .... hreinsaði þar allt af víkingum). — d) óblandinn öðru, α) hreinn: Reent Korn (sb. gott korn ok reint, Skuggsja). En r. Smag hreint bragð. — β) skír, skær, (sb. tær): Reent Guld skírt gull, (sb. sem skærasta gull, 655 XXXII). Reent Sølv skírt silfur, (sb. með skærum silfurpeningum). Reent Vand skírt vatn. R. Luft skírt (skært) lopt (sb.: af því skæra lopti, sem þar verðr af heilsamligum vestanvindi; hvárt sem ero skír veðr eðr úskír). — e) um róm, hreinn, skír, skær: En r. Stemme. — f) skrive noget reent; sb. reenskrive. — 2) óeiginl., a) holde r. Mund; sb. Mund n. — b) tale rene Ord = sige sin Mening reent ud (sb. B, b). — c) (um orðfæri), lýtalaus: Skrive et reent Sprog. En r. Skrivemaade. — d) ljós (sb. hitt er ljóst, at þeir menn vilja vera mínir úvinir fullkomnir), eða þvíuml.. Bringe en Sag i det Rene komast að botni í e-u máli. — Komme paa det Rene med een botna í e-m. — e) óblandinn, rjettur: Den rene Lære. — f) hreinn (ætur): „Af allehaande reent Qvæg" af öllum hreinum kvikindum (Stjórn). — g) (um siðferði), hreinn (sb. með hreinu hjarta, Þorl.), hreinlífur, skírlífur, og þvíuml.: Et reent Hjerte. En r. Kjærlighed hrein ást. En r. Samvittighed hrein samvizka, (sb. mín samvizka er syndalaus um þenna hlut). Et reent Levnet hreinlífi. En r. Mø hrein (hreinlíf, skír, skær, flekklaus, óflekkuð, ósaurguð, óspelluð, óspillt, ósködd) mær. — h) r. Fordeel eða r. Fortjeneste ábati (að kostnaði frá dregnum). — i) tómur, eintómur, einber, (sb. helber; einskær): Det er en r. Umulighed það getur með öngvu móti verið (orðið), það er ekki vinnandi vegur, eða þvíuml. — Reent Forræderi. R. Feighed. — R. Naade. — B) reent, sem aa., a) rjett, lýtalaust: Tale et Ord reent ud kveða rjett að orði. — b) öldungis, með öllu: Han er reent afsindig. Han vil reent (fyrir fullt og allt) forlade Landet hann ætlar alfarinn úr landi. Drikke et Glas reent ud drekka í botninn, (sb. taka það af). — Reent ud berum orðum, hreint og beint: Sige sin Mening reent ud segja það sem manni býr í brjósti.

reenfærdig = reenlig a.

Reenfærdighed, án ft., sk., = Reenlighed.

reengjøre hreinsa, sópa, moka, ræsta.

Reengjøren, án ft., sk., það að reengjøre.

Reengjøring, ft. -er, sk., það að reengjøre.

Reenhed, án ft., sk., hreinleiki, skírleiki, skærleiki, a. s. frv.

reenkoge, ás., skíra (silfur með því að sjóða það í öskuvatni).

reenlig, ft. -e, a., [reinlig-r f. hreinlig-r; sb. áskilr hann sér .... þjónustu hreinliga, á ísl. skjali], a) hreinlátur, þrifinn, (sb. þokkalegur): Den Reenlige vil man altid finde reen i Klæder. Være r. i sin Paaklædning vera jafnan þokkalega til fara. — b) stundum = reen A, 1, a: Reenlige Værelser.

Reenlighed, án ft., sk., hreinlæti, þrifnaður: Hendes R. er overdreven.

reenlivet, ft. -livede, e., (úrelt), hreinlífur, skírlífur.

Reenmos tröllagrös, mókrókar, *lichen rangiferinus.*

reenmælet, ft. -mælede, e., skírmæltur.

Reenskind hreinbjálfi.

Reenskrift, sk., hreinskript: Skaf mig en R. deraf.

reenskrive hreinskrifa: R. en Afhandling.

Reenskriver, ft. -e, kk., sá sem hreinskrifar.

Reenskrivning, sk., hreinskrifun.

reenskylle, ás., skola (e-ð) svo að það verði hreint (eða: þangað til það er orðið hreint; sb. skola vel, Hist. I, 489).

Reenskylling, sk., það að reenskylle.

reensmagende, [sb. smage], sem hreint bragð er að.

*Refectorium, kl., borðstofa (í klaustri; hressingarhús).

*Referat, ft. -er, kl., skýrsla (G. O., P. Þ.), framsaga, framsögn.

*Referent, ft. -er, kk., framsögumaður.

*referere, ás. 1, skýra frá (e-u), bera (e-ð) fram, segja (e-ð) fram: R. en Sag for Ministeren bera mál undir stjórnarherra. — b) r. sig til noget α) vera í sambandi við e-ð. — β) skírskota til e-s: Jeg refererer mig til hvad jeg forhen har sagt.

*reflectere, a. 1, a) ás., hrinda (geislum) aptur á bok: Speilet reflecterer Lysstraalerne.

— b) h. s., α) r. over (hugleiða, íhuga) noget. — β) r. paa noget gern e-ð að álitum, gefa gaum að e-u.

*Reflex, sk., = Gjenskin.

*Reflexion, ft. -er, sk., það að reflectere (hugleiðing, íhugun, o. s. frv.).

*reflexiv, ft. -e, e., (eiginl.), sem beygist aptur á við, apturbeygjanlegur: Reflexivt Verbum = Reflexivum.

*Reflexivum, kl., apturbeygjanleg sögn (þ. e. sögn er segir að gjörandi e-s sje einnig þolandi þess, t. s. m. setjast í orðunum setjast niður).

*Reform, ft. -er, sk., endurbót, umbót.

*Reformation, ft. -er, sk., a) (eiginl.), umbót. — b) sjer í lagi, trúarbót (trúarhreinsun) Lúthers, siðari siðaskipti(n).

*Reformationsfest hátíð í minning (siðari) siðaskiptanna.

*Reformationshistorie, sk., trúbótarsaga.

*Reformator, ft. -er, kk., sá sem endurbætir.

*reformere, ás. 1, endurbæta: R. Kirken. R. et Universitet. — Den reformeerte Kirke hreinsaða kirkjan. De Reformeerte þeir sem hafa hina hreinsuðu trú.

*Reformers, ft., (á Englandi), þeir sem heimta að bætt sje um stjórnarlögun.

*Refraction, sk., = Straalebrækning.

*Refrain, kl., = Omqvæd.

*refundere, ás. 1, gjalda (e-ð) aptur.

*Refus, sk. og kl., afsvör, aftök.

*Refusion, ft. -er, sk., það að refundere.

*Refutation, sk., = Gjendrivelse.

*refutere, ás. 1, = gjendrive.

*Regale, ft. Regalier, kl., a) forprisun (stórhöfðingja). — b) = Insigne.

*regalere, ás. 1, (eiginl.), veita (e-m) eins og kanungi (en er jafnaðarlega haft í háði).

Regel, ft. Regler, sk., [regla], regla, (sb. forsögn): Moralske Regler siða-reglur. Foreskrive een Regler setja e-m reglur. Følge (rette sig efter, binde sig til) en R. hafa reglu.

regelbunden, [sb. binde], einskarðaður við reglu.

regelløs sem ekki fer eptir neinni reglu.

Regelløshed, sk., það að vera regelløs.

regelmæssig, ft. -e, a., = regelret.

Regelmæssighed, án ft., sk., = Regelrethed.

regelret reglulegur (= lagaður eptir reglu eða reglum).

Regelrethed, án ft., sk., það að vera regelret.

*Regeneration, sk., = Gjenfødelse.

*regenerere, ás. 1, = gjenføde.

*Regent, ft. -er, kk., a) = Landsherre. — b) sá sem hefur landráð fyrir hönd annars, forstjóri fyrir öllum landráðum (sb. Fms. I, 2), stjórnari, stjórnarmaður, ríkisstjóri.

*Regentinde, ft. -r, kvk., sama um kvennmann og Regent um karlmann.

*Regents, sk., mesti stúdentsgarðurinn í Kaupmannahöfn.

*Regentskab, kl., landráð (sb. Eysteinn konungr skyldi hafa landráð af hendi beggja þeirra), ríkisráð.

*Regíme, kl., stjórn, stjórnarlögun, stjórnarhættir. — b) tízka, siðir. — c) aðbúð, (einkum í) mataræði.

*Regiment, ft. -er, kl., herdeild sem er ein eða tvær þúsundir manna eða þar á milli (sb. Oberst): Et R. til Fods. Et R. til Hest.

*Region, ft. -er, sk., = Egn.

*Regisseur, kk., (í leikhúsi), leikstjóri (þ. e. sá sem er settur til að sjá um, að hver leikari gangi fram í tækan tíma, og þvíuml.).

*Register, ft. Registre, kl., skrá: R. over en Bog efnis-skrá bókar.

*registere sjá registrere.

*Registrator, kk., sá sem hefur það embætti að raða niður skjölum og skrá aðal-efni þeirra.

*Registratur, kl., a) það að skrá. — b) skrá (þ. e. bók sem nöfn á e-u, eða stutt ágrip úr því, eru rituð í). — c) hús þar sem verið er að skrá e-ð (þ. e. skrifa upptalning á því). — d) skjalagólf (þ. e. hús — klefi — þar sem skjöl eru geymd).

*registrere (einnig registere), ás. 1, skrá, bóka: R. et Bo.

regjere, ás. 1, stjórna e-u, stýra e-u, ráða fyrir e-u, (sb. hafa ríki): R. en Stat. Den regjerende Keiser (Konge) keisarinn (konungurinn) er (nú) situr að völdum. Hun regjerer i Huset ræður öllu á heimilinu.

Regjering, sk., a) án ft., α) forráð, ríki (sb. höfðingja þá, er ríki hafa haft á Norðrlöndum): Tiltræde (komme til) Regjeringen taka ríki, (taka konungdóm). Nedlægge Regjeringen láta af ríkisstjórn. — b) með ft. -er, landsstjórnarmenn, ríkisstjórar: Indgive et Forslag til Regjeringen.

Regjeringsform stjórnarlögun: En monarchisk R. einvaldsstjórn: En aristokratisk R. stórmennisstjórn. Demokratisk R. lýðsstjórn.

Regjeringskonst stjórnarlist.

Regjeringsmaade stjórnarhættir.

Regjeringsraad, A) kl., stjórnarráð. — B) kk., stjórnarmaður, stjórnari, (með fram sem nafnbót).

Regjeringsfag stjórnarmálefni.

Regjeringstid dagar e-s konungs (sb. á dögum Haralds konungs hins hárfagra).

*Reglement, kl., = Anordning b, Forskrift b, (sb. Regulativ).

*reglementeret, ft. reglementerede, a., tilskipaður, (sem boðið er að hafa, eða þvíuml.).

Regn, án ft, sk., [regn], regn, rigning, úrkoma, (sb. votviðri): Det seer ud til R. eða det tegner til R. eða det truer med R. það er regnlegt. Det trækker op (sammen) til R. það gerist regnlegt (sb. Fms. III, 205). Der faldt stærk R. það var stórrigning (mikil úrkoma, demba). Vi havde megen R. i Gaar það var mikið regn í gær. Orðskv.: Ofte kommer R. efter Solskin og Skin efter Mulm opt kemur skin eptir skúr.

Regnbue, [regnbogi], regnbogi, friðarbogi.

Regnbyge skúr, regnskúr (Skuggsjá), regnjel (Skuggsjá).

Regnbæk regnlækur (= regnvatnslækur).

Regndraabe regndropi: Der faldt enkelte Regndraaber (sb. ýringur).

Regndryp, kl., leki af rigningu.

regne, persónulaus s. 1, [regna, forn], rigna, a) h. s.: Det begynder at r. það er farið að rigna. Det har regnet hele Dagen það hefur rignt (verið úr honum) í allan dag. Det regner endnu það rignir (er úr honum) enn. — b) sem ás.: Noget regner ned e-u rignir.

regne, s. 1, [reikna], reikna, telja, a) ás.: Man regner 96 Skilling paa en Rigsdaler. R. et Stykke efter reyna hvort e-ð sje rjett reiknað, (sb. efterregne α). R. noget fra reikna e-ð frá, (sb. at af reiknaðum öllum skuldum). R. noget med i en Sum (sb. at .... til reiknaðum öllum inntektum). Man regner ham ogsaa blandt Digterne hann er einnig talinn með skáldum. R. noget om reikna e-ð upp aptur. Naar man vil r. sammen alt det (ef allt er talið), han har faaet. Det er snart regnet ud það er fljót-reiknað (= það er ekki lengi verið að sjá, hvað mikið það er). Mit Arbeide regner jeg ikke mina fyrirhöfn tel jeg ekki. Vinen regnes ikke vínið er ekki talið (= það er ekki tekin borgun fyrir vínið). Vinen er ikke regnet med vínið er sjer á parti (= vínið er borgað sjer í lagi). Man regner hele Hæren paa 20,000 Mand allur herinn er reiknaður 20,000. Jeg regner dette ikke for noget Arbeide jeg kalla þetta ekkert verk (öngva fyrirhöfn). Vi r. det ikke saa nøie med hverandre við förum ekki í harðan reikning hvor við annan (hvorir við aðra). — R. een noget til Gode telja e-m e-ð til gildis. R. een noget til Onde; sb. ond B, b. R. een noget til Synd telja e-m e-ð til syndar. — R. noget op telja e-ð upp. — b) sem h. s.: Drengen lærer at r. R. galt reikna rangt. — Jeg maa r. over (jeg verð að gá að með reikningi), om jeg har Penge nok til denne Udgift. — Jeg regner (tel) slet ikke, hvad hans Underholdning koster. — Man kan r., at han har fortjent 100 Rigsdaler hann hefur grætt á að gizka 50 sura. — R. paa een reiða sig á e-n, eiga undir e-m. Man kan ikke r. paa hans Løfter það stoðar ekki að reiða sig á það (eiga undir því), sem hann lofar; það er ekkert að marka það sem hann lofar (eða: þó hann lofi e-u). Jeg regner paa (reiði mig á) at du kommer.

Regnebog reikningsbók (= bók um reikningslist).

Regnebræt, a) (fyrrum), strykað reikningsspjald (með reitum fyrir ýmislag tölukyn). — b) óstrykað reikningsspjald (úr trje).

Regnefeil = Regningsfeil.

Regnekonst reikningslist, talvísi (sb.: arithmetica, er tölvísi alla greiðir, 645).

Regnemaade reiknings-aðferð.

Regnemester, a) góður reikningsmaður. — b) sá sem kennir reikning.

Regnemynt = Regningsmynt.

Regnepenge leikpeningur (úr messing, sem barnagull og þvíuml.).

Regner, kk., (sjaldh.), reikningsmaður: Nøie R. var aldrig god Drauker (orðskv.).

Regneskole reikningsskóli.

Regnetavle reikningstafla.

Regnflod flóð (vatnsvextir, vatnsrennsli) eptir rigningu.

Regnfugl (fugl) *scolopax arquata*.

regnfuld regnsamur (Eyrb., Rímb.), votviðrasamur.

Regnhat regnhattur.

Regnhætte regnhöttur.

Regning, ft. -er, sk., [reikning-r], reikningur: R. med Tal tölustafareikningur. R. med Bogstaver = Bogstavregning. — Holde (føre) R. over noget hafa reikning á e-u. — Det svarer ikke R. það svarar ekki kostnaði, það er ekki til vinnandi. — Finde sin R. ved noget sjá sjer hag við e-ð. — Foretage noget for sin egen (for en andens) R. gera e-ð á sjálfs síns (á annars) kostnað. — Opsætte en R. semja reikning (um það sem maður eigi hjá em). Føre een noget til R. setja e-ð í reikninginn e-s. Det kan skrives paa min R. það má skrifa það í reikninginn minn. Give een Varer paa R. selja e-m vöru í skuld (á frest). Tage paa R. kaupa í skuld (á frest). — Efter min R. (ágizkun, ætlun) maa han komme i Morgen. Hans R. slog feil honum varð ekki bettan úr því klæðinu. — Han gjorde R. paa (vonaðist eptir eða bjóst við) en betydelig Fordeel. Jeg gjør R. paa (vonast eptir eða býst við) at du vil være min Gjest.

Regningsart reikningstegund.

Regningsbog reikningabók (þ. e. bók um gjöld og tekjur eða þvíuml.). Sb. Handelsbog, Udgiftsbog.

Regningsfeil misreikningur.

Regningsgjeld það sem annar á hjá manni eptir reikningi.

Regningskrav skuldarheimta eptir reikningi.

Regningsmynt peninganöfn sem talið er eptir þó peningarnir sjálfir sjeu ekki til, tóm peninganöfn, (t. a. m. Pund Sterling, Mark Banco).

Regnkappe voskuð.

Regnkjortel voskyrtill.

Regnklæde vosdúkur (sem kvennfólk hefur yfir sjer i votviðri).

Regnmaaler regnkönnuður (þ. e. verkfæri til að reyna hversu mikið regn hafi komið).

Regnmaaned rigningamánuður: Regnmaanederne i de tropiske Lande.

Regnorm ánamaðkur (ámumaðkur, B. H.) *lumbricus terrestris.*

Regnskab, ft. -er, kl., [sb. reikningsskap-r], reikningur (sb. Skalo þeir skyldir at gera reikning fyrir þessu fé; sb. einnig reikningargerð), reiknun (sb. skulu þeir skyldir at gera reiknen fyrir þessu fé), skilrekki (sb. at krefja þá skilrekkiss ok skynsemdar af veittum pundum ok velgörningum, Stjórn), skynsemd (sb. á sömu leið aukaz ok vaxa gjafanna reikningar ok skynsemdir, sem gjafirnar aukaz, sb. einnig skynsemdargjald), skynsemdarreikning (sb. þurfi hann enga skynsemdarreikning at göra, Stjórn), skynsemi (ek skal gjalda drottni mínum skynsemi fyr þik), grein (í orðunum gera grein fyrir e-u): Føre R. over noget hafa reikning á e-u, halda reikning um e-ð. Staae tilbage med to Aars R. eiga ógjörðan tveggja ára reikning. Eftersee Regnskaberne rannsaka reikningana. Fordre R. af een og kræve een til R. krefja e-n skynsemdar. Aflægge R. for noget gera reikning (reiknun, grein) fyrir e-u, gjalda skynsemi fyrir e-ð. Gjøre een R. for sine Handlinger gjalda e-m skynsemi verka sinna.

Regnskabsbetjent reikningsmaður (= sá sem hefur reikninga á hendi). Sb. Oppebørselsbetjent.

Regnskabsbog reikningabók (þ. e. bók sem í eru reikninger eða reikningsgerðir).

Regnskabsfeil villa í reikningum.

Regnskabsførelse reikningshald.

Regnskabsfører reikningamaður, bókari: Være sin egen R. hafa sjálfur á hendi reikningana sína, bóka allt sjálfur.

Regnskabssag reiknings-mál.

Regnskabsvæsen allt sem til reikninga heyrir.

Regnskjerm regnhlíf, úrhlíf, vætuhjálmur.

Regnskuur forskyggni (byrgi, bjallur) til að hlífa e-u við regni, (sb. skúrfjalir, Fms. VIII, 329).

Regnsky vætuský.

Regnskyl, a) demba, (steypiregn). — b) vatnsrennsli eptir regn.

Regnslag það að regn dynur á, (sb. regnjel): „De fugtige, med stærke R. ledsagede Vestenvinde".

Regnsommer rigningasumar.

Regntid regntími(nn í hinum heitu löndum).

regntæt dropalaus (Gþl.).

Regnto hláka með rigningu.

Regnvand regnvatn (B. H.).

regnvarslende, [sb. varsle], sem veit á regn.

Regnveir votviðri.

Regnvind vindur sem væta fylgir.

*Regres, sk., aðgangur (sem maður á að e-m); athvarf.

*Regulativ, ft. -er, kl., reglugjörð, (sb. Reglement).

*Regulator, ft. -er, a) kk., stýrandi, temprandi. — b) sk., stillir (sem verkfæri).

*regulere, ás. 1, tempra.

*regulær, ft. -e, e., = regelmæssig, regelret.

Reie (fyrrum skrifað Ræge), ft. -r, sk., marþvari *cancer squilla.*

Reiehug, kl., eins konar net sem dregið er fyrir marþvara.

Reieruse eins konar nethylki sem lagt er í sjó fyrir marþvara.

Reinfan, sk., (eins konar jurt) *tanacetum vulgare.*

reise, ás. 2, [reisa], 1) eiginl., reisa, reisa e-ð upp: R. Masten i et Skib reisa trje (í stórskipi, þegar það er smíðað; sb. trjereisa). R. en Mindesteen reisa minningarstein. R. en Hestak hlaða heystakk, (sb.: hlaða heyi, Fms. III, 205; kasta heyi). R. et Gjerde setja hrísgarð. R. et Huus reisa húsgrind. R. et Tag reisa grind undir húsþak. Dyret reiser Børster yfir sig. — R. sig standa upp. R. sig mod een rísa upp í móti e-m (sb. Al. 152). Hesten reiser sig paa Bagbenene (rís upp á apturfótunum =) prjónar (upp í loptið). Havet reiser sig æsist, ókyrrist, (sb. Svá segiz, at hún — þ. e. áin Ganges — reisiz á þá leið ok takiz upp ok freyði löndin í austrhálfunni, sem áin Nilus Egiptaland). Der reiste sig en Storm það hljóp á stormur, það gerði (rak á) storm. — R. Vildt reisa dýr (Gþl. 447-448; þ. e. finna þau og stökkva þeim á fætur). — 2) hálf-óeiginl.: R. en Krigsmagt draga her saman; fá lið. R. Almuen til Opstand koma alþýðu til að gera uppreist. — 3) óeiginl., a) koma (e-u) til leiðar, valda (e-u): R. et Oprør R. en Trætte. R. en Sag höfða mál. Sagen reiste sig (málið gerðist, sb. Gþl. XII) deraf. — b) (í lögum), staðfesta: R. eller fælde en Dom.

reise (har og er), b. s. 2, ferðast: R. til et fremmedt Land. R. i fremmede Lande. Han er reist til Frankrige farinn til Frakklands. Han er reist (fór á stað) i Morges. R. fra een yfirgefa e-n (á ferðalagi). R. fra (skilja eptir) sin Koffert. — En Reisende ferðamaður. Her kom mange Reisende. — b) (í tali), r. af hrökkva upp af. — 2) með þol., a) af orði, sem merkir tíma: Vi have reist (höfum verið á ferð) hele Dagen. Jeg har reist Nat og Dag (farið dagfari og náttfari) for ikke at komme for silde. — b) af orði, sem merkir veg eða vegalengd: Jeg har aldrig tilforn reist denne Vei aldrei farið þenna veg áður. Vi reiste ti Miil i Gaar fórum tíu mílur í gær.

Reise, n. -r, sk., ferð, (sb. farlengd): Have en R. for ætla að ferðast (fara) eitthvað, (sb. eiga ferð fyrir höndum). Han ligger paa sin R. hann er að búa sig undir ferðina. Gjøre (foretage) en R. fara ferð, (sb. gjöra heiman ferð sína). Begive sig paa Reisen eða tiltræde sin R. hefja ferð sína, leggja á stað, (sb. leggja upp). Opgive en R. sleppa ferð, slá af að fara eitthvað. Fortsætte Reisen halda áfram ferðinni, fara leiðar sinnar. Fuldende en R. komast alla leiðina. Være paa en R. vera á ferð. Være paa Reiser vera á ferðalagi. Hvor gaaer Reisen hen hvert er ferðinni heitið? Jeg har været syg paa min R. á leiðinni. Vi havde en heldig R. okkur gekk vel ferðin; (einkum, ef talað er um sjóferð) vjer urðum vel reiðfara. Lykke paa Reisen og velkommen tilbage farðu vel og komdu heill aptur! — b) (í et. eða ft.) = Reisebeskrivelse: Han vil udgive sin R. bók um ferðina sína, ferðabók. En Oversættelse af Parrys Reiser (bókin um ferðir P.) til Polarhavet.

Reiseaar ferðar-ár, ferða-ár: Det første R. (fyrsta ár ferðar sinnar, fyrsta árið sem hann var að ferðast) tilbragte han mest i Tydskland.

*Reiseapothek læknisdómar sem maður hefur með sjer á ferðalagi.

*Reiseapotheker lyfsölumaður (eða: lyfjavörður) í fylgd stórhöfðingja.

Reisebemærkning e-ð sem maður hefur tekið eptir á ferðalagi; athugasemd rituð á ferðalagi.

Reisebeskrivelse (ferðalýsing), ferðasaga, ferðabók, (sb. farabók, 615).

Reisebeskriver, ft. -e, kk., höfundur ferðabókar.

Reisebog, a) bók sem maður ritar í á ferðalagi það sem merkilegt þykir. — b) bók handa ferðamönnum.

Reisebom verkfæri til að reisa e-ð upp með.

Reisebroder = Reisefælle.

Reisebylt ferðabaggi.

Reisebøn ferðabæn.

Reisedragt ferðabúningur, ferðaföt.

*Reiseeventyr ferða-æfintýr.

Reiseflaske ferðaflaska.

Reisefortælling ferðasaga.

Reisefælle förunautur, (sb. Reisekammerat).

Reisefærd sú athöfn að ferðast; ferðalag.

reisefærdig ferðbúinn, ferðarbúinn (Fms. VII, 3), fararbúinn (Fms. I, 3), farbúinn (Hkr.).

Reisefølge, kl., fylgdarlið, föruneyti, (sb. fararblómi): Kongens R.

reisefør (um fjenað), ekki reisa.

Reisegilde veizla sem timbursmiðir gera þegar þeir eru búnir að reisa grind undir húsþak.

Reisegilde burtfararveizla, (sb. fararmunngát, Eg. 88).

Reisehat ferðahattur.

Reisehue ferðahúfa.

Reiseheld heppni á ferðalagi: Han pleier at have godt R. er vanur að vera heppinn á ferðalagi.

Reisehynde eins konar vegnseta (Vognhynde) sem höfð er á ferðalagi.

Reisehætte ferðahetta.

Reiseiagttagelse það sem maður tekur eptir á ferðalagi.

Reisekammerat samferðarmaður, (sb. Reisefælle).

Reisekappe ferðakápa.

Reisekiste ferðakista.

Reisekjole ferðakyrtill.

Reiseklæder, ft, ferðaföt.

Reiseklædning = Reisedragt, Reiseklæder.

Reisekost nesti, mata.

Reisekoffert eins konar ferðakista eða ferðakistill.

Reiselevnet = Reiseliv.

Reiseliv líf sem maður lifir á ferðalagi.

Reiselyst ferðafýsn, farfýsi (Víga-Gl.).

Reiselæge læknir sem stórhöfðingi hefur með sjer á ferðalagi.

Reisen, án ft., sk., ferðalag.

Reiseomkostninger, ft., ferðakostnaður, farareyrir (Gþl. 8), fararfje (Gþl. 8): Faae sine R. erstattede.

Reisepas = Pas B, 1, d.

Reisepenge, ft., fararefni, (sb. Reiseomkostninger).

Reisesager, ft., = Reisetøi.

Reiseselskab förunautar, samferðamenn.

Reiseseng ferðarúm (sem maður hefur með sjer).

Reiseskriin ferðakistill, (sb. skrína).

Reisesyge ferðasótt (það að hafa öngva eirð í sjer nema maður sje að ferðast).

Reisesæk poki til að hafa farangur í.

Reisetid, án ft., tími sem maður er á ferðalagi, (sb. farlengd).

Reisetog ferð (þar sem margir eru saman): Kongens R. De franske Lærdes R. til Egypten.

Reisetøi, án ft., farbúnaður (673), fargögn (Nj.) og farargögn (Nj.), farangur, föggur.

Reiseudgift útlát á ferðalagi.

Reiseveir ferðaveður.
Reisevogn ferðavagn.
Reisning, sk., a) reising: Mastens R. í reising. Husets R. það að reisa húsgrind. — b) ris, eða því uml.: Skibet har en svær R. skipið er hásiglt. Dette Tag har en hoi R. þetta er reisuglegt þak. Denne Hest har en god R. er hnarreistur, ber vel höfuðið.
*reject, ft. -e, e., ræktur (ha: l. t. af rækja), rækur gjör, (sb. rekningur).
*rejicere, ás. 1, rækja (sb. ef vílaðr maðr ea syndugr, þá skal kenna hánum rétta hluti, en rækja hann eigi, 677), gera e-n rækan.
*Relation, ft. -er, sk., a) frásögn. — b) samband, og því uml.
*relativ, ft. -e, e., sem er e-ð eiuungis að tiltölu (í samanburði við annað); sem vísar til e-s: Relative Pronominer tilvísunar-fornöfn.
*Relativitet, sk., það að vera relativ.
*Relegation, ft. -er, sk., það að relegere.
*relegere, ás. 1, reka (e-n) frá háskóla.
*relevant, ft. -e, e., merkur, sem máli skiptir.
*relevere, a. 1, a) ás., taka e-ð fram. — b) h. s., skipta máli.
*Relief, kl., útskurður (t. a. m. á trje, málmi, marmara); og er þess háttar skurður kallaður Basrelief (þ. e.) lágskurður (þegar myndirnar eru lágar), en Hautrelief (þ. e.) háskurður (þegar þær eru háar).
*Religion, ft. -er, sk., trú, trúarbrögð, átrúnaður: Den sande (christelige, jødiske, mahomedanske) R.
*Religionsbegreb nám (sb. Begreb B) sem trúarbrögðunum til heyrir.
*Religionsbekjendelse = Troesbekjendelse.
*Religionsbog bók um trúar-efni.
*Religionsed trúnaðareiður að maður skuli hafa og halda rjetta trú (Fms. II, 127).
*Religionsforagt fyrirlitning á trúarbrögðum.
*Religionsforagter sá sem fyrirlítur trúarbrögð.
*Religionsforandring, a) siðaskipti (Fms.). — b) það að einstakur maður tekur aðra trú.
*Religionsforbedring trúar-leiðrjetting, (sb. Reformation b).
*Religionsforfølgelse ofsókn fyrir mismun á trú.
*Religionsfornegter trúarníðingur.
*Religionsfred friður eptir trúarstríð.
*Religionsfrihed frelsi til að hafa þá trú er manni þykir bezt.
*Religionshad hatur á þeim sem eru annarar trúar.
*Religionshandling guðsþjónusta (eða partur af henni).
*Religionsiver ákefð (vandlæti) í trúarefnum, (sb. af guðligu vandlæti).
*Religionskrig trúarbragðastríð.
*Religionslærdom trúarlærdómur.
*Religionslære trúar-kenning.
*Religionslærer kennari í trúarbrögðum.
*Religionsmening ætlun (e-s) um trúarefni.
*Religionsparti trúarflokkur.
*Religionssag trúar-efni.
*Religionsskik siðvenja við guðsþjónustuna.
*Religionsspot spott um trúarbrögð.
*Religionsspotter sá sem hæðist að trúarbrögðum.
*Religionsstrid þræta um trúarbrögð.
*Religionsstridighed = Religionsstrid.
*Religionstvang ófrelsi í trúar-efnum.
*Religionstvivl efi um trúar-efni.

*Religionsøvelse trúhald, guðsþjónustugjörð: I Nordamerica har alle Partier fri R. í sambandsríkjunum í norðurhluta vesturheims má hver trúarflokkur hafa sína guðsþjónustu.
*Religiositet, sk., guðhræðsla.
*religiøs, ft. religiøse, e., a) trúfastur, trúgóður, trúmikill, (sb. gudfrygtig a): En r. Mand trúmaður mikill. — Religiøse (guðrækilegar) Følelser. En r. Vandel guðrækileg hegðun. — b) sem lýtur að trúarbrögðum, andlegur, guðrækilegur: Religiøse Skikke; sb. Religionsskik. Religiøse Høitider guðrækilegar hátíðir.
Reling (einnig skrifað Ræling), sk., borðstokkur.
*Reliqvie, ft. -r, sk., heilagur dómur. Sb. Helgenlevninger.
Rem, ft. -me, sk., [reim, B. Hild.], ól, (sb. þvengur, ræma): Ageſtolen hænger i Remme.
rembunden, [sb. binde], álbundinn (að sínu leyti eins og sinbundinn).
*Remedium, ft. Remedia eða Remedier, kl., ráð (til e-s).
Remhul þorngat á ól.
*Reminisceents, ft. Reminiscentser, sk., endurminning.
*remittere, ás. 1, senda (e-ð) aptur; slá (e-u) af (fjárheimtu).
Remmesnider sjá Remsnider.
*remonstrere, h. s. 1, mæla á móti.
*Remonte, sk., útvegun varahesta (handa riddaraliði); varahestar.
*Remontehest varahestur (handa riddaraliði).
*remontere, ás. 1, fá (riddaraliði) varahesta.
*removere, ás. 1, víkja (e-m eða e-u) frá.
rempe (einnig rimpe), ás. 1, rifa (hypja) e-ð saman: R. noget sammen.
*remplacere, ás. 1, fylla rúm (e-s — í óeiginl. merk.).
Remse sjá Ramse.
remse sjá ramse.
Remsnider (einnig Remmesnider), ft. -e, kk., (fyrrum) = Sadelmager (nú á dögum).
*Remuneration, sk., endurgjald.
*remunerere, ás. 1, endurgjalda.
*Rencontre, sk., fundur, deila, og því uml.
Rend, án ft., kl., a) hlaup, sprettur: I eet R. í einum spretti. Stille i R. eða tage til Rends taka til fótanna. — b) ráp.
rende, s. 2, [renna með e f. i], 1) h. s. (har), a) hlaupa: R. efter een. Ride alt hvad Hesten kan r. eins og hesturinn getur farið, í loptinu. „Det er kun levende Ting, som r." — b) rápa, steðja. — 2) sem ás., a) r. sin Vei (í tali), strjúka. — b) r. Dyst reyna sig að hlaupa, renna í kapp (Sn E.); (einnig = turnere). — c) r. een Kaarden igjennem Livet reka sverðið í gegnum e-n. R. een omtuld hlaupa (ana) á e-n svo að hann dettl. R. sig ihjel eða r. Livet af sig sprengja sig á hlaupi. R. een op; sb. indhente a.
rende, ás. 1, [renna með e dregið af a], rekja uppistöðuband: Væveren har endnu ikke rendet Garnet. — Einnig sem h. s. (þegar uppistaða og fyrirvaf er sitt af hvaru efni): R. med Hørgarn og slaae Uldgarn i.
Rende, sk., = Garnrende.
Rende, ft. -r, sk., [renna], skurður, ræsi(r), bunustokkur: Grave en R. under Jorden. Lægge Render paa et Tag. — b) áll (t. a. m. í á); einnig, vatnsfarvegur.
Rendebane skeiðsvið, (sb. skeið, Sn. E.).
Rendebom = Væverbom.
Rendebor stór nafar til að bora innan úr trjám (eptir endilöngu; dælunafar).

Rendeborer, ft. -e, kk., sá sem borar sívala bunustokka.
Rendebuk = Buk 2, a, Stormbuk, Muurbrækker.
Rendedrag lækjarfar, lækjarrás, (sb. Bækkedrag, Vanddrag).
Rendegarn uppistöðugarn; uppistaða.
Rendegjest sá sem allt af er að rápa á e-n stað: I de første Timer vare der mange Rendegjester það vuru margir að rápa þangað (þar var mikið ráp) fyrstu stundirnar.
Rendehage einn af þeim krókum sem uppistaðan er fest ..
Rendehest (í dvönduðu tali), sá sem allt af er á hlaupum fyrir aðra.
Rendehul hol í bunustokki.
Rendekjærling (í óvönduðu tali), kerling (kvennmaður) a) sem allt af er á hlaupum fyrir sinn í hvert skiptið. — b) sem ber þvaður hús úr húsi.
Rendekiste eins konar ílát með allt einum hálfum sem uppistöðubanda-hnyklar eru hafðir í þegar rakið er.
Rendeknude lykkja (sem hnýtt er á e-ð).
Rendekugle hissukúla sem ekki er stærri enn svo að fleiri enn ein (t. s. m. 4 eða 5) eru látnar í hissuna í senn.
Rendeløb = Rendedrag.
Rendelægger, ft. -e, kk., sá sem leggur bunustokka niðrí í jörðunni.
Rendemaske, a) sk., prjónalykkja sem felld er niður. — b) kvk., (í óvönduðu tali), hlaupastelpa (B. H.).
Rendemester sá sem er settur til að sjá um bunustokka.
Renden, án ft., sk., hlaup; ráp.
Rendepenge, ft., kaup sem ljereptsveforar fá stundum aukreitis fyrir að rekja.
Rendepind hæll á rakgrind.
Rendesnare rennisnara (B. H.), snara.
Rendesteen (steinlagt) ræsi (á borgarstræti): Han deisede om i Rendestenen.
Rendesteensbræt laus trjebrú á ræsi (á borgarstræti).
Rendesteensskarn for í ræsi (á borgarstræti).
Rendesteensvand vatn í ræsi (á borgarstræti).
Rendestolpe barnspýta í rakgrind.
Rendesø alda sem fer langt.
Rendesøger, sk., járnstöng sem stungið er niður í jörðina til að finna bunustokka.
Rendetræ trje í bunustokk.
*Rendez-vous, kl., = Stævnemøde.
Rending, sk., a) uppistaða: Rendingen er noget finere, end Islætten. — b) (á skipi), kaðalbriugur (sem e-ð er sett niður í).
rene, ás. 1, (sjaldh.): R. en Ager gera merki meðal akra.
*Renegat, ft. -er, kk., (afneitari), níðingur (sjer í lagi kristinn maður sem tekið hefur Tyrkja-trú).
*Renommee, kl., mannorð; orðstír, frægð.
*renommere, h. s. 1, (reyna að koma orði á sig með því að) láta mikið yfir sjer, vera mikill á lopti, garta.
*Renommist, ft. -er, kk., sá sem mikið lætur yfir sjer, gartari; slarkari.
*Renonce, sk., (í spilum), það að maður hefur ekkert af e-l spilategundinni (tígli, hjarta, lauſi eða spaða).
*renoncere, s. 1, a) h. s., = renuncere. — b) ás.: R. sig i en Farve koma af sjer e-l spilategundinni (lauſi, spaða, hjarta eða tígli).
*Renovation, sk., hreinsun kamra eða stræta.
Rensdyr hreinn, breindýr, *cervus tarandus.*
Rensdyrshorn breindýrshorn.

Rensdyrsmelk hreindýrsmjólk.

rense, ás. 1, [reinsa f. hreinsa], hreinsa: R. Vogerne for Støv hreinsa rykið af bákunum (sb. Fms. II, 261). R. Saaret for Materie fægja sárið. — b) óeiginl.: R. sig ved Ed skíra sig með eiði (sb. Gþl.).

Rensedigel deigla sem e-ð er brætt í til að skíra það.

Rensekar ílát sem e-ð er hreinsað (skírt) í.

Renselse, ft. -r, sk., hreinsun.

Renselsesed undanfærslu-eiður.

Renselsesfest hreinsunarhátíð: Marias R.

Renselsesmiddel það sem e-ð er hreinsað með.

*Rensemaskine tilbúningur til að hreinsa korn með.

Renseværk kornhreinsunar-áhald (í mylnu).

Rensning, ft. -er, sk., hreinsun: Kornets R.

Rente, ft. -r, sk, [renta], a) (fornt.), renta, (.ikt og) tekjur. Sb. Paaskerente. — b) leiga af peningum, vextir á fje: Sætte Penge paa R. selja fje á leigu. Tage høi R. eða høie Renter. Rentes R. leigna-leiga.

rentebærende, [sb. bære], sem leigu ber (sb. leiguburðr), sem goldin er leiga af: R. Capitaler. R. Obligationer.

Rentedag (leignadagur), leignagjalddagi.

Rentefod leiguburður (það hversu mikil eða lítil leiga er tekin af peningum): En høi (lav) R. mikill (lítill) leiguburður.

rentefri (um penings), sem ekki er goldið eptir, leigulaus, vaxtalaus.

Rentegiver sá sem geldur leigu eptir peninga.

Rentekammer tekjuráð(ið, sem var).

Rentemester (fyrrum), ríkis-gjaldkyri, (rentumeistari, Fas. III, 423).

Rentepenge, ft., leiga eða vextir á peningum: Betale R. Leve af sine R.

*rentere, h. s. 1, = svare Regning (sb. Regning).

Renteri, kl., (fyrrum), tekjuhús (ríkisins).

Renteskriver (fyrrum), reikningaskoðari (í tekjuráðinu).

Rentetager, ft. -e, kk., sá sem tekur við leigu eptir peninga.

Rrntevæsen allt sem heyrir til vaxta á peningum.

*Rentier, kk., maður sem lifir af leigu eptir peninga sína.

*renuncere (einnig renunciere), h. s. 1, í orðatiltæk. r. paa noget sleppa (viljandi) e-u (sem maður gæti öðlast), hafna e-u.

*renunciere sjá renuncere.

*Reol, ft. -er, sk., bókaskápur.

*Reorganisation, sk., það að reorganisere.

*reorganisere, ás. 1, = ombanne.

*Reparation, ft. -er, sk., aðgerð (á e-u eða e-s).

*Reparatur, sk., = Reparation.

*reparere, ás. 1, gera að e-u, (sb. ditta að e-u), endurbæta (sb. Fms. VIII, 197).

*repartere, ás. 1, jafna (e-u) niður.

*Repartition, sk., niðurjöfnun.

*Repertoire, kl., nöfn eða safn allra þeirra sjónarleika sem fram eru fluttir (sýndir eru) í e-u leikhúsi.

*Repertorium, ft. Repertoria og Repertorier, kl., (bók sem eiginl. er) safn af ritgjörðum er allar lúta að sama höfuð-efni, ritgjörðasafn (um o. s. frv.).

*Repeteeruhr vasaúr sem maður getur látið slá.

*repetere, ás. 1, a) taka e-ð upp aptur. — b) rifja upp (e-ð sem maður hefur lesið). — c) (um vasaúr), slá.

*replicere, h. s. 1, svara, endsvara; svara aptur (að nýju).

*Replik, ft. -er, sk., a) svar. — b) (í málaferlum), annað svar (sækjanda).

*Repressalier, ft., hefnd (sjer til skaðabóta).

*Reprimande, sk., skúta, (sb. Irettesættelse, Bebreidelse; sbr. Næse 1, e).

*reproduceere, ás. 1, leiða (e-ð) út af sjer að nýju (sb. producere e).

*Reproduction, sk., það að reproducere (ný framleiðsla; nýr vöxtur).

*Reproductionskraft, a) endurminningar-afl. — b) eðlismáttur til nýrrar framleiðslu.

*reproductiv, ft. -e, e., sem hefur það eðli að gefa nýtt út af sjer að nýju.

*Reproductivitet, sk., = Reproductionskraft b.

*Repræsentant, ft. -er, kk., sá sem er í stað annars, umboðsmaður, fulltrúi; varnaðarmaður (Fms. IV, 284).

*Repræsentation, sk., það að repræsentere.

*repræsentativ, ft. -e, e., sem er í stað e-s annars.

*Repræsentativ, ft. -er, kl., peningur af verðlitlu efni (t. a. m. eiri eða brjefi) sem hafður er í stað annars betri.

*Repræsentativforfatning sú stjórnarlögun þar sem fulltrúar þjóðarinnar eru látnir eiga hlut í um stjórnarmálefni.

*Reptil, ft. Reptilia eða Reptilier, kl., = Krybdyr b.

*Republicaner, ft. -e, kk., þjóðstjórnarmaður.

*republicanisere, ás. 1, gera (e-ð) að þjóðríki.

*Republicanismus, án ft., sk., löngun til þjóðstjórnar.

*republicansk, ft. -e, e., sem lýtur að þjóðstjórn.

*Republik, ft. -ker, sk., þjóðríki, þjóðveldi.

*Repuls, sk., afsvar; hryggbrot.

*Reputation, sk, mannorð.

*reputeerlig, ft. -e, e., befðarlegur, (sb. hefðarmaður).

*Reqviem, kl., sálumessa með söng eða hljóðfæraslætti.

*Reqvirent, ft. -er, kk., sá sem beiðist eða krefst eða spyr e-s, (sb. heimtandi).

*reqvirere, ás. 1, beiðast e-s; krefjast e-s.

*Reqvisit, ft. -er, kl., e-ð sem er ómissandi (til e-s).

*Reqvisition, ft. -er, sk., það að reqvirere.

*rescribere, ás. 1, (annaðhvort um konung þegar hann svarar e-u stjórnarráði, eða um stjórnarráð þegar það svarar e-m embættismanni undir sjer), skrifa aptur.

*Rescript, ft. -er, sk., (óprentað) konungsbrjef.

*Reseda, sk., (eins konar ilmandi blóm) *reseda odorata.*

*Reservation, ft. -er, sk., það að reservere.

*Reserve, a) án ft., sk., = Baghaand 2: Have noget i R. — b) með ft. -r, kk., varaliðsmaður.

*Reservecorps, kl., varalið.

*reservere, ás. 1, áskilja, geyma.

*Resident, ft. -er, kk, umboðsmaður (e-s ríkis í öðru landi — minna háttar enn Gesandt og meira háttar enn Agent).

*Residents, ft. Residentser, sk., aðsetursstaður, aðsetur, aðseta.

*residere (har), h. s. 1, sitja = hafa aðsetu (sb. Eiríkr hafði atsetu í Járvík, þar sem menn segja at fyrr hafi setit Loðbrókarsynir, Fms. I, 23). — Rrsiderende Capellan (aðstoðarprestur sem hefur brauð eða embætti og ekki er einungis tekinn til aðstoðarmanns af yfirprestinum), aukaprestur.

*Resignation, sk., a) það að segja af sjer. — b) það að una því sem ekki verður hjá komizt.

*resignere, ás. 1, segja af sjer. — b) hb. l. t., resigneret, sem e., sem unir því er ekki verður hjá komizt.

*resolut, ft. -e, e., skjótráður; einbeittur. — b) (í tali), rífur, (sb. auðmildingur).

*Resolution, sk., a) með ft. -er, úrlausn. — b) án ft., það að vera resolut a.

*resolvere, ás. 1, a) leysa úr (e-u), ráða (e-ð) af. — b) r. sig ráða hug sinn. — c) hb. l. t, resolveret, sem e., = resolut a.

*Resonants, sk., = Gjenlyd, Gjenklang.

*Respect, sk., lotning; (einnig líkt og beygur: Med R. at sige ef jeg má tala svo klúrt.

*respeetabel, ft. respectable, e., virðuglegur, heiðarlegur.

*Respectdage, ft, gjaldfrestur (um til tekna dagstölu). Sb. Løbedag.

*respertere, ás. 1, meta e-n nokkurs; hafa beyg af e-m.

*respectiv, ft. -e, e., hver að sínu leyti, hver eptir sínu rúmi, eða þvíuml.

*respective, au., hver að sínu leyti, hver eptir sínu rúmi, eða þvíuml.

*Respiration, sk., andardráttur. — b) = Pusterum.

*respirere, h. s. 1, draga andann. — b) kasta mæðinni.

*Respirodage, ft. = Respeetdage.

*Respit, sk., gjaldfrestur.

*Respitdage, ft. = Respertdage.

*Respondent, ft. -er, kk., aðstoðarmaður annars sem er að verja ritgjörð til nafnbótar sjer (sb. disputere).

*Respondentiabrev = Bodmeribrev.

*Responsum, ft. Responsa, kl., svar. Sb. Betænkning b, Erklæring b.

*Ressort, sk., umdæmi, umráð, úrlausn.

*ressortere, h. s. 1, hverfa (undir e-n til umdæmis eða úrlausnar, eða þvíuml).

*Ressource, ft. -r, sk., = Hjelpekilde.

Rest, ft. -er, sk., afgangur, leifar, eptirleifar (Stjórn), eptirstöðvar: Staae til R. med noget eiga e-ð óborgað. Give een sin R. gera út af við e-n, o. s. frv. For Resten að öðru leyti.

*Restance sjá Restants.

*Restant, ft. -er, a) kk., sá sem á e-ð úgert eða ógoldið. — b) sk. (og ekki nema í ft., — hjá kaupmönnum), vara sem ekki hefur gengið út.

*Restants, ft. Restantser, (einnig skrifað Restance, ft. -r), sk., eptirstöðvar (af skuld, eða e-u öðru sem maður á að inna af hendi): Det staaer til R. það stendur eptir (óborgað). Han staaer saa meget i R. hann er skyldugur um svo mikið. Han er i R. hann á nokkuð ógoldið.

*Restaurateur, ft. -er, kk., (hressingarmaður), veitingamaður.

*Restauration, ft. -er, sk., a) endurbót. — b) (hressingarhús), veitingahús.

*restaurere, ás. 1, endurbæta, gera að e-u. — b) hressa.

*restere, h. s. 1, = efterstaae: Resterende Skatter ógoldnir skattar.

*restituere, ás. 1, a) skila e-u aptur, endurbæta (sb. hver — þ. e. hvíld og sæla — er öndunum endrbætiz eptir andlátið, Stjórn). — b) lækna: Fuldkommen restitueret albata.

*Restitution, sk., það að restituere.

*Restriction, ft. -er, sk., það að restringere.

tømmerbygget, [sb. bygge], gjörður úr timbri, (sb.: timbra).
Tømmerflaade timburfloti.
Tømmerfolk, ft., timbursmiðir.
Tømmerhaandværk timbursmíði (sem lön; sb. Tømmerarbeide).
Tømmerhandel timburverzlun.
Tømmerhandler, ft. -e, kk., timburkaupmaður.
Tømmerhugger, ft. -e, kk., sá sem böggur við í skógi, eða öxar (sb. Fms. II, 233) häggvinn við, (sb.: trjetelgja).
Tømmerhugst timburhögg (Fms.), skógarhögg (Grágás), viðarhögg (Grágás), viðarhöggst (sb. Gþl.).
Tømmerhængsel, sk., (í Norv.), timburstukkar lagðir um þvera á til að stöðva timbur sem rekur fyrir strauml.
Tømmermaaling timburmælIng.
Tømmermand, timbursmiður, (sb.: húsasmiður).
Tømmermester meistari í timbursmiði.
Tømmerplads timburpláss.
Tømmersav tilbúningur til að fletta timburstokkum.
Tømmerskov efniviðar-skógur.
Tømmerstok timburstokkur (forn).
Tømmersvend fullnumi í timbursmiði.
Tømmertræ, trjo sem efniviður er í, (sb. Gavntræ).
Tømmerved, efniviður, (sb. Gavnved).
Tømmerværk, kl., tilbúningur úr timbri, e-ð sem gjört er úr timbri Tømmerværket (grindin) i et Huus.
Tømmeroxe tálguöxi (Eyrb. 182).
Tømning, ft. -er, sk., tæming, ruðning: Flaskernes (Sækkenes) T.
tømre, ás. 1, [timbra; sb. greinina um Tømmer], timbra (sb. Gþl. 449), smíða (e-ð úr timbri): T. et Huus. Dette Lysthuus har han selv tømret sammen. — Án þol.: Han har lært at t. numið timbursmíði.
Tønde, ft. -r, sk., [tunna; sb. Brønd af brunn-r], 1) tunna, (sb. kaggi), a) um hvers konar stórt ílát með tveimur botnum. Sb. Saltetønde; Fad 2, (Viinfad), Oxehoved b, Pibe B. — b) með tiltekinni stærð: En T. Steenkul ($5^1/_2$ verpilsfet — Cubikfod —, en 352 merkur); annað en Kultønde (tunna sem kol eru höfð í). En T. Korn ($4^1/_2$ verpilsfet; en 288 merkur; sb. Skjeppe a, Fjerdingkar). En T. Øl ($4^1/_4$ verpilsfet, en 272 merkur); sb. Øltønde. En T. Brændeviin brennivínstunna. En T. Smør smjörtunna = tunna smjörs (sb. einnig Fms. X, 203), tunna af smjöri; annað enn Smørtønde. En T. Salt salttunna = tunna af salti; annað enn Salttønde. En T. Sild síldartunna = tunna af síld; annað enn Sildetønde. — 2) (sb.: sjö tunnur rauða-gulls): En T. Guld hundrað þúsundir ríkisdala. — 3) (um jarðarmál): En geometrisk T. Land 14,000 ferskeyttra álna. En T. Hartkorn (sb. Hartkorn).
Tøndebaand, (tunnu)svigi, tunnugjörð.
Tøndebund tunnubotn (sb. Nj. 133).
*Tøndeboie bol-dufl í lögun eins og tunna.
Tøndedæksel tunnuhlemmur.
Tøndegjord (sjaldh.) = Tøndebaand.
Tøndegods vara sem höfð er í tunnum. Sb. Stykgods, Styrtegods.
Tøndehvælving afiaugt ræfurhvolf.
Tøndeknegt eins konar starfsvelna í námum.
Tøndelad tunnustallur (sb. Lad a).
Tøndemaal tunnumál.
Tøndepenge, ft., tunnutollur (goldinn af skipum fyrir að sigla fram hjá þeim tunnum er sýna hvar grynningar sjeu; sb. Varetønde).
Tønder, án ft., kl., [Tønder: tundr = sønder: sundr]. tundur: T. af Svamp. T. af Træske.
Tøndestav tunnustafur (sb. Grágás, II, 339).
Tøndetap tunnukrani.
tøndeviis, ao., í tunnum: Sælge noget t.
tør, ft. -re, e., [þurr], 1) eiginl., a) þur: En t. Grav (sb.: at þurr voro äll eyjasundin ok firðir, Fms. XI, 6). Jorden er ganske t. (sb.: þurr jörð, Al. 77). Tørre og skarpe Jorder þurrt land og skarpt. — Have sit paa det Tørre, vera bólginn, vera búinn að kuma sjer fyrir, eða þvíuml. — En t. Luft eða tørt Veir þurrviðri. En t. Sommer þurrkasamt sumar (Rimb.), þurrka-sumar. En t. Vind, þurvindi, (sb.: flæsa, þurrkur, þerrir). — En t. Hoste þurra-hósti. — Skriften (Farven) er endnu ikke t. (sb. þorna). — Tørre Blommer (Viindruer, o. s. frv.; sb. þurrka). Tørt Brænde. — En t. (kalin) Green (sb.: hvürt sem þat er brár viðr eða þurr, Grágás). — Kjødet er haardt og tørt (sb. þyrrinn). — T. Mad, þur matur (forn), þurmeti, þuræti. Tørt Brød þurrt brauð. — Tørre Hug (sb. Hug b). — b) skinínn og horaðnr (sb.: horgámur, o. s. frv.). — 2) óeiginl., þur, þurrlegur, (sb.: fár, fálegur); leiðinlegur: Være t. (þurrlegur) i Selskaber. En t. Modtagelse þurrlegar viðtökur. En t. Spøg gaman sagt með alvörusvip. Sige een den tørre Sandhed segja e-m beran sannleikann. En t. og kjedsommelig Bog. En t. Stiil dauft orðfæri. — B) tørt, sem ao., alvarlega, eða þvíuml.: Han sagde det ganske tørt. Lee tørt hlæja kaldahlátur.
Tørhed, án ft., sk., þurrleiki (Stjórn; sb. þurrkur).
tørke, ás. 1, [þurrka], (sjaldh.), þurrka, þerra. „Den Gud, som tørker Land, han det og væder". — „Det tørkedes bort" skrælnaði.
Tørke, án ft., sk., [sb. þurrk-r], þurrkur: Sæden (Græsset) lider under den langvarige T.
tørkefuld þurrkasamur (Rimb.): „En t. Vaar".
Tørklæde, ft. -r, klútur, (sb. dúkur): Knytte (bære) noget i et T. Kaste et T. om sig kasta yfir sig herðadúki (sb. Kastetørklæde).
tørkne, h. s. 1, [sb. þorna], (forni.), þorna, skrælna: „Høet tørkner, Blomsteret visner og falder af".
tørne (har), h. s. 1, [turna, í orðinu umturna], reka sig (á e-ð), rekast (á e-ð), bella (á o u). Baaden tørnede mod en Steen.
Tørning, sk., a) það að rekast (reka sig) á e-ð. — b) (úrelt), rimma (með vopnum), hríð, (sb. Dyst 3, Fegtning 2, a, Kamp, Strid).
tørre, s. 1, a) ás., þurrka, þerra: T. Korn (sb.: menn skulu at frjálsu þurrka þar heyit, Jónsbók; þerra hey, Grágás II, 276). T. Urter. T. Frugter. — T. Klæder (þegar þau hafa verið þvegin; (sb.: rótt er at þerra — í annari fornbók: þurrka — úti föt, þótt drottinsdagr sé). — T. en Sø ud; sb. udtørre. T. sine Øine (Kinder) þerra tár af augum (kinnum) sjer. — T. noget af med et Klæde; sb. aftørre. T. Støv af (sb. þerra af oss syndadust). Sb. viske. — tørres þorna: Lad det tørres i Luften. — b) h. s. þorna: Det tørrer ikke (eða det vil ikke t.) i et saadant Veir.
Tørrehuus, þerrihús (Jdb.), þerrihjallur (B. H.).
Tørreklud dula (rýja) til að þerra með.
Tørreloft þvottsloft (þar sem þvottur er hengdur upp til þerris).
Tørreovn ofn sem korn eða malt eða þvíuml. er þurrkað á.
Tørreplads þerri-svið.
Tørring, ft. -er, sk., það að tørre (þurrkun, þerrir).
tørskoet, a) ft. -skoede, e., þur í fæturna. — b) sem ao., þurrfætis (Ilkr.), þurrum fótum, (sb.: ef þá má eigi ganga þurrt í hólminn, Grágás).
Tørst, án ft., sk., [sb. þorsti og einkunnina þyrst-r], þorsti: Lide T. vera þyrstur. Have en stærk T. vera mjög þyrstur. Slukke (síður stille) Tørsten slökkva þorsta (forn), seðja þorsta (forn), svala sjer. — Óeiginl., (sb.: slökkva andar þorsta, 619; einnig finnst í fornbókum: vera þyrstr til góðra verka, eða þvíuml.): T. efter Rigdom (Ære).
tørste (har), h. s. 1, [þyrsta], a) vera þyrstur, (sb. o-n þyrstir): T. efter salt Mad vera þyrstur eptir saltan mat. Den Syge tørster meget, hinn sjúka mann þyrstir mjög, (sb.: voru benni at meini bitar miklir ok þarstar, Fms. VI, 350). — b) óeiginl., (sb.: til gullsens þyste þik, Rimb. 410; eigi þyrsti guð eðr fýsti upp á sveinsins blóð, Stjórn): T. efter Ære (Rigdom, Blod).
tørstig, ft. -e, e., þyrstur: Sulten og t. svangur og þyrstur.
Tørv, sk., [sb. torf og sögn. tyrfa], 1) án ft., a) = Græstørv, Grønsvær. — b) torf (sb.: elds er rétt at gera ok kljúfa torf til), torfmór (Grágás), mór, svörður: Levende T. (mór, sem er að vaxa, í jörðu). Død T. (mór, sem hættur er að vaxa, í jörðu). Skære T. skera torf (Grágás II, 338). Brænde T. — 2) með ft. eins, móköggull, móflaga: To Snese T.
tørvagtig, ft. -e, e., mókenndur: En Mose af t. Beskaffenhed.
Tørvdyrkning mórækiun.
Tørveaske mó-aska.
Tørvebrændsel, eldiviður sem er mór, mór sem eldiviður, (sb. Grágás II, 338).
Tørvebund jarðvegur sem mór er í.
Tørvegjøring, sk., móvinna.
Tørveglød glóðir af mó.
Tørvegn mópláss (þ. e. hjerað — eða þvíuml. — þar sem gótt mótak er).
Tørvegrav torfgröf (Grágás), mógröf.
Tørvegravning sjá Tørvgravning.
Tørvegrund = Tørvebund.
Tørvehuus torfhús (sb. Ísll. II, 113; sb. Tørvekammer).
Tørveild móeldur.
Tørveir, [sb. þurrviðri, Fms.], þurrt (veður), regnlaust, úrkomulaust.
Tørvejern verkfæri til að kljúfa mó með.
Tørvejord, a) mókenndur jarðvegur. — b) land sem mótak er í.
Tørvekammer mókofi.
Tørvekul mókol: Smede ved T.
Tørvelag mólag (í jörðu).
Tørvelod, sk., partur í mómýri.
Tørveloft móloft.
Tørvelugt sterkja (fastilja) af mó.
Tørvemose mómýri.
Tørveramme, a) mógrind (þ. e. grind sem mó er blaðið í). — b) dálítil grind sem mór er mótaður í, torfmót.
Tørverøg móreykur.
Tørveskifte = Tørvelod.
Tørveskær, kl., torfskurður (sb: Staðrinn i Runa á torfskurð í Bakka-land, á Torfmýri, svá sem hann þarf til eldiviðar), móskurður: Til Gaarden er baade Skov og T.
Tørvesmul mómylsna.
Tørvespade torfskeri (sb. Ísll. I, 283).
Tørvestak, torfstakkur (sb. Laxd. 336), torfköstur, móhlaði.
Tørvevold torfgarður.
Tørvgravning (einnig Tørvegravning), torfskurður (forn).
Tørvplante planta sem sprottur þar sem mór er undir.
Tørvvært móvöxtur (í jörðu).

Tos, ft. Tose, kvk., stelpa.

Tøsnee, krapadrífa (Sturl.), krapahríð (B. H.), krapi.

tosser og tøsver, ao., [tysvar], (úrelt), tvisvar.

tøsver sjá tosser.

tøve (har), h. s. 1, [sb. tefja], a) dveljast (bíða) á e-m stað: Jeg vil t., her til du kommer tilbage. Jeg tøvede hele Dagen; men han kom ikke. Tøv endnu en halv Times Tid. T. (ótíðara enn vente) efter een. — b) draga (að gjöra e-ð; sb.: fresta e-u, slá — skjóta — e-u á frest): Han tøvede med at gjøre det bekjendt saa længe som muligt. „Hvis endog de gladere Dage t. at komme" fresta komu sinni. — „Lad din Gjerning t. til i Morgen" frestaðu verki þínu til morguns.

Tøveir = Tø.

Tøven, án ft., sk., dvöl, bið.

tøvsom, ft. -me, e., [sb. tafsam-r], ónskull, hyskinn, eða þvíuml.

# U.

U, tuttugasti og fyrsti stafur í stafrofinu, hefur sama atkvæði sem ísl. ú, en er ýmist sprottið af ú eða u, og haft á sumum stöðum þar sem u hefur breytzt í ó, eða u í o, á íslenzku.

u-, [ú-], ó- (þ. e. neitunarorð, sem fest er framan við nöfn eða einkunnir eða hluttekningarorð, eins og á íslenzku). Sb. (sökum þeirrar merk., sem er í u-) ubodelig, uartig, Udyr.

uaabnet, [sb. aabne], óopnaður; (um brjef) óuppbrotinn: Sende et Brev u. tilbage.

uaandbar sem ekki verður andað (sem ekki má draga andann) í: En u. Luftart.

Uaar, [úár?], óár (B. H.), óáran (kl. fornt), hallæri: „Et Land, som kun sjelden har U."

Uadel, þeir sem ekki eru herrastjettar, er ekki haft nema í orðatiltæk.: Baade Adel og U. herrafólk og aðrir.

uadelig (sem) ekki (er) herrastjettar.

uadskillelig ósundurskillegur (fornt): Et Par uadskillelige Venner (sb.: hvorugur má sjá af öðrum).

Uadskillelighed, án ft., sk., það að vera uadskillelig.

uadspurgt, [sb. adsporge], fornspurður: Han gjorde det, mig u. að mjer fornspurðum.

uadvaret, [sb. advare], ekki varaður við: Jeg var u. om Faren.

uafbrudt, [sb. afbryde], a) sem e., sem hvergi er hlið eða hlje á: En u. Række af Uheld. — b) sem ao. í sífellu, (sb. einart): Arbeide u. hele Dagen igjennem (sb.: liðlangan daginn).

uafgjort, [sb. afgjøre], óútkljáður: Sagen henstaaer endnu u. er óútkljáð enn.

uafholden, (sjaldh.), óbindindisamur, óhófsamur; óhreinlífur, óskírlífur.

uafhængig, ekki kominn undir (e-u eða e-m); ekki kominn upp á (e-n); ekki háður (e-m), sjálfráður, frjáls: Være u. af andre vera engum háður. Føre et uafhængigt Liv lifa og láta eins og maður vill.

Uafhængighed, án ft., sk., sjálfræði, frelsi: England var den første Magt, der erkjendte de sydamericanske Staters U.

uafladelig, [sb. úaflátlig-], a) ft. -e, e., óaflátanligur (B. H.), sífeldur: Være i u. Virksomhed (Bevægelse). — b) sem ao. óaflátlega (fornt), í sífellu, o. s. frv.: Der blev u. skjenket i Glassene saasnart de vare tømte það var einlægt (alla jafna) hellt á staupin, óðara enn (jafnótt og) úr þeim var drukkið.

uafseelig, ft. -e, e., = uoverskuelig.

uafsættelig, sem ekki gengur út, (sb.: óútgengilegur): Uafsættelige Varer.

uaftalt, [sb. aftale], a) sem e., sem menn hafa ekki talað sig saman um: Et u. Møde. — b) sem ao., þó menn hafi ekki (án þess að hafa) talað sig saman.

uafvidende, sem e., [sb. vide af noget], óvitandi: Jeg gjorde det u. jeg gjörði það óvitandi (sb. Eg. 736). Det skete mig ganske u. (sb.: Ólafr gekk frá herbergi sínu ...., at úvitanda Sigurði).

uafværgelig, ft. -e, e., sem ekki verður afstýrt: En u. Skade (Ulykke).

uagtet, sem st., [sb. agte], a) = omendskjøndt, endskjøndt, skjøndt, endbog 2: Man vilde ikke lade mig komme ind, u. mange andre havde fri Adgang. — b) þrátt fyrir: U. hans store Fortjenester, maatte han ende sit Liv i Armod. Hans Alderdom u. maatte han forlade sit Huus.

Uagtpaagivenhed, eptirtektaleysi, aðgæzluleysi.

uagtsom, ógætinn, gálaus.

Uagtsomhed, ógætni, (sb. í ógáti), gáleysi, misgáningur; eptirtektaleysi: Miste noget ved U. Vise U. ved Underviisning.

ualmindelig, a) e., fágætur, (sb. sjelden b). — b) sem ao., staklega, frábærlega, eða þvíuml.

uandægtig óguðrækinn.

uanfegtet, [sb. anfegte], sem ekki lætur e-ð fá á sig (á sig bíta): U. af Modgang.

uangret, [sb. angre], sem (eig.) maður hefur ekki iðrazt: En u. Synd.

uanket, [sb. anke], = upaa-anket.

uanmeldt, [sb. anmelde], a) sem e., sem ekki er gjört vart við á undan: Et u. Besøg. — b) sem ao., án þess að gjöra vart við á undan.

uanmodet, [sb. anmode], a) sem e., óbeðinn (fornt): Han gjorde det u. — b) sem ao., óbeðið (fornt).

uanseelig lítilfjörlegur: En liden og u. Person.

uanseet, [sb. ansee], a) lítils virtur, lítils metinn. — b) = uagtet: „U. han ..... var ..... dømt." — U. hans høie Byrd eða hans høie Byrd u.

uanstændig, ósæmilegur; ósiðsamlegur: En u. Dragt (Opførsel).

Uanstændighed, án ft., það að vera uanstændig. — b) með ft. -er, ósiðsemi (í verki): Begaae Uanstændigheder.

uantagelig sem ekki verður (fallizt á eða) gengið að: Et uantageligt Tilbud.

uanvendelig, sem (þiggj.) ekki verður komið við, sem ekki á við: Dette Exempel er her uanvendeligt.

uarbeidsom (sjaldh.), óstarfsamur.

uartig, a) óþekkur, óþægur, óhlýðinn: Et uartigt Barn. — b) rustalegur, dónalegur, ókurteislegur, eða þvíuml.: En u. Behandling.

Uartighed, a) það að vera uartig. — b) með ft. -er, dónaskapur (í orði eða verki): Begaae Uartigheder (drýgja dónaskap), begða sjer dónalega. Sige een Uartigheder meiða e-n í orðum.

ubagt, [sb. bage], óbakaður: U. Brød.

ubanet, [sb. bane], óruddur: Ubanede Veie.

ubarket, [sb. barke], ósútaður.

ubarmhjertig, harðbrjósta, harðbrjóstaður, harðbrystur (fornt), miskunarlaus (sb.: ef móðirin væri svá miskunnarlaus, at hón belóólz engrar líknar barninu, Skuggsjá): En u. Haardhed miskunarlaus harka.

Ubarmhjertighed miskunarleysi (sb.: þeir virðu hánum til harðleiks ok miskunnarleysis við fólkit, at hann o. s. frv.).

ubeboelig óbyggilegur (fornt).

ubeboet, [sb. beboe], óbyggður (fornt; sb.: eyðijörð, eyðifjörður, o. s. frv.).

ubebygget, [sb. bebygge], = ubeboet.

ubedragelig, óbrigðull, (sb. tilforladelig): Ubedragelige Kjendemærker.

ubefolket, [sb. befolke], = ubeboet.

ubefængt, [sb. befænge], ómeingaður, úsaurgaður.

ubefæstet, [sb. befæste], a) eiginl., óviggirtur: En u. By. — b) úeiginl., laus fyrir: Han var u. i Dyd og gode Grundsætninger.

ubeføiet, [sb. beføie], sem ekki á heimilt að gjöra e-ð, (sb.: slettireka): Være u. til noget eiga ekki með (að gjöra) e-ð. En u. Dommer.

ubegravet, [sb. begrave], ógrafinn: Et u. Liig.

ubegribelig óskiljanlegur.

ubegrædt, [sb. begræde], lítt harmaður, (sb.: var hann lítt harmdauðr, Fms.).

ubegrændset, [sb. begrændse], takmarkalaus: Det ubegrændsede Rum.

ubehagelig, óþægilegur, óviðkunnanlegur, ógeðfeldur, óviðfeldinn: En u. Følelse (Fornemmelse, Lugt, Smag). En u. Sag.

Ubehagelighed, a) án ft., það að vera ubehagelig. — b) með ft. -er, óhægð, óhægindi, (ami, mein, angur, angursemi): Have mange Ubehageligheder af noget (sb. öll angrsemi sú er maðr kennir síðan af kykvendunum).

ubehjelpsom, ft. -me, e., sem (þigg.) verða vandræði úr öllu, (sb.: fáráður).

Ubehjelpsomhed, án ft., sk., það að vera ubehjelpsom.

ubehændig ólaginn, ólagvirkur, ófimur, (sb. behændig A), klaufalegur, bögulegur, ambögulegur, stirður.

ubehøvlet, [sb. behøvle], rustalegur, ósiðaður.

ubekjendt ókunnur (fornt): Et u. Farvand.

ubekymret = sorgløs: „Det er kun de Letsindige, der saa u. stifte Venner".

ubelavet, [sb. lave], óviðbúinn: U. paa Forsvar.

ubeleilig óhentugur: En u. Tid.

ubeleven, sem ekki kann sig, ókurteis, óhæverskur.

Ubelevenhed, (sjaldh.), óhæverska.

ubemidlet, efnalítill, fjelítill: Han er u., men ikke fattig hann er fjelítill, en ekki öreigi.

ubemærket, [sb. bemærke], sem ekki verður vart við, sem ekki er tekið (enginn tekur) eptir: Han var u. tilstede. Stille og u. henrandt hans Liv (sb.: það bar lítið á honum).

ubenævnt, [sb. nævne], ónefndur.

ubeqvem, óhæfur; óhentugur: Være u. til noget. — En u. Tid.

Ubeqvemhed, óhæfilegleiki; óhentugleiki.

Ubeqvemmelighed óhægindi: Mange Ubeqvemmeligheder.

uberaad, óráðinn, bast í orðatiltæk.: Med u. Hu (með óráðnum huga, þ. e.), dfurbugsað, óviljandi.

uberammet, [sb. beramme], ótiltekinn: Dagen var u.

ubereden, a) ótaminn: En u. Hest. — b) hestlaus = fótgangandi: En u. Rytter.

uberedt, [sb. berede], óviðbúinn: U. paa Modstand.

uberedvillig óbúinn (sb. Gísl. 53).

Uberedvillighed það að vera óbúinn e-s.

uberettiget, [sb. berettige], sem ekki á með e-ð: En u. Besidder. Være u. til noget.

uberygtet, [sb. berygte], ekki illræmdur; sjer í lagi um kvennmann), sem ekki fær orð fyrir að vera saurlífur: En skikkelig og u. Pige.

uberømmelig (sem er) með litlum orðstír: Et uberømmeligt Navn (Levnet).

uberørt, [sb. berøre], sem ekki er minnzt (ekkert er drepið) á: Lade en Sag være u. (sb.: leiða e-ð fram hjá sjer).

ubesat, [sb. besætte], auður (af mönnum eða liði): En u. Plads (Skandse).

ubeseet, [sb. bese], a) sem e., ósjeður: Kjøbe noget u. (sb.: nú kaupir maðr úsénan grip, Gþl.). — b) sem ao., ósjeð.

ubesindig, óforsjáll; óforsjállegur.

Ubesindighed óforsjálni.

ubeskaaren og ubeskaaret, [sb. beskære], a) (um bók) sem ekki er skorið utan af: En u. Bog. — b) óskertur: Man har dog ladet ham een Rettighed u.

ubeskadt, [sb. beskade og skadd-r], = uskadt.

ubeskeden framur.

Ubeskedenhed óhæverska.

ubeskrivelig óumræðilegur (fornt): En u. Smerte (Glæde).

ubeskæftiget, [sb. beskæftige], sem ekkert hefur að gjöra, iðjulaus, (sb.: sitja auðum höndum).

ubesmittet, óflekkaður (fornt), ósaurgaður (fornt): U. af Laster.

ubestandig, óstaðfastur (fornt), óstöðugur (fornt), stopull, hvikull, hviklyndur, o. s. frv.: Være u. i Kjærlighed (Venskab).

Ubestandighed, óstaðfesti (sb.: óstaðfesti hugar, 619), hviklyndi, o. s. frv.: Lykkens U.

ubestemt, [sb. bestemme], ótiltekinn; hvikull: Til ubestemte Tider. — En u. Charakteer.

Ubestemthed, hvikulleiki, (sb.: vöflur).

ubesvaret, [sb. besvare], sem ekki er svarað: Lade et Brev u. svara ekki brjefi.

ubesværet, [sb. besvære], sem (þiggj.) ekki er ofþyngt.

ubetalelig (sem ekki verður fullu goldinn, þ. e.) óviðjafnanlegur.

ubetids of seint.

ubetimelig sem er á röngum tíma.

ubetinget, [sb. betinge], fullkominn, (sb.: fortakslaust): U. Bifald. „Hvis denne strenge Dom skal u. gjelde".

ubetonet, [sb. betone], = toneløs b.

ubetraadt, [sb. betræde], sem enginn hefur stigið fæti á, ófarinn: Ubetraadte Veie.

ubetvingelig, ft. -e, o., ósigranlegur, ósigrandi, óbemjandi, óviðráðanlegur: Et ubetvingeligt Folk. En u. (óstillandi) Lyst.

ubetydelig, ómerkilegur (fornt), lítill, lágur, (t. a. m.: þó allt sé lágt hjá guðlegum mætti; sb.: lítilmótlegur, lítilfjörlegur, auðvirðilegur): Et ubetydeligt Menneske. En u. Anledning (Skade).

Udbetydelighed, a) án ft., það að vera ubetydelig (lítilleikur, fornt). — b) með ft. -er, lítilræði: Hvad han gav ham, var en U.

ubetænksom, óvarkár, ógætinn; ógætilegur: En u. Yngling. — En u. Handling. Et ubetænksomt Svar.

Ubetænksomhed ógætni.

ubevandret óleikinn (í e-u): Være u. i en Forretning.

ubevant óvanur e-u: Være u. med noget.

Ubevanthed, án ft., sk., óvani (= það að vera óvanur e-u): U. med Forretninger.

ubevidst óvitandi: Jeg er mig u. at have (jeg veit ekki til að jeg hafi) gjort det. En u. Tilstand það að vita ekki til sín (af sjer; sb.: ek vissa fött frá mér).

Ubevidsthed, óvit, (sb. ómegin).

ubeviislig, sem ekki verður sannaður, ósannandi.

Ubeviislighed, án ft. sk., það að verða ekki sannaður.

ubeviist, [sb. bevise], ósannaður: Ubeviste Beskyldninger.

ubevæbnet, [sb. bevæbne], a) vopnlaus, (sb.: hlíforlaus, slyppur). — b) et u. Øie ber augu (þ. e. án sjónpípu).

ubevægelig óbifanlegur: Staae u. standa grafkyr.

Ubevægelighed óbifanleglelki.

ubillig, ósanngjarn; ósannsær (Fms.).

Ubillighed, ósanngirni, (sb. afarkostir): Fordringens U.

ublandet, [sb. blande], óblandinn.

ublid, harður, hágur, mótdrægur: U. Luft (sb.: ef veðr er úsvóst úte, Grágás; veðr var æsilega úsvást af hreggi ok regni). En u. Skjebne grimm (grimmileg) forlög.

Ublidhed harka.

ublodig (sem er) án blóðs-úthellingar: En u. Seier.

ublu, ft. -e, e., [-blu af bljúg-r; sb. suge og sjúga], = skamløs, fræk: En u. Betaling. Ublue Priser (Beskyldninger).

Bluhed, án ft., sk., = Skamløshed, Frækhed: U. i Fordringer.

ubodelig, ft. -e, e., [e. o. úbótalig-r], óbætilegur (fornt): Et ubodeligt Tab. Til u. Skade.

ubodfærdig iðrunarlaus.

Ubodfærdighed iðrunarleysi.

ubrugbar, ónýtur, engu nýtur.

Ubrugbarhed það að vera ónýtur.

ubrødelig, ft. -e, e., óbrigðanlegur (fornar myndir: óbrigðil., óbrigðul.), órjúfandi, o. s. frv.: U. Troskab. Et ubrødeligt Løfte.

ubuden og ubudet, [sb. byde], óboðinn (fornt): Ubudne Gjester (sb.: boðsletta, boðflenna): Et ubudet Følge.

ubunden og ubundet, [sb. binde], a) eiginl., óbundinn (fornt). — b) óeiginl., ótakmarkaður: U. Frihed.

Ubundenhed, án ft., sk., offrelsi: „Om den Frihed, vi vandt, ikke var U.".

ubændig, ft. -e, e., óviðráðanlegur, óbemjandi.

ubøielig, stríður, þrár: Et ubøieligt Sind.

Ubøielighed stríðleiki.

*uchristelig ókristilegur: En haard og u. Adfærd. Et uchristeligt Sind.

*uchristen ókristinn (sb. Halldór hinn úkristni).

*ucultiveret, [sb. cultivere], óræktaður; ómenntaður, ósiðaður.

ud, ao., [út], A) eiginl., 1) um hreifingu, a) út úr húsi: Ud af (út úr) Stuen. Det blev kastet ud af Huset gjennem Vinduet því var kastað út úr húsinu um gluggann. Det blev kastet ud ad (eða af) Vinduet út um gluggann. Ud ad (eða af) Døren út um dyrnar, (sb.: Þá gekk Guðmundr út þær dyrr, Sturl.). Følge een ud fylgja e-m til dyra. Kast Vandet ud helltu út vatninu! Jeg kunde ikke finde ud i Haven jeg rataði ekki út í garðinn. — b) hænge Lygter ud festa ljós-ker (utan) á vegg. — c) að heiman: Gaae (ride, kjøre) ud. — d) út (svo maður færist fjær byggðu bóli, sem miðað er frá): Ride ud til Skoven. Ud i Skoven. — e) gaae ud paa Bytte (sb.: fara — halda — í hernað; hefja hernað). — f) út (úr landi): De forfulgte ham indtil ud over Grændsen. — g) út (úr höfn): Skipperen lægger ud (lætur út) i Dag. — h) det flød ud over hele Gulvet út um allt gólf. — i) det gaaer ind og ud, gengur út og inn, er í hugðum, er blykkjótt. — k) út, frá sjer: Række Haanden ud. Strække Benet ud. — 2) um stefnu, út: „Dog hænger Fjeldet mørkt ud over Livets Vei." — B) um tíð: Ud paa Sommeren fram á sumar. Det drager længe ud, dregst lengi, stendur lengi á því. — C) hálf-óeiginl. og óeiginl., a) lede (søge) noget ud velja e-ð (úr mörgu). — b) finde ud af noget komast fram úr e-u. Komme ud af noget geta e-ð. — e) út (t. a. m.: næsta morgin eptir, sem prima er út sagðr): Drikke et Glas ud drekka allt úr staupinu. Læse en Bog ud, lesa bók á enda, ljúka við (að lesa) bók. — d) han bringer meget ud af (hefur mikið upp úr) denne Eiendom. — e) stryge noget ud stryka e-ð út. Slette noget ud draga e-ð út. — f) út (sb.: þat sem síra Böðvarr hefir meira út lukt fyrir sagða jörð, á ísl. skjali): Give Penge ud láta úti (þ. e. af hendi) peninga. Betale Penge ud gjalda (borga peninga). Laane Penge ud lána burt peninga. — g) det er ikke let, at dele ud til saa mange, að skipta meðal jafn-margra (með jafn-mörgum), að miðla jafn-mörgum (við jafn-marga). — h) raabe noget ud (kalla e-ð; þ. e.: auglýsa e-ð með kalli) paa Torvet. — i) gaae ud paa noget miða til e-s, (sb. til þess var leikurinn gjörður). — k) det gik ud over den Uskyldige það lenti á saklausum. — l) komme ud paa eet, koma í sama stað niður, standa á sama. — m) see godt (ilde, ordentlig) ud líta vel (illa, alminnilega) út, (sb.: sýn, álit). See bleg ud vera fölur. See daarlig ud vera ósællegur (sb. Fms. VI, 302—303). — Hvorledes seer det ud paa Landet hvernig lítur út í sveitinni? Det seer ud til at blive et godt Aar það lítur út fyrir gott árferði. — Det seer farlig ud med ham það horfist illa á fyrir honum. — II) hjer af er dregið, A) einkunnar-miðstigið ydre, [ytri], ytri, o. s. frv., (sb.: Ef ér hafit nökkur auðæfi en ytri með höndum, 677; auðgaz hann ytrum gjöfum með guðs vilja .... hann gørðiz tribunus o. s. frv.): Den ydre Anseelse. Tingenes ydre Beskaffenhed. — See paa det Ydre fara eptir því, sem utan á liggur. — B) hið efsta stig yderst, [sb. utarst], 1) sem e., a) eiginl., yztur, (sb. efstur): Træets yderste Bark. Den yderste Dør. Den yderste Pynt (sb. Á tanganum nosssins ljet hann hafa dóma alla). — b) um tíð, efstur, síðastur: Den yderste Dag. Han kommer aldrig før i det yderste Øieblik. — Ligge (være) paa det Yderste, liggja banaleguna, vera aðfram kominn, vera að bana kominn. — c) óeiginl., mestur, eða þvíuml.: Tage den yderste Priis for noget selja e-ð geipilega dýrt. Leve i den yderste Armod. Han var i yderste Fare. — Han har forfegtet sin Sag til det Yderste fylgt máli sínu í lengstu lög (eða: svo langt sem unnt var). Han lader det komme til det Yderste, før han gjør noget Skridt hann gjörir ekkert að, fyr enn í allra seinustu lög. Det er kommet til det Yderste med ham, hann er kominn á heljarþrömina (er á heljarþröminni), eða þvíuml. — 2) sem ao., frábærlega: En yderst behagelig Kone allra viðkunnanlegasta kona. Det er yderst vigtigt það er stór-mikið undir því komið.

Udaad, [údáð], ódáð (fornt), óhæfu-

verk (fornt), óverk (Hrafnsk.), óverkan (kl., fornt), glæpur, (sb. glæpaverk).

udaande, anda (o-u) frá sjer, (sb. andast): U. sit sidste Suk taka síðasta andvarpið.

Udaanden, án ft., sk., það að udaande.

udad, ao., a) út á við: Boie noget u. — b) út: Vende den bedste Side af Tørklædet u.

udanlig sjá udannelig.

udannelig (einnig finnst udanlig), a) sem engri lögun verður komið á. — b) (sjaldh.), sem engin mynd (lögun) er á

udannet, [sb. danne], a) ómyndaður: En u. Masse. — b) ómenntaður: Udannede Folkeslag.

udarbeide, ás., a) semja, taka (e-ð) saman: U. en Afhandling (Lærebog, Plan). — b) ganga (vel) frá (e-u): Alle Partier i dette Maleri ere meget udarbeidede (sb.: vanda e-ð).

Udarbeidelse, sk., a) án ft., það að udarbeide. — b) með ft. -er, e-ð sem samið er: Skriftlige Udarbeidelser ritgjörðir.

udarmet, ft. -armede, e., kominn á vonarvöl.

Udart lök tegund: „Somme Arter finder man fremstillede indtil deres mindste Afarter og Udarter."

udarte (er), h. s., úrkynjast, (sb.: e-u fer aptur): Disse Heste ere udartede. Denne Plante udarter let i en anden Jordbund. — Selvfølelse kan u. til Stolthed.

Udartning, sk., a) það að udarte. — b) e-ð sem úrkynjast hefur: Muuleselet er en U. af Hesten.

Udarving, a) erfingi sem fengið hefur sinn hlut úr arfi óskiptum að öðru leyti. — b) útarfi (Gþl.).

udbanke, ás., berja ryk (úr e-u): U. Støvet af en Kjole.

Udbankning, ft. -er, það að udbanke.

Udbark yzti börkur (á trje).

udbasune, (í tali), a) bera (e-ð) út. — b) guma af (e-u).

Udbasuning, ft. -er, sk., það að udbasune.

udbede, ás., [-bede af biðja], í orðatiltæk. u. sig noget (af een) beiðast — eða beiða — e-s (af e-m).

udbetale, greiða e-ð af höndum, lúka e-ð út, (sb. Höskuldr loysti út fé Hallgerðar með hinum bezta greiðskap): Han udbetalte hele Summen paa eengang.

Udbetaling, ft. -er, sk., það að udbetale, (útgreiðsla; sb.: þótti flestum hann frekr í útheimtum, en fastr í útlyktum — í orðamun: lyktum — ok launum, Fas. III, 194).

udbide, ás., brjóta úr sjer (tönn, á því að bíta í e-ð): U. en Tand paa noget.

udblomstre (er), (um blóm), ná fullum blóma: Rosen (Hyacinthen) er nu udblomstret er nú í fullum blóma.

udblæse, ás., blása á (e-ð, svo að það slokkni): Lyset blev ikke udslukket; det blev udblæst.

udbløde bleyta (e-ð til hlítar): U. noget i Vand. Denne Fisk er ikke ret udblødt er ekki orðinn almennilega blautur.

Udblødning, ft. -er, sk., það að udbløde.

udbore, ás., bora innan úr (e-u): U. et Pompetræ.

Udboring, ft. -er, sk., það að udbore.

udbrede, 1) eiginl., breiða (e-ð) út: U. Kortene paa Bordet. U. Vingerne (sb.: hann — þ. e. arinn — var algylltr ok breiddi vængina út yfir korrona á alla vega, Al.). U. Armene (sb.: hinn blessaða faðm .... breiðandi; breiddr faðmr miskunnarinnar). Træet udbreder sine Grene meer og mere (sb. limar hans — þ. e. Yggdrasils — dreifast yfir heim allan). „Lampen udbredte sit Dæmringslys". — b) en stor, aaben Slette laae udbredt for (blasti við) os. — 2) óeiginl., a) Ydmodig Selvtillid udbreder Rolighed over hans hele Væsen. — b) bera (e-ð) út, (sb.: at þeir menn .... reiði orð mín úvitrlig fyrir alþýðu ok spotti mik ok drepi út ferliga þat er ek mæli eðr gerik til gamans): U. et Rygte. Sb. udsprede b. — c) u. sig vidtløftig om en Sag fara mörgum orðum um e-ð. — d) dreifa (e-u út): Sygdommen har udbredt sig vidt omkring. — e) bo. l. t., udbredt, sem e., yfirgripsmikill: En Mand af udbredt Lærdom (af udbredte Kundskaber). En meget udbredt Nytte margföld (margfaldleg) nytsemi.

Udbredelse, sk., það að udbrede.

udbringe hafa (e-ð) upp (úr e-u): U. meget af en Eiendom. — Einnig: „Hvorved enhver seer, hvor høit han kan u. (hvað mikið hann getur haft upp úr) sine Penge".

Udbrud, kl., a) það að brjótast út: Fangernes U. — b) uppkoma, upphaf, eða þvíuml.: Ildens U. (sb.: eldr er heitari í útkomu, en inni byrgðr; sb. einnig Eruption). Sygdommens U. Krigens (Fjendtlighedernes) U. Han sagde det i et U. af Vrede í bræðl.

udbryde, 1) ás., = udbrække. — 2) sem h. s., a) brjótast út: De udbrudte Forbrydere. — b) koma upp, hefjast: I dette Huus udbrød Ilden. Der er udbrudt en farlig Epidemie. Krigen udbrød (hófst, kom), da man mindst ventede det. Der udbrød en Tvistighed imellem dem. „Naar man vil undertrykke en indvortes Glæde, der dog imod vor Villie udbryder" kemur í ljós. — c) u. i hefja: U. i Klager taka að kveina. U. i Fryderaab ljósta upp fagnaðarópi (fornt).

udbrække, ás., brjóta (e-ð) út.

Udbrækning, ft. -er, sk., það að udbrække.

udbrænde, I) h. s., brenna út, hætta að loga, ekki tíðkað nema í bo. l. t. udbrændt: Ilden er udbrændt. — II) ás., a) brenna (sora) innan úr (e-u): U. Kakkelovnsrør. — b) bræða (gull eða þvíuml.) úr (e-u): U. Guldtresser.

Udbrænding, ft. -er, sk., það að udbrænde II.

Udbud, [útboð], (úrelt), útboð.

Udbudsbrev útboðsbrjef (Fms. IX, 297, X, 64). — b) [sb. bjóða e-m út], = Feidebrev.

udbyde, a) bjóða (e-ð til sölu): U. sine Varer. U. noget til Salg. — b) bjóða út almenningi: „Naar Kongen udbyder al Almuen".

Udbygger, ft. -e, kk., a) sá sem býr afskekkt. — b) sá sem fluttur er í aðra sókn eða sveit.

Udbygning viðurauki (við bús eða annað mannvirki): Alle disse Udbygninger ved Kirken ere gamle Capeller. En U. paa et Tag.

udbytte (forol.), = uddele: U. sine Velgjerninger.

Udbytte ábati: U. af et Bjergværk. U. af en Grube. U. af Actier.

udbære bera e-ð út.

udbøde = bøde 3: „Udbødede Køer".

uddampe, a) senda frá sjer gufu. — b) rjúka opp sem gufa, (sb.: það leggur gufu upp — það gufar — af e-u).

uddanne fullkomna: „At det indvortes, bestandige, uforkrænkelige Væsen meer og mere uddannes".

Uddannelse, sk., það að uddanne.

uddele, ás., útbluta (e-u), útbýta (e-u), býta (e-u; sb.: miðla e-m e-u): U. Brød — Penge, eða þvíuml. — til (eða iblandt) Folket. — U. Befalinger, segja fyrir verkum, (sb.: skipa til um e-ð, o. s. frv.).

Uddeling, ft. -er, sk., það að uddele (úthlutun, útbýting).

Uddrag, ágrip; samtíningur: Gjøre U. af et Forhør. U. af Protocollen. — Gjøre U. af en Bog tína saman merkis-atriði úr bók.

uddrage, ás., a) ná (vökva eða safa úr e-u): U. Kraften af Lægeplanter. — b) (óeiginl.), leiða (e-ð af e-u): Den Lære (Regel) man kan u. heraf. — c) u. Roden af et Tal (sb.: taka rót undan áttyrndri tölu, þeirri er verpilsvöxt hefir). — d) tína (e-ð) saman (úr riti): U. noget af et Skrift.

Uddragning, ft. -er, sk., það að uddrage.

uddreie, ná (e-u) út með því að snúa, vinda (e-ð) út.

uddrive, ás., a) í eiginl. merk., ekki haft nema í bo. l. t., uddreven, útrekinn, rekinn út, útflæmdur: Fjenden blev snart igjen uddreven. — b) óeiginl., reka e-ð út, eða þvíuml.: U. Djævle.

Uddrivning, ft. -er, sk., það að uddrive.

uddufte, ás., gefa (e-n ilm) af sjer.

uddunste, a) h. s., fara sem gufa upp (af e-u): Hvad der uddunster af Træerne om Natten gufan, sem leggur upp af trjánum á nóttunni. — b) sem ás., senda (e-ð) upp af sjer í (sem) gufu: Jorden uddunster megen Fugtighed það leggur mikinn raka upp af jörðunni.

Uddunstning, sk., a) án ft., það að uddunste: Den umærkelige U. (eiginl.: það að gufu leggur upp af e-u, þó lítið beri á), gufa, sem lítið ber á. — b) með ft. -er, gufa (sb.: loptit þröngviz svá ok þykknar af þeim vætum ok andargust, sem upp leggr af öllu saman, jörðunni ok vatninu, at þat þolir varðla vel fuglanna flug, Stjórn): Skadelige (qvælende) Uddunstninger.

uddyrke fullkomna (e-ð með ástundun; sb. uddanne): „At Legem, Aand og Hjerte uddyrkedes i det vedbørlige Forhold".

uddøe líða undir lok: Hans Slægt uddøde med ham hann lifði síðastur sinna kynsmanna. Uddøde Folkestammer. — Hele Byen syntes at være uddød það var eins og öll borgin stæði í eyði.

Uddør, útidyr; úthurð (N. g. L.).

ude, ao., [úte fyrir úti], A) eiginl., 1) gagnstætt innveru í e-n húsi, a) úti, (sb.: undir berum himni; á víða vangi): Den største Deel af Sæden ligger endnu u. Qvæget gaaer endnu u. om Dagen, men tages ind om Natten. Det er ikke behageligt, at være u. i saadant Veir. Lukkes u. vera lokaður úti. Man maa have Tilsyn overalt, baade inde og u., bæði úti og inni, bæði utanhúss og innan. — Komme u. fra koma að utan. — b) úti (í útbýsi): Konen var inde i Stuen, og Manden u. i (úti í) Stalden (Laden). — c) að heiman (= annarsstaðar enn á heimili sínu): Jeg gaaer ud i Eftermiddag, og bliver u. hele Aftenen verð í burtu allt kvöldið. Man seer ham aldrig glad, hverken hjemme eller u. — 2) u. og hjemme utanlands og innan. — 3) fjærri miðbiki e-s hlutar: U. ved Grændserne út við landamæri. — B) um tíð, úti: Naar Barnet er dødt, er Fadderskabet u. (sb. Fadderskab). Spillet er u. — Det er u. med ham, hann er frá, hann er farinn, hans er liðinn eins og ljós, (sb.: það er út sjeð um e-ð): Mister han denne Capital, er det reent u. med ham. — C) hálf-óeiginl. og óeiginl., a) blive u. med noget; sb. udeblive. — b) nu er jeg reent u. af Spillet kominn út af laginu. — c) jeg er nu snart u. af den første Deel bráðum búinn með fyrsta (fyrra) hlutann (af bókinni).

udeblive koma ekki: De udeblevne Medlemmer i Selskabet þeir fjelagsmenn, sem ekki komu. Han er udebleven med Betalingen over

Tiden hann hefur ekki borgað í tækan tíme. Betalingen udeblev, kom ekki, brást.

Udeblivelse, sk., það að udeblive: Hans lange U. gav mig Mistanke mig fór að gruna margt, þegar hann var svo lengi í burtu.

udeelagtig hlutlaus e-s: Være u. i noget.

Udeelagtighed, það að eiga ekki þátt í e-u, (hlutleysi).

udeelt, [sb. dele], ódeildur (Grágás), óskiptur (forni; sb. óskerður).

udeholde, ás., halda (e-u) úti.

udelade, ás., [lade of láta], sleppa (e-u), fella (e-ð) úr; fella (e-ð) undan: Dette Ord maa ikke udelades þessu orði má ekki sleppa. Han udelod adskillige Vers, da han oplæste Digtet.

Udeladelse, sk., það að udelade.

udelelig óskiptilegur (fornt).

Udelelighed óskiptilegleiki.

udelukke, a) eiginl., loka (e-n) úti: Dersom vi ikke skynde os, blive vi udelukte. Jeg blev udelukket af mit eget Huus. — b) óeiginl., byrgja (e-n eða e-ð) úti, slengja (e-o) úti (sb. steingja úti páfann sjálfan af kirkjunnar inngöngu; sb. einnig: fráskila allri guðs kristni, 655, XI): Han blev udelukt af (eða fra) Selskabet var rekinn út úr fjelaginu. U. een fra en Arv gjöra e-n arflausan. Udelukkende Rettighed = Enerettighed. Mod og Raskhed udelukker ikke (getur verið samfara) den fornødne Forsigtighed.

Udelukkelse, ft. -r, sk., það að udelukke.

uden, [utan], A) ao., utan, 1) án fs., (sb.: ok sérí því um gammann, bæði utan ok innan): Kisten blev malet baade inden og u. — 2) fyrir framan fs., a) vi maatte staae u. for (fyrir utan) Kredsen. Boe u. for Byen utanborgar. — b) u. om Gjerdet gaaer en dyb Grøft (sb. þar utan um liggr hinn djúpi sjár). — c) tag endnu denne Pels u. over de andre Klæder utan yfir hin fötin. — d) hefte noget u. paa Kjortelen utan á kyrtilinn. — Det stod u. paa Brevet utan á brjefinu. — B) st., 1) utan = nema, a) (sb.: nú dvelr mik engi lutr ...., utan sá einn, at hann mun nú til borða genginn; þér skuluð öngu fyrir týna, nema lífinu, ef o. s. frv.): Ingen gik til ham, u. jeg. Ingen, u. Forældrene, vare tilstede. Det er intet, u. tomme Løfter. — Jeg har ingen til at tale min Sag, u. ham. — b) (sb.: utan hann væri verndaðr föðurligu fulltingi, Fms. VI, 70; öngir þóttu lögligir dómar, nema hann væri í): Det kan ikke skee, u. han vil. „U. saa er (nema svo færi), at jeg kom til Skade, at miste mine Øren". — c) u. at með nh., þar sem nú er tíðkanlegt á ísl. að segja án þess að með nh., (sb.: fengu þeir eigi haldit — varginum —, nema þeir felldi hann, Sn. E.): Det kan ikke skee, u. først at søge om Tilladelse, nema áður sje beðið leyfis, (ekki stoðar að gjöra það í leyfisleysi). — 2) u. at, þar sem Íslendingum er nú títt að segja án þess að (en orðinu nema verður ekki við komið, eins og í B, 1, c), a) með nh.: Man kan fordrive dem, u. at skade Træerne (það má fæla það burt, án þess að skemma trjen), ekki þarf að skemma trjen, þó það sje fælt burt. U. at sige et eneste Ord, forlod han Selskabet, hann fór burt þegjandi úr samkvæminu, (sb.: hann kvaddi hvorki kóng nje jarl). — b) með framsöguh. (þar sem vjer höfum afleiðingarh. eptir án þess að): Han gik bort, u. at nogen mærkede det (án þess að nokkur yrði var við), svo að enginn varð var við. Jeg var tidt i Selskab med ham, u. at jeg kjendte ham. — C) fs., 1) eiginl., utan (sb.: utan kirkjugarðs; utan paradísar; Páll vissi af gipt heilags anda dauða þeirra manna, er létusk utan hans herbergi): U. Huset utanhúss. U. Byen utanborgar. U. Porten, fyrir utan borgarhlið, utanborgar. — 2) óeiginl. utan (sb.: fastan .... utan ölmusunnar; utan orlofs; utan leyfi konungs; jörðin var þá utan alla prýði), fyrir utan (sb.: Magnús tók þá við Danmörk fyrir utan gagnmæli; fyrir utan leyfi), án (sb.: án lostasynðar, El.; ómildra, es fyr farask án dóm, El.; án hans ráðe, Fms. XI, 111): Et Træ u. Løv (sb.: fuglinn flaug fjaðralaus, settist á garðinn beinlaus; þá kom maður handlaus, og skaut fuglinn bogalaus). Gaae u. Hat (Stok) hattlaus (priklaus). Ingen gik til ham u. mig án min (= svo að jeg væri ekki með honum). Døe u. Arvinger deyja erfingjalaus (fornt). Gjøre noget u. Betaling, kauplaust, fyrir ekki neitt. — U. Forskjel; sb. Forskjel. U. Tvivl, eflaust, sjálfsagt. U. Omsvøb, beint áfram, hiklaust. U. Ophør; sb. Ophør. U. Ende utan enda (Gísl.). U. Aarsag án saka: straffes u. al Aarsag (sb. henn hefir meirr enn saklauss veginn verit). U. Anledning, raunarlaust, að raunarlausu: Det skete u. nogen (mindste, ringeste) Anledning öldungis að raunarlausu. — Deres Afsked var ikke u. Taarer, skilnaður þeirra var ekki táralaus, (sb.: eptir tárblandinn koss skilja þau). Jeg har ikke u. megen Vanskelighed opnaaet det jeg hef ekki haft lítið fyrir því. — Han gjør intet u. hendes Raad (sb.: utan frænda ráð, Hkr.; án ráð lögráðanda, Grágás; án ráði allra frænda sinna, Nj.). U. ham var jeg ikke bleven til det, jeg er.

udenad, ao., utanbókar: Lære (kunne) noget u.

Udenadslæsning það að lesa e-ð þangað til maður kann það utanbókar.

udenbords, ao., utanborðs (Gísl.; Fms. VII, 202), útbyrðis (fornt): Inden- og u.

udenbyes, a) ao., utanborgar: Boe u. — b) sem e., (sem er eða á heima) utanborgar: U. Folk, utanborgarfólk, utanborgarmenn. U. Gjester. U. Deeltagere.

udendørs, ao., utangátta (Stjórn), utanstokks, utanbúss (B. H.), utanbæjar (fornt).

udenfor, ao., fyrir utan, o. s. frv.: Vi gik ind i Huset, men han blev u. var eptir úti. — Óeiginl.: Jeg vil helst være u. vera laus við það (mál).

udenfra, ao., utan = að utan: Fugtigheden trænger ind u.

udengjerds, ao., utangarðs: Den Deel af Kratskoven, som ligger u.

udenjords, ao., utanjarðar: „Vi ville forlade Stjernerne, efterat vi i nogen Tid have reist udenlands eller u."

udenlands, ao., utanlands (sb.: hann var þá utanlands, Fms.; er hann kom utanlands, Hv.), utanlendis (forut), útlendis (fornt), erlendis (sb. Gþl. 148): Reise (begive sig) u. Han har været u. Komme u. fra, koma úr (frá) útlöndum, (sb.: koma úr siglingu, koma inn, koma út).

udenlandsk, ft. -e, e., útlenzkur (fornt), útlendur (fornt), erlendur (fornt): udenlandske Varer útlenzkur (útlendur) varningur.

Udenlandsreise, för í útlönd, (sb.: utanför, utanferð).

udenom, ao., í kring: Vi andre gik igjennem Mosen, men han foretrak at gaae u.

udenover, ao., utan yfir: Tag endnu denne Pels u.

udenpaa, ao., utan á: Man kan føle u., hvad der er i Pakken það má finna utan á bögglinum, hvað í honum er.

Udenretsstævning stefna frá sakar sækjanda (gagnstætt Retsstævning).

udenrigs, ao., utanríkis, (sb. udenlands).

udenrigsk, ft. -e, e., utanríkis-: Udenrigske Fordringer (sb.: erlendis-víg, o. s. frv., Grágás II, 142).

udenslægts, sem e., utanættar-.

udentil, ao., utan, að utanverðu.

udenveis, ao., afleiðis (fornt), afskeiðis (fornt): „Du gaaer lidt u.; det gjør dit hede Blod".

Udenverden = Yderverden.

Udenvold, ytri vígveggur, (sb. Fms. IX, 41).

udenvolds, sem e., (sem er) utanveggja (= fyrir utan borgarveggi).

udenvælts, sem e., utanveltu-: Have mange u. Kort paa Haanden.

Udenværk, ft. -er, kl., vígi fyrir utan kastala-síki, (útvígi).

udestaaende, [sb. staae], a) ógoldinn (sb. Grágás I, 399): Jeg har endnu adskillige Fordringer u. — b) have noget u. med een, eiga í brösum (hüggi) við e-n, (sb. eiga sakir við e-n).

Udfald, 1) eiginl., a) útfall. — b) með aukinni merk., α) (í skilmingum), tilræði (= það að leggja eða höggva til annars); lag; högg. — β) útrás (af liði sem um er setið): Gjøre et U. af Fæstningen. — 2) óeiginl., endir, málalyktir, málalok: Sagen fik et slet (godt) U., málalok urðu ill (góð), málið fór illa (vel). Sagen fik et uventet U. fór öðru vísi, enn ætlað var.

Udfart útför (í óbreyttustu merk.): Vi ville gjøre en lille U. i Havnen fara spottakorn út á höfnina. Ved Kuglens U. af Mundingen í því eð kúlan flaug út úr byssunni.

udfeie, ás., sópa (e-u) út.

Udfeining, ft. -er, sk., það að udfeie.

udfile, ás., a) sverfa innan úr (e-u) = bola (e-ð) innan með því að sverfa. — b) sverfa (e-ð úr eða af e-u): U. Rustpletter af noget.

Udfiling, ft. -er, sk., það að udfile.

udfinde, ás., (finna e-ð með umhugsun), hafa (e-ð) upp: Nu har jeg udfundet Aarsagen. U. Opløsningen til en Gaade, finna ráðning e-r gátu, ráða (geta) gátu, (sb.: dreymdi Faraó 2 drauma ....., ok urðu eigi ráðendr til).

udfiske, a) veiða (e-ð) upp. — b) tæma (e-ð) að fiski: U. en Dam.

udflamme, ás., (í skáldskap), skjóta (e-u) út af sjer í loga.

Udflod, kl., a) útrennsli. — b) það sem út rennur.

Udflugt, ft. -er, a) það að fljúga út: Fuglens U. fra Reden. — b) ferð, (sb.: bregða sjer eitthvað, skreppa eitthvað): Det er hans første U. efter hans Sygdom. — c) útvegur (sb.: öngan útveg á hón — þ. e. sólin —, nema renna undan, Sn. E), undanfæri, undanbragð. — d) fyrirsláttur, vífilengjur: Han veed nok at finde en U. Søge Udflugter fara undan.

udflyde fljóta (renna) út: Der udflød en tyk Vædske.

Udflydelse, sk., (sjaldh.), a) það að udflyde. — b) = Udflod b.

Udflyden, án ft., sk., það að udflyde.

udflye, ás., (úrelt), a) dubba (e-ð) upp. — b) = udstyre.

Udflyening, sk., (úrelt), = Udstyr, Medgift.

Udflytning, það að flytja (færa) e-ð út; það að flytja sig út.

udflytte, ás., flytja (e-ð) út, færa (e-ð) út: U. en Bonde fá bónda jörð utanbýjar. Bønderne, hvis Gaarde udflyttes, faae Bygningshjelp.

Udflytter, ft. -e, kk., sá sem flytur sig út (einkanl. úr bý; sb. udflytte og Udflyttergaard).

Udflyttergaard jörð sem bónda er fengin utanbýjar.

udfolde, [-folde af falda], breiða (e-ð) út, a) eiginl.: U. en Vifte breiða blævæng.

ulædsket, [sb. lædske b], óbleyttur: U. Kalf.

ulægelig, ulæknandi, (sb. banvænn): En u Sygdom.

Ulægelighed, án ft., sk., það að vera ulæknandi: Sygdommens U.

ulærd, leikur (sb.: hverjum manni, hvárt sem er lærðr eðr leikr, á ísl. skjali frá 14. öld), ólærður; (sem er) illa að sjer.

ulærvillig ónámfús.

Ulærvillighed, án ft., sk., ónámfýsi.

ulæselig, ólesandi (= sem ekki verður lesinn); ólæsilegur: En u. Haand.

umaadelig, [úmátalig-, úmátulig-], 1) e., a) (sb.: svá mikill úmáttis fjöldi, Stjórn), fjarska mikill, fjarskalegur, ofsalegur: En u. Glæde (Sorg). — Arve en u. Formue fá að erfðum ógrynni fjár. — b) óhófsamur (sb.: þá at hón væri ei ..... svá úhófsöm í skarti sinu, Strengleikar 82; sb. einnig húflaus): Være u. i Spise og Drik. — 2) sem ao., (sb.: hennar — þ. e. Syriæ — vöxtr er svá vorðinn sik, at hún er úmátia — í annari bók: úmáttis — löng, en nökkuru minni á breidd, Stjórn; Eglon var mikill ok úmátuliga — í annari bók: úmáttuliga — feitr, Stjórn), óhófsamlega (sb.: þúsi hennar ok herra var úhófsamlega óhrúðigr, Strengleikar 5), óbúflega, skaflega, fjarskalega, ofsalega, feikilega, geysi, (sb.: afa, afar, æfar, ufa): Glæde sig u. — Han har været u. heldig. U. stor.

Umaadelighed, án ft., sk., óhófsemi, úhóf: U. i Mad (Drikke).

umaalelig, ft. -e, e., ómælanlegur, (sb.: af ómældri ok yfirfallandi alla vega hans eilífri miskunn, 655 XXVII): En u. Afstand. Et umaaleligt Rum.

Umaalelighed, án ft., það að vera ómælanlegur.

Umag sjá Umage.

umage, sem ekki á saman (við annað), (sem er) af öðru tægi (enn annað; sb.: sinn af hvoru tægi): En u. Sko (Strømpe). To u. Handsker tveir hanzkar, sinn af hvoru tægi (eða: sem ekki eiga saman).

umage, ómaka, ónáða: U. een med noget, setja e-ð upp á e-n, eða þviuml. U. sig (ómaka sig) hen til et Sted. U. sig med (for) noget hafa fyrir e-n. Du skal ikke u. dig, vertu ekki að gjöra þjer ómak (ómaka þig); stilltu þig gæðingur; eða þviuml. U. sig forgjeves, hafa hlaup og engin (litil) kaup, eða þviuml.

Umage [úmaki] og Umag [úmak], án ft., sk., ómak (sb.: innti hann ok þat: hversu ... mikil úmakindi — í Hrokkinskinnu: mikit úmak — þeim var þat, at sækja Svíakonung, um þat er þeir þurftu, Fms. VII, 101): ómakindi, fyrirhöfn, umstang: Faae noget uden U. fyrirhafnarlaust. Jeg har havt megen U. dermed haft mikið fyrir því. Gjøre sig U. med (for) noget, hafa fyrir e-n; gjöra sjer far um e-ð, leggja sig til á e-n, (sb.: „ek hefi allan mik við felit, at þú“ fengir þat, 655 XXXII). Gjøre sig U. for een leggja sig í framkróka — líma — fyrir e-n. Det er ikke Umagen værd, það er ekki til vinnandi, það tekur (nemur) því ekki. — „De gjorde sig al Umag for at faae Den folkerig“ þeir lögðu mikla stund á, að eyin yrði fjölbyggð.

umagelig, óbægur, (sb.: það fer illa um e-n): Et umageligt Leie.

Umagelighed, án ft., sk., óbægð, óhægindi.

umagsom sem gjörir ónæði.

umandig, dáðlaus, kveifarlegur, (sb.: mesta kveif).

Umandighed, án ft., sk., dáðleysi, kveifarskapur.

*umaneerlig, a) e., fráleitur. — b) sem ao., fráleitlega.

umeent, [sb. mene], ekki sagður (gjörður) í alvöru: En u. Høflighed.

Umenneske, a) illmenni, þrælmenni, eða þvíuml., (sb. Uhyre b). — b) maður sem ekki er mennskur.

umenneskelig guðlaus (í líkri merk. og: illmannlegur, sem kemur til af illmennsku): En u. Haardhed (Grumhed, Ubarmhjertighed. Sb.: hversu úheyrilig ok afskaplig úmennska þat var, at maðr skyldi selja í svá grimman dauða föður sinn ok móður, Fms. II, 225).

Umenneskelighed, án ft., guðleysi (= illmennska; sb. umenneskelig).

*Umiak, sk., grænlenzkt fiskiskip sem konur róa.

umiddelbar, 1) e., sem ekkert er á milli og annars: U. Berøring. — En u. Virkning (Aarsag). — b) umiddelbart, sem ao., beinlínis, eða þvíuml.: Omslaget anbringes umiddelbart paa den syge Deel. — 2) sem ao., beinlínis: Henvende sig u. til Kongen.

Umiddelbarhed, án ft., sk., það að vera umiddelbar.

umild, harður, (sb. ublid): En u. Behandling ill meðferð. En u. Skjebne.

Umildhed, án ft., sk., harka.

Uminde (sjaldh.), ólof (sb.: at sá hafi keypt land þat ..... at úlofi hans, Grágás II, 215), óleyfi (sb.: hvárt hann keypti land þat at óleyfi hans eða eigi, Grágás II, 215; Aðalbertus ... kvað þá ... alla í óleyfi sinu farit hafa), leyfisleysi: Han tog det med Eiermandens U.

umindelig, ft. -e, e., (sem er) frá alda öðli: Det har været Skik fra umindelige Tider frá alda öðli. „I umindelige Tider vare de allene vante til denne Regjering“.

umindet, [sb. minde], ekki minntur á, (sb.: áminningarlaust).

umistelig, ómissanlegur, ómissandi.

Umistelighed, án ft., sk., það að vera umistelig.

umisundt, [sb. misunde], a) sem maður er ekki öfundaður af: En u. Lykke. — b) ekki öfundaður.

umoden ekki fullvaxinn: Umodne Frugter. — b) óeiginl., α) sem ekki er fullfarið fram: Han er endnu for ung og u. dertil. — β) viðvaningslegur, eða þvíuml.: Et umodent Arbeide: „En u. og ubillig Dom“ (sb.: sleggjudómur).

Umodenhed, án ft., sk., það að vera umoden.

umulig [úmugulig-r, Stjórn], ómögulegur (sb.: með því kom hann mörgu fram, því sem manndóminum er úmöguligt at gjöra, Sn. E), ómáttuglegur (sb.: þat sýnist mér manninum úmáttuligt at skynja ok skilja, hversu o. s. frv., Fms. II, 199; þat var nær úmáttuligt, at hón — þ. e. borgin — yrði unnin, Stjórn), óvinnandi, (sb.: það er ekki vinnandi vegur); sem ekki getur verið (staðizt): Det er mig umuligt jeg get það með engu móti. Forlange det umulige af een. — Absolut (relativ) u.

Umulighed, sk., a) það að vera ómögulegur (óvinnandi, o. s. frv.). — b) með ft -er, e-ð sem er ómögulegt, (sb: ekki vinnandi vegur, ógjörningur): „Ingen, uden en Afsindig, tragter efter Umuligheder“.

umyndig sem ekki er fjár sins ráðandi (ekki fullveðja): Han er endnu u. Umyndige Arvinger. Gjøre een u. svipta e-n fjárráðum (að lögum).

Umyndighed, án ft., sk., það að vera ekki fjár sins ráðandi, það að þurfa fjárhaldamann.

umyntet, [sb. mynte], óleginn (til peninga): U. Sølv.

umælende, [sb. mæle], dumbur (fornt): U. Dyr dumb kvikindi (fornt; — sb.: skynlaust kvikindi, skynlaus skepna).

umærkelig, a) e., sem ekkert (lítið) ber á: En u. Bevægelse (Uddunstning). — b) sem ao., svo að ekkert (lítið) ber(i) á, eða þvíuml.: Aarene henrandt u. óðara enn varði.

Umærkelighed, án ft., sk., það að ekkert (lítið) ber á e-u.

umærket, [sb. mærke], (sjaldh.), sem ekki er tekið eptir.

umættelig, úseðjandi, úseðjanlegur: En u. Hunger. U Begjerlighed.

Umættelighed, án ft., sk., það að vera úseðjandi: „Vore Begjerligheders U.“.

Unaade óþokki (óblíða, fæð) höfðingja við sjer minna mann (sb.: at hann hafe fenget af orðum hans úþokka konungs; hann — þ. e. Magnús konungur — gjörði fæð á við Kálf, Fms. V, 126): Falde (være) i U. hos een fá (hafa) óþokka e-s. Han fik sin Afsked i U. hann var rekinn úr embætti (af stjórnendum).

unaadig, (um höfðingja) sem gjörir fæð á við (e-n minna háttar mann); sem lýsir fæð (höfðingja við e-n minna háttar mann): Kongen er bleven ham u., konungur hefur gjört fæð á við hann, hann hefur fengið óþokka konungs. — Et unaadigt Svar óvingjarnleg svör (höfðingja við sjer minna mann). — b) unaadigt, sem ao., með óþokka (höfðingja við minna háttar mann): Det blev unaadigt optaget, konungur (eða þvíuml. styggðist við það, o. s. frv.

unaturlig, a) e., ónáttúrlegur, þvingaður: Unaturlige Lyster (Fødemidler). En u. Stilling það að standa öðru vísi enn náttúrlegt er. — b) sem ao., ónáttúrlega.

Unaturlighed, án ft., sk., það að vera ónáttúrlegur, (sb.: ónáttúra).

unavngiven, [sb. navngive], ónefndur.

*Uncialbogstav, kl., rómverskur upphafsstafur.

und-, [sb. undan], haft framan til í orðum, í líkri merk og undan, o. s. frv., (sb. unddrage, undfalde, undfange, undflye, o. s. frv.).

unddrage, áa., eiginl.: draga (e-ð) undan (e-u), 1) þar sem þol. er ekki sig, a) svipta (firra) e-n e-u; synja e-m e-s: U. een sin Hjelp. — b) koma (e-m eða e-u) undan (e-u), þiggja (e-n eða e-ð) undan (e-u): „Hvorfor skulde du ham fra sin Straf u.“? — 2) þar sem þol. er sig, a) u. sig fra noget, firrast (forðast) e-ð, sneiða sig (hliðra sjer) hjá e-u, (sb.: skorast undan e-u; færast undan e-u): U. sig fra sine Pligters Opfyldelse. Det er et Arbeide, jeg ikke kan u. mig fra. — b) u. sig noget, firrast e-ð, eða þvíuml.: „Mens det sig unddrager Mængdens Øie.“

Unddragelse, sk., það að unddrage.

unde, ás. 2, [unna], unna e-m e-s: Han under mig ikke den Mad, jeg nyder, hann sjer eptir því sem jeg borða, hann telur ofan í mig hvern spóninn og bitann. Dersom Gud under mig Livet (under mig at leve i nogle Aar) ef guð lofar mjer að lifa (nokkur ár).

Undentag, [-tag af þak], (í Borgundarhólmi) = Aftægt.

Undentagsmand (í Borgundarhólmi), maður sem sleppt hefur ábýlisjörðu við annan fyrir ákveðinn afgjaldseyri (sb. Aftægt og Aftægtsfolk).

Under, ft. (stundum eins, en optast nær) -e, kl., [undr], undur, firn (kl. ft.), furða, (sb. Underværk): Et Naturens U. furðuverk náttúrunnar. Et saadant U. var aldrig før seet. „Naar den Evige skriver sine U. i Verdens Aarbøger.“ Det var et U. (mesta guðs mildi; sb.: Mstaeljan ræddi um, at þat var undr mikit ..., at hann skyldi liggja fyrir fótum þeim, Eg. 759), at han ikke slog sig ihjel.

under, [under=undir], 1) fs., A) þar sem undir stýrir, eða mundi stýra, þiggj. á ísl., 1) eiginl. og hálf-óeiginl., a) det ligger u. Stolen undir stólnum. Staae u. en Trappe standa undir stiga (á bak við hann). Boe u. Tag med een; sb. Tag. — Fuglene u. Himlen

fuglar loptsins. Ligge u. aaben Himmel undir berum himni. — Der skeer intet nyt u. Solen (sb.: nokkurr annarr konungr undir heims sólu, Fms. VI, 422). — b) fyrir neðan α) vi stod paa Bjerget, og saae de andre dybt u. os langt fyrir neðan okkur. — β) sidde u. een (fyrir neðan e-n) i Retten. — c) (sb.: þá verðr eik at fága, er undir skal búa; undir viðarrótum nokkvors trés, Fms. X, 218): Sidde u. et Træ. — d) (sb.: í borg þá, er var sunnan undir heiðinni; undir túngarði): Vi seilede u. Moens Klint. Veien løber u. Bakken. — e) hele Egnen stod u. Vand var vatni hulin. — f) upp(i) undir: Boe u. Taget efst upp undir þaki. — g) neðan á (e-u): Male paa Kalk u. Hvælvingen. — h) niðri í (e-u): Boe u. Jorden (sb.: þjóðir, sem .... lágu í hellum eðr jarðholum, Sn. E.). — i) (sb.: er hann kom þar er mest var brunnit þvertréit, þá brast niðr undir honum): Segne u. en Byrde. — k) (sb.: Egill tók undir hönd sér mjöðdrekku eina vel mikla, ok bar hana undir hendi sér): Bære noget u. Armen. — l) (sb.: hann ..... hafði ..... yfir sér skarlats-skikkju hálfskipta, rauða ok brúna, ok undir gráskinn): Gaae med Silkefoder u. sine Klæder. — m) (sb.: hvórirtveggju réru undir seglum, Fms. VIII, 131): Skibet er u. Seil. — n) (sb.: þeir sátu allir með vápnum, Nj. 187): Tropperne stode u. Vaaben. — o) have noget u. Hænder, hafa meðgjörð með e-u, o. s. frv. — p) u. Laas og Lukke; sb. Laas 1, a, Lukke a. — q) (sb.: keisarinn fekk Ísleifi bréf sitt með innsigli um allt veldi sitt, Hv. 14): U. hans Haand og Segl. — 2) um tíð, a) fyrir innan (e-n tiltekinn aldur): Hun er snarere over, end u. 30 Aar. Børn u. 10 Aar börn sem ekki eru (sem eru yngri enn) 10 vetra. — b) meðan á (e-u) stendur: U Samtalen (Prædikenen, Sangen). U. hele denne Tummel sov han rolig hann svaf vært í öllum þessum hávaða. Han talte med dem af og til u. Maaltidet öðru hverju meðan verið var að borða. Det tildrog sig u. denne Konges Regjering á dögum þessa konungs. — 3) óeiginl., a) spille u. Dække med een; sb. spille 1, d. — b) jeg kan ikke sælge det u. 10 Rigsdaler fyrrir minna enn 10 ríkisdali. Sælge noget u. Prisen með afföllum. — c) fyrir neðan, (sb.: standa á baki e-s): Han staaer langt u. ham i Lærdom. — d) staae u. een vera undirmaður e-s. Han havde 500 Mand u. sig (eða u. sin Befaling; sb.: jarl hverr skyldi hafa undir sik 4 hersa eðr fleiri, Fms. X, 182; við alla þá sem undir honum — þ. e. konunginum — eru, Skuggsjá; at under þeim biskupe sé 11 hundruð kirkna, Rimb. 332). Leve u. en mild Regjering vera undir vægri stjórn. Være u. Opsyn (sb.: hafa gát — gætur — á e-m). Være u. Tvang, vera ekki sjálfráður, vera í ófrelsi, eða þvíuml. — Være u. Forfølgelse liggja undir ofsóknum. — e) um það sem við liggur, ef e-ð er gjört, sem ekki má vera: Ingen maa u. høi Straf indføre disse Varer stór hegning liggur við, af þessi vara er að flutt. Det er forbudet u. Livsstraf (sb.: þér skuluð öngu fyrir týna, nema lífinu, ef o. s. frv.). — f) de dulgte deres Kjærlighed u. Skin af Ungdomsvenskab þau ljetust vera barnkunnug, og duldu svo ástir sínar. Svige een u. Venskabs Skin; sb. Skin b, sb. einnig Maske (gríma, o. s. frv.) b. — g) det er bekjendt u. Navn af (það er jafnaðarlega kallað) Bævergel. — h) u. den Betingelse með þeim skildaga (forn). — i) u. eet í einu lagi. — B) þar sem undir stýrir, eða mundi stýra, þol. á ísl., 1) eiginl., a) krybe u. Bordet undir borðið. Vi gik ind u. Broen. Putte sig ned u. Dynen, grúfa sig niður undir (yfir)sængina, (sb.: breiða upp yfir höfuðið). Komme u. Tag, komast í húsaskjól, (sb.: komast til mannabyggða; o. s. frv.). Bringe et Huus u. Tag koma þaki á hús. — b) slaae een u. Øret, gefa e-m utan undir, gefa e-m löðrung (kjaptshögg). — c) gaae (see) een u. Øine koma í augsýn e-m. — d) (sb.: undir viðarrætr, Fms. I, 113; o. s. frv.): Sætte sig u. et Træ. — e) sætte Landet u. Vand hleypa vatni yfir landið — f) (upp) undir: Hænge en Krands op u. Loftet. — g) (sb.: margar stoðar — þannig í skinnbókinni — runnu undir hann, Sturl. I, 60): Sætte Stetter u. Hvælvingen. — h) dukke sig u. Vandet stinga (dýfa) sjer. — i) tage een u. Armen (fara að leiðast við e-n með saman kræktum handleggjum). — k) (sb. Egill .... hélt á sverðinu undir skikkjunni): Tage noget u. sin Kappe. — l) (sb.: mér þótti hann ok vera í rauðum hosum undir, Nj. 214): Han tog en Troie paa u. Kjolen hann fór í treyju innan undir kjólinn. — m) gaae u. Seil; sb. Seil a. — 2) óeiginl., a) (sb.: leggja undir sik allan Noreg; Aðalsteinn konungr hafði skattgilt undir sik Skotland, Eg. 402): Bringe et Land u. sit Herredømme. — b) komme u. Tiltale, komast í mál, (sb.: honum var stefnt). — c) komme u. Veir med noget komast á snoðir um e-ð. — II) sem ao., a) skrive u. skrifa undir. — b) gaae u., farast, týnast. — c) bukke u. for noget; sb. bukke 2, c. — d) der forstaaes noget u. felst í huga manns (um orð, sem sleppt er). — III) af under er dregið hið efsta stig underst, a) sem e., neðstur: Den underste Deel af Bygningen. Det underste Dæk. „Den underste (neðri) Møllesteen“. — b) sem ao., neðst: Det laae underst i Skrinet.

Underafdeling, undirskipting; partur af parti.

Underarm framhandleggur.

Underbarn undrabarn (sb.: Undramaðr ertu, frændi! at afli, Fas. II, 328).

*Underbalance, það að tekjur verða minni enn útlát, (sb.: stela úr sjálfs síns hendi).

Underbetjent, undirþjónn; undirembættismaður.

underbinde binda fyrir: U. Navlestrængen. U. en Aare.

Underblomst, undursamlegt blóm, undarlegt blóm (sb.: þú ert ógurligr ok lofligr gørandi undarliga hluti, 623).

Underbud lægra boð (enn annar býður eða upp hefur verið sett): Gjøre U. paa noget.

Underbuxer, nærbuxur, brók: Foruden Klædes Buxer og Lerreds U., tog han endnu et Par tykke Overbuxer paa.

underbyde bjóða lægra enn (annar, t. a. m. á söluþingi).

*Undercargo undirkaupvörður (á skipi).

Underdan, kk., = Undersaat.

underdanig, ft. -e, e., undirgefinn (forn), undirorpinn (sb.: heilaga kristni ....., er fyrr var þjónostufull ok undirorpin sínum unnastum, þat er mörgum djöflum, ok þeirra þjónkan, Stjórn), þjónustufullur, auðsveipur, o. s. frv.: „En Forevending til at gjøre sig dette Land underdanigt“. — „I Qvinder, værer eders egne Mænd underdanige“. — b) auðmjúkur; auðmjúklegur: Min u. Ansøgning (Begjering).

Underdanighed, án ft., sk., lýðskylda, hlýðni, eða þvíuml.: „Nu maatte Saxerne paa ny forbinde sig til U.“ — b) auðmýkt: Drive Underdanigheden alt for vidt vera mikils til of auðmjúkur.

Underdeel = Nederdeel.

Underdeling undirskipting.

Underdommer undirdómari (= dómari í undirdómi).

Underdyne undirsæng.

underdømme, ás., = underkjende.

Undereiendom, án ft., undir-eign (t. a. m. ljens, *dominium utile*).

Underfald það að straum-afl leikur á neðanverðu mylnuhjóli.

Underfaldshjul mylnuhjól sem straumurinn leikur á neðanverðu.

Underfaldsmølle vatns-mylna þar sem straumurinn leikur á neðanverðu hjólinu.

Underfaldsqværn = Underfaldsmølle.

Underfaldsvand vatn sem látið er leika á neðanverðu mylnuhjóli.

Underflade flötur á e-u neðanverðu.

Underfoder = Foder II.

Underfoged, a) hvers kyns minna háttar Foged (sb. Foged). — b) (sjer í lagi) eins konar embættismaður er framkvæmir alla dóma í Kaupmannahöfn nema þá sem dæmdir eru af efsta dóminum.

underføre = fødre II.

underfuld, undursamlegur, undarlegur (sb. greinina um Underblomst): En u. Tildragelse undarlegur atburður. Et underfuldt Syn.

underfundig, undirförull (forn), undirhyggjufullur (forn), undirhyggjusamur, (sb. undirhyggjumaður). — b) flærðsamlegur (forn), eða þvíuml.: Underfundige Tanker. „U. Tale“.

Underfundighed, án ft., sk., undirhyggja, undirferli, fláræði: „Klogskab uden U.“

undergaae, a) (sjaldh.), = gaae under (sb. niðurlagið á gaae). — b) sem ás., verða fyrir (e-u): U. en Forvandling.

Undergang, án ft., það að líða undir lok, endalok, niðurfall (sb.: af þeirra .... þ. e. ríkjanna — hallan ok niðrfalli): Stadens U. ved Jordskjælv (hrun borgarinnar í jarðskjálfta). Riget var sin U. nær. Det blev hans U. varð honum til falls.

undergiven, [sb. give], a) undirgefinn (sb.: sinn undirgefinn lýð í Noregi, Fóstbr. 1), háður e-m.: „Alt Folket, som er dig undergivet.“ — Være mild (haard) mod sine Undergivne, við undirmenn sína, við undirfólk sitt. — b) undirorpinn (e-u; sb.: undir syndina seldur; sb. einnig: liggja undir ríki ok drottnun karlmannsins, 625): „Det er alle Tings Natur, at være Forandring undergivne“. „Dog fandt jeg Ingen .... som jo var Vildfarelse u.“ sem ekki gæti yfir sjezt.

Undergivenhed, án ft., sk., hlýðni, eða þvíuml.

Undergjerning = Underværk.

Undergjører = Mirakelmager.

Undergods, án ft., e-ð steypt (sjer í lagi fallbissur) sem of lítill málmur er í.

undergrave, a) eiginl., grafa grundvöllinn undan (e-u): U. en Muur. Rotterne have undergravet hele Huset. — b) óeiginl., fara með (e-ð), (í líkri merk. og) steypa (e-u): U. Statens Velstand. U. Helbreden.

Undergraver undirgrafari (sb. Graver b).

Undergravning, ft. -er, sk., það að undergrave.

undergroet, [sb. groe], a) sprottinn (eða þvíuml.) undir e-u. — b) vaxinn eða gróinn (e-u) að neðan, eða þvíuml.: U. med Haar (Fedt).

Undergud, ft. -er, undirguð.

underhaanden, ao., í kyrþey, eða þvíuml.: Lade een vide noget u. Sælge noget u. (sb.: sæta lagi).

underhandle (har), h. s., semja (um e-ð): U. med een om noget. Der blev længe underhandlet om Fred.

Underhandler, ft. -e, kk., semjandi (= e-r sem er að semja við e-n um e-ð).

Underhandling, ft. -er, sk., það að underhandle (samningur; meðalganga).

underhavende, [sb. have], undergiven a.

Underhold, án ft., kl., = Underholdning a.

underholde, ás., a) halda (e-u) við; standa straum af e-m, færa e-n fram (sb.: sinn ómaga á hvorr maðr fram at færa á landi hèr, o. s. frv., Grágás I, 232), nærn (sb.: hirða ..... gras ok ognar ..... ok næra svá sín bíbíll, Skuggsjá): U. en stor Familie. U. mange Tjenestefolk. — b) skemmta e-m: Han forstod at u. et heelt Selskab ved sin Vittighed. — En underholdende (skemmtileg) Samtale.

Underholdning, án ft., sk., a) framfærsla (Grágás I, 232), viðurværi (sb.: nægð alls kostar mönnum til viðrværis, Stjórn), viðurlífi (sb.: til fæðu ok viðrlífis, Stjórn), viðurlífnaður (fornt), kostur (sb.: allt þat er hon þurfti eigi at hafa til kostar sèr, Kristn. 2). — b) skemmtun.

Underhuus, a) (sjaldh.), neðri hluti húss, (sb.: undirhús, Stjórn). — b) undir-parliment (á Englandi).

underhyre ráða (skipara, eða þviuml.) undan e-m.

Underjagt smádýraveiðar (hiu-veiðar og hjera og fugla o. s. frv.).

Underjorden (með greininum), = Underverdenen (sb. Underverden).

underjordisk sem er niðri í jörðunni: En u. Hule, jarðhellir (Stjórn), jarðhola (fornt). U. Ild jarðeldur (fornt). Et u. Bulder dunur (niðri) í jörðunni. — Underjordiske (sem nafn í ft.), huldufólk, álfafólk.

underjords, ao., niðri í jörðunni.

underkaste, (sb.: nú hefir guð várr svipta þá hamingjunni ok þá undirgefit Ísraels-lýð, Stjórn), A) u. sig noget, með því sem þar til heyrir, 1) sjálft orðatiltækið u. sig noget, a) þar sem sig er haft sem þiggj. og noget sem þol., leggja e-ð undir sig. — b) þar sem sig er haft sem þol. og noget sem þiggj., α) ganga til handa e-m: Dette Folk havde frivillig underkastet sig (sb.: Príamus vildo aldrei til handa ganga, Rímb. 404). — β) ganga undir (e-ð), þola, eða þviuml.: U. sig en Prøve láta reyna sig. Jeg vil hellere u. mig ethvert Savn, end indgaae dette. — 2) underkastet = undergiven a. — B) underkastet = undergiven b: Den Søfarende er underkastet idelig Livsfare.

Underkastelse, sk., það að underkaste sig (sb. underkaste).

underkjende, ónýta: U. en Dom brigða dómi.

Underkjendelse, sk., það að underkjende.

Underkjole kjóll (samfella) sem verið er í innan undir.

Underkjæve, neðri kjaptur (Sn. E.); neðri gómur (fornt).

underkjøbe gefa e-m fje til e-s, múta (e-m til e-s): „En underkjøbt Statholder" jarl, sem tekið hafði múto.

Underklokke eins konar nærpils.

Underklæder, ft., [sb.: alon þráðr af léttu undirklæði, Stjórn], a) nærföt. — b) buxur og vesti: Rød Kjole og hvide U.

Underklædning (ein) nærföt.

Underkok, kk., matsveinn sem er undir öðrum.

Underkonge undirkonungur (fornt).

Underkop undirskál.

Underkraft undra-máttur.

underkue, brjóta e-ð undir sig, kúga, o. s. frv.: U. et Folk. — b) kippa vexti úr (e-u), eða þviuml.: Disse Træer ere blevne reent underkuede i deres Opvæxt.

Underkuelse, ft. -r, sk., það að underkue.

Underlag, það sem lagt er undir e-ð, það sem liggur undir e-u, (undirlag, B. H.; undirstaða): Et U. af Tømmer.

underlig, [undarlig-], a) ft. -e, e., undarlegur, (sb. selsom, synderlig 1, a, sær 2, b, forunderlig a): Underlige Ting (Gjerninger; sb. þú ert ógurligr ok lofligr, görandi undarliga hluti, 623). Et underligt Indfald. — b) sem ao., undarlega, o. s. frv.: Det gik u. til med den Sag. Et u. forkeert Menneske.

Underlighed, ft. -er, sk., undarlegleiki (sb. Skuggsjá): Den Mand har mange Underligheder það er margt skritið í fari þess manns.

underligge verða undir: „At Dyden ofte kæmper her forgjeves, og tidt i Kampen underlaae". — b) underliggende sem liggur til e-s: Dette Rige med underliggende Landskaber með þeim hjeruðum, er þar liggja til.

Underligger, hlutur sem settur er undir e-ð; (sjer í lagi), steinn sem er undir öðrum (t. a. m. þegar steinn er settur á hlóðir).

Underliv magi: Smerter (Forstoppelser) i Underlivet.

Underlæbe neðri vör.

underlægge, 1) í u. sig noget leggja e-ð undir sig: „Fordi man havde underlagt sig et andet Land". — 2) í bo. l. t. underlagt, a) eiginl., lagður undir: Det underlagte Papir. — b) óeiginl., háður e-m, undirgefinn e-m (sb. undergiven a): „Jord og Himmel er ham underlagt".

Underlærer undirkennari.

underløbet, [sb. løbe], í orðatiltæk. U. Blod, blóð sem hlaupið er undir skinnið, (sb.: var þá siglt blóð fyrir augu þeim, Hrafnk.).

Undermaal of lítill mælir: Give een U.

Undermaalstømmer of smátt timbur.

Undermand undirmaður: Han vilde befale over mig, som om jeg var hans U.

*underminere grafa púðurgrafir undir e-ð: U. en Bastion.

*Underofficeer lægsti (neðsti) foringi í liði.

underordne setja (e-ð) undir eða fyrir neðan (e-ð): Han er mig underordnet hann er undir mjer. En underordnet (minna háttar) Betjent.

Underordning, sk., það að underordne.

Underpant, veð, (sb. Pant): „U. i faste Eiendomme stifter større Ret, end U. i Løsøre".

Underret, ft. -ter, (sb. Ret A, 1, e), undirdómur.

Underretning, ft. -er, sk., vitneskja (sb. skylde reisa upp á dagenn háfa stöng til vitneskjo, en taka firir mark á nótteno reyk eða eld, Al.), vísbending, skeyti, (sb.: frjett; gjöra e-n varan við; o. s. frv.): Give een U. om noget. Faae den fornødne U. i (om) en Sag.

Underretsdommer = Underdommer.

underrette, segja (e-m e-ð eða frá e-u), gefa (e-m) vísbending (um e-ð): Jeg er nylig bleven underrettet derom mjer hefur verið sagt það nýlega.

Undersaat, ft. -ter, kk., þegn: Forholdet imellem Regenten og Undersaatterne. — b) (fyrrum), landseti (lenda manna í Danmörk).

undersat, [sb. sætte], (sjaldh.), lágur og gildur: „Disse synes at være en mere u., bredskuldret og stærkt bygget Folkestamme".

Underseil segl fyrir neðan siglupalt.

Underskaal undir-skál.

Underskjorte skyrta sem höfð er innan undir annari skyrtu.

Underskjørt nærpils.

Underskorpe skorpa á neðanverðu ofnbrauði.

Underskov ofgræðingur (um skógartrje).

Underskrift, sk., a) án ft., = Underskrivning: Give een noget til U. — b) með ft. -er, nafn (undir e-u): Forsyne noget med sin U. rita nafn sitt undir e-ð. Et Brev uden U. nafnlaust brjef.

underskrive rita nafn sitt undir: U. et Brev. U. en Contract. Kongen har underskrevet Dødsdommen.

Underskrivning, sk., það að underskrive (undirskript).

underslaae, ás., a) festa (segl) við rá: U. et Seil. — b) draga (fje) undir sig: Hvo som samme Gods og Vrag underslaaer, skal straffes som en Tyv (D. L.).

Underslag þvertrje sem lagt er undir önnur í e-u mannvirki.

Underslæb það að stela úr sjálfs síns hendi: Begaae U. stela úr sjálfs síns hendi.

underst sjá under III.

understaae, ás., í u. sig dirfa sig (sb.: dirfðu þik eigi at mæla slíkt optar, Fms. XI, 54), dirfast (sb.: Engi maðr dirfðist at krefja þess Gorm konung, Fms. I, 83), vera svo djarfur (sb.: Nú ver eigi síðan svá djarfr, at þú talir ósæmilig orð við Harald, Fms. VII, 168; Hverr ertu svá djarfr ok dularfullr, sem engi varð fyrr, er þú þorir at beitast við höfðingja várn, Fms. I, 75): Tør du u. dig at komme for mine Øine? Han understod sig at gaae lige ind i Salen.

Understander stoð: „Svage Bygninger behøve stærke Understandere".

Understeen = Ligger.

understikke, ós., laums (e-n) í stað annars, (sb.: skipta um e-ð), er ekki tíðkað nema í bo. l. t., understukket, látinn í stað annars (til að villa): Et understukket Brev (Document).

understrege draga stryk undir: U. noget i en Bog.

understryge, ús., ríða e-u fyrst á (e-ð, áður enn öðru er riðið þar á ofan): Dette er først understreget med Liimfarve, og siden malet med Olie.

Understyrmand undirstýrimaður (á stóru hafskipi).

Understøtning, ft. -er, sk., studning, a) það að understøtte a: Man søgte ved U. at bevare Bygningen fra Fald. — b) það sem haft er e-u til studnings: „Kostbare Understøtninger af Tømmerværk".

understøtte, a) eiginl., styðja, og þvíuml., (sb. skorða): U. (ótíðara enn støtte) et Huus. — b) óeiginl., styðja (sb.: at hvárir styði ok styrki aðra til farsælligra framferða, Fms. II, 36; hinn .... skal fá til 5 menn ...., at styðja vætti hans, Grágás II, 321), styrkja (sb.: þeir skyldo ok styrkja þann þeirra konunganna, er leingr lifði, Fms. VI, 28), efla, fulltingja e-m, veita e-m lið, (sb. hjelpe a): U. een med Penge. U. een ved et Arbeide. Han har lovet at u. min Ansøgning, að leggja til með mjer, mæla fram með mjer.

Understøttelse, sk., a) það að understøtte (stuðningur). — b) óeiginl., studning (sb.: Guð drottinn er minn styrkr ok studning), styrkur (sb.: með styrk Hörða-Knúts, Fms. VI, 25), dugnaður (sb.: ok bað hann vísa þeim til hafnar ok veita þeim annan dugnað þann er þeir þurftu, Kristn. 42), tænaður (sb.: þá er hann barðist við Gollam risa, án manna tænaði ok trausti; sb. einnig Hjelp og Bistand): Give een U. i Penge. Han har faaet U. til sin Reise ferðastyrk. Hans Stilling giver ham end mere Adkomst til U.

undersætsig, ft. -e, e., = undersat.

undersøge, ás., kanna, rannsaka: U. Godsets Forfatning. Denne Sag maa nøiere undersøges.

Undersøgelse, ft. -r, sk., rannsókn

(fornt), rannsókn (fornt): Foretage (gjore) en U. rannsaka. En forelobig U.

Undertag [-tag af þak], 1) innsta bálmflö i þaki. — 2) (í norðurhluta Sjálands) = Undentag (í Borgundarhólmi).

Undertagsmand (í norðurhluta Sjálands) = Undentagsmand (í Borgundarhólmi).

Undertegn, undarlegur fyrirburður; (sh.: tákn, stórmerki).

undertegne, ás., a) (sjaldh.), setja merki undir: Han undertegnede Skriftet med et Kors (hann gjörði kruss neðan við ritið), da han ei kunde skrive. — b) = underskrive.

Undertegning, sk., það að undertegne.

undertiden, ao., stundum: Man gjor u. det, som man hverken kan gjore ofte, eller vil gjore altid.

undertrykke, a) veita e-m yfirgang, þröngva ráði e-s, (sh. Fms. II, 183, sh. einnig: fortrykke 1, b): U. den Fattige. — b) bæla (e-ð) niður kæfa (e-ð) niður; þagga (e-ð) niður: U. et Opror. U. en Tanke (Mistanke). U. et Rygte.

Undertrykkelse, ft. -er, sk., það að undertrykke, (sh.: yfirgangur, ágangur, ánauð): Lide ved Mægtiges U. verða fyrir (kenna þunga af) ágangi ríkra manna.

Undertrykker, ft. -e, kk., ójafnaðarmaður, kúgari (sh.: kúgara norðurlands).

undertræde, ás., troða e-n undir fótum (Fms. II, 172), fóttroða (Fms. II, 172; sh. traðat einn — þ. e. byskup — undir ok hafði bana).

Undertroie, nærpeysa, eða þvíuml.

undertvinge, þröngva e-u undir sig, brjóta e-ð undir sig: U. et Land. Undertvungne Nationer.

Undertvingelse, sk., það að undertvinge.

Undertægt (sjaldh.), = Aftægt.

Undervant sjá greinina um Pytting.

underveis, ao., á leiðinni: Jeg modte (talte med) ham u. Vi vare tre Timer u. paa (á leiðinni yfir) Bæltet.

Underverden, undirheimar, neðri byggðir: Underverdenens (eða Underverdens) Guder i den græske Mythologie.

Underviisning, sk., a) með ft. -er, það að undervise a, b. — b) án ft., (það að undervise c), tilsögn, kennsla (fornt), læring (fornt): Give U. i noget kenna e-ð. Tage U. i noget fá sjer kennara í e-u.

Underviisningstime kennslustund.

undervirkende, [sh. virke], sem hefur furðanleg (dtrúleg) áhrif.

undervise, a) = underrette. — b) leggja e-ð undir við (e-n): „De gjorde, ligesom de vare underviste", sem fyrir þá var lagt, sem þeim var ráð til kennt. — c) segja (e-m) til (í e-u), kenna (e-m e-ð), læra e-n á e-ð (sh.: Valdamarr .... lèt læra hann á vígfimi ok riddaraskap ok alla háttar íþróttir ok höfðingliga hæversku, Fms. I, 96-97; þann ...., er eigi er á látinn lærðr; svá skal prestr leyssa frá kirkju, at læra annan í stað sinn): U. een i Musik.

Undervogn neðri hluti vagna.

Undervoldsdige lágur flóðgarður fyrir utan megingarðinn.

Undervægt lök vikt (sh. Vægt): Give een U. vega af e-m. — b) = Underbalance: „En offentlig Kasses U.".

undervægtig, sem vegur of lítið, of ljettur.

Underværk, kl., dásemdarverk, furðuverk; kraptaverk (fornt), stórmerki, tákn.

undfalde, bregðast e-m, eða þvíuml.: „Derfor vilde hun ikke u. ham i Modgang, som hun havde annammet i Medgang". „Aldrig hendes Venskab ham undfalder." — „At u. os af Hukommelsen" (sh.: það er dottið úr mjer).

undfange, [sh. greinina um fange], undfik [sh. faae; fik: fekk eða fëkk = gik: gekk], (har) undfanget [sh. greinina um fange], 1) h. s., a) (um kvennmann), taka upp undir, verða barnshafandi (fornt), verða kviðug (fornt; sh.: óljett, þunguð, o. s. frv.). — b) (mjög sjaldh. um skepnur), fá, (sh. halda). — 2) sem ás., geta: Efterat Barnet var undfanget (sh. koma undir).

Undfangelse, sk., getnaður.

undflye, h. s., a) án þiggj., komast undan (sh.: Ölver .... komst með hlaupi undan, Eg. 12; sh. einnig: undankoma, undanfæri, undanbragð), forða sjer (sh.: þeir vildo forða sèr, en hittu eigi skjótan útveg til undankamu, Fms. I, 136), forðast (sh.: hann .... forðaðist svá einn af öllum þeim er inni váru, Fms. X, 290): Den Fangne forsogte paa at u. — b) með þiggj., flýja undan e-m (623), komast undan e-m eða e-u eða úr e-u (sh. Skrapp ór höndum Haraldr Dönum): U. sine Fjender. U. Faren. — „At fege Fristelser, hvor man kunde u. dem (þegar hjá þeim verður komizt), er Forvovenhed".

undflyve, 1) án þiggj., a) komast undan á flugi. — b) (um orð), fljúga fram af (munni e-s): „De Ord, som fra Læberne undfløi". — 2) með þiggj., a) komast með flugi undan (e-m eða e-u). — b) (um orð), fljúga fram af (munni e-s; — sh.: verða e-m á munni; skreppa fram úr e-m, o. s. frv.): „De Ord, som undfloi Spotterens Læbe".

undfrie (sjaldh.), bjarga e-m, (sh. frie).

undgaae, 1) (sjaldh.), án þiggj., = undflye a. — 2) með þiggj., a) sneiða hjá e-m. — b) komast undan (hjá) e-u, forðast (sh. torsótt er at forðast forlögin): U. sine Fjenders Efterstræbelser. U. fortjent Straf. — Jeg kan ikke u. at gjore ham et Besog. — c) dyljast fyrir (e-m): Det undgik ikke hans skarpe Blik.

undgjelde, ás., gjalda e-s, (sh.: e-m hefnist fyrir e-ð): Tjeneren maatte u. Herrens Forseelse. Det skal han komme til at u., það skal honum í koll koma, (það skal hann fá borgað).

*Undine, ft. -r, kvk., vatnadís.

undkomme (er), h. s., komast undan: Fjenderne forfulgte ham; men han undkom lykkelig. U. af Faren komast úr hættu. „U. af Fængselet" komast úr höptum. „De, som ere undkomne fra Sværdet" þeir sem komizt hafa undan sverðs-eggjum.

Undkomst, sk., undankoma; útvegur til undankomu (Fms.).

undlade, ás., láta (e-ð) hjá líða, láta (e-ð) farast fyrir, spara (sh. ek sparða aldri at kenna yðr heilsu-orð): Han undlod ikke at gjore Ministeren sin Opvartning. U. en Handling.

undlobe, a) án þiggj., komast undan eða burt með hlaupi. — b) með þiggj., komast undan (e-u) með hlaupi.

undre, s. 1, [undra], 1) sem ás., a) persónulaust, i noget undrer een, e-n furðar á e-u, e-r furðar sig á e-u: Det undrer mig, at han ikke for længe siden er borte. Det maa ikke u. Dem (sh.: kippa sjer upp við e-ð). — b) i u. sig over noget, furða sig á e-u, undra e-ð (fornt), undrast e-ð (fornt): Hvad undrer du dig over? — c) i undres, α) undres over noget = u. sig over noget. — β) (sjaldh.), undres paa noget = undres over noget. — 2) sem h. s., a) (sjaldh.) í sjálfri sögninni, α) u. (tómt), undra (sh.: fólkit gekk ntit út .... ok undraði ok sá í lopt upp, Skuggsjá 116): „Vi undrede, vi taug". — β) u. paa noget, dást að e-u, o. s. frv. — b) (tíðkanlegt) í ho. núl. t., undrende, undrunarfullur: „Dets Sonners undrende Bryst".

Undren, án ft., sk., undrun (Fms. X, 240): „Jeg seer og mig i U. tabet" og verð frá mjer numinn.

undrende, h. s. 2, (sjaldh.) = undkobe.

undrive (sjaldh.) = udfrie.

undromme, h. s., a) án þiggj., stökkva undan, flýja. — b) með þiggj., stökkva undan (e-m eða e-u; sh.: forðast — flýja — e-n eða e-ð).

undsee, i u. sig fyrirverða sig, (skammast sín), blygðast: Hun undsaae sig ved at (fyrirverð sig — blygðaðist — að) komme frem i hendes tarvelige Dragt. U. sig for een fyrirverða sig fyrir e-m.

undseelig, ft. -e, e., óframur (sh.: feima er sú — þ. e. kona — köllut, er úfröm er, Sn. E.), óframfærinn, feiminn, feilinn (B. H.), skömmustulegur, einurðarlítill: En u. Pige. Være u. over noget fyrirverða sig fyrir e-ð.

Undseelighed, án ft., sk., feimni, óframfærni.

Undseelse, án ft., sk., það að fyrirverða sig, feimni.

undsige, h. s., (með þiggj.), heitast við: „At jeg har undsagt ham".

Undsigelse, sk., það að undsige.

undskylde, ás., 1) afsaka, a) (sh. óvitand má afsaka þann sem hann settum manni samneytir): Hans Ungdom undskylder ham ikke. — Han er undskyldt (það er ekki von — að hann hafi gjört það, eða þvíuml.; sh.: honum er vorkun), da han ikke er frisk. — Have een undskyldt, fyrirgefa e-m; ætlast ekki til e-s af e-m; eða þvíuml. — b) (sh.: Efa „afsakaði sik .... kennandi sína synd orminum", Stjórn), mæla (e-u) bót, (sh.: bera í bætifláka): Han soger at u. enhver af hendes Luner. — 2) u. sig segjast ekki geta gjört e-ð (sem maður er beðinn um): Han var ogsaa indbuden, men undskyldte sig (lod sig u.), hann sagðist ekki geta komið (hann gjörði það svo hann gæti ekki komið). U. sig med Sygdom bera fyrir sig veikindi.

undskyldelig, ft. -e, e., afsakanlegur.

Undskyldning, ft. -er, sk., afbötun, afsökun (fornt); afsökunarorð (fornt): Foregvende noget til sin U. sjer til afbötunar. Gjore en U. afsaka sig. Bede om U. biðja fyrirgefningar. Hore (modtage) eens U. hlýða á afsökun e-s. Tage en U. for gyldig vera ánægður með afsökun e-s. Tomme (ugrundede) Undskyldninger ómæt afsökunarorð.

undslaae, ás., i u. sig for skorast (færast) undan e-u: Jeg kan ikke u. mig for at deeltage i Selskabet.

undslippe, h. s., a) án þiggj., komast undan, komast af. — b) með þiggj., (um orð), skreppa fram úr (e-m), detta upp úr (e-m): Der undslap ham en Ed.

undstikke, ás., i u. sig (sjaldh.), fela sig, hlaupa í felur.

Undsætning, sk., það að undsætte, (liðveizla, lið): Forfange (faae) U. Sende een U.

undsætte, ás., koma til liðs við: U. en beleiret By.

undtage, ás., skilja e-n eða e-ð undan: Fra denne Forpligtelse kan ingen undtages. — 2) sjer í lagi, í þa. l. t., a) frá tekinn, frá skilinn: Hele Forsamlingen, Præsten undtagen, allir, (að frá skildum prestinum =) nema presturinn. Det ene Tilfælde undtaget, besvarede han alle ovrige Sporgsmaal, hann leysti úr öllum spurningunum, nema þeirri einni. — b) sem st., nema: Ingen, undtagen hendes Sostre. Alle, undtagen han, samtykkede deri.

Undtagelse, ft. -er, sk., a) það að undtage: Gjore en U. fra noget. — b) e-ð undan skilið: Ingen Regel er uden U. Dette er en U. fra den almindelige Skik þetta er frábrugðið venjunni.

*Undulation, sk., = bølgende Bevægelse (sb. bølge), Bølgegang, o. s. frv.

*undulatorisk, ft. -e, e., sem gengur í öldum.

*undulere, h. a. 1, ganga í öldum.

undvige, h. s., 1) án þiggj., a) strjúka, hlaupast á burt: Den Fangne undveg. — b) komast hjá að gjöra e-ð: „Snild undveg han at svare". „Vi søgte undvigende (tvíræð), næsten svigefulde Ord, under hvis Skjul Sandhed og Vildfarelse kunde mødes". — 2) með þiggj., a) skjótast (bregða sjer) undan e-u; sneiða hjá e-u; forðast: Han undveg (forðaðist) Hugget, ved en hastig Bøining med Kroppen. U. en Snog. „Dit Blik undviger mig" þú lítur undan. — b) (sjaldh.), strjúka frá e-m: „Undviger nogen Baadsmand Skipperen med sin Hyre". — c) komast fyrir (sb.: forlögunum fresta má, en fyrir þau komast eigi): „Hvad Skjebnen har bestjært, det kan man ei u." (sb. Urðar orði kveðr engi maðr). — d) sneiða sig hjá e-u, komast hjá e-u: Længe har han søgt at u. enhver Samtale med mig.

undvære, ás., (án þál. t.), vera án e-s (sb.: engs þá luti, er manni þikkir betra at hafa, en án at vera, Grágás II, 198), missa e-s (sb.: því at þeir höfðu leingi matar misst, Gísl.): Aanden kan ligesaa lidt u. Frihed, som Legemet kan u. Luften. Vi maa u. mange Fornøielser; men vi savne dem lidet. Han kan slet ikke undværes i Huset hann er ómissandi á heimilinu.

undværlig, ft. -e, e., sem án má vera, (sb.: mega missa sig): Savne undværlige Ting, som man er vant til.

Undværlighed, án ft., sk., það að vera ekki ómissandi.

unegtelig, ft. -e, e., sem ekki verður við dulizt, (sb.: það verður ekki varið), úyggjandi: En u. Sandhed.

unem (sjaldh.), skilningsdaufur: „Hvo er saa u., at han ikke forstaaer dette?"

ung, ft. -e, e., [ung-r], a) um lifandi verur, α) að aldrinum til ungur: Et ungt Menneske ungmenni. Unge Piger. Det unge Mandskab. Hans yngre Broder yngri bróðir hans. Hendes yngste Søster yngsta systir hennar. — Han er ikke u. mere hann er farinn að eldast (orðinn roskinn). — β) að því leyti, hversu lengi þær hafa verið e-ð: En u. Ægtemand maður sem er nýlega kvæntur. En u. Kone (Enke). — b) um sjálfan aldurinn: I en u. Alder á unga aldri. I mine unge (yngre) Aar á fyrri árum mínum. — c) um plöntur, (sb. ungviði í hinni upphaflegu merk.): Unge Træer (Roser, Gulerødder). — d) nýr: U. Viin. Sb. ny 1, a.

Ungarn Ungaraland (fornt).

Ungdom, [sb. ungdæmi], án ft., sk., a) æska: Barndom, U., Manddom, Alderdom. Fra Ungdommen frá blautu barns-beini. — b) unglingar, (sb.: ef ungmennit skjalar, Fms. VI, 335): Foregaae Ungdommen med et godt Exempel.

ungdommelig, ft. -e, e., unglegur, a) (sb.: var þat unglígt ok lítilmannligt at vinna þat til þessa vesala ríkis, Fms. II, 46), æsku-: U. Letsindighed (Munterhed). — b) (sveinn einn unglígr): Hun har endnu et meget ungdommeligt Udseende.

Ungdomsaar æskuár.

Ungdomsalder æskualdur (fornt).

Ungdomsarbeide e-ð sem maður hefur búið til ungur.

Ungdomsdage, ft., æska: Naar vi erindre os vore U.

Ungdomsdigt kvæði sem maður hefur ort ungur.

Ungdomsfeil æsku-brostur: Bøde haardt for en U.

Ungdomsfest hátíð handa unglingum.

Ungdomsfriskhed það hversu allt er unglegt í fari æskumanna.

Ungdomsfyrighed æskufjör.

Ungdomshjerte brjóst æskumanns.

Ungdomskraft æskuþrek.

Ungdomsliv æskulíf.

Ungdomslærer kennari e-s í æsku: Han glemte aldrig sin U.

Ungdomssind, æskulund, (ljettlyndi).

Ungdomsskjønhed æskublómi.

Ungdomsskole skóli handa æskumönnum.

Ungdomsvenskab vinátta með æskumönnum: De dulgte deres Kjærlighed under Skin af U.

Unge, ft. -r, sk., [ungi], a) ungi: Storkens (Svalens) Unger. — b) um burð annara kvikinda, þar sem vjer höfum ýmisleg nöfn (kópur, húnn, hvolpur, kettlingur, o. s. frv.): Dette Dyr føder kun een U. Dyr, som føde levende Unger sem ala sinn burð lifandan. Dyrenes Kjærlighed til deres Unger á afkvæmi sínu. Man finder Dyr, som æde deres egne Unger. Hunden har Unger tíkin liggur á hvolpum. Katten har Unger á kettlinga.

ungersk, ft. -e, e., ungverskur.

Ungersvend (úrelt í tali), yngismaður.

Ungkarl ókvæntur (einhleypur) maður: Han er en gammel U.

Ungko kvíga (að fyrsta kálfi).

Ungmø, yngismey; ógiptur kvennmaður.

Ungnød ungneyti.

Ungqvæg, ungfje (fornt), ungviði; ungneyti (ft.).

Ungskov nýgræðingur (í skógi): „Naar man endnu ikke vil fælde gamle Træer, og dog give Ungskoven Luft".

*Uniform, ft. -er, sk., einkennisföt.

*uniformere, ás. 1, láta (menn) taka upp einkennisföt.

*Union, sk., samband.

*unique, ft. eins, e., einstakur, atskur, staklegur.

*Unitarier, ft. -e, kk., a) maður sem ekki trúir á þrenninguna en trúir þó á einn guð. — b) (á Spáni) hver af þeim mönnum er ekki vilja hafa nema einn landstjórnarmann.

*Universal-, sem fremri partur af samsettu orði, merkir, að síðari partur orðsins nái yfir allt, t. a. m.: Universalarving einarfi; Universalgenie, kl., sá sem hefur andagipt (hugvit) til alls, sá sem leggur allt á gjörva hönd; Universalhistorie, sk., mannkynssaga(n); Universalmedicin, sk., lækning (sb. Lægemiddel) sem á við öllu, bót (lækning) allra meina; Universalmonarkie einveldi yfir öllum heimi.

*universel, ft. -le, e., sem nær yfir allt.

*Universitet, ft. -er, kl., háskóli.

*Universum, kl., alheimur.

Unode óvani = óvandi.

*Unse (einnig ritað Unze), ft. -r, sk., eyrir.

*unseviis, ao., einn og einn eyri.

Unytte, þarfleysa, óþarfi: Arbeidets U. Denne Reise er til U., þessi ferð er til ónýtis (einkis), þetta er ónýtisför.

unyttet, [sb. nytte], ónotaður: Lade Dagen gaae u. hen eyða deginum til einskis. Han lod ikke sin Ungdom u. henrinde.

unyttig, ónýtur, ónytsamur, únytsamlegur, óþarfur, óþarflegur: Skaffe sine unyttige Tjenestefolk af. Unyttige Ord þarfleysu-tal (fornt).

Unyttighed, sk., (sjaldh.), þarfleysa.

Unze sjá Unse.

unævnelig, ft. -e, e., sem ekki verður orðum að komið, dumræðanlegur.

unævnt, [sb. nævne], ónefndur, ekki nafngreindur: En u. Forfatter.

unødig óþarfur: „Gjøre u. Gjerning". U. Trætte óþörf máls-ýfing.

unødvendig, e., ónauðsynlegur.

unøisom heimtufrekur: Den Unøisomme faaer aldrig nok.

Unøisomhed, án ft., sk., heimtufrekja.

uombedet, [sb. ombede], óbeðinn (fornt), óbeðið (fornt).

uomgængelig = uundgaaelig: „U. Fornødenhed" (D. L.).

uomskiftelig óbrigðilegur.

Uomskiftelighed, án ft., sk., óbrigðleiki.

uomstødelig, ft. -e, e., órækur: En u. Sandhed. Et uomstødeligt Beviis.

uomtaaget, [sb. omtaage], þokulaus, skær; skýr: En u. Synskreds.

uomtalt, [sb. omtale], sem ekki er minnzt á: Bedre er at være u., end ilde omtalt.

uomtvistelig einsær.

uopdragen, [sb. opdrage], a) ekki á legg kominn: En Enke med tre uopdragne Børn með þrjú börn í ómegð. — b) ósiðugur, (dónalegur): Et uopdraget Menneske.

uopfyldelig, ft. -e, e., sem ekki getur fyllst; ófyllandi: Uopfyldelige Ønsker.

uopfyldt, [sb. opfylde], a) eiginl., ekki fylltur á barma, sem borð er á. — b) óeiginl., sem ekki hefur fyllzt eða rætzt: Et u. Ønske.

uopholdelig, a) ft. -e, e., viðstöðulaus: Med u. Hast. — b) sem ao., viðstöðulaust, óðara, undir eins, að vörmu spori, þegar í stað: Der maa u. gaae Bud efter ham.

uophørlig, a) ft. -e, e., einlægur = sífeldur: En u. Regn sífeld rigning. Her er en u. Uro i Huset. Her er et uophørligt Overløb af Folk hjer er einlæg umferð (einlægur mannganegur; sb.: átroðningur, gestanauð; liggja í örtröð, þjóðbraut). Man trættes ved hans uophørlige Klager. — b) sem ao., einlægt = sífelt, í sífellu, jafnt og þjett, alla jafna, óaflátlega (fornt): Det regnede u. hele Dagen. De skjendes u. hele Dagen.

uopløselig, óleysilegur (fornt), óleysandi; dráðandi: En u. Knude. En u. Gaade.

uopmærksom, sem ekki tekur eptir; optirtektalaus: En u. Tilhører.

Uopmærksomhed, án ft., sk., optirtektaleysi.

uopnaaelig, ft. -e, e., sem ekki er unnt að öðlast: En u. Lykke.

uopredt, [sb. oprede], sem óbúið er um (= óuppbúinn): En u. Seng.

uoprettelig óbætilegur (fornt; sb.: jeg bíð þess aldrei bætur): En u. Skade.

Uoprigtighed, óeinlægni, tvöfeldni.

uopsættelig, sem ekki má dragast, sem á liggur: Et uopsætteligt Arbeide (Ærende).

Uopsættelighed, án ft., sk., það að mega ekki dragast.

Uorden, a) án ft., ruglingur, (sb. Confusion). — b) með ft. -er, óregla: Begaae Uordener.

uordentlig, a) e., óreglulegur: Forkorte sit Liv ved u. Levemaade. — b) sem ao., óreglulega.

uordholden sem ekki efnir orð sín.

Uordholdenhed, án ft., sk., það að efna ekki orð sín.

uordnet, [sb. ordne], sem ekki er komið í lag (röð), (sem er) á ruglingi.

uovereensstemmende, ósamhljóða, ósamkvæmur: U. Beretninger.

Uovereensstemmelse ósamkvæmni.

uoverlagt, [sb. overlægge], óforhugaður: En u. Handling.

uoverskuelig, ft. -e, e., sem ekki sjest út yfir: En u. Slette.

uoversættelig, ft. -e, e., sem ekki verður snúið (á aðra tungu).

uovertalelig, ft. -e, e., sem fortölur hrífa ekki á.

